e. þvíumlíkt, sem hefir ábyrgð í för með sér. *v* **-kræfr**, sem krefja má ábyrgðar; *hann er ekki ábyrgðarkræfr*, hann verðr (af einhverjum orsökum) ekki krafinn ábyrgðar (t. d. af því að hann er ekki réttr aðili, eða af því að hann er óviti e. viti fjarri). * **-kvittun**, skírteini fyrir greiðslu fjár, þannig lagað, að kvittandi tekr á sig alla ábyrgð af greiðslunni, ef greiðandi yrði krafinn að svara til greiðslunnar (að hún hafi réttmæt verið, réttum viðtakanda greidd eða að hún komi til skila til rétts viðtakanda). * **-lán**, lán, sem e-m er veitt gegn ábyrgð annars e. annara. **-laus**, án allrar ábyrgðar: *á.-l. er ég af því.* * **-leysi** *kl*, það að vera á.-laus. **-lítill**, sem litla ábyrgð hefir í för með sér: *það er ábyrgðarlítið starf.* * **-maðr**, maðr, sem stendr í ábyrgð fyrir e-u, t. d skuldgreiðslu; á.-m. að blaði, tímariti eða öðru prentuðu máli, ɔ: sá sem svara skal til sakar að lögum fyrir efni prentaðs máls samkv. prentfrelsislögunum (Tilsk. 9/5 1855). * **-mál. l.** málefni, sem (mikla) ábyrgð hefir í för með sér; **2.** mál, sem rís út af ábyrgð, sem e-r er í. * **-mikill**, sem mikla áb. hefir í för með sér. **-ráð**, tiltœki, sem mikla áhættu hefir í för með sér. * **-ráðgjafi**, ráðgjafi, sem ber ábyrgð á stjórnarathöfnum. * **-sending**, (póst-)sending, sem ábyrgð er keypt á. * **-sjóðr**, sjóðr, sem tekr að sér ábyrgð á e-u (eldsvoða, lífi manna osfr.) fyrir borgun, vátryggingarsjóðr. * **-skírteini**, * **-skjal**, bréfleg viðrkenning um (sönnun fyrir) ábyrgð; *-skírt.* helzt haft um bréf, það er áb.félag (eða stofnun, sem selr ábyrgð), gefr út *(police, policy)*; *-skjal* helzt um viðrkenning manns, sem gengr í áb. fyrir annan. * **-skuld**, skuld, sem ábyrgð er sett fyrir (sbr. á.-lán). * **-skuldbinding**, skylda, sú er maðr hefir undirgengist, til að standa í ábyrgð fyrir e-u (Skuldfyrn.lögin 10/10 1905). * **-skylda**, skylda e-s til að bera ábyrgð á e-u. * **-tími**, sá tími, sem ábyrgð nær yfir.

**ábyrgja (-ði, -t)** *ás: á. e-m e-ð*, krefjast þess að e-r taki áb. á e-u; fela e-m ábyrgð á e-u; fela e-m e-ð á hendr: *hann ábyrgði h-m skipið*, krafðist að hann tœki áb. á skipinu; *h. ábyrgði henni barnið*, fól h-i barnið á hendr; † *á. e-ð á hendi e-m*, fela e-m e-ð á hendr: *hann ábyrgði þau á hendr Jóani postula.* — **ábyrgjast**, *þolms.*: taka ábyrgð á e-u: *hver skal sig sjalfr ábyrgjast; á. hús við (gegn) eldi.*

† **ábyrgja (-ju, -jur)** *kv*, = *ábyrgð: þessa heims ábyrgjur.*

**ábyrgr (-s**, þolf. **-jan**, * **-an**, þgf. † **-jum**, ***-um**; flt. **-ir)** *lo*, **l.** trygðr, í ábyrgð: *halda e-u ábyrgu*, hafa e-ð í ábyrgð: † *halda fé ábyrgjo; halda ábyrgjo skipinu.* — △ ⊥ **2.** sem hefir ábyrgð: *ábyrgir ráðgjafar konungs* (Fróði VI, 359₈₅).

† **ábœli (-is)** *kl*, = *ábýli.*

* **ábœtir (-is**, án flt.) **l.** viðauki, viðbót: *annar illr á. á þetta vandkvæði eru vörusvikin.* **2.** aukagjöf, sem kúm er gefin á eftir aðalgjöfinni (um leið og mjólkað er): *hann er úti í fjósi að gefa ábœtinn.*

† **ábötun (-ar)**, **ábatan (-ar)** *kv*, = *ábati.*

**að** († **at)** *sto.* Elzta mynd orðsins er *at* (örsjaldan *át* N), en *að (aþ)* kemr fyrir í ísl. (ekki N) handritum frá 12. öld. Í samsetningum er *at*-oft haft enn í dag, t. d. ávalt á undan

raddstaf (atorka, atyrða, atyrði; — *ekki:* aðorka osfr.) og nær ávalt á undan: *h, v, l* og *r: athöfn* (en: *aðhafast,* sem reyndar ætti víst heldr að teljast tvö orð: *að hafast), athlægi, -hugi, -hvarf, -hygli; -vinna, -vík* (en: * *aðvífandi,* líkl. tvö orð; * *aðhald, aðhyllast, aðhjúkrun); atlaga, -lát, -lot, -læti, -líðandi* (en: * *aðlaðandi); at-reið, -renna,* † *-rás* (= árás), *-riði, -róður* (en: * *aðrensli).* Á undan öðrum stöfum oftast *að-* (en þó með undantekningum); stundum eru myndirnar að- og at- báðar tíðkaðar enn í sama orði, stundum þó sín í hvorri merkingu: *aðferð,* háttr, máti; en: *atferð* = atferli, * *aðför* að lögum; en: *veita e-m atför,* heimsókn til ófriðar; *atgangr* og *aðgangr* (jöfnum höndum tíðkað), *aðgerð* og *atgerð,* framkvæmd; en: *aðgerð,* viðgerð; *atgervi;* * *aðkall,* * *-kast, -koma* (en: *atkvæði); aðskilja, -setr, -sókn* (1. það að leitað er til e-s; 2. það að manns-fylgja sækir að e-m), en *atsókn* (árás); *aðsúgr* og *atsúgr; aðbúð,* en *atburðr.*

† *A.* MEÐ ÞOLFALLI:

[Ef til vill er *at,* sto. með þolf., annað orð að uppruna, en *at,* sto. með þgf.: *át, at,* samdregið fyrir *aft* = *eft* = *eftir; eft* kemr tvívegis fyrir í Skírnismálum]. Um tíma: eftir: *at þat* = eftir það; *sonr á at taka arf at* [= eftir] *föður sinn; at Gamla fallinn; lét reisa stein at sik kvikan,* lét í lifanda lífi reisa stein til minningar um sig (er hann væri dáinn).

*B.* MEÐ ÞÁGUFALLI:

**A.** í staðar-sambandi. **I.** um hreyfingu (eða stefnu) eiginl. og óeiginl. **1.** í áttina til, móti, til, í námunda til: *lúta (niðr) að e-m; hann snýr sér að honum; gata liggr að læknum,* til lækjarins; *einstigi gengr niðr að sjónum; sú hlíðin, sem horfir (snýr, veit) að fjallinu; rétta e-ð að e-m,* til e-s; *víkja sér að e-m; ganga að e-m; koma að bæ; koma að landi; koma að á; ganga að dómum* (til að vera við dóma e. taka þátt í dómum); *leggja báti að skipi* (ɔ: við hlið skipsins) e. *bryggju* e. *lendingarstað;* en: *leggja að skipi,* greiða skipi atlögu; *leggja (fast) að e-m,* biðja e-n ákaft um e-ð; *sækja að e-m,* leita til e-s (t. d. um lækni); veita e-m árás; * *fylgjur sækja að* (e. ópersónul.: *það sækir að) e-m.* [Samkvæmt gamalli hjátrú eiga svipir manna, dýra e. hluta e. drauga að fylgja mönnum, sitt hverjum, og hefir það þau áhrif, að skygnir menn sjá þá svipi undan komu gests; en aðrir (óskygnir) sjá ekki svipinn eða fylgjuna, en hún hefir stundum þau áhrif, að mann t. d. syfjar, og er þá sagt, að »sæki að« manni, og á það að vera forboði gestkomu]; *nú sækir feigð at honum,* nú koma fram áhrifin af því að hann er feigr (sbr. *aðsókn* 3); *Gunnar kom þangað at þeim örunum,* náði til þeirra með örunum; *þeir röktu sporin niðr að sjó,* til sjávar; *komast að e-m,* í færi við e-n; *leggja e-n að velli,* fella e-n; *þeir þustu (þyrptust) að h-m,* utan að h-m, utan um h-n; *draga að sér* (til sín) *lið; safna að sér mönnum,* til sín. † **2.** á, eftir, um: *ganga at* (á, eftir) *stræti;* »*er-a hlunns vant*«, *kváðu refir, drógu hörpu at ísi,* eftir ísnum, á ísnum; *máttu menn ganga þar yfir at* (á, eftir) *skipum einum.* **3.** *kom að þeim* (yfir þá) *svefnhöfgi; hríð (vind, storm) gerir að e-m,* skellr yfir, á, e-n; *koma að*

*e-m*, standa e-n að verki; *hann kom að honum þar sem hann var að stela rekaviðnum.* **4.** þétt utan um: *sveipa að sér skikkjunni; vefja motri at höfði sér; kyrtill svo þröngr sem saumaðr væri at h-m*, þétt utan um h-n; *gæfuleysið féll að síðum*, féll fast utan um hann eins og nærskorið fat, Bólu-Hj. **5.** til (að vitja, leita, afla sér) e-s: † *ganga að hrossum, sauðum, fé*, fara að vitja; † *fara at fuglum, dýrum, fiski*, fara að afla sér fugla osfr.; † *ganga at liði sér*, til að afla sér liðs; † *fara at landskuldum*, að sækja, heimta landskuldir; † *fara at Finnkaupum*, til að eiga kaup við Finna; *leita að e-u*, leita eftir e-u, leita e-s; *spyrja* († *frétta*) *að e-u*, eftir e-u, um e-ð [leitar-hugmynd]. **6.** *kalla að* [hreyfingar og stefnu merking]; † **a.** *kalla at e-m*, kalla á e-n; **b.** *margt kallar að mér*, ég hefi mörgu að sinna; *ýmsar annir kalla að e-m.* **c.** *feigð kallar nú að h-m*, er boðuð honum, er h-m nú vís. **7.** við, til (um verk): † *ganga (starfa) at beina* (matseld), hafa starfa við að láta í té beina, við matseld; *vinna að e-u*, starfa við e-ð; *ganga að slætti, verkum, heyskap; hann hefir mikið að því unnið* (mikið til þess gert) *að koma þessu á; starfa að smíðum, verzlun* osfr.; *finna e-n að máli*, til viðtals; *gera að gamni sínu*, sér til gamans. Í sumum þessum tilfellum (og næstu hér á eftir) gætir hreyfingar lítið, en ýmist sagnorðin eða sjálf athöfnin bendir þó til, að hreyfing vaki eða hafi vakað fyrir hugsuninni: *ganga að sínu*, taka sína eign þar sem maðr hittir hana; *ganga að e-u vísu*, telja e-ð sjalfsagt; *vera að e-u*, vera starfandi við e-ð; stundum án nokkurs orðs í þgf. (orðið þá undirskilið oftast): *vera að*, halda áfram; *vertu að, strákur!* = haltu áfram, hafðu ekki frátafir, svíkstu ekki um það sem þú átt að gera. **8.** sérstakl. talsh., svo sem með sögnum viðfangslaust, e. að undirskildu viðfangsorði (*að* með sögn og viðf.orði, sjá að öðru leyti sögnina): **ama að**, vera mótdrægt, valda sorg. — **bera að**, **a.** bera til, bera við, atvikast: *einu sinni að svo bar, | eg í stórum beyglum var*, Ó. Indr. (sbr. *atburðr*). **b.** ópers.: *e-n ber að*, e-r kemr; *hvaðan ber þig að?* hvaðan kemr þú? *mikið berst hér að úr sjónum*, mikið kemr hér á land af afla. — **fá** *e-ð* **að**, fá einhverstaðar frá; sbr. *aðfenginn.* — **falla að** ópers.: *það fellr að*, flæðir. Sbr. *aðfall.* — **gá að**, gefa gaum, gætr. — **gera að**, **a.** bæta, gera við: *gera þegar að, ef e-ð bilar.* **b.** gera við, ráða við: *hann gat eigi að gert*, eigi ráðið við, varnað. * **c.** *gera að*, afhöfða og slægja (fisk): *pillarnir eru að gera að.* — **gæta að**, gefa gaum, athuga: *gættu nú að!* — **haustar að** ópers., haustsvipr fer að koma á. — **húmar að** ópers., fer að húma: *fölnar rós og bliknar blað | á birkigreinum; húmar eins og haustar að | í hjartans leynum*, KJL[3], 222. — **koma(st) að**, * **a.** *koma að*, lenda, koma að landi (af sjó): *þeir eru komnir að*, lentir, komnir af sjónum. **b.** koma á e-n stað, þar sem e-ð er að gerast e. hefir (nýlega) gerst: *allt var um garð gengið þegar ég kom að.* **c.** *komast að*, fá rúm; fá e-ð, sem um er sótt; fá vitneskju: *þar var svo þröngt að fleiri komust ekki að*, ekki rúm fyrir fleiri; * *af oss ellefu, sem sóttum um vinnu,*

*komust einir fjórir að,* fengu starfa; *eftir því sem ég gat komist að ...,* orðið áskynja. — **kveða að** (um börn, sem eru að læra að stafa) taka stafi saman í atkvæði e. samstöfu. — **leggja að, 1.** stýra báti e. skipi hagkvæmlega að lendingu, skipi að hafnarstétt eða bryggju, báti að skipshlið. **2.** óp.: *e-ð* (þlf.) *leggr að,* byrjar fyrir alvöru, um e-ð, sem lengi mun standa: *snjó, ísa, leggr að.* — **syrtir að,** dimmir. — **sœkja að,** sjá: *sœkja.* **9.** alla leið til: *alt var skógi vaxið að húsum heim; túnið nær alveg niðr að sjó.* † **10.** *at höfði,* á höfuðið; *kasta e-m at höfði; féll at höfði,* datt á höfuðið. † **11.** *fá at blóti, veizlu,* efna til blóts, veizlu; afla fanga til blóts, veizlu (sbr. *aðfangadagr).* **II.** um dvöl, þar sem um enga hreyfing er að rœða: **1.** um viðveru: á, í, við: † *vera at kyrkju,* í e. við kyrkju; † *kalla at stofudyrum,* við stofudyr, fyrir dyrum úti; *að baki e-m,* fyrir aftan e-n; *Björn at baki Kára; hann stendr í engu mér að baki,* er mér í engu síðri; † *vera at skála,* í; † *at skipi,* við skip; † *standa austan, norðan, sunnan, vestan at dómi,* í austr frá, austan við; † *at þingi,* viðstaddr við þing; † *at Lögbergi,* á L., við L. **2.** við, og takandi þátt í: *sitja að mat; vera að veizlu;* † *vera at vígi e-s,* vera við staddr víg og taka þátt í því; [einnig án þgf. á eftir: við; í þessu er folgið tvíræðið í eiði Víga-Glúms: »*Vark-at* (= var ég ekki; *vark at* = var ég við) *þar og vák-at (vák at) þar ok rauðk-at (rauðk at) þar odd ok egg, er Þórvaldr krókr fekk bana*«. Vgl.s. 25. kap.]; † *sitja at hégóma; vera að smíð(um),* við smíðar; *vera að slætti,* við slátt osfr. (á líkl. fremr heima undir A, I, 7: *ganga að . . .*). **3.** um eiðstaf: **a.** † *vinna eið at baugi, at bók,* með því að leggja hönd á baug e. bók; **b.** *vinna eið að e-u,* staðfesta e-ð með eiði. **4.** *vera vottr að e-u,* vera við og sjá e. heyra e-ð (sbr. heyrnarvottr, vitundarvottr); *nefna votta að e-u,* kveðja menn til vitnis um e-ð. **5.** í, yfir (um höfðingja): *jarl at* (= yfir) *öllum Noregi; konungr at* (= í, yfir) *Danmörku ok Noregi; konungr at* (= í) *Dyflinni.* **6.** með bœjanöfnum, el. við, helzt haft þar sem bœrinn er kendr við e-ð, sem hann stendr við e. hjá, t. d. með nöfnum, er tákna lœk, á, fjall, fell, háls osfr.: *að Helgafelli, Mosfelli, Halsi, Gilsá, Myrká, Fossi, Lœkjamóti, Hvoli, Hofi, Borg* osfr. Nú er oftast haft *á* með þessum nöfnum, þó stundum *að,* einkum í riti. † **7.** virðist í fljótu bragði standa með ef.: *at Egils,* á heimili Egils, hjá Agli; en er hér í raun réttri með þgf., því að *at Egils* stendr fyrir *at heima Egils,* að heimili E.; *gista at Ránar,* að heimkynnum R.

**B.** um tíma. **I.** á, að, í, við: *að upphafi,* í upphafi, byrjun; *að lyktum,* við (í) lok, síðast; *að síðustu,* síðast, *að lokum; að fornu,* fyrrum, í fornri tíð; † *at lesti* = á lesti, að síðustu, loksins [E. *at last*]; *að nýju,* á ný; *að sinni,* fyrst um sinn, nú í svip, nú um hríð: *eigi munum vér nú lengra fara að sinni; hér skulum vér nú dvelja að sinni; að eilífu,* um allan aldr, aldir alda; † *at skömmu,* bráðum. **II.** um hreyfingu í tímanum: *dagr er að kveldi kominn; líðr að Jólum,* nálgast Jól. **III.** um ákveðinn tíma: *að morgni dags,* um morguninn; *að kveldi dags,* um kveldið; † *at*

*hausti, vetri,* um haust(leytið), í vetrarbyrjun (sbr. V); † *at öðruhverju,* öðruhverju, við og við; † *at því meli,* á þeim tíma; † *at eindaga,* í eindaga; † *at Jólum,* um Jól; † *at Palmadegi,* á Palmasunnudag; † *at Páskum, Ólafsvöku, Jónsmessu,* á P., Ó., J.; † *at sumarmálum, at vetrnáttum, at Tvímánuði,* við byrjun sumarmála, vetrnátta, Tvímánaðar. **IV.** um tíma, sem bundinn er við e-a athöfn e. henni samfara: *að skilnaði,* um leið og þeir (þær, þau) skildu; *að fundarlokum,* í fundarlok; *að veizlulokum,* þá (um það bil) er veizlan var úti; *að þinglokum,* í þinglok; † *at þingi,* í þingbyrjun; † *at öllum minnum,* við öll (hvert) minni; † *at þinglausnum,* um það leyti er þingi var slitið; † *at fjöru,* um fjöru, um það leyti er fjarar; † *at flæðum,* um flóð (-tíma). **V.** um komandi eða ókomna tíð, ýmist með orðunum »komandi« e. »er kemr«, eða án þeirra (þau undirskilin): *að morgni, að morgni komanda,* næsta morgun á eftir; *að sumri, vetri, vori, hausti (komanda),* næsta sumar, vetr osfr.; † *at vári, er kemr,* komanda vor. **VI.** með sérstœðu *(absolut)* þgf. og nt. lh. e. lo.: *að sér lifandi,* meðan h-n er (væri) á lífi, svo framarlega sem hann sé (verði) á lífi; *að mér heilum og lifandi,* svo framarl. sem ég verð h. og l.; *að öllum ásjáandi,* svo að allir sjá (sáu); *að þeim sofandi,* meðan þeir sofa; *að mér óvitandi (óafvitandi),* án þess að ég viti; *að mér nauðugum,* á móti vilja mínum; *að e-m óvörum,* þá er (ef) e-r er óviðbúinn, varar sig ekki. **VII.** með sérstœðu þgf. og lt. lh.: *að svo búnu,* meðan svo stendr, þá er svo stóð, * eftir að því var lokið; *að liðnum sex vikum,* eftir 6 v. liðnar; *að e-m látnum,* eftir að e-r er látinn; *að svo komnu,* eftir að (þá er) svo er komið; enn sem komið er; *að svo mæltu,* eftir að hafa mælt svo, e. svo hefir mælt verið; stundum er »að« felt burtu, en er þá etv. undirskilið: † *en þessum hlutum fram komnum* = að þessum hl. fr. k., þá er (eftir að) þessir hlutir eru fram komnir. **VIII.** án sagnar, með lítilsháttar tíma-merking: *að görðum gildum,* þá er, ef, svo framt, garðar eru gildir; *að vörmu spori,* þegar í stað; † *at illum leiki,* með (við) illan leik; † *at þessu,* **1.** með þessu skilyrði; **2.** eftir þetta; † *at því,* **1.** úr því að, með því að; **2.** eftir það. † **IX.** *hverr at öðrum* [* hver af öðrum], hver eftir annan; *eina konu at annari,* hverja eftir (á fætr) annari.

**C. I.** um ummyndun eða breyting í e-ð e. til e-s: **1.** *brenna að* (= til) *ösku; brenna að köldum kolum,* br. til kaldra kola; *verða að ormi, flugdreka* osfr., *verða að engu,* gereyðast; »*guð gerði alt af engu, en þú gerir alt að engu*« (ɔ: eyðir öllu); *gera e-n að presti,* gera prest úr e-m; *gera e-n að trúnaðarmanni sínum,* taka e-n sér fyrir trúnaðarmann; † *grœða e-n at örkumlamanni,* grœða e-n svo (lélega), að hann verði örkumlamaðr eftir; † *verða at ljúgvætti,* sannast að vera ljúgv. **2.** *gera e-ð að reiðimálum,* gera þykkjuefni úr e-u; *það varð að sættum, að ...,* sú varð sætt þeirra, að ...; *gera e-ð að álitamáli;* † *þeim varð þat at orðum,* að ágreiningsefni; en: *e-m verðr e-ð að orði,* e-r kemst svo að orði, e-m verðr það fyrir að segja svo; *e-r*

*verðr að manni,* maðr verðr úr e-m, hann mannast; *verða að liði (tjóni),* verða til liðsemdar e. gagns (tjóns); *verða að undrum (athlægi),* verða til hlátrs; *gera e-n að skógarmanni,* gera e-n skógarmann. **II.** fyrir, í, til osfr.: *fá e-ð að gjöf,* gefins; *gefa e-m e-ð að sök,* finna e-m e-ð til sakar; † *gefa at* (* í) *Jóla-gjöf; fá e-ð að erfð (láni, launum),* í arf (til láns, í laun); † *at sakbótum,* í sakbœtr; *fá e-ð að herfangi,* með herfangi, í herfang; *»ill er að eiga þræl að einkavin«* (fyrir einkavin); *hann átti að syni þann mann, er ...,* fyrir son; † *hafa e-ð at erindum,* fyrir erindi; *hafa e-ð að vopni,* fyrir vopn; *hafa möttul að yfirhöfn,* fyrir yfirhöfn. **III.** **1.** á, um, við: † *vóru at* (á) *honum hjölt gullbúin;* † *umgerð at því sverði,* um; *lykill að skrá* [sbr. *ganga (að)*]; † *brotnaði nokkuð at* (á) *Orminum;* † *meiðir at skipinu,* skemmir skipið; † *lesta hús at lásum, við eða torfi,* skemma lása, við, torf hússins; *hurð að húsi; gera að e-u:* **a.** *gera e-ð (mikið* e. *lítið) að e-u,* til framkvæmdar e-u; *h-m þótti lítið að gert* (sbr. *aðgerðalítill); **b.** að* = við, um að sporna við, bœta úr e-u: *ég get ekki að því gert;* **c.** um að endrbœta, gera við: *gera að skipinu,* bœta skipið; *gera að e-u sem bilað er,* gera við það; * *gera að fiski,* slœgja fisk og taka innan úr h-m; *piltarnir eru farnir að gera að* (ɔ: fiskinum, aflanum). **2.** táknandi þann hluta, sem um er haldið e. á tekið e. við miðað: † *taka við sverði at hjöltunum;* † *draga út björninn at* [= á] *hlustum* [= eyrunum]; † *mæla at* [= eftir] *hrygg ok at* [= eftir] *jaðri; að endilöngu,* á langveginn, langsetis *(and.:* þvers um); † *kjósa e-n at fótum,* eftir fótunum; † *hefja* [= byrja að rekja] *frændsemi at brœðrum,* frá brœðra lið. **IV.** **1.** af, til, að því er til e-s kemr e. snertir e-ð: *auðugr að* [af] *gangandi fé;* † *beztir hestar að reið,* til reiðar; *spekingr að viti; vænn að áliti; vænn að ásýnd og vitsmunum,* að því er til ásýndar kemr og vitsmuna; *heill að höndum, hrumr að fótum; heill að viti, krankr að líkama; hvítr (svartr) að* [á] *lit; mikill að vexti,* stór á vöxt; *ungr (gamall, fertugr) að aldri; um fram aðra menn að harðfengi; verða ber, uppvís, að e-u; sannr að sök;* † *illvirki að fé manna,* að því er snerti fé manna, við fé manna. **2.** að e-u, í stað ef., e. til að tákna ef.: *faðir (móðir) að barni,* f. (m.) barns; *faðerni að barni,* [barns]; † *morðingi að barni,* [barns]; † *landgangr at fiskum,* [fiska, af fiski]; *niðrfall að sökum,* [saka]. **3.** um hlutfall; **a.** með töluorðum: *að helmingi (fjórðungi, þriðjungi, tíunda hluta),* til hálfs (fjórðungs osfr.); [en: *rís at fjórðungi,* við fjórðung (= 2 merkr), um bismara, er ekki óg minni þunga en 2 merkr]. **b.** ekki með töluorðum: eftir, í hlutfalli við: *hún segir mátt* [= styrk, liðsemd] *at magni* [= föngum] *skulu um liðveizluna; galt hver sinn hlut að* [eftir] *hlutfalli réttu; þú munt vera at því* [ɔ: skapi] *fræðimaðr; að miklu (litlu, nokkru) leyti; að öllu,* alls kostar: *sælla vart er eitt að öllu | en að sigla heim til kvenna* (J. Hlgr.); *ekki að öllu,* alls ekki; *að mestu* [ɔ: leyti]; *að öðrum kosti,* annars, ella; *að miklu; að litlu; að engu; hans var að fáu getið,* fátt var frá h-m sagt. **c.** um verð og verðmæti, fyrir, gegn: † *kaupa*

*e-ð at mörk,* fyrir m. d. *virða e-n að vettugi,* einskisvirða; *það var að litlu haft,* lítið mark var á því tekið; *skilja að fullu,* til fulls; *að hófi,* hóflega; *að mun, að marki, að ráði,* svo að um muni, svo teljandi sé, svo nokkru nemi. † **4.** (í lagamáli) fyrir sakir: *ryðja (kvið, dóm) at mægðum (guðsifjum, leiðarlengd),* sakir mægða (guðsifja, fjarlægðar). **5.** í talsháttunum: *að sér* og *að sér ger; hann var vel at sér,* † vel gefinn, göfuglyndr, góðum kostum búinn; * vel kunnandi, vel lærðr, fróðr; † *þeir höfðingjar er svá váru vel at sér,* svo göfuglyndir; * *vera illa að sér,* fáfróðr, fákunnandi; *vel að sér ger,* † vel mannaðr, mentaðr, * vel (af guði) gefinn. **6.** *bragð er að e-u,* nokkuð kveðr að e-u, (mikið, lítið) er um e-ð: *bragð er að þá er börnin finna,* mikið kveðr að, er jafnvel börn finna til þess, verða þess vör [á ekkert skylt við »bragð« = smekkr]; *vóru svo mikil brögð að því,* var svo mikið um það; † *ekki er mark at draumum,* ekkert mark takandi á dr.; * *það er nú mark (mót) að því,* munar nú um það; † *hvat er at því?* hvað þýðir það? **V.** um upphaf þ. e. uppsprettu, er e-ð kemr frá: † **1.** af (um að læra, nema): *nema kunnáttu að e-m; Ari nam marga fræði at Þuríði,* lærði af Þuríði. **2.** (um að fá, sækja, kaupa osfr.) af, til, hjá: † *þiggja at e-m,* af e-m, af e-s hendi; † *þiggja góðar gjafir at* (af) *e-m;* † *ek vil þiggja líf at* (af) *þér;* † *kaupa land at* (af) *e-m;* † *þeirra manna, er þeir megu þat geta at,* er þeir geta fengið það af ɔ: fengið til þess (að gerast lögsögumaðr); † *leigja e-ð at e-m,* af e-m; † *fala e-ð at e-m,* af, hjá; † *heimta e-ð at e-m,* heimta af e-m, gera tilkall til e-s hjá e-m; † *sækja heilræði ok traust at e-m,* sækja það til hans, leita þess hjá h-m; † *eiga fé (skuld) at e-m,* hjá e-m; *eiga mikið (lítið) að e-m,* verðskulda mikið (lítið) af e-m; *hann á það að mér,* á það skilið af mér; * *eiga að sér,* vera eiginlegt; *hann á að sér að vakna snemma á morgnana,* h-m er eiginlegt (tamt) að vakna snemma; *hann á það að sér að vera féglöggr* (el. hann á það hjá sér =) honum er það eiginlegt, er hneigðr til þess. **3.** í, af: *e-m er vegr, virðing, styrkr, hald, gagn, lið, mein, tjón, tálmi, sómi, að e-u; honum er lítill vegr að því; það kemr að góðu haldi (engu liði); ótti að e-u,* af e-u, við e-ð. **VI.** samkvæmt, eftir: *að fornum sið,* samkv. eða eftir fornum sið; *að sögn,* eftir því sem sagt er; *að sögn Ara prests,* samkvæmt því er Ari segir (hefir sagt) frá; † *at beztu manna yfirsýn,* eftir því sem beztu mönnum lítst; *fara að e-s ráðum; að líkindum; að vonum,* eftir v.; ♂ *að almennu,* alment, yfir höfuð, Árm. IV, 15—16.; *að lögum,* samkv. l.; † *at inum sama hætti,* eftir sama hætti, á sama hátt; † *at* (með, í) *leyfi;* † *at úlofi,* í óleyfi; † *at sólu,* eftir sólargangi, sólarsinnis; *að því er virðist,* eftir því sem v.; *að því er menn (frekast, bezt) vita; láta að orðum e-s,* fylgja, fara eftir o. e-s.; *fara að e-s dæmi (orðum, ráði),* fylgja, breyta eftir, dæmi ... e-s; *16 aurar að fornu lagi,* eftir fornu verðlagi; *e-m er e-ð að skapi,* samkv., eftir, skapi; e-m geðjast e-ð vel; *að réttu (lagi),* (samkvæmt) með réttu; *að frjálsu,* með frjálsu (móti); *að líku (lagi),* líkt;

† *at sömu,* jafnt, eins, fyrir sama, fyrir eitt; *að einu,* fyrir eitt, í sama stað niðr: *og svo kemur alt þá að einu* (J. Ól. Lj.); † *svá at einu, því at einu,* að eins þannig, á þann hátt einan, með því einu móti; *alt að einu:* **a)** þrátt fyrir það; **b)** alveg eins, á sama hátt. **VII.** í einst. talsháttum: † *at brenna bœinn upp at hringum,* til yztu ummerkja, gersamlega (sbr. *með hringum,* sjá: *hringr); — að vísu* **a)** vissulega, sannarlega; **b)** reyndar (oft með setningu á eftir, er byrjar með »en« = alt um það); — *að sönnu:* **a)** sannarlega, víst: *það er orð og að sönnu,* það er sannarlega rétt sagt; **b)** fyrir satt: *það er haft að sönnu þar í sveitinni,* haft fyrir satt, talið satt; **c)** reyndar. **VIII. 1.** *fara* e. *láta að e-m: hann lét vel að henni,* sýndi henni blíðlæti; *ég fór vel að drengnum,* leitaði til við hann með góðu; *farðu vel að hestinum,* sýndu hestinum góðlæti. **2.** *fara* (svo e. svo) *að e-u,* hafa aðferð við e-ð: *svo skal að sókn fara,* svo á að haga til við sókn; *vér skulum fara að þessu með ráðum,* vér skulum hafa ráðkœnlega aðferð við þetta; *hvernig á að fara að þessu?* hvernig á að haga framkvæmd á þessu? hvernig á að gera þetta? *þeir fóru hœgt að öllu,* fóru sér hœgt við alt; þgf.-orðinu er einatt slept e. það er undirskilið: *hvernig á nú að fara að?* hverja aðferð á nú að hafa? hvað á nú til bragðs að taka? **IX.** með (á undan) miðstigi a-s. e. lo-s., í st. f. at því (skapi) = þess, því, þeim mun, fyrir það: **1.** því, þess, þeim mun: *maðr að betri (meiri, verri),* því (þess) betri (meiri, verri) maðr; *at ... at,* því, þess, þeim mun ... sem: *At heldr tveim, segir hon, at ek munda veita yðr öllum [jörð til greftrunar],* því heldr tveim, sem ég mundi ....; † *þess at harðari,* því harðari; † *svá at hinn sé bana at nær,* nær bana en áðr, þeim mun nær bana; *ég tel hann dreng að betri fyrir vikið,* enn betri dreng fyrir þetta verk. **2.** (eftir neitunarorð) = fyrir það: *eigi að síðr,* eigi síðr fyrir það; *ekki er mér sonr minn at bœttari, þótt ...,* ekki bœttari, ekki fremr bœttr fyrir það, þótt ...; *ekki að verri drengr fyrir það,* ekki að neinu leyti verri drengr; † *er-a héra at borgnara, þótt hœna beri skjöld,* ekki betr borgið, ekki fremr borgið fyrir það; *þú ert ekki at holpnari,* ekki holpnari fyrir það; *ég er ekki að nær en áðr,* engu nær fyrir það; *vér lögðum fast að honum allir, en hann lét ekki undan að heldr,* ekki fremr fyrir það, ekki fremr en áðr. **X.** á eftir ýmsum orðum: **1.** með sögnum, **a.** sem hafa í sér hreyfingarhugmynd, þótt reyndar tákni ekki eiginl. hreyfingu: **aa.** sögnum, sem tákna tal, mál, kall: * *tala að e-u, tala utan að e-u,* leita hófanna um e-ð, þreifa fyrir sér um undirtektir, án þess að fara beinlínis fram á það: *Hefir hann beðið þig um það? Ekki beint það, en hann hefir svona talað (utan) að því við mig;* * *kallsa að e-u,* kallsa til um e-ð; *kalla að e-m,* el. kalla á e-n, heimta e-n til sín: *það er margt, sem kallar að (mér) í dag,* margt, sem verðr (ég verð) að snúast við, sinna; *feigð kallar að e-m,* sœkir að (sjá: *B,* A, I, 1); *koma sér að e-u,* hafa uppburði (djörfung) til e-s; *ljúga, skrökva að e-m,* ljúga í e-n, segja e-m ósatt; *kveða* (svo e. svo) *að orði,* mæla svo, kom-

ast svo að orði; *mikið (lítið) kveðr að e-u,* mikið (l.) er um e-ð (að vera); *Drekkr hann? Og ekki kveðr mikið að því,* ekki er mikið orð á því gerandi; *kvað mikið að þeim draugagangi,* mikil brögð voru að; *af þeim sem í nefndinni eru, kveðr mest að hreppstjóranum,* er mest vert um hreppstjórann, hann má sín mest, mest mark er á h-m tekið (sbr. *atkvæðamaðr); kveða e-ð að e-m,* leggja e-ð á e-n: *mikill harmr er að honum kveðinn,* mikinn harm leggja örlögin á hann; *spyrja, frétta, að e-u,* eftir e-u; *inna að,* spyrja (= inna eftir), víkja máli að; **ab.** sögnum, sem tákna að sjá, leita: *gá, gæta, horfa, leita, skima, skygnast að e-u; sjá að sér,* betra sig: *hann var lengi breyskr, en svo sá hann að sér með aldrinum;* vera naumr í útlátum: *hann sér að sér,* gætir þess að verða ekki of örlátr (sbr. *aðsjáll);* **b.** með einstökum sögnum: * *það sópar að honum (henni),* er höfðingjamót, mikilmennisbragr á h-m (h-i) [ávalt sagt »sópar að«; »sópar af« er víst tilbúningr höf.s í EJO]; * *hæna að sér,* laða að sér; *standa að,* vera nákominn: *þar standa næstir að bræðr hans; standa að e-m,* styðja e-n, hjálpa e-m; *standa að e-u,* vera við riðinn; *þar standa margir að þeim kaupum; standa að verki* (sbr. *aðstanda* e-ð); *standa e-n að verki,* koma að e-m, þá er hann er að aðhafast e-ð; vera sjónarvottr að tiltœki e-s; † *hjalpa at e-u,* hjalpa til e-s; * *hjalpast að e-u,* hjalpa hver (hvor) öðrum með e-ð; *veita e-m að e-u,* hjalpa e-m til e-s; *veitast (beinast) að e-m,* ráðast á e-n; † *geyma at e-u,* gæta e-s; *gæta að e-u,* gæta e-s, * huga að e-u; *leika (sér) að e-u,* hafa e-ð að leikfangi; *finna að e-u,* fetta fingr út í e-ð, átelja galla á e-u; *telja að e-u* = finna að: *ekki tel ég að því,* ekkert hefi ég að því að finna; *ganga að sér,* ganga saman, mjókka, grennast: *stakkrinn gengr að sér,* LFR, III, 8. **2.** með lo-i: *elskr að e-m,* unnandi e-m (einkanl. svo, að hann fýsir að vera sem mest hjá honum); *vandr að e-u,* vandlátr um e-ð; *mikilvirkr (lítilvirkr) að e-u,* afkastasamr (afkastalítill) við e-ð; † *virkr at e-u,* umönnunasamr um e-ð; *virkr at hestinum; virkr at henni ok kærr.* **3.** með a-um, er tákna áttina, sem e-ð kemr úr: *austan (sunnan, vestan, norðan) að,* frá (úr) austri osfr.; *innan að, utan að;* ᛘ *læra utan að,* læra utanbókar; ᛘ *bera sig (svo e. svo) að,* fara (svo e. svo) að e-u; § *bera sig að (gera e-ð),* hafa viðburði til, reyna: *berðu þig að læra þetta,* reyndu að læra þetta.

☛ Í öðrum samböndum, en hér eru nefnd, er reynandi að leita undir því orði, sem *að* er með í það og það sinn.

† *C.* MEÐ EIGNARFALLI:

Kemr að eins fyrir í orðtœkinu *ganga at staðar,* ganga e-ð þarfinda sinna, † ganga alfrek, ganga erinda (†örna) sinna. [Í orðtœkjunum: *at Egils, at Ránar, at konungs* (hjá Agli, R. osfr.) stýrir *at* ekki *ef.,* heldr *þgf.,* og er *þgf's*-orðið (heima) þar undirskilið. Sjá að framan].

**að** *ób. miðunarorð,* haft með nafnhætti e. til að tákna nh., e. k. lausaforskeyti við nh. sagna. **I.** án þess að hafa neina sérstaka merking: *hann sagði þeim að koma; hann býðr mér að sitja; lofaðu mér að sjá; hann*

*ætlar að fara; það er ekki gott að vita; hér er örðugt að ganga; þér gengr vel að læra.* — *að* fellr burt, e. verðr alls ekki haft, er sumar sagnir fara á undan: **1.** hjálparsagnirnar: mega, munu, skulu, vilja: *það má sjá; það má vera; ég mun koma; þeir skulu gera sem ég segi; hver vill gera betr?* **2.** fellr ávalt burt í fornu máli á eftir: kunna, og oft í nútíðarmáli (nema það orð þýði: að hafa þekking, kunnáttu, á): † *hann kann fyrir sökum sjá; kann vera, að* . . ., verið getr að . . .; *þetta kann vera,* (* kann að vera); en: *hann kann að smíða, tefla, syngja.* **3.** eftir: láta, þykja: *hann lætr segja þeim; hann vill láta slá teiginn; hann þykir vera góðr læknir,* ɔ: öðrum þykir hann vera (en: *honum þykir ilt (gott) að heyra þetta); þú þykir glíma vel; það þótti koma sér vel.* **4.** ávalt slept, er þlf. er með nh.: *heyra menn segja; hyggja e-ð vera; sjá skip sigla; segir það koma fyrir eitt;* miðmynd sagnar með nh. er sama sem þlf. með nh.: *þeir segjast* (= segja sig) *vera; hann kveðst* (= kveðr sig) *vera; ég þykist vera; þú hygst vita* (sjaldg. og ×: *hygst að vita).* **5.** á eftir: gera, knega, nema, ráða, þá er þau orð eru höfð fyrir hjálparsagnir í kveðskap: *gerði mæla'* (mælti) *á þessa leið; silfur grátt með sviftingum | seggir knáttu elda; ... ástarhót nam veita* (= veitti); . . . *ræða sú, | réð svo falla niður.* **6.** eftir sögnum með neitunarviðskeyti (-a, -at, -t) fellr »að« jafnan niðr undan nh. **7.** fellr enn fremr oft niðr þá er nh. sagnar stendr á undan sögninni, sem nafnhætti stýrir: *gera verðr,* verðr að gera; *lifa kýs ég enn,* enn kýs ég að lifa; *undir eins og halla tekr degi,* degi tekr að halla; *það sem falla hlýtr,* hlýtr að falla; *allir þeir sem fara fýsir,* fýsir að fara; *alt, sem lifir, lifa girnir* KrJL; *siglingunni seinka fer,* Skfr. En: *að dæma hart, það er harla létt.* **II.** til þess að, til að: *sendi menn að hjalpa þeim,* til að hjalpa þeim; *sendi riddara með þeim að varðveita þær.*

**að** († **at**) *ób. tv-fn,* er, sem: **1.** † *sá at,* sá sem; † *alt þat at minna er en guð, þá er þat eigi guð,* alt það sem . . .; † *enginn mun sá at minnissamara mun vera,* enginn, sem minnisstœðara mun; † *sem blótnaut at stœrst verða,* sem þau blótnaut, er stœrst verða; † *sem þeim er títt at* (sem) *kaupferðir reka;* † *í borg þeirri at París heitir; hann var sá maðr að mér þótti mest til koma; nú er enginn sá að við mig vilji kannast* (JÓl.HH, 26[7–8]); *enginn sá maðr að honum þyrði að mæta* (sst. 52,11–12); † **2.** eftir tv.-fn. *hverr: dásamliga hluti, af hverjum at rynni oss upp* . . . (Hms. II, 335[8]), dásamlega hluti, er oss rynni upp af . . .

**að** *a.* og *to.* **I. 1.** eftir »svo« og lo. e. a. táknar hlutfall: *hár svo sítt, að náði á herðar; þeir voru svo jafnir, að eigi mátti á milli sjá; hann kunni það svo vel, að enginn var honum fremri.* **2.** eftir »svo« án lo. e. a.; *svo að* = þannig að; eða: *svo að* = til þess að; »svo« er þá stundum slept: **a.** m. frh., þannig að: *kom þá gat á skipið, svo að inn féll kolblár sjór; ef svo ber til að þér sjáið hann; handriðið hlífði honum, að hann féll ekki í lækinn.* **b.** m.th., til þess að: *var þar viti settr, svo að öruggara væri inn að sigla; skáru þeir melinn fyrir hestana, að þeir dæi eigi af sulti.* **3.** á

eftir tengiorðunum: þó, því: *því að; þó að* (oft saman dregið: þótt, † þót = þó at), — þó að, þótt (með th.): *hann getr það ekki, þó að hann vilji*, þrátt fyrir það að hann vill; *margr er knár, þótt hann sé smár*, margr er knár þrátt fyrir það að hann er lítill; *enda þótt* = þótt; *enda þótt ég ætli að koma, er óvíst, hvort ég get það;* † stundum að skilið: *svarar hann þó rétt, at hann svari svá* [Grág.]; — *því að*, sakir þess að, fyrir þá sök að; *það vil ég ekki gera, því að það er ilt verk; af því að* = því að; *ég get ekki sagt það, af því að ég veit það ekki; fyrir því að* = því að; *með því að* = því að: *vel má hann það gera, fyrir því að enginn er hér hans jafningi.* — Í upphafi setningar, sem eftirsetning fylgir, geta orðin *því að* ekki staðið fremst óaðskilin, heldr tengiorðin: af því, með því, fyrir því, * úr því, og er *að* þá tv.-a.: *með (fyrir, af, * úr) því að ég á úr vöndu að ráða, þá* ...; en stundum að skilin: *því þegi ég, að mér verðr orðfátt; því er þessa getið, að mörgum þótti* ... 4. með frh.: *ég sá, að ég var illa staddr; svo bar til, að þar kom sótt mikil; það var eitt kvöld, að þar kom gestr.* 5. með th.: *var það mælt, að enginn væri hans jafningi; vildi ég að þú værir hér; ef svo væri að þeir kæmi á undan ykkr; þess væri vert, at vér tækim upp hey ok mat.* † 3. með boðh.: *þat ræð ek þér, at þú far*, að þú farir. **II.** 1. er; † *þá at*, þá er: *er mér þá verra er ek ferr á braut þaðan, en þá at* (= þá er) *ek kem;* † *þá at ek lýsta*, þá er ég lýsti; † *þar til at vér vitum*, þar til er, uns; *þar til að hann kemr*, uns hann kemr; *hann elti þá, þar til að hann náði þeim*, uns hann náði þeim. † 2. af því að; með því að; þar sem: *færi ek yðr hann, at þér eruð í einum hrepp allir*, með því að (af því að) þér eruð . . .; *eigi er kynlegt at* (= þó að) *Skarphéðinn sé hraustr, at* (= þar sem) *þat er mælt, at* . . . 3. *eftir að* = eftir er: *eftir að hann var farinn; eftir að ég sá það.* — *Þegar að* = þá er (egl. þegar er): *þegar að ég kom þangað.* [*Þegar að* er eldra og réttara en *þegar* (= þá er); kemr fyrir í Grett. og víðar í fornmáli]. — *meðan að* = meðan er, meðan: *legg þú til, Grettir, meðan at ek bæti at hánum; vér biðum meðan að hann var að búa sig.* — *síðan að* = síðan er, síðan: *síðan at hann fann, at mótstöðumenn efldust, en ríkit eyddist; ég hefi aldrei orðið jafngóðr síðan að ég fótbrotnaði.* — *fyrst að* [= fyrst er], fyrst, úr því að; stundum er *að* slept: *fyrst hún er karls dóttir* Fms. I, 22; *fyrst þú frýr mér hugar* Fas. II, 370; en »fyrst að« er óefað eldra og réttara en »fyrst« í þessu sambandi. *(?) 4. *ef að* = ef (að ofaukið); *nema að* (með th. á eftir) = nema (að líkl. ofaukið, ef það er eigi í st. f.: nema er). [*ef að* kemr fyrir í Ljósv. — *nema að* finst ekki í fornritum, en getr vel verið fornt fyrir því]. * 5. sundr: *skilja e-ð að*, greina e-ð sundr, skilja sundr: *anda, sem elskast,* | *fær aldregi* | *eilífð að skilið* JH.; *það verðr varla greint að*, naumast skilið sundr (sbr. *aðskilnaðr, aðgreining*). —

☞ Samsetningar með **að-** og **at-** sjá í stafrófsröð. — Orða, sem eigi

finnast undir *að-*, má leita undir *al-*, og gagnstætt.

**aða** *kv* **(öðu)** * **I.** e. k. skelfiskr *(mytilus* [*edulis*] *major* e. *mytilus testa planiuscula).* † **2.** *en*, kvenmannsnafn (SnE.). Sams.: **öðu-skel**, skelin, sem fiskrinn er í (sbr. *kráku-skel* og *krækling*r).

**aðal** *kl*, **(-s)**, eðli, náttúra: *args aðal*, einkenni bleyðu; *það er hans aðal og einkenni*, eðli hans og einkenni. [*sn.* eðli, óðal, náttúra, eigin]. *v* **aðals-eigin** *kl*, **I.** náttúru-(eðlis-)einkenni. **2.** (í flt.) þrek.

**aðal-** *fsk*, höfuð-, megin-, yfir-, helzti, verulegasti, æðsti osfr. — Þetta fsk. má setja framan við hvert nafnorð í málinu, þar sem það getr átt við að efni, og er þýðing þeirra orða venjul. auðsæ. Hér eru talin nokkur helztu orð, sem byrja með þessu forskeyti, en þýðing eigi til greind, þar sem hún er auðsæ: * **aðal-aðferð.** ***-aðgreining**, höfuð-skifting, höfuð-mismunr. ***-aðhald.** ***-aðsetr.** ***-afleiðing.** ***-akkeri**, lífakkeri. ***-ákvæði.** ***-annmarki.** ***-ástæða** **I.** -röksemd. **2.** -orsök. ***-athæfi**, -starf (helzt í misjafnri merking). ***-athöfn**, starf, NFR, I, 119. ***-atriði**, höfuðgrein; það sem mestu varðar. ***-atvinna**, -starf, sem maðr lifir mestmegnis af. ***-atvinnuvegr**, -bjargræðisvegr. ***-bardagi**, höfuð-orrusta, Skír. VI, 5. ***-bein**, **I.** helzta b. **2.** upphaflega beinið *(and.:* beinauki), LFR, I, xiv; X, 156. ***-birgðir.** * **-bjargræði.** * **-bjargræðisstofn.** * **-bjargræðisvegr.** ⊙**-bjór**, ágætr drykkr (bjór)? eða: bjórskinn, bjórfeldr ágætr? *þöll aðalbjóra* kvenkenning, Eb. ***-bláber**, dökkblá berjategund [*vaccinium myrtillus*]. ***-bláberjalyng**, lyng, sem aðalbláber vaxa á. ***-blað**, helzta blað. ○**-blik**, sólgeisli (?): *aðalbliks stræti*, himinn(inn), Milt. 134. **-blóm**, Milt. 351. * **-blómi**, JÞ, II, 235. * **-boð(orð).** ***-bók**, **I.** helzta bók. **2.** höfuðbók (við verzlanir osfr.), sú bók, sem aðalreikningar viðskiftamanna eru ritnir í. **-ból**, **I.** höfuðbýli (sem eigandi sitr), Grág. * **2.** höfuðbýli *(and.*: hjáleiga), heimajörð. * **3.** aðalheimkynni, Milt. 352. **4.** *en.*, Hrk. ***-bólfesta**, -dvalarstaðr, -heimkynni. ***-borg**, **I.** meginborg(in), aðalhluti borgarinnar *(and.:* undirborg, útborg). **2.** helzta borg. **-borinn**, † **I.** skilgetinn [sbr. FSV. *aþalkona* = eiginkona]. [* **2.** af aðalsætt.] ***-bót.** ○**-brunnr**, meginuppspretta, JÞ, II, 181. ***-bust**, ÆTH, 57. ***-bœr**, **I.** = *aðalborg 1.* **2.** = *-borg 2.* **3.** = *-ból 2*, FFH, '42, 135. ○**-djúp**, megindjúp: *eins og sól um aðaldjúp* | *uppheims-bóla flogin*, SEL, 127. ***-dómr**, æðsti dómr, NF, I, 119. ***-dráttr.** ***-dvalstaðr.** ***-dygð**, höfuðdygð. ***-dyr.** ***-efni.** △**-eigind** = * **-eiginleiki** = * **-eiginleikr.** * **-einkenni.** ***-einkunn**, **I.** aðaleinkenni. **2.** meðaltal allra einkunna (við próf). ***-féhirðir.** ***-féhirzla** (t. d. ríkisféhirzlan, D. *Finantshovedkasse).* ⊤†**-festr**, sjá: *alaðs-festr.* ***-fjallgarðr.** ***-fjárhirzla**=*-féhirzla.* ***-fjöldi**, allr þorri. ***-foringi.** *a* **-forseti**, landstjóri í lýðlendna-sambandi (í N.Am.), Frkl. 63. ***-frumkvöðull.** ***-fundr**, **I.** sá (árs-)fundr félags, þar sem aðalmálum þess er ráðið til lykta (reikningar úrskurðaðir, stjórn kosin osfr.). **2.** helzti, merkasti fundr. **-fylking.** ***-fyrirhugun**, -tilgangr,-ætlunarverk. ***-fyrirliði.** ***-fœða.** ***-galdr**, helzti, mesti vandi(nn). ***-galli.** ***-gangrúm**, helzta autt rúm, er ganga má: *-g. eftir miðjum garðinum*, Lach. 15. ***-garðr.** ***-gata.** ***-girnd**, JÞ, I, 43. ***-gjá.** ***-góðr**, mjög góðr (í sér). ***-grein.**

*-**grundvöllr**. *-**gröftr**, helzti, stœrsti skurðr, ræsi, LFR, II, 36. *-**guð(dómr)**, Ið. SG. 120. *-**gœði**. -**haf**, **I**. úthaf(ið). * **2**. helzta haf, Frkl. 16. *-**hafsguð**, ÆTH, 57. *-**handrit**. *-**hátíð**. *-**heimkynni**. *-**helgidómr**, LLH, 113. *-**hellir**, **I**. helzti hellir(inn). **2**. meginhellir *(and.:* afhellir). -**henda**, **I**. *-h. meiri* = full alhenda, það er dróttkvæðr háttr með tveim aðalhendingum í hverju vísuorði, t. d.: *Frama skotnar gram, gotnum | (gjöf sannask) röf spannar*. **2**. *-h. minni*, dróttkvæðr háttr með tveim aðalhendingum í 2., 4., 6. og 8. vísuorði, en tveim skothendum í 1., 3., 5. og 7. vo., t. d.: *Samþykkjar fremr sökkvi | snarr Baldr hjarar aldir*. -**hendingar**, *kv. flt*, tvær samstöfur í sama vísuorði, með sama raddstaf í og sama málstaf eða sömu málstöfum á eftir (nema þær endi á raddstaf), svo sem: *rek—tek, kall—fall, frá—grá*. -**hendr** lo.: *þetta er -hent*, þetta er með aðalhendingum. *-**her**, meginher. *-**herfylking**. *-**herstjórn**, **I**. helzta stjórn hersins. **2**. yfirherstjórn. *-**hlunnindi**. -**hlutr**. -**hluttaka**. *-**hlynnindi**. *-**hnöttr**. *-**hreyfing**. *-**hugsun**. *-**hvöt**. *-**höfn**. *-**höfundr**. *-**innihald**. *-**inntak**. *-**jarðstjarna**, Urs. 43, 82. *-**kaupstaðr**. *-**kaupstefna**. *-**keisari**, yfirkeisari. -**kelda** Karlm. 4, 2. -**kirkja**, **I**. meginkirkja(n) *(and.:* forkirkja, stúka). * **2**. heimakirkja *(and.:* annexía, aukakirkja, útkirkja). * **3**. helzta k. (í borginni), Skír. XIII, 32. *-**kraftr**, JÞ, II, 565. *-**krossferð**. *-**kvæði**. *-**kyn**. *-**land**. -**lega** a. † **I**. gersamlega; mjög svo: *a. dauðr*, gersaml. d.; *a. gamall*, fjörgamall. * **2**. að miklu e. mestu leyti, nær einvörðungu: *verðið fer a. eftir gœðum, en lítið eftir stœrð*. *-**litr**. *-**lykill**, FjÞ, 85. *-**lýsing**. *-**lögbók**. *-**lögmál**. -**maðr**, helzti maðr. *-**mál**, **I**. upphafleg tunga, sem aðrar eru af runnar. **2**. helzta, almennasta tunga: *-málið er enskan, þótt ýmsar heyrist þar fleiri tungur talaðar*. **3**. helzta umtalsmálið: *snúa sér að -málinu*. **4**. (réttarf.) höfuðrekstr máls: *gjafsókn nær eigi að eins til -málsins, heldr og til vitnaleiðslu og annara dómstarfa*, L, 12/7 1878, 4. gr. **5**. upphaflega málið, sem höfðað er *(and.:* gagnsök). *-**malmr**. ⁋-**málspartr**, höfuð-aðili, Klp. VIII, 105. *-**málsverðr** = *-**máltíð**, **I**. helzta máltíð (dag hvern). **2**. aðalréttir málsverðar; það sem málsverðrinn er einkum folginn í. *-**mark**, **I**. (höfuð)mark á skepnu *(and.:* undirben). **2**. höfuðstefna, höfuðtilgangr. *-**máttarefni**, það efni e. sá hluti, sem mestr máttr er í: *sumstaðar myndar [brjóskið] -m. ýmissa líffœra*. *-**megin**, allr meginhluti, NF, III, 101. ○-**meiðr**, meginstofn (trés), JÞ, 254. -**mein**, ⊙ **I**. mikill áverki, Fms. **2**. helzta mein. *§-**meining**, -skoðun, LFR, II, 71. *-**merking**. *-**mið**, **I**. höfuðtilgangr. **2**. helzta fiskimið. -**merki**, -flagg, -fáni. *-**mildi**, guð(s mildi), LFR, VIII, 108. *-**mismunr**. *-**móðir**, frummóðir (Eva), Milt. 218. ⁋-**munstr**: *allra veralda | aðalmunstr*, -fyrirmynd, Klopst. 11. *-**mynd**. ○-**náð**: *eilíf aðalnáð* (Kristr), Klopst. VIII, 320. *-**nafn**. *-**nafnaskrá**. *-**nefnd**. *-**niðrstaða**, MillFr, 138. *-**næring**. *-**orsök**. *-**orrusta**. *-**pípa**. *-**póstmeistari**, yfirstjóri póstmála *(Postmaster general)*, SmSp. 80. *-**próf**, **I**. höfuðtilraun. **2**. höfuðsönnun. **3**. höfuð-kunnáttu-reynsla, Rgl. 12/7 1877, 10. gr. *-**rafkraftr**, Klp. VIII, 74. *-**regla**. *-**reitr**. *-**réttr**, helzti réttr (margréttaðs málsverðar). * **ríki**. *-**rit**, **I**. helzta rit. ⊥ **2**. frumrit *(and.:* þýðing). *-**ritari**. †-**ritning** = *-rit 1*. *-**rót**,

SgV. 198. *a*-**rúnir**, elztu rúnir(nar), BH. *-**röksemd.** [**aðals-** sjá: *aðal* og *aðall*]. *-**salr.** *-**samkomustaðr.** *-**setning.** *-**setr,** -aðsetr: *-setr sælunnar,* Milt. 167. *-**sigr.** *-**sjúkdómr.** -**skáli.** * -**skemtun.** *-**skilyrði.** *-**skifting.** *-**skrif,** ⊥ frumrit, LFR, VIII, vi; XIII, xii. *-**skylda.** *-**skýrsla.** *-**slagæð.** *-**sól.** *-**sparisjóðr,** SmSp. 78. *-**spurning.** *-**staðr.** *-**starf.** *-**stétt:** *á Íslandi eru tvær aðal-stéttir: embættismenn og almúgi,* FFH. '42, 133. *-**stigi.** *-**stigr.** *-**stjarna.** *-**stjórnandi.** *-**stofn,** **1.** meginstofn, bolr, á tré. **2.** *aðhylstu þinn -st.* [segir Adam við Evu], Milt. 103. **3.** helzti bústofn(inn). *-**stolpi.** *-**stræti.** ○-**stýrandi,** -stjórnandi, JÞ. I, 32. *-**stöð.** ○-**sunna,** aðalsól, Njóla, 46. *-**sæti:** *stafrinn »n« á í orðinu »svinnr« -s.,* LFR, VI, 152. *-**sök:** *mér skilst, að þar* [í lögunum] *sé talað um -sakir eða höfuð-sakirnar sjalfar, hvarum Sumarliði ei hefir dæmt nokkuð endilegt á Dranga-þingi,* Lþb. 1718, nr. 17. *-**talmi.** *-**talmun.** *-**tilgangr.** *-**tilskipun.** *-**tjald.** -**toft.** *-**torveldleiki.** -**tré,** bolr, stofn trés: *eigi munu kvistir betri en -t.,* Fms. IV, 33; *sá sem eignast -tréð,* | *eignast verður kvisti með,* GÍO, 290. *-**trú.** -**tröll,** algert tröll *(and.:* halftröll). -**tulkr,** helzti formælandi. †-**tuft,** N, = -toft. -**tunglkoma.** * -**umsjá.** * -**umsjón.** * -**umsjonarmaðr.** *-**undirrót.** *-**undirstaða.** *-**upphæð** * -**útflutningsvara.** * -**vandkvæði.** * -**vara.** *-**varningr.** *-**vegr.** *-**veiði.** *-**verk.** -**vín,** drúfna-vín, D. *ædel vin,* LFR, XII, 167. *-**vinna.** *-**vísindi,** flt. *a*-**vísindabók,** ⊥ alfræðibók, StReg. XXXVI. *-**von.** *-**yfirburðir,** flt. *-**þáttr,** **1.** helzti þáttr, hluti: *-þáttr í skaplyndi* [*e-s*], Árm. III, 95. **2.** -hluttaka: *hann átti aðalþáttinn í því fyrirtæki.* *-**þjóð.** *-**þjóðbraut.** *-**þræta.** *-**þrætumál.** *-**þýðing** = -merking. *-**æsing.** *-**ætlunarverk.** *-**ætt.** *-**öfgar,** flt.

* **aðall (-s)** án flt, *k,* **1.** megin(ið), þorri(nn allr), fjöldi(nn allr): *ekki veit ég, hvort þetta er alt féð hans; en það er víst a-inn af því.* **2.** herradómr, herraburðir, herraætt, löggöfgi. **3.** herrastétt; stétt þeirra manna, er hafa arfgenga tign. Í sumum löndum er þó tign manna af inum lægra aðli eigi arfgeng. Stétt löggöfgra manna. **4.** eðli: *fíll þekkir sinn aðal* (málsh.), Sch. — Sams.: * **aðals-barn,** aðalborið barn. *-**kona,** kona af aðli. *-**maðr,** maðr af aðli. *-**stétt.** *-**tign.** *-**ætt.**

ꝭ **Adams-epli** *kl,* barkakýli.

**áðan** *a.* † **1.** áðr: *löngu áðan,* Gísl. **2.** nýverið, nýlega: *rétt áðan.*

* **aðblástr** *k,* hvatning á laun, undirróður (til e-s ills).

**aðblástrarmaðr,** maðr, sem rœr undir, hvatamaðr (til e-s ills), Post. 38.

**aðbót,** aðgerð, bót, DI, II, 13; LFR, XI, 240.

*a* **aðbristi** *kl,* byrjun flóðs (er byrjar að falla að). [⊤ **aðbrysti**] Sch.

* **aðbúð** = *aðbúnaðr 2.*

**aðbúnaðr (-ar; -ir)** *k,* † **1.** umbúnaðr um lík, greftrun: *veita albúnað dauðum mönnum.* Eitt hdr. Eg. **2.** fœði, húsnæði og klæðnaðr; oft einkanlega: klæðnaðr (og sængrföt): *niðrsetningar eiga oft við að búa harðrétti og illan aðbúnað.*

* **aðburðr (-ar; -ir)** *k,* tilraun, viðleitni: *aðburðr er til alls fyrst* (málsh.), GÍO. Oftast í flt. -ir.

* **aðburðaleysi** *kl,* aðgerðaleysi, skortr á framtakssemi.

* **aðdá (-r)** *kv,* án flt., lofsemdarundrun.

* **aðdá (-ði, -ð)** *ás,* finna til aðdár yfir e-u e. láta aðdá í ljósi; dá e-ð; dást að e-u, dásama e-ð: *aðdáðu það allir, hve stillilega hann talaði, svo þungt sem honum hlaut að vera niðri fyrir.*

┬ **aðdáanlegr** *lo,* aðdálegr, dásamlegr.

* **aðdáari** *k,* dásamari.

* **aðdálegr** *lo,* aðdárverðr, dásamlegr.

* **aðdárverðr** *lo,* dásemdarverðr, dásamlegr.

┬ **aðdáun (-ar)** *kv,* dásömun, aðdá.

┬ **aðdáunarverðr** *lo,* aðdárverðr, dásamlegr, dásemdarverðr.

* **aðdeila (-di, -t)** *ás,* deila að, deila sundr, greina sundr, aðgreina: *ég gat ekki aðdeilt þá með berum augum; aðdeild ráðsmenska,* (tví)skift r., EspÁ, X, 74.

**aðdjúp (-s)** *kl,* Háv., = djúp at landinu, SbKG.

**aðdjúpr** *lo,* djúpr upp að landi.

* **aðdragandi** *k,* **1.** orsakir, sem á undan eru gengnar; undirbúningr. *Sn.* tildrög. **2.** egl. leið, sem smábreytir sér meir og meir: *er þaðan jafn a. inn í vindbeltið,* Björl.

* **aðdráttar-afl** *kl,* kraftr, sem dregr til sín e. að sér.

* **aðdráttar-kraftr** *k,* = aðdráttar-afl.

* **aðdráttar-lög** *kl flt,* lög(mál) aðdráttar-aflsins.

**aðdrátta-maðr,** maðr, sem hefir mikla aðdrætti (2).

**aðdráttr (-ar)** *k,* egl. það að draga að (sér). * **1.** aðdráttarafl, Urs. 105. **2.** öflun fanga til bús, einkum matvista: *hafði hann aldrátt af þeirra búi,* Háv.Í. Nú tíðast í flt.: *gáfust illa aðdrættir þar . . . við sjálft lá að þeir mundu verða hungrmorða.* † **3.** aðstoð: *veita aldrátt til e-s,* DI, I, 234. † **4.** áherzla(?): *talar svá með aldrætti nökkurum,* Ev. 90[62]. **5.** tildrög, tilefni, HE, I, 244.

* **aðdreginn** *lo,* **1.** mjókkandi; sem gengr að sér. **2.** aðframkominn, að dauða kominn (sbr. *dregr at e-m,* sjá: *draga).*

* **aðdrótt un (-unar; -anir)** *kv,* ásökun, sem gefin er í skyn, en eigi beint fullyrt: *a. e-s; a. um e-ð.*

*x* **aððú,** að þú.

**aðduga** = *duga (að).*

**aðdugnaðr (-ar)** *k,* hjalp, aðstoð.

* **aðdýpi** *kl,* = *aðdjúp.*

* **ádeila,** *kv,* aðfinsla, aðfinning. — Sams.: * **ádeilu-kvæði** *kl,* umvöndunarkvæði. * **-maðr,** maðr, sem átelr: *á. aldarfarsins,* maðr, sem finnr að aldarfarinu. * **-skáld,** umvöndunarskáld; háðskáld.

* **aðelskr** *lo,* elskr að; *a. e-m,* Sch.

*a* **ádess,** *kl,* saur, sem fellr e. klínist á e-ð [sbr. *dess* og *dessast*] VF? BH.

**aðfall,** *kl,* flœðandi sjór; aðstreymi sjávarins meðan er að flœða *(and.:* útfall). ○ ógegl. aðstreymi: *almúgans aðfall, | sem að streymdi,* Klopst.

**aðfang** *kl,* (helzt í flt. *aðföng),* = *aðdráttr 2. alföng skal bíta sem ei kunni þrjóta,* GÍO, 39. — Sams.: **aðfangadagr** *k,* [affanga-], næsti dagr á undan stórhátíðum (þá er menn flytja heim vistir og veizluföng til hátíðarinnar): *a. Jóla, Páska, Hvítasunnu.* **-dags-kveld,** *kl,* = **-kveld,** kveld aðfangadags. † **aðfangs-dagr,** † **-kveld** = aðfanga-dagr, aðfanga(dags)kveld.

* **aðfara-nótt** *kv,* nóttin á undan e-m degi: *aðfaranótt Fimtudags,* nóttin milli Miðkudags og Fimtudags.

* **aðfarar-ákvæði** *kl,* ákvæði (í dómi) um aðför að lögum: *aðfarar-ákvæðið hafði gleymst úr dóminum, svo að honum varð ekki fullnægt.*

**aðfarar-dómr** *k*, dómr, sem heimilar dómhafa aðför að lögum (sbr. *aðför)*.

* **aðfarar-maðr** *k*, *aðf.-menn*, þeir menn, sem gera aðför að lögum, Tyro, 272.

* **aðfarar-mál** *kl*, mál um aðför að lögum, EspÁ, X, 2.

**aðfarar-þing** *kl*, (dóm)þing, þar sem manni er dœmdr réttr til að gera (láta gera) e-m aðför að lögum.

* **aðfenginn** *lm*, fenginn að ɔ: frá öðrum (utan heimilis).

* **aðfenni** *kl*, fönn, sem leggr upp að húsi, garði e. þvíumlíku.

**aðferð** (sbr. *atferð) kv*, ♂ **1.** aðför. **2.** háttr, hversu að e-u er farið: *hverja atf. vér skulum hafa*, Nj.; *ýmsar aðferðir má hafa til að salta kjöt; ný aðferð hér á landi.* † **3.** háttr, siðr: *snúast til munka atferðar ok fyrirláta veraldlegt líf.*

* **aðferðar-ávísun** *kv*, fyrirsögn um, hversu að e-u eigi að fara, LFR,III,x.

△ **aðferðarfrœði** *kv*, frœði um (rétta) aðferð (í vísindum), E. *methodology; Sn.* skipulagsfrœði, JÓ.Fl.

* **aðfinning** *kv*, útásetning; umvöndun.

* **aðfinningasamr** *lo*, gefinn fyrir að finna að.

* **aðfinningasemi** *kv*, tilhneiging til að finna að, setja út á *(sn.* aðfyndni).

* **aðfinninga(r)verðr** *lo*, sem á aðfinning skilið; vítaverðr.

† **aðflutning** *kv*, = *aðflutningr 1.*

* **aðflutninga(r)laus** *lo*, án aðflutninga (nauðsynja til landsins).

* **aðflutninga(r)leysis-ár** *kl*, »annus mercium (ad victum pertinentium) expers«, Sch., þ. e. ár, þá er engin (mat)vara fluttist til landsins.

* **aðflutningr** *k*, **1.** flutningr til e-s (manns e. staðar): *Í Skaftafells-sýslum er mjög örðugt um alla aðflutninga*, örðugt að flytja til sín þá hluti, er menn þarfnast. **2.** flutningr varnings til lands frá útlöndum: *Vöruskortr mikill norðanlands, þar eð hafís bannaði alla aðflutninga.* — Sams.: * **aðflutnings-bann**, bann gegn því að flytja einhvern varning til landsins: sérst. bann gegn aðflutningi áfengra drykkja: *atkvæðagreiðsla um a.-b.* (1908). ***-gjald**, tollr á aðfluttum varningi (frá útlöndum). * **-kostnaðr**, kostn. við aðflutning varnings: *kaupmaðr verðr að reikna bæði aðkaupsverð og a.-kostnað á varningnum, sölukostnað, rýrnun o. fl.* ***-tollr** = *a.-gjald.*

* **aðfluttr** *lm*, fluttr til landsins: *aðfluttar vörur (and.* útfluttr).

**aðfram** *a*, (að fram), ♂ **1.** til þrauta, til loka: *þegar aðfram kom*, Skír.VII, 14, þá er til þrauta rak, þá er á átti að herða. **2.** að dauða, bana: *aðfram kominn*, kominn að bana.

* **aðfyndinn** *lo*, = *aðfinningasamr.*

* **aðfyndni** *kv*, **1.** aðfinningasemi. ⊥ **2.** aðfinning, Fjöl. IV, *1*, 15.

⊥ **aðfyndnisverðr** *lo*, aðfinningarverðr.

*a* **aðfœrsla**, *kv*, (sbr. *atfœrsla)*, [egl. nálgun], aðflutningr, Fjöl.

*a* **aðfœrslutollr** = innflutnings-tollr.

**að|för** [sbr. **atför**], **(-farar)** *kv*, heimför til dœmds manns, til að fullnœgja dómi. Í fornöld gerði dómhafi sjalfr aðförina, en nú gerir valdsmaðr (fógeti) a. eftir kröfu dómhafa. [Sams. *aðfara(r)-*, sjá stafr.röð].

**aðganga** (sbr. **atg.**) *kv*, * **1.** kostr e. réttr á að koma til e-s: *hann fékk (náði) ekki aðgöngu*, fékk ekki að koma inn, komast að; *a. að bókasafni; a. að söngskemtun.* * **2.** það að ganga að e-u, sætta sig við, þiggja e-ð, taka e-u: *Það er hart aðgöngu*, þung-

bært, erfitt, ilt að verða að taka því. — Sams.: *aðgöngu-*, sjá stafrófsröð.

**aðgangr** *k*, (sbr. **atg.-**), * **1.** ólæti, hávaði: *óttalegr aðgangr er í krökkunum! Skárri er það nú aðgangrinn!* * **2.** = *aðganga 1.*: *hann sótti um að fá að komast í skólann, en fékk ekki aðgang, af því að hann var of gamall.* * **3.** réttr til að geta fengið e-ð: *þeir eiga aðgang að prestsembætti.* * **4.** réttr til að heimta e-ð af e-m: *hann á aðganginn að mér. Ef hann bregðst, þá eigið þér | aðganginn að hinum,* Bra. I, *1*, 63. *Hver á aðgang að sínum sala* (máltæki).

*a* **aðgangs-faðmr** *k*, ?: *halfr fimti a. af gömlum kaðli*, Lpb. 1680, nr. 43 (um vogrek).

* **aðgangsmiði** *k*, miði, sem gefr rétt til *aðgangs 2 (= aðgöngu-miði).*

* **aðgangsréttr** *k*, réttr til aðgangs 2.

**aðgengilegr** *lo*, * **1.** sem gott er að koma(st) að: *hér er ekki aðgengilegt*, hér er ekki gott aðkomu, ekki góð aðkoma (alt í óreglu, illu standi, ásigkomulagi). * **2.** auðnotaðr, sem allir eiga aðgang að; *safna . . . nytsömum skýrslum og gera þær öllum sem aðgengilegastar*, sem auðveldast að fá aðgang að þeim. * **3.** auðveldr: *tómar, þurrar upptalningar, sem gera bókina lítt aðgengilega alþýðu; hversu þungt eða óhugðnæmt efni, sem hann ritar um, þá hefir hann lag á að gera það almenningi ljóst og aðgengilegt að lesa.* * **4.** sanngjarnlegr, fýsilegr: *aðgengilegt agn*, fýsilegt, Bps. I, 372; *aðgengileg kjör; a-t boð; a-ir kostir.*

**aðgerð (-ar, -ir)**, *kv*, (sbr. *atgerð*). **I.** í flt. starf (að e-u): *embættis-aðgerðir*, Lpb. 1782, nr. 2.; atferli: *þegar ég kom, var alt brotið og bramlað, og þótti mér það ljótar aðgerðir;* fyrirtæki (starf): *þeir er í þessa heims atgerðum frægðust ok vinsældust.* **2.** í flt. tiltektir, ráðstafanir, framkvæmdir: *litlar atgerðir*, Vatnsd.; *var eigi vænt til atgerða*, Grett.; *rekja aðgerðir í þessa átt út í æsar*, Ið. VII, 69; *hér þarf fljótra a-a við*, þarf að bregðast fljótt við að gera e-ð. **3.** viðgerð: (á biluðum hlut, húsi, verkfæri o. s. frv.), DI, V, 145; *aðgerðin á úrinu kostar 3 kr.* **4.** handlækning: *veita aðgerð*, Gfh. *passim.* † **5.** listir, kunnátta: *alls konar a-um, er kvenmanni sómir at hafa*, Trist. 171 (sbr. 27, 69).

**aðgerðalaus** *lo*, **I.** framkvæmdal., iðjulaus, sem ekkert hefst að: *að horfa a. á; þola e-ð atgerðalaust*, án þess nokkuð sé gert til réttingar; *hann er alveg aðgerðalaus*, afskiftalaus, hefst ekki að. † **2.** lækningarlaus: *a. sótt*, sjúkdómr, sem eigi er leitað lækningar við. * **3.** *aðgerðalaust veðr*, »veðr þegar hvorki þornar né dignar«, SL., Sch.

* **aðgerðaleysi** *kl*, skortr á framkvæmdum, starfsemi e. atorku; iðjuleysi.

* **aðgerðalitill** *lo*, framkvæmdalitill; afskiftalitill; sem lætr fátt til sín taka.

**aðgerðamaðr**, maðr, sem gerir að hlutum, gerir við hluti: *hann er beztr a. reiðhjóla hér í bænum;* † séril. um lækningar: *atgerðamaðr at meinum manna.*

* **aðgerðamikill** *lo*, mest haft með neitun: *ekki a. = aðgerðalitill.*

* **aðgreina (-di, -t)**, *ás*, **I.** skilja sundr: *fyrst er að a. heimaféð og afbæjarféð og setja sitt í hvora rétt.* **2.** gera mismun á; sjá mun á: *a. hugsanfrelsi frá málfrelsi; a. gott og ilt; það er oft*

*ill að a. n frá u í óglöggri rithönd,* þekkja sundr.

**aðgreinanlegr** *lo,* sem auðið (e. auðvelt) er að aðgreina

* **aðgreining** *kv,* skilnaðr, sundrgreining, greinarmunr.

* **aðgreiningarmerki** *kl,* merki til aðgreiningar; séríl. lestrarmerki, greinarmerki.

* **aðgróinn** *lo,* rigningarlegr, úrkomulegr, SL., Sch.

* **aðgæta** *ás,* **1.** gefa (ósjálfrátt) gaum að: *ég hefi ekki aðgætt það,* tekið eftir því; **2.** (sjálfrátt) athuga, rannsaka: *a., hvort skipin eru bundin; fara út og a., hverjir komnir eru; a., hve margir eru eftir; það er aðgætandi, að . . .,* það er vert að íhuga, að . . .

* **aðgætinn** *lo,* **1.** athugull: *pilturinn er a.,* eftirtektasamr. **2.** varfœrinn, sem gætir að sér: *það er óhætt að drengrinn fari einn; hann er a.* **3.** aðsjáll, naumr í útlátum: *ekki kalla ég hann nízkan, en hann er a.*

* **aðgætni** *n,* **1.** tilhneiging til að vera aðgætinn: *a. hans er alkunn.* **2.** eftirtekt, athugun: *það verðr að hafa aðgætni á því.* **3.** varasemi, varfœrni: *einstigið er tæpt, en fært er það með a.*

* **aðgætnisverðr** *lo,* **1.** eftirtektarverðr, íhugunarverðr. **2.** varhugaverðr.

**aðgæzla** *n,* **1.** = *aðgætni 2. og 3.* **2.** eftirlit.

* **aðgæzlulaus** *lo,* **1.** athugalaus, eftirtektalaus, gálaus: *a. hegðun sumra, að kœla sig sveitta og móða,* LFR, XV, 16. **2.** sem enginn lítr eftir: *óvitinn er skilinn eftir a.,* eftirlitslaus.

* **aðgæzluleysi** *n,* skortr á aðgæzlu.

* **aðgæzlulítill** *lo,* **1.** athugalítill, eftirtektalítill. **2.** sem lítið eftirlit er með.

* **aðgæzluverðr** *lo,* = *aðgætnisverðr.*

* **aðgöngumiði** = *aðgangs-miði.*

* **aðgöngurèttr** = *aðgangs-réttr.*

**aðhald** *n,* † **1.** hófsemd, stjórn á sjalfum sér, sjalfsafneitun; bindindi (í fornri merking): *nökkut athald í, at gera eigi sinn vilja,* sjalfsafneitun; *þjóna guði með alls konar athaldi,* bindindissemi. * **2.** líkamleg aðþrýsting, stuðningr: *sé bókahillan ekki full, þurfa bœkrnar eitthvert a. þeim megin, sem skápshliðin heldr ekki að þeim; annars detta yztu bœkrnar um koll.* * **2.** andleg aðþrýsting, áhrif: *hann er hiskinn við lærdóminn og þarf aðhalds með; folgin í siðferðislegu a.-i almenningsálitsins; beita a-i við e-n; það ætti að vera talsvert a. í því folgið.*

† **aðhaldsmaðr,** *k,* bindindismaðr (í fornri merking).

† **aðhaldstaumr** *k,* taumr eða band (ólíkaml.) á e-m, til að halda honum í skefjum: *lina athaldstaum,* vægja aðhaldið.

△ **aðhelda** *kv,* áhald til að halda að (t. d. bókum í hillu).

* **aðhjúkrun** *kv,* aðhlynning (við sjúka menn e. ósjalfbjarga).

**aðhlátr** *k,* hlátr að e-u; spott: *veita hæðileg orð ok athlátr; hann er hafðr að a-i.*

* **aðhlátrsefni,** efni til að hlæja að, Fjöl.

* **aðhleyping** *kv,* það að hleypa e-u að, inn, til: *a. lofts.*

* **aðhlynning** *kv,* **1.** aðhjúkrun. **2.** stuðning, efling: *a. að skaldskap og vísindum.*

**aðhlœgi** *kl,* það sem hlegið er að: *verða til a-is,* verða mönnum að athlátri.

***aðhlœginn** *lo*, gjarn á að hlæja að e-u e. e-m.

**aðhlœgilegr** *lo*, = *hlœgilegr*.

***aðhverfa** *kv*, framhlið (á peningi e. minnispeningi); sú hliðin, sem (aðal)-myndin eða (aðal)letrið er á *(and.* fráhverfa).

***aðhyggjandi (-a)** *k*, athugull maðr JÞ, I, 182.

**aðhyllast (-hyltist)** *pms*, hœnast að, þýðast; veita fylgi; vingast við: *a. e-n; a. þennan engil í bœnum várum; ætlum vér þann yðvarn at a., er mestan gerir várn sóma; drengrinn vildi aldrei a. stjúpa sinn*, þýðast.

**aðild (-ar; -ir)** *kv*, réttr eða skylda aðila (s. þ. o.).

**aðildarmaðr** *k*, = *aðili*.

**aðili (-a, †-ja; -ar, †-jar)** *k*, sá er rétt hefir e. skyldu til að sœkja e. verja mál að lögum; sœkjandi e. verjandi máls: *a. sakar, máls; a. að sök, máli.*

**aðkall** *n*, **1.** tilkall, krafa: *hann gerir a. til mín um meðlag með barninu.* ***2.** annríki, aðsókn, það að margt e. mikið kallar að e-m: *hann hafði allan daginn mikið a. af mönnum, er þurftu að reka ýmis erindi við hann.*

**aðkast** *kl*, **1.** ásakanir, aðdróttanir, hnífilyrði, hnútur, illmæli, last um e-n: *a. óvitúrra manna.* **2.** hringiða, bakstreymi, öfugstreymi: *rak hann ofan lengra að nokkru a-i*, HE, III, 228.

***aðkasts-geisli** *k*, geisli, sem ljósið kastar beint að; óbrotinn geisli: *a. ljóssins er oftast nær miklu heitari en aftrkasts-geislinn*, Fisch. 282 *(andst.:* aftrkasts-geisli).

***aðkasts-horn** *kl*, (hvast, rétt e. sljótt) horn, það sem myndast milli aðkasts-geisla og lóðréttrar línu á fletinum, sem hann fellr á: *því hvassara sem a. ljósgeislans er, því daufari verðr birtan á fletinum*, Fisch. 282.

***aðkasts-lóð** *kl: sú lína, sem feld væri þráðbeint á skuggsjár-flötinn í depli þeim* [depill þann], *sem aðkasts-geislinn snertir hann í, heitir a.*, Fisch. 284.

***aðkasts-stefna** *kv*, hreyfingarstefna e-s hlutar að marki því sem hann hittir: *strykið ba er a. kúlunnar*, Fisch. 63.

***aðkaup** *kl*, kaup á varningi (eink. þeim er ætlaðr er til að selja aftr).

***aðkaupsverð** *kl*, verð það sem hlutr hefir verið keyptr fyrir: *enginn kaupmaðr getr lifað á því að selja varning sinn við a-i (and.:* söluverð, útsöluverð).

***aðkenning** *kv*, **1.** snertr af sjúkdómi e. tilfinning: *a. af þeim veikleika*, LFR, XV, 140. **2.** keimr, snertr af bragði: *ofurlítil a. af reykjarbragði.*

***aðkeyptr** *lm*, keyptr (af öðrum), ekki framleiddr e. uppalinn af eigandanum sjalfum. Sbr. *ala—upp* (s.v. »ala«).

**aðkoma** *kv*, **1.** koma (til e-s staðar e. að e-u): *það var svipleg a., bœrinn ein öskuhrúga og fólkið alt inni brunnið.* † **2.** þjáning, sársauki.

***aðkomandi** *lm* og *n. k*, **1.** gestkomandi, kominn að utanheimilis eða utanbœjar: *ég er hér a.; þarna er heimafolkið; — þetta eru aðkomendr*, gestir. † **2.** sem fyrir kann að koma.

**aðkominn** *lm*, † **1.** staddr, farinn, settr: *vel, illa, a.* † **2.** útleikinn. **3.** = *aðkomandi.*

***aðkomu-folk** *kl*, aðkomandi eða aðkomið folk. — ***-kona.** — ***-maðr.** — ***-skip**, Klp. VI, 187. — ***-sótt**, sótt, inn flutt frá öðrum löndum, BH. — ***-þjóð**, þjóð, sem kemr e. flytst í land, þar sem önnur þjóð er fyrir, OLfr. II, *3*, 307.

* **aðkreppa** *kv*, aðþrengsli, aðþrýsting: *a. heilans*, þrýsting að heilanum, Sch. *féð er í mestu a-u hér.*

* **aðkreptr** *lm*, sem er í aðkreppu.

**aðkvæðalaus,** * **aðkvæðalítill, aðkvæðamikill,** sjá: *atkvæða-*.

* **aðlaðandi** *l*, búinn þeim eiginleikum, sem laða menn að sér. *Sn* geðfeldr.

* **aðliðandi, 1.** *lm*, sem nálgast: *a. Jólum*, er leið að J. **2.** *lm*, smáhallandi: *a. bratti.* **3.** *n. k*, = a. bratti.

§ **aðmíráll (-s; -ar)** *k*, herflota-foringi, embættisheiti œðsta foringja herskipastóls. Sams.: **aðmíráls-flagg; -skip.**

* **aðnjótandi** *lm*, sem fær að njóta e-s: *verða e-s a.*, fá að njóta e-s, hreppa e-ð.

**áðr** *a, ms*, **1.** fyrr: *litlu á.*, skömmu fyrr; *lægra í horninu en á.* lægra en var á undan; *á. en þeir koma*, fyrr en þeir koma; *Ali var á.* | *öflugastr manna*, fyrrum, SE. **2.** = áðr en: *árdegis á. menn váru upp staðnir*, áðr en menn vóru komnir á fœtr; *á. hann kœmi sjalfr.* **3.** (eftir neitun) unz: *var ekki svipstund á. stofan brann; eigi langt á. byggðin tók viðr.* **4.** nú þegar: *ek hefi á. ráðit brullaup mitt.* **5.** í orðtœkinu: *sem á.*, þrátt fyrir það, samt; *hon bað hann þat eigi gera, en hann tekr hana sem á.*, alt um það, engu að síðr.

○ **áðrvitund** *k*, forvitra, vitund fyrir fram: *ókomins á.*, Milt. 174.

* **ádráttr (-ar)** *k*, **1.** dráttr nets fyrir fisk (síld, silung, lax), það að draga (net e. nót) að landi: *Þeir fengu 600 tunnur af síld í einum ádrætti*, einu kasti. **2.** vilyrði, halfgildings-loforð: *ég fékk hjá honum ádrátt fyrir því; hann gaf mér engan ádrátt*, ekkert vilyrði, enga von (sbr. *dragast á e-ð).*

* **ádráttar-átylla** *kv*, von, gefin með ádrætti 2. — ***-net, -nót**, net, nót, til ádráttar 1. — ***-veiði**, veiði, sem fæst með ádrætti 1.

† **ádreif** *kv*, ýring vatns (e. vökva) á e. yfir e-n e. e-ð.

**ádreifing** *kv*, sú athöfn að stökkva vatni á (e. vökva) e-ð e. e-n. — Sams.: * **ádreifingar-vatn,** (vígt) vatn til að stökkva á e-ð e. e-n, BH.

*a* **ádrep** *kl*, ágrip BH.

* **ádrepa** *kv*, **1.** fáorð ummæli (helzt í riti) um e-ð; halfyrði; það að drepa á e-ð, minnast stuttl. á e-ð: *Lítil á. um þúfnasléttun; of umfangsmikið mál til þess, að það verði rökrætt rétt í á-u.* **2.** ofanígjöf, ávítur: *það var heldr en ekki á., sem ég fékk hjá h-m* e. *sem hann gaf mér.*

* **aðrétta** *kv*, egl. það, sem að e-m er rétt, séríl. um (hörð e. ill) orð, sem að e-m er beint: *skárri er það nú aðréttan!*

* **ádrif** *kl*, vatns-drífa, sem á eða yfir e-ð kemr, EJO. (Sbr. »Köld er sjávar drífa«, Sturl.).

**áðrnefndr** *lm*, áðr (fyrr) nefndr.

*a* **ádropinn** *lh*, sem dropið hefir á e-ð: *sprunginn af ádropnum eldi*, Klopst. 9. b.

**ádrykkja** *kv*, það að drekka til e.s, drekkast á við e-n, drekka e-m til. Í fornöld hagaði ádrykkju þannig, að (tignari) maðr drakk af horni eða bikar og sendi svo hornið öðrum, er hann vildi sóma sýna, og drakk sá af sama horninu, og gekk svo út kveldið, Fms. VI, 391, 439; Bps. I, 19, og víðar: *sitja fyrir ádrykkju e-s; sat Gizur fyrir á-u konungs, innar en lendir menn.* Nú er á. svo, að maðr lyftir staupi sínu fullu og nefnir nafn

þess borðgests, er hann vill til drekka, en sá lyftir sínu staupi einnig, og drekkr svo hvor af sínu, og gildir ádrykkjan það staup eitt, og eigi meira; nú er á. vinsemdarmerki eitt eða virðingar (án tillits til, hvor tignari er?).

† **ádrykkr (-jar; -ir)** *k*, ágjöf; sjór, er gengr á e. yfir skip.

† **ádrykkju-ker,** *kl*, ker, sem menn drekkast á úr. Vígl. [4. kap., í útg. 1756; í hdr., sem yngri útg. (1860) fylgir, stendr »drykkju-ker«, sem er ólíklegt orð f. »drykkjar-ker«].

♂ **aðseta** *kv*, dvalarstaðr, dvalfang; heimili: *Þeir höfðu þar a-u um vetrinn; þar er konungs a.*

**aðsetr (-setrs)** *kl*, **1.** dvalstaðr, dvalfang, stundar-bústaðr: *ég veit ekki, hvar hann hefir a. meðan hann dvelr hér í bænum.* **2.** heimili, (fastr) bústaðr: *farið . . . vel á því, að kaupmenn hafi a. í sveitum.* **3.** konungsbúseta, konungs-bústaðr.

* **aðsetrs-borg** *kv*, borg, sem konungr (þjóðhöfðingi, stjórn) hefir aðsetr e. heimili í, Milt. 183; Þús. I, 196.

* **aðsetrsmaðr** *k*, maðr, sem hefir dvöl e. aðsetr est.: *a. á vitlausra-spítala*, NF, III, 133.

* **aðsetrsstaðr** *k*, **1.** = aðsetr 2.: *hér er a. hvalveiðimanna á sumrin.* **2.** konungs-bústaðr.

† **aðsetuprestr** *k*, N., prestr, sem á heima á kirkjustaðnum.

* **aðsig** *kl*, **1.** það að síga að, aðrensli: *af a-i tára fá augu mín kvöl*, StgThL. **2.** það að smá-nálægjast: *þeir eru nú í a-i með að fara á engjarnar*, eru að búa sig til að . . .; *sá tími er í a-i*, er að smá-nálgast.

* **aðsjáll** *lo*, naumr (í útlátum). *And.*: ör, örlátr, eyðslusamr: *Inn aðsjáli dæmir inn eyðslusama fyrir óframsýni*, JGHv. 97.

⊤ * **aðsjálni** *kv*, sá eiginleiki að vera, e. tilhneiging til að vera, aðsjáll e. naumr í útlátum.

α **aðsjón** *kv*, **1.** umsjón, tilsjón, eftirlit, Frkl. 46. ⊥ **2.** afbrýði, SýrakW, 9. k. ⊥ **3.** álagning e. niðrjöfnun skatts, BH.

* **aðskilja** *ás*, skilja að, skilja sundr; aðgreina, [OG]: *anda, sem unnast,* | *fær aldregi* | *eilífð aðskilið*, JH.

**aðskiljanlegr** *lo*, egl. sem greindr verðr frá öðrum; ýmislegr. Flt. *-ir*, ýmsir ólíkir, Klm. 206; Æv. 65.

* **aðskiljanleiki** *k*, **1.** hæfileiki til að verða greindr sundr, skilinn að: *a. efnis í tvö eða fleiri efni sýnir, að það er ekki frumefni.* **2.** mismunr, Marg.

**aðskilnaðr** *k*, **1.** skilnaðr, samvista-slit, sambands-slit: *þau báru angr ok harm um atskilnað sinn*, Trist. 118.; *a. stendr oss til boða*, ɔ: slit sambands milli tveggja ríkja, JÓAlv. 31.; *a. ríkis og kirkju.* **2.** mismunr, greining: *a. ills og góðs.*

† **aðskjótaðr** *lo*, fyrir kallaðr, staddr, ásigkominn: *vel, illa a.*

* **aðskorinn** *lm*, nærskorinn, sem sniðinn er e. fellr þétt að líkamanum: *a-in föt*, Campe, 202.

* **aðskot** *kl*, BH, **1.** skens. α **2.** óvænt aðkoma.

* **aðskotadýr** *kl*, egl. dýr, sem skýtst að þar sem það á ekki heima: dýr aðkomið þar sem það á ekki heima, afbæjar-dýr; einnig um menn (í óvirðulegu sambandi): maðr, sem kemr þangað, e. í þann hóp, sem hann á ekki heima í, e. þar sem hann er eigi velkominn.

*a* **aðskotaillr** *lo*, BH, **1.** illmáll (á bak). **2.** skensinn, illskensinn.

* **aðskotasótt** *kv*, hlaupasótt (morbus febrilis meteoricus), Sch.

* **aðskotsmunnr** *k*, egl. hnífilyrðakjaftr, illyrðakjaftr; um mann: sá sem gefinn er fyrir að skjóta illyrðum að mönnum, Asn.

* **aðskotsyrði** *kl. flt*, skensyrði, hnífilyrði, BH.

* **aðsláttr** *k*, **1.** kœling, sjúkdómr sprottinn af kœlingu. **2.** ?: *par eru miklir aðslættir*, Sch.

**aðsókn** *kv*, **1.** = *atsókn*. **2.** mikið aðstreymi manna (til e-s e. að e-u e. e-m): *föng váru lítil, en a. mikil; hafa mikla a. af sjúklingum; mikil a. að sjónleikum*. * **3.** forboði gestkomu; svefnþungi, (illir) draumar e. önnur óvanaleg viðbrigði (aðsvif, slys) á undan komu gests, sem hefir »fylgju« (sjá þ. o.), sbr. *sœkja að*.

† **aðsóknarmaðr** *k*, sjá: *atsóknar-maðr*.

* **aðsóknarsamr** *lo*, um tíma þann er mikil aðsókn (2) er; annsamr: *hefi ég ekkert . . . aðsóknarsamara sumar . . . lifað*, ekkert sumar, er meiri var a., ÆBP, 75.

**aðsolginn** *lm*, bolginn; regnþrunginn, vætuþrunginn: *a.-ið loft*, BH.

† **aðspurning** *k*, eftirspurn: *hafði jarl mjök atspurningum leitt um þenna mann*, Flat. I, 216; OH, 24.

* **aðspyrja** *s*, spyrja (að): *Í fyrsta lagi aðspyr ég yðr, heiðarlegi brúðgumi*, Handb. pr.

**aðstaða** *kv*, † **1.** viðrvist, viðvera: *atst. heilagra tíða*. † **2.** fast sótt beiðni. † **3.** tilhjalp, aðstoð. * **4.** staða gagnvart e-u: *a. hans að því máli er svo löguð*, hann stendr svo að vígi í því máli; *eiga hægt (örðugt, ilt) aðstöðu*, standa vel, illa að vígi.

† **aðstaddr** *lm*, staddr að vígi, staddr: *vel, illa, a.; illa erut ér atstaddir, Noregsmenn*, illa standið þér að vígi, Fms. VII, 170.

* **aðstanda** *s*, endast til (e-s), anna (e-u), komast yfir (að gera e-ð): *ég get nú ekki aðstaðið þetta lengr*, get ekki annað því lengr; *meðan hann getr aðstaðið*, endst til, komist yfir.

* **aðsteðjandi** *lm*, snögglega aðkomandi, sem hraðar sér að: *a. stund ins sterka Dauða*, Klopst. 194.

**aðstoð** *kv*, hjalp, stuðningr. — Sams.: ***aðstoðar-andi**, Klopst. ***-bókavörðr.** ***-kennari.** ***-kona.** ***-laus** *lo*, hjalparlaus, stuðningslaus. ***-leysi.** ***-læknir.** ***-maðr**, hjalparmaðr. ***-prestr.** ***-ritari.** ***-ritstjóri.**

* **aðstoða** *ás*, hjalpa: *a. e-n*.

* **aðstoðari** *k*, hjalparmaðr.

* **aðstraumr** *k*, = *aðstreymi*.

* **aðstrengdr** *lm*, fastreimaðr, mjög þröngr: *bolrinn er a. um mittið*.

* **aðstreymandi** *lm*, sem streymir (rennr, drífr) að: *a. loft; folkið kemr a. úr öllum áttum*.

* **aðstreymi** *kl*, straumr að e. til: *hitinn rekr . . . loftið upp á við . . . og veldr þar með a-nu; a. landvörunnar; mesta a. af folki*.

*v* **aðstöðu-hagræði** *kl*, léttir í aðstöðu: *geri ég . . . mótstöðumönnum mikið a.*, MillFr. 47.

*v* **aðstöðu-hagsmunir** *k. flt*, góð aðstaða (4): *nota sér . . . a-i*, neyta þess að maðr stendr vel að vígi, MillFr. 156.

* **aðstuð|ning** *kv*. og **-ningr** *k*, stoð, hjalp.

**aðsúgr** *k*, **1.** egl. það sem sögast, streymir, að: *a. loftsins*, aðstraumr. † **2.** eftirsókn: *bora atsúg til e-s*, sœkja eftir e-u: *þót ek borak frekan atsúg*

*til ríkja þeirra vestr þar*, Flat. II, 427 (Fms. VII, 29). [*bora*, ekki *bera*, stendr í hdr. Myndlíkingin dregin af því að *bora* gat fyrir súg að fara í gegn um]. * 3. mannsöfnuðr, sem þyrpist að e-m til að gera h-m óskunda í orði eða verki: *gera e-m a.; gera a. að e-m*, að þyrpast að e-m, e. utan um e-n, til að gera h-m geig eða áleitni í orði e. verki.

**aðsvif** *kl*, † 1. atvik, tilviljun. * 2. skyndileg sjúkdómshviða. * 3. yfirlið.

* **að taka (-töku)** *kv*, pokinn e. hvippan, er síðast kemr í land á dráttarneti [»Mýrlenzka« = Mýrasýslu-mál?], Sch.

* **aðtekt** *kv*, egl. það að taka (að sér =) til sín. (óheimil) taka á annars manns eign: *stefna . . . fyrir a. á hval, sem upp bar á Ljósalandi*, Lþb. 1779, nr. 16; *fjár aðtektir gera*, draga undir sig annars manns fé, EspÁ, 3. þ. 35.; *hann sagði frá a.* (= töku) *sinni á sauðkindinni*, Þjóð. X, 4.

ꝗ **aðvara** *s*, = vara við.

§ **aðventa** *kv*, Jólafasta.

* **aðvífandi** *lm*, reikandi að (e-u e. e-m stað) af tilviljun: *þar kom maðr a.*, þar rakst maðr að af hendingu.

* **aðvon** *kv*, von á, von til: *eiga sér einskis (ills) a.*, eiga ekki von á neinu (illu). [a. mun hér varla vera tvö orð: *að von*].

ꝗ **aðvörun** *kv*, viðvörun.

* **aðþrengdr** *lm*, bágstaddr, nauðstaddr.

* **aðþrengsli** *kl. flt*, það að þröngt er um e. að e-ð þrengir að: *Það eru mikil a. hér, þar sem tún og engjar næstu bæja liggja svo þétt að á báðar hendr.*

**áeggja (-aði)** *ás*, hvetja til: † á. e-m e-ð, e. á. e-m að gera e-ð: *sem mínir byskupar mér á-uðu*, Thom.; *á. þeir h-m . . . at hann gefi*, Thom. * á. e-n að . . .; á. e-n e-s: *hann á-aði mig fastlega að taka sættum; þeir á-uðu hann utanfarar.* [*And.*: afeggja, letja].

**áeggjan** sjá: *áeggjun*.

⊤ **áegging**, BH. = *áeggjun*.

* **áeggjandi** *k*, hvatamaðr, sá er hvetr til.

† **áeggjari** = *áeggjandi: á. hórdómsins*, Mar.

**áeggjun** *kv*, tilhvatning, eggjun. [*And.*: afeggjun, úrtölur].

† **áeggjunar-grein** *kv*, hvatningar-orð: *mjúkr í á-um, en harðr í hirtingarorðum*, Hms. † **-óp**, hvatningar-óp, eggjunar-óp.

**af** *sto. m. þgf*, [táknar egl.] burt frá [yfirborði e-s hlutar]; *af* er eitt af þrem sto-um, sem tákna hreyfing burt: *af, úr, frá*, en þau svara til sto-anna: *á, í, við*, sem tákna dvöl um kyrt, og *á, í, að*, sem tákna hreyfing til; *af* svarar næst til *á, úr* til *í*, og *frá* til *að*. Menn segja: *eiga fé á fjalli, reka fé á fjall*, en *heimta fé af fjalli*. Eins og *af* og *á* táknar upphafl. og helzt samband við yfirborðið, svo táknar *úr* og *í* helzt samband við innri hlut hluta, og *við* og *að (til)* námunda við yfirborðið, samband við yztu rönd yfirborðs. Menn segja: *leggja bók á kistuna* (ofan á lokið), *taka bókina af kistunni* (af kistulokinu), en *bókin er (niðri) í kistunni, láta bók (niðr) í kistuna* og *taka bók úr kistunni* (upp úr henni). Eins að sínu leyti er munr á *að koma úr kirkju* (út úr henni) og *koma frá kirkju*, eða: *fara í kirkju* og *fara til kirkju*; það síðara er að eins sagt um þá sem ekki eiga heima á kirkjustaðnum, en verða að ferð-

ast til hans. En *rífa þakið af kirkjunni* (ofan af henni); *hrapa niðr af þakinu.* Stundum (með »koma«) táknar *af* að maðr hafi haft nokkra dvöl eða starf á staðnum, sem maðr kemr af: *koma af* (ekki: frá) *engjum, beitarhúsum, hafi, sjó*; en: *koma frá sjó* (án þess að hafa verið úti á honum); *stulkurnar eru að koma af kvíum*, frá mjaltaverkum; en: *úr fjósinu*, frá að mjólka kýrnar (*úr* af því að fjósið er hús heima). — Þessi mótsetning milli *af* annars vegar og *frá* og *úr* hins vegar er þó ekki föst eða stöðug: *taka e-ð af e-m* = taka það úr hendi hans eða höndum; *taka e-ð frá e-m* = fjarlægja e-m e-ð; *taka voðann* (t. d. hníf) *af barninu*, en *taka voðann frá barninu;* en hins vegar er oft *af* = *frá; vera brott af þingi; vindr stendr af landi.* Stundum er *af* = *úr: bera af skipi; drekka af horni.*

Oft stýrir *af* engu þgf-i, og er þá oftast eitthvert orð í þgf-i undirskilið: *hann heyrði tíðindin og gladdist af* (ɔ: þeim). Stundum er ekki sýnilegt, að neitt orð sé undirskilið, og stendr þá *af* sem a. væri: *honum reiðir vel af.*

Að vísu munu allar merkingar orðsins *af* dregnar af inni staðarlegu merking (merkingunni um staðarsamband), og þá er það hefir tíma-merking, þá eru allar þær merkingar í rauninni óeiginlegar staðar-merkingar: *vera af barnsaldri*, vera kominn fjarri, burt frá barnsaldrinum. Og sama mun vera um allar aðrar merkingar orðsins.

A. um stað.

**I.** um bókstaflega hreyfing, burt frá (yfirborði). **1.** *stíga af hesti; stökkva af baki* (ɔ: hestinum); *heimta fé af fjalli* (fjalla-afrétt); *ríða af Þingvelli til Reykjavíkr; sigla til Noregs af Orkneyjum; af Englandi*, frá Englandi, (en *úr Danmörku*, frá D. — merkingin í *-mörk* veldr því, að tæplega er sagt *af D.); fara af landi* († snögga ferð e. * alfarið), en *fara úr landi* (alfarið); *fara af heimilinu, bænum*, ferðast að heiman; en *fara af jörðunni*, flytja sig (búferlum) af jörðunni; *koma af hafi;* »*inir beztu bændr úr Norðlendingafjórðungi ok af Sunnlendingafjórðungi*« [*úr* og *af* alveg sömu merkingar]; † *brottu af herbúðunum* (ɔ: frá h. e. úr h.); † *út af* (úr) *kirkjunni;* † *út af borginni;* † *bréf af* (ɔ: frá) *páfa, bréf af Magnúsi konungi* [latínu-sletta]; † *farið á brautu af* (= frá) *mér í eilífan eld* [lat.-sl.], Hom. 143. **2.** um e-ð, sem er utan um e. umhverfis: † *láta af sér tjöldin*, taka niðr tj.; *kápan rifnaði af h-m; taka af sér vopnin, brynjuna, kápuna;* † *fara af* (úr) *kápunni;* † *var Skarphéðinn flettr af klæðunum*, (nú: *fletta e-n klæðum); fara af skónum; taka af sér skóna.* **3.** um hreyfing í röð: *fara bæ af bæ*, frá einum bæ til annars (ins næsta); *fara land af landi*, land úr landi; *ganga skip af skipi*, af hverju skipinu á annað, er mörg liggja í tengslum samborða. **4.** frá (e-u, sem maðr hefir tekið þátt í e. verið við staddr, e. e-u, sem fram fer e. gerist): *ríða heim, brott, af þingi; fara, koma, af fundi.* **5.** um að skilja hluta frá heild: *höggva höfuð, fót, hönd af manni; höggva kvistu af tré;* einstætt: *af er fótrinn; svá at af tók höfuðið; brotnaði framan af oddinum; innan af*, burt að innan; *neðan af kjólnum*, af kjólnum neðanverðum; *fleyta rjómann ofan af*

*mjolkinni; svifta fötunum utan af e-m.* **II.** með óel. hreyfingar-hugmynd: **1.** *víkja af réttum vegi,* v. frá boðum siðalögmálsins; *ganga af trúnni,* falla frá trú, þeirri sem maðr hefir áðr haft; **þeir tóku af honum fjárráða-rétt, atkvæðis-rétt,* sviftu hann -rétti; *verða af kaupi,* missa rétt til kaups; *verða af goðorði,* missa g.; *ek skal stefna þér af konunni,* til að missa konuna, Njá.; *af ferr eindagi,* fyrirgerist. **2.** um ætterni, uppruna, heimili osfr.: **a.** *eru af þeim komnir Gilsbekkingar; kominn af Agli Skalla-Grímssyni.* **b.** *illr ávöxtr af illri rót; vera af guði* (fornt) = vera réttvís, réttlátr; *af honum er bragr kallaðr skaldskapr,* af hans nafni; † *af danskri tungu,* af dönsku (ɔ: norrœnu) kyni, Grág.; *hvaðan af löndum,* hverrar þjóðar. **c.** *Jón af Bakka,* frá B.; † *Gunnarr af* (frá) *Hlíðarenda; Þórir konungr af Ögðum; vindr af útsuðri,* úr útsuðrsátt; † *Gizurr gekk af* (frá) *útsuðri að gerðinu,* Sturl. **III.** án egl. hreyfingar, frá e. þvíuml. **1.** [inn, út, fram] frá [yfir]: *af fjósi gekk forskáli inn í mannahús; bókin stendr út af borðröndinni,* út yfir -röndina; *stjarna, ok af sem skaft,* út frá henni eins og skaft. **2.** um stefnu, þaðan sem e-ð er. **a.** egl.: *þar er sjá mátti utan af firði; horfa af hafi á land.* **b.** óel.: frá, út frá: *lýsir af, skín af, ljómar af e-u,* ljós, skin, ljóma, leggr út frá e-u; *birtir, lýsir, af degi; dimmir af nótt; stóð mönnum ótti, geigr, af h-m; kenna kulda af e-u,* út frá e-u; *hafa hita af hestunum,* út frá. Enn: *hafa hita af e-u* e. *e-m,* hafa beyg af, vera smeykr við. **c.** með orsakar-merking: *hafa ótta af e-u(m); gera e-ð af ágirnd, ást, velvild, reiði* osfr., fyrir á., v., r. sakir; *taka sér tilefni af e-u; gera sér áhyggju af því tilefni; vera harmsfullr af missi sínum; af hverju?* hví? *af því að,* fyrir þá sök að; *þar af* = af því; *frægr af e-u; það kemr til af góðsemi, hatri, leti, þrengslum, hita, kulda, framsýni, þreytu, raunum, elli* = sakir góðsemi, hatrs osfr. **d.** frá e-m, af e-s hendi: *taka tíðindi af e-m; vænta e-s, þiggja e-ð, af e-m.* **e.** um fjarlægð og stefnu: *Þeir vóru 3 mílur austr af Skrúð; þá sigldu þeir vestr um Reykjanes, 6 mílur af* (frá, undan) *landi; upp af víkinni stóð borg mikil.* **f.** út frá, fjarri: *Otrardalr var mjök af vegi; vera af þingi,* fjarstaddr; *meðan hann er af landi héðan,* meðan hann er erlendis; *það er ekki af vegi,* ekki svo illa til fallið, ekki svo fjarstœtt, ekki svo afleitt. † **g.** *guð hvíldist af öllum verkum á sjöunda degi.* **h.** *láta af e-u,* snúa frá e-u, hætta við e-ð. **i.** *vakna af svefni; rísa* (upp) *af dauða,* frá dauðum; *guð bætti h-m af þessari sótt,* bœtti honum þessa sótt; *lækna e-n af e-u; kominn af fótum fram,* ekki (e. varla) gangfœr fyrir elli sakir, Fms. XI, 155; Flat. I, 201. **k.** táknandi missi: *féllu af Þórði þrír menn,* Þ. misti 3 menn í orrustunni; *drápu af þeim tvo menn,* af liði þeirra; *féll þá margt manna af konungi,* liði konungs.

B. um tíma.

**1.** um fram, kominn yfir, farinn að fjarlægast: *af barnsaldri,* úr bernsku; *af æskuskeiði,* orðinn fulltíða, kominn á fullorðins-aldr; *vera af léttasta skeiði,* farinn að hnigna e. stirðna. **2.** um liðinn hlut tímabils: *3 vikur af vetri,* að liðnum 3 fyrstu vikum vetrar;

*10 vikur af sumri; nótt af þingi,* þá er ein nótt (sólarhringr) er (var) liðin af þingtíma; *priðjungr af nótt,* þá er lifa tveir þriðjungar nætr, þá er 1/3 nætr er liðinn; *mikið af vetri,* langt liðið á vetr. 3. einstœtt: *þá er þetta af,* afstaðið, umliðið, hætt; *nú er af sem áðr var,* orðtak, = gengið er nú hvað gerðist fyr; * *alt af,* sífelt, ætíð; *sofa af (um) nóttina,* nóttina út, alla n.; *vetrinn leið af,* vetrinum lauk; *en er nótt var af liðin.* 4. upp frá: *héðan af,* upp frá þessu; *þaðan af,* upp frá því. 5. framan af: í fyrstu, í upphafi: *vel féll á með þeim framan af, en óvingaðist síðar.*

C. í ýmsum samböndum.

**I.** (helzt) með lh. þm., og er þá sá sem e-ð gerir, eða verknaðrinn stafar frá, í þgf.: *þeir vóru eltir af óvinum sínum og drepnir,* óvinir þeirra eltu þá og drápu (þá); *sendr af Starkaði; lofaðr af alþýðu manna; bókin er gefin mér af föður mínum,* faðir minn gaf mér bókina; *mikils virðr af mönnum; skírðr af byskupi; talsvert af vínföngum, sem til landsins flytjast, er drukkið af útlendingum; ef svá væri í hendr þér búið af mér; mikið um rætt af almenningi; vel fagnað af konungi; vinsæll af almenningi,* meðal alm.; *vel þokkaðr af e-m; sátu þar í miklu yfirlæti af þeim feðgum;* * *þýtt af Magnúsi Grímssyni;* * *kveðið af Sigurði Gíslasyni;* * *samið af Jóni Magnússyni;* ⚘ *»Ragnarökkur af Ben. Gröndal«.* **II.** 1. samfara: *mælt við mig af mikilli blíðu; tala af reiði, þjósti.* 2. með: *hlaða, ferma, skipið af varningi,* ferma með varningi, láta varning í skip; *fylla bikar af víni.* 3. að: *tœmdi kistilinn af* (að) *peningum,* tók alla p. úr k.; *nú hefi ég tœmt mig af fréttum,* sagt allar fréttir, svo að ekkert er eftir. **III.** frá, um: *ég hefi ekkert af honum frétt lengi,* um hann frétt; *sagði margt af viðreign þeirra,* frá viðreign þeirra; *sagan af Njáli Þórgeirssyni, Gretti, Agli, Gísla Súrssyni.* **IV.** af e-m fjölda, meðal, úr hópi: *inn efnilegasti maðr af ungum mönnum í Austfjörðum,* G. Þiðr.; *ör liggr þar . . . ok er sú ein af þeirra örum; einn af mínum beztu vinum; en hana' af öllum hópnum, | já hana eina' eg sá,* JÓLj. 117; *Guð kaus hana af öllum konum sér til móður; margir af Norðmönnum,* margir Norðmanna, margir meðal Norðm. **V.** *eiga mikið af e-u,* mikla gnœgð, fjölda, e-s; *Bragi kann mest af skaldskap,* kann meira af sk. en aðrir e. meira af sk. en öðru; *Páll á mikið af jörðum, mikið af skepnum, en mest af peningum; Jón á mikið (mikinn hluta) af jörðunni,* meiri hl. jarðarinnar; *þar er nóg af öllu,* þar skortir ekkert; þar er gnœgð alls, allra hluta. Án þgf.: *Gunnar bauð þér góð boð, en þú vildir eingi af taka,* ɔ: af þeim; *hann mun mestu af ráða,* ráða mestu af öllu; *kveðst mundu því af trúa,* trúa því einu af sögunni; *það hefi ég frétt, og þykir mér ills af von* (ɔ: af því, af þessu). **VI.** *það mun aldrei af honum ganga,* hann losnar aldrei við það; það skilr aldrei við hann. **VII.** úr (um efni): *gerðu . . . af blóði hans sæinn ok vötnin; hjöltin voru af gulli; þetta er alt af silfri gert; þetta er af vanefnum gert,* til þessa hefir skort gott e. nœgt efni; *guð gerði alt af engu, en þú gerir alt að engu.* **VIII.** *ör(r), mildr, af fé,* ör á fé; † *illr af mat, en mildr af gulli,* nízkr á mat,

en ör á gull. **IX.** *framfæra e-n af sínu fé, af verkum sínum; gat þess Hildigunnr, at þú mundir góðr af hestinum,* Nj. 58. k.; *þykjast góðr, mikill, vera stoltr, af e-u.* **X.** (sbr. B, 3) án þgf., til enda: *róa af fjörðinn,* fjörðinn á enda; *var þá af farit þat sem skerjóttast var; nú er þriðjungr af vegarins,* þriðjungr á enda af leiðinni; *ég reið af um nóttina,* leiðina á enda; *þeir náðu af um kvöldið,* náðu alla leið (t. d. til bygða, heim osfr.); *við urðum þar eftir, en þeir héldu af,* ɔ: þangað sem vér höfðum ætlað oss. * **XI. 1.** í orðtœkinu *af eða á* e. *af né á: segja af eða á um e-ð,* segja til eða frá um e-ð, játa eða neita e-u: *hvorki vil ég af né á | um einkamálin segja,* KJL[3], 387. * **2.** *það er af og frá,* það er þvert nei, ekki við (nærri) komandi; *Ψ af og til,* við og við, öðru hverju. **XII.** í sambandi við n. (eða lo.), sem á eftir fer í þgf. **a.** um tíma: † **af bráðungu,** skyndilega, bráðlega. † **-bragði,** þegar í stað. † **-hljóði,** í kyrrþey, hljóðlega. † **-hrapaði,** í flýti. † **-launungu,** leynilega. **-létta** fúslega, viðstöðulaust: *segja allt af létta.* **-nýju,** að nýju, á ný. **-nýjungu,** † af nýju; * nýlega. **-skyndingu,** skyndilega. **-stundu,** þegar í stað. † **-tómi,** er stundir líða: *kostr mun þér af tómi at eyða fé þínu,* fœri mun þér gefast hvenær sem er, síðar, jafnan, e. þvíuml. **b.** í öðrum samböndum: *af ásetningi, af fjalli,* af afrétti: *hann vantar 6 sauði af fjalli; heimta vel (illa) af fjalli; af hálfu; af heilu; af rælni; af sjálfsdáðum,* o. fl., sjá þau orð; **af hendi, af höndum,** sjá *hönd.* **XIII.** í sambandi við ýmsar sagnir. Hér eru taldar í stafrófsröð sagnanna helztu slík sambönd, þar sem merkingin er ekki auðsæ af sjálfu sér: **bera** *e-ð af,* afbera, þola, halda út; *berast af,* bera sorg sína: *hversu bersk Auðr af um bróður-dauðann?; b. e-ð af e-m,* bera e-n undan e-u; *b. af e-m,* taka e-m fram, sigra e-n, sbr. *afburða-.* — * **beygja** *af,* byrja að gráta. — **biðja** *e-ð af sér* e. *e-m,* biðja að hlífa sér e. e-m við e-u. — **bregða** *af (fyrirmælum, venju* osfr.), víkja frá, bregða frá (sbr. afbragð, afbrigði). — **brjóta** *(e-ð) af við e-n,* misgera (sbr. *afbrot).* — **bœta** *e-m af e-u,* lækna e-n kvilla e-s. — **draga** *af e-u,* klípa af, rýra, halda eftir af: *hann dró af kaupinu mínu fyrir hrífuna, sem ég braut; hann dregr af mér 4 kr.,* dr. af því, sem hann átti að greiða mér; *d. af e-m húðina,* flengja, húðstrýkja; *d. af sér,* hlífa sér (við verk); *það dregr af e-m,* (nl. mátt), e-m þverr máttr, e-r nálgast dauða. — **drepa** *af,* skýla, hlífa (helzt við úrkomu); ópers.: *Það drepr af undir berginu* (sbr. *afdrep).* — * **drífa** *e-ð af,* lúka e-u með fylgi e. flýti; ópers.: *Ψ skipið (bátinn) drífr af,* fletr, hliðfletr. — **dusta** *(ryk, snjó* osfr.) *af e-u(m),* sópa (e-u) af. — * **fá** *af e-m,* fá e-n til e-s: *ég fekk ekki af h-m að koma; það fekst ekki af henni að tala við hann; ég fæ ekki af mér að heimta það af honum,* hefi ekki hjarta til; *ég get ekki fengið af mér að þiggja það,* hefi ekki skapsmuni til. — **fara** *af,* † **1.** *ferr af eindagi,* fyrirgerist. † **2.** deyja, farast. * **3.** hverfa: *það fer af h-i með aldrinum; fer af við vanann; þá fór af gamanið.* * **4.** líðr af: *fór þá af h-m víman (ölœðið),* rauk af h-m; *skyldi ekki fara af þeim mesti berserksgangrinn;* — **fella** *af,* **a.** (í prjónaskap): þá er það sem prjón-

að er (sokkr, vettlingr) endar í totu, þá er »tekið úr« (fækkað lykkjum með því að prjóna eina lykkju í tvær í næstu umferð á undan), unz síðast eru ekki orðnar eftir nema 4 (eða 2) lykkjur, og er þá síðast bandið dregið í gegnum þær allar í einu (og endinn svo festr); það heitir að *fella af.* **b.** (í vefnaði) heitir það að *fella af,* að skera (klippa) voðina frá afgangi uppistöðunnar, en sá afgangr heitir *affall.* — * **flaustra** *e-u af,* lúka við e-ð í skyndingu, (hirðulítið um, hvernig það er gert). — * **fljóta** *af,* leiða af: *af því flýtr, að,* af því leiðir, að . . . — **frelsa** (*† frjalsa) e-n af e-u,* fr. frá. — **frétta** *af e-u,* fá fregn um e-ð. — **ganga** *af,* verða um fram, eftir: *það er af skuldum gekk; gengu af 5 slakkar af heyi* (sbr. *afgangr);* nást burt við þvott (e. þvíuml.): *hversu sem hann þó sér, þá gekk ekki af h-m blóðið* (um menn, tré osfr.; en um dúka er sagt: gengr ekki *úr); ganga af sér,* † **a.** ganga úr hófi: *gekk illska manna svá mjök af sér,* Stj.; *mjök ganga þeir fóstbræðr nú af sér, er þeir drepa menn af oss,* Fbr. * **b.** ganga úr sér, rýrna: *hlaðan er mjög af sér gengin,* orðin forn og farin. **c.** yfirkominn: *þeir vóru mjög af sér gengnir af svefni og þreytu; ganga fram af,* **I.** *g. fr. af sér,* ofreyna sig, ofþreyta sig; **2.** gera forviða, ofbjóða svo að m-m blöskri: *alveg gengr fram af mér, hvað maðrinn er ósvífinn; hann sýndi svo ótrúlegar aflraunir, að hann (það) gekk fram af mér;* † *klæðin gengu af þeim ok skórnir,* slitnuðu svo, að þau féllu af þeim; — yfirgefa: *ganga af trúnni,* kasta trú sinni, túrna. — missa: *ganga af vitinu;* — *ganga e-n af sér,* ganga svo hratt, að e-r geti ekki fylgt manni; — † *ganga til heljar af,* deyja; *gekk af höfuðið,* varð laust frá (við sverðshögg); † *ganga af eign sinni,* sleppa frá sér eignrétti; † *ganga af rétti sínum,* framfylgja h-m ekki, þola ágang á rétt sinn; — líða út: *nú ganga af páskar;* N.; † *ganga af,* gefa af sér: *svá mikit í Dalsegg, sem af ganga 6 merkr smjörs,* sem 6 m. smj. eru goldnar eftir; — líða af: *gekk af h-m berserksgangrinn;* † *gekk af barninu grátrinn,* linnti; * ópers.: *það gengr af e-m,* fé e-s gengr til þurðar; — skilja við (e-n): *ganga af e-m dauðum; hann linnti ekki fyrri en hann gekk af honum dauðum,* hætti ekki fyrri en hann hafði drepið hann. — **gera** *af,* **I.** *g. a. e-u,* láta e-ð e-staðar, koma e-u e-staðar fyrir: *hvað hefir þú gert af húfunni þinni?* gert við húfuna þína? hvar hefir þú látið húfuna þína? (sbr. *hvað varð af . . .?).* **2.** *g. mikið, lítið, af e-u,* **a.** gera mik., lít., úr e-u, láta mik., lít., yfir e-u. ⚘ **b.** gera mik., lít., að e-u, gera e-ð oft e. sjaldan, iðka e-ð mik. e. lítið: *Drekkr hann? Og hann gerir helzt til mikið* (e. *ekki mikið) af því.* † **3.** ráða, þýða (um drauma): *ger af drauminum slíkt er þér þykir líklegast,* þýddu, ráddu, svo draumin . . . **4. a.** *g. af sér* = gera af 1. **b.** *gera af sér* = gera af 2 a. * **c.** *gera ilt af sér,* gera öðrum ilt með athæfi sínu; *það er nú runnið af honum (vínið, reiðin), svo að hann gerir ekkert af sér,* verðr spakr. † **d.** *gera mikið af sér,* sýna dugnað af sér. **5.** *gera af við e-n,* gera á hluta e-s, misgera við e-n: *hann gerir sjalfr hvern dag af við guð,* Hom.; *ég veit ekki til að ég hafi neitt af gert við þig.* ⚘ **6.** *gera e-ð af, afgera,* ráða

e-u til lykta; koma sér saman um e-ð. *7. *gera út af við*, murka líf úr. — * **gorta, grobba,** *af e-u*, monta af. — **græða** *e-n af e-u*, gera e-n heilan af sári, áverka. — **guma** *af e-u*, hrósa e-u mjög, lúka sterkum lofsorðum á e-ð. — * **hafa** *e-ð af*, komast fram úr e-u, fá e-u framgengt, endast til e-s: *hafði það af að gjalda hverjum sitt*; *hafði það af að verða byskup*; *ég vona ég hafi það af úr þessu að ná til bæja.* * *hafa af e-u*, hafa skyn á, skilja í, e-u; *hafa af e-m*, draga sviksamlega af e-m í viðskiftum (með röngum reikningi, vog e. mæli); *hafa e-ð af e-m*, ná e-u undir sig frá e-m; * *hafa ofan af fyrir e-m*. **a.** vinna fyrir nauðsynjum e-s af skornum skamti: *hún hefir ofan af fyrir sér*, kemst af; *hann hefir o. af fyrir sér og sínum.* **b.** *h. ofan af fyrir e-m* (t. d. *barni), hugga, friða; (sjúklingi* e. þvíl.), eyða leiðindum, skemta; * *hafa e-ð af e-m* = hljóta e-ð af e-m: *hann hafði það af mér að koma of seint;* * erfa e-a eiginleika frá e-m: *hún hefir fríðleikann af móður sinni, en vitið af föður sínum.* * *hafa af e-u að segja*, **a** vita, vera kunnugr: *hafði hann ekki af því að segja, er þeim fór á milli*; **b.** reyna: *hún hefir aldrei haft af fátækt að segja og skorti.* — **halda** *af e-u(m)*, hafa mætr á e-m. * *halda aftr af e-m*, halda e-m til stillingar, draga úr ákafa e-s. — **halla** *af*, halla niðr á við: *hallaði af norðr* (ɔ: af heiðinni, fjallinu); eftir, niðr eftir: *hallar norðr, vestr, suðr, austr af*, hallar norðr á við, hallar til norðrs, vestrs osfr. * *hallar af degi*, líðr að dags lokum. — * **hamra** *e-ð af*, koma e-u fram, leiða e-ð til lykta með harðfylgi. — * **hasa** *e-ð af sér*, **1.** hleypa e-u fram af sér; leggjast e-ð undir höfuð. **2.** = hrista af sér (ógleði): *reyndu nú að hasa af þér!* — * **heyja** *af*, fara í ferðalög, til að fá að éta og spara mat heima. — **hjara** *af*, lifa með naumindum af: *hann hjarir af til morguns*, treinist í h-m lífið. — **hljóta** *e-ð af e-m*, hreppa: *e-r hlýtr gott, ilt, af e-m*; ópers.: *hlýtst af*, leiðir, stendr af: *sjaldan hlýtst gott af gapaskapnum.* — **hreinsa** *e-ð af e-u*, nema óhreinindi burt af e-u; *h. sig af e-u*, hr. e-ð af sér; *hr. sig af áburði, ámæli*, bera, reka, af sér áburð, ámæli. — **hrista** *af*, hrista e-ð, svo að af því hrynji: *hrista snjó af (fótum) sér;* * *hrista af sér* (undirskilið: harm, fálæti), hrinda af sér sorg osfr. * **hrökkva** *upp af*, andast (um gamalmenni, ekki í virðulegu sambandi; egl. *hr. upp af klökkunum).* — * **huma** e. **humma** *e-ð fram af sér*, sjá: *humma.* — **hverfa** *af*, **1.** burt: *blettrinn er horfinn af* (ɔ: því sem hann var á). **2.** *hverfa af e-u*, hv. frá, láta af: *hann er ekki af því horfinn enn*, hann er enn við sama heygarðshornið, sama sinnis. 3. yfirgefa: *hvarf sú sótt af*, Hms. — **hyggja** *af e-u*, snúa huga frá, hætta að hugsa um. — **inna** *af e-u*, skýra, segja frá e-u; *inna e-ð af hendi*, **1.** framkvæma e-t verk. **2.** greiða e-t gjald. — **kasta** *af*, **1.** inna af hendi (verk), afkasta: *þú kastar ekki miklu af í dag með þessu áframhaldi.* * **2.** kasta (fiski) á land af bát e. skipi: *piltar eru komnir að*; *þeir eru að kasta af.* * **3.** í prentiðn: að taka stílana úr settum letrfleti og kasta sínum í hvert hólf í stílkassanum: *það er mun fljótara að kasta af en að setja.* — **kaupa** *af sér*, **1.** kaupa sér í skaða. **2.** borga fyrir

að losna við e-ð: *hann keypti Þórð af sér*, borgaði honum fyrir að verða laus við hann (eða tilkall hans); *kaupa af sér smalamensku*; *k. af sér reiði e-s.* — **kjósa** *af*, **l.** velja úr, kjósa úr. **2.** *kjósa e-n af* (ɔ: lífi), óska að e-r væri dauðr. — **koma** *e-u af*, *** l.** lúka við e-ð: *hann langar til að koma því af áðr en hann deyr.* **2.** útrýma e-u: *koma af reimleika*; *hann kom þeim sið af í sinni sveit*; *því hafði eigi orðit af komit . . . meðan kristnin var ung*, Bps. I, 165. *** 3.** *koma e-u af*, bjarga e-u: *ef þolandi verðr tíð, vona ég hann komi fénu af til krossmessu, þótt heylítill sé.* **4.** *koma e-u af sér*, leysa sig undan e-u; losa sig við e-ð: *koma af mér yðvarri reiði*; *ég kom honum af mér á hreppstjórann*, losaði mig við hann og fékk hr. til að taka við honum. **5.** *koma e-m af e-u*, venja e-n af, snúa e-m frá, e-u *(and.:* koma e-m [upp] á e-ð). — **komast** *af*, **l.** sleppa lífs úr háska: *3 mennirnir drukknuðu, en 1 komst af.* **2.** vera sjalfbjarga að efnum eða atvinnu, geta bjargast án annara hjalpar: *hún kemst af til vorsins*; *hann kemst svona laglega af*, er ríflega sjalfbjarga. **3.** *komast af með*, nægja: **a.** *kemstu nú af með þessari hjalp?* nægir þér þessi hj.? **b.** sleppa óátalinn með: *það er mikið, ef hann verðr lengi látinn komast af með þennan ójöfnuð*, ef h-m heldst lengi uppi þessi ójöfnuðr. — *af sér kominn*, máttvana, úrvinda: *af s. k. af mæði, þreytu, svefnleysi.* — *kominn af e-m*, vera niðji e-s. — **láta** *af*, **l.** hrósa, lúka lofsorði á: *þeir láta ekki mikið af honum*, gera ekki mikið úr h-m, hrósa h-m ekki; *láta mikið af*, lofa e-ð, hrósa e-u, gera mikið orð á e-u; *láta lítið af e-u*, andst. því að láta mikið af. **2.** hætta: *láta af óreglu*; *hann lætr aldrei af að tala um þetta* (sbr. *aflát)*; ópers.: linna: *lét af hallæri ok úarani*, létti af. † **3.** *l. af*, drepa, slátra: *láta af þat fé ok gera til.* — **leggja** *af*, **l.** hætta (við): *lagði af komur sínar þangað*; *húslestrar eru víða af lagðir*; *leggja af ljótan vana*; † *leggja af e-u*, hætta. *** 2.** = *kasta af* (3), um stíl. *** 3.** *leggja af*, horast, megrast: *sauðirnir lögðu af*; *þú hefir lagt mikið af í þessari (við þessa) legu*, megrast mikið. *** 4.** *leggja af sér*, skíta; *l. af* og * *l. af mörkum*, láta af hendi, miðla: *lagði af við hann sinn part í eyjunni*, Grett., lét hann fá; *faðir hans vildi ekkert af mörkum leggja við hann*, ekki miðla h-m neinu, hjalpa h-m um neitt fé. — **leiða** *af*, **l.** ópers.: koma fram sem afleiðing e. verkun af e-u, stafa frá e-i orsök: *af illri aðbúð á æskuárum leiðir oft vanheilsu á efri árum*; *lát hans* [Snorra Sturlusonar] . . . *leiddi af konunginum*, var af völdum konungsins; *Hauganess fundr ok þau tíðindi, er þar af leiddi*; *sé A stærra en B, þá leiðir af því, að A er ekki sama sem B.*; *að láta gott af sér leiða*, stafa af sér, hljótast af sér. **2.** ás., *leiða e-ð af e-u*, draga ályktun af; rekja e-ð frá e-u: *af því leiði ég það, að . . .*, af því dreg ég þá ályktun, að . . .; *»fella« er leitt af »fall«*; *»penni« er leitt af latnesku orði »penna«, sem þýðir: fjöður.* — **leifa** *af*, skilja eftir af: *leifa af ketinu; nú er ekki af leift*, ekkert eftir skilið; alt til tínt; ekki dregið af aflinu: *nú er flest til tínt og ekki af leift*; *hann tók á öllu afli og leifði ekki af*, dró ekki af sér. — **letja** *e-n af e-u*, telja e-n frá e-u: *hann varð ekki af lattr*, ekki tjáði að telja

hann frá því. — **létta** *af*, * **1.** létta e-u af e-m, taka þunga af e-m: *bað drottin að létta af sér þessu mótlæti.* **2.** hætta: *létta af at drekka vín*; *hann létti af komum sínum*, hætti að venja þangað komur sínar; *sú sótt létti eigi af henni*, yfirgaf hana eigi, Hms. * **3.** = *heyja af*, flakka, til að létta á heimilinu: *hann á víst lítið erindi hingað í sveitina, nema rétt að létta af.* **4.** ópers.: *e-u léttir af (e-m)*, e-u linnir: *sóttinni létti af*, sóttin hætti; *illviðrinu létti af*; *þá létti af honum allri hrygð*, hvarf af honum. — **leysa** *af*, **1.** *leysa e-n af e-u*, losa e-n við e-ð, leysa e-n undan e-u: *leysti hann þá Sigurð af banni kirkjunnar*; *leysa sik af holmi*, greiða gjald, það er holmgöngulög gerðu þeim að greiða, er sigraðr var; * *leysa e-n af holmi*, gera e-ð, sem öðrum bar að gera, og losa hann þannig við það; * *l. sig af h. með e-u*, greiða e-ð fyrir að losna við að gera e-ð. **2.** ópers.: *snjó leysir af* (ɔ: jörðu), = snjó leysir, sjá: *leysa*. — **líða** *af*, **1.** líða til enda: *liðu af Jólin*; *leið af vetrinn, nóttin.* † **2.** ópers.: *leið af þennan vetr* = leið af þessi v. **3.** linnir, hættir, léttir, líðr frá: *líðr af h-m öngvitið.* † **4.** *líða af heimi*, deyja. † **5.** *en er B. var liðinn af inni mestu bernsku*, kominn af barnsaldri. — **lifa** *af*, komast lífs af; lifa e-ð til enda: *hann sýktist þungt og lá lengi, en lifði þó af*; *þótt kindrnar sé magrar, þá ná þær sér fljótt í sumar, ef þær lifa af vorið*; *hann lifði það alt af.* **2.** *lifa af e-u*, hafa e-t starf e. fé til viðrlífis sér: *lifa af smíðum sínum, af fé sínu.* — * **líta** *af*, snúa augum frá: *hún leit af honum augnablik, en er hún leit við aftr, var hann allr á burt*; óegl.: *hann má ekki af henni líta*, h-m þykir svo vænt um hana, að hún má aldrei fjarri honum vera. — **lúka** *af*, fullgera: *lauk af bátsmíðinu*, fullgerði bátinn, lauk við b.; *lúka sér af*, lúka erindi sínu. — **lækna** *en af e-u*, gera e-n heilan e-s (krankleika). — **má** *af*, slíta e-u svo að e-ð hverfi; þurka burt, eyða: *letrið er svo máð af steininum, að varla er læst*; *at af má lýti*; *má flekk af virðingu sinni*; *drepi þá og mái þá af jörðunni*, upprœti þá, eyði þeim. — * **merja** *af*, koma af með herkjum og naumindum: *Hvor ykkar vann spilið? Ég marði það af.* — * **missa** *af e-u*, ná ekki í e-ð: *missa af ferðinni*; *kom svo seint, að hann misti af messu*; *ég missi ógjarnan af nokkru færi til að hlýða á hann*, sleppi ógjarnan ... — § **monta** *af e-u*, vera montinn (drýldinn, drjúgr, hreykinn) yfir e-u: *það er ekki mikið til að monta af.* — * **ná** *e-u af e-u*, geta hreinsað e. afmáð blett, flekk e. þvíuml. af e-u, ná e-u burt af yfirborði e-s (sbr. *úr*: *ná úr): það næst af með köldu vatni*, þvæst af; *tjöru nær maðr bezt af sér með feiti*, feiti leysir bezt af manni tjöru. — **nema** *af*, **1.** egl. taka af: *nema e-ð af*, aftaka; *heiðni var af numin*, heiðni var úr lögum tekin, heiðninni var hætt. **2.** læra af e-m: *fimbulljóð nam ek af ... syni Bölþórs*, = nam ek at, lærði af . . ., sonr B. kendi mér fimbulljóð; *hún nam af mér latnesku beygingarnar*, hún lærði latn. beyg. og kendi ég henni þær.— **njóta** *e-s af e-u*, fá hlutdeild í e-u: *þarna berst þér fengr í hendr; láttu mig njóta góðs af*; *hvali rak nokkra á land undan ísnum, og nutu margir góðs af því*, varð það mörgum til bjargræðis. — **ráða** *af*, **1.** gera e-ð að ráði, fullráða e-ð:

*réð hann þat af at sigla suðr til Danmerkr*, tók hann það ráð . . .; * *vera afráðinn*, vera staðráðinn, einráðinn í, hafa fastráðið: *hann er afráðinn (í) að fara heldr sjóveg.* † 2. fullgera, lúka, leysa af hendi: *er nú ok af ráðinn hvárrtveggi hlutrinn, sá er þér þótti torsóttligastr.* 3. *ráða e-n af e-u*, * a. ráða e-m frá e-u: *hann réð mig af því að fara í mál.* † b. venja e-n af e-u, koma e-m til að hætta e-u: *af hefir þú mik ráðit brekvísi við þik.* c. koma e-u af, eyða: *ráða af reimleika*, eyða r.; *báðu hann af ráða héraðinu þessa meinvætti*, losa hér. við, frelsa það frá . . . 4. *ráða e-n af (dögum)*, fyrirkoma e-m: *þótti . . . jarli ekki ofrefli at ráða Ólaf af*; *ráða Ólaf af lífi*; *ráða Ólaf af dögum.* † 5. *ráða skipinu af*, losa skipið af (skerinu). 6. *ráða e-ð af e-u*, draga, álykta, e-ð af e-u: *það ræð ég af hrossafjöldanum í haganum, að hér sé gestir komnir*; *ráða e-ð af líkindum* (sbr. það ræðr *að* líkindum). — **reiða** *af*, † I. egl. lyfta upp af; taka, hrinda, af; reka úr: *reiða e-n af hesti*, fella e-n niðr af h.; *brott reknir ok af reiddir samkundu*, hraktir úr s. † 2. *reiða e-ð af*, leiða til lykta: *er þetta mál með öllu af reitt*, út kljáð. 3. ópers.: *e-u reiðir* (svo eða svo) *af*, e-u lyktar, e-ð fer, svo e. svo: *því reiddi vel af*, því lauk vel; *hvernig skyldi þeim reiða af í þessu ofsa-veðri?* hvernig skyldi fara fyrir þeim (um þá) í þ. o.? Skyldu þeir komast slysalaust af? — **reikna** *af*, reikna rangt e-m í óhag: *hann hefir reiknað af sér*, misreiknað sér í óhag. — **reka** *af*, I. *reka af sér áburð, ámæli*, hrinda af sér. * 2. *r. e-ð af*, lúka e-u með röskleik og flýti. * 3. *r. af sér (fénað)*, reka fé sitt í harðindum til annara, til að fá þar beit eða gjöf handa því; oft að eins: *reka af sér*; *þá voru allir heylausir í sveitinni og haglaust á innsveit, bændr þar allir farnir að reka af sér.* — * **ríða** *af*, I. hlaupa af: *þá reið af skotið í sömu svipan*, var skotinu hleypt af, flaug á stað. 2. *ríða e-n af sér*, ríða svo hart, að e-r geti ekki fylgst með. — **rífa** *e-ð af*, lúka e-u í skyndi, flaustra e-u af: *hann reif það af á einum klukkutíma.* — **ryðja** *e-u af*, = *reka af (2).* — **segja** *af*, I. segja frá: *sagði margt af ferðum sínum*, frá f. s. 2. láta yfir: *sagði mikið af framgöngu Runólfs*, lét mikið yfir. * 3. *segja af*, afsegja, þverneita: *hann sagði alveg af að vera lengr.* * 4. mótmæla: *segja af víxil*, afsegja víxil, mótmæla samþykkis-synjun e. vangreiðslu víxils. † 5. segja upp: *sagði leiguna af slægjulandinu*, sagði upp leigumálanum; *sagði af fénu sína ábyrgð*, lýsti féð úr áb. sinni, sagði ábyrgðinni upp. † 6. *segja e-n af e-u:* lýsa e-n sviftan e-u: *sagði hann af eftirmálinu*, lýsti hann hafa fyrirgert eða tapað eftirmálinu; *segja e-u af sér*, leggja niðr (starf); *s. af sér embætti.* — **setja** *e-n af*, I. svifta (e-n) stöðu: *prestrinn var settr af*, sviftr embætti; *tók höndum Hákon jarl ok setti hann af ríki.* 2. *setja e-ð af e-m*, svifta e-n e-u, taka e-ð af e-m: *ég setti af mér fingrinn*, misti fingrinn; *læknir varð að setja af h-m fótinn*, taka f. af h-m. — **sitja** *af*, † I. *s. af e-u*, gefa e-ð upp, verða af e-u: *sitja af konunni*, gefa upp konuna. 2. *s. e-ð af sér*, vanrækja e-ð, fara á mis við e-ð fyrir vanrækslu sakir: *s. af sér færi*, nota, hagnýta, ekki færi; *s. af sér róðr*, vanrækja að róa (til fisk-

jar). § *sitja af sér sekt*, sitja i fangelsi til að afplána fésekt. — **sjá** *af e-u*, hafa augun af: *svo var ástúðlegt með þeim, að hvorugt mátti af öðru sjá*; * ógl., láta af hendi: *hann tímir ekki að sjá af eyris-virði.* — **skafa** *af*, má af: *það verðr aldrei af honum skafið*, verðr aldrei af h-m borið. — **skera** *af heyjum, skera af sér* (ɔ: fénað): skera nokkuð af fé sínu, þá er heylítið er, til að hafa þá nœgra hey eftir handa því sem látið er lifa: *menn eru alment orðnir heytæpir í S.-firði og margir farnir að skera af sér* e. *skera af heyjum.* — **skreppa** *af*, hlaupa fram af: *hendrnar skruppu af fangastakkinum*, Kjaln., runnu af, mistu hald; *reimin skreppr af hjólinu*, hleypr út af (sbr. *afskreppr*, lo.). —* § **skrifa** *e-ð af*, taka eftirrit eftir e-u. — **slá** *af*, * **1.** *slá af (verði)*, fœra niðr verð: *hann átti að kosta 10 kr., en K. sló af verðinu*; *þetta er of dýrt, þú verðr að slá af því*; *hann vildi ekki slá af.* * **2.** *slá e-u af*, hætta við e-a fyrirætlun; *ég ætlaði að fara í kaupstað, en sló því af*, hætti við það. **3.** slátra, drepa (bæði um skepnur og menn): *þessi hestr er ekki á vetr setjandi og er bezt að slá hann af*; *slá mik af fyrst*, drepa mig fyrst † **4.** *slá e-ð af e-u:* draga e-ð frá. — * **slafra(st)** *af*, AF, koma e-u af linlega e. »með skömm« ɔ: tæplega: *hann slafraði af halfum teig um daginn*, hafði það tæplega af að slá halfan teig; *Hvernig gekk ykkr yfir fjörðinn í andviðrinu? Og það slafraðist svona af*, það hékk svona í því að við náðum (yfir um). — * **slampast** *af*, takast, hepnast af tómri tilviljun: *hann lagði drukkinn út í ófœrt fljótið, og það var ekki hans forsjá að þakka, þó að það slampaðist af.* — * **slarkast** *af*, hepnast, takast með hrakningi, þótt ekki sé með fullri gætni til stofnað: *Er áin reið? Hún er á sund og straumhörð, en samt getr það slarkast af að komast yfir hana.* — * **smella** *e-u af*, AF, flaustra e-u af, lúka e-u í flughasti: *ég bað hann að þýða fyrir mig bréf, og hann smelti því af á augabragði*, var ekki augabragð að því. — **spara** *af*, spara: *þeir mundu eigi af spara at rœgja Þórólf.* — * **spjara** *sig af e-u*, sjá: *spjara.* — **spretta** *af*, losa gjarðir og taka reiðfœri e. klifreiði af (hesti): *þið standið hér við nokkra stund, svo að það er bezt að spretta af á meðan; taka ofan og spretta af meðan áð er.* — **stafa** *af*, **I. a.** geisla út frá: *Hýran stafar hvarmi af*, geislar frá hvarmi. **2.** vera afleiðing af: *sumarkuldinn sunnanlands stafaði af ísalögum fyrir norðan land; það var auðvitað, að ekki mundi gott af þessu stafa.* — **standa** *af*, * **I.** *standa af sér skúr*, standa við (einhverstaðar í skjóli) meðan skúr líðr hjá, unz skúr styttir upp. * **2. a.** *standa e-ð af*, afbera, halda út unz lokið er: *fáir þú staðið þennan sjúkdóm af, mun þér verða lengra lífs auðið.* **b.** lh. þlm. *af staðinn: þá er alt var af staðið*, öllu var lokið, alt um liðið. **3.** *standa af sér*, sitja á sér, stilla sig um: *ég gat ekki staðið af mér, að . . .*, egl. staðið af mér freistinguna, að . . ., varist freistingunni, að . . . **b.** *standa e-n af sér*, halda út að synja e-m bœnar: *ég gat ekki staðið hann af mér*, gat ekki fengið af mér að neita h-m (um það sem hann bað). **4.** = *stafa af (2): þá skal þér mikit gagn af standa; oft stendr ilt af kvenna hjali.* † **5.**

*standa af e-u við e-n*, láta af hendi við e-n: *D. hafði hey með afgöngum ok vildi við öngan af standa.* **6.** *stendr af um e-ð*, stendr á e-u, er e-u farið: *hvernig stendr af um ferð þína?* hvað ert þú að fara? hverra erinda . . . * **7.** um hlutfall: *standa af sér við e-ð* e. *gagnvart e-u: hvernig stendr þessi kenning af sér gagnvart reynslunni?* í hvaða hlutfalli eða samræmi við reynsluna. — **stela** *af*, stela frá: **1.** stela úr vösum e. hirzlum e-s: *þar var stolið af honum peningum.* **2.** = hafa af (1): *hann stal af mér í vigtinni*, óg af mér; óg skakt mér í óhag. — ***stinga** *e-ð af*, neita e-u: *þeir báðu hann koma með sér, en hann stakk það af með öllu*, þverneitaði því. — **taka** *af*, **1.** lífláta, drepa: *þeir vóru dæmdir til dauða og teknir af*, líflátnir; *taka e-n af lífi*, sama. **2.** taka frá: *taka e-ð af e-m*, svifta e-n e-u; *þeir tóku af honum hnífinn;* † *taka af sér óþit* = hætta að œpa. † **3.** draga frá: *at af teknum þeim stundum, er þú er þar.* † **4.** fullyrða: *konungr sagði, at hann tœki eigi meira af en væri*, fullyrti eigi meira (um íþróttir sínar) en satt væri. * **5.** þverneita, þvertaka fyrir: *hann tók það af með öllu að verða við bón hennar; ekki þori ég að af taka það með öllu*, synja alveg fyrir það. **6.** nema úr lögum, afnema: *at af skyldi taka holmgöngur; tókust nú af leikarnir*, hættu; *heimboðin tókust af*, lögðust niðr. **7.** kjósa úr: *þeir tóku það af að fara heldr norðr*, kusu það. **8.** hætta: *taka af að vaxa;* † *tókst af storminum;* óp.: *tók þá af byrinn.* * **9.** eyða (af skriðuhlaupi, vatnsgangi, snjóflóði): *sú skriða tók af bœinn í Nesi og túnið mestalt; það snjóflóð tók af 7 hús á Seyðisfjarðar-öldu; áin hefir tekið af alt engið í nesinu; jökullinu hefir runnið fram yfir sveitina og tekið af 9 bœi; í því eldgosi tókust af 5 bœir.* **10.** komast yfir, megna: *œþa sem þær mega mest af taka; hann fór slíkt sem fœtr máttu af taka;* ópers.: *hlaupa alt hvað af tekr.* * **11.** ópers., þiðna, þána, burt: *snjó tók af jörð.* * **12.** ópers., hörund nuddast af: *ermarnar vóru freðnar og tók af mér á ölnliðunum.* * **13.** *taka mynd af e-m*, taka mynd e-s, mynda e-n (einkum um sólmyndir og ljósmyndir). **14.** taka burð e. klyfjar af hestum = taka ofan: *hér er bezt að taka af og œja.* **15.** taka e-ð af e-m til að létta á h-m: *taka barn af manni* (til uppfóstrs); *taka af manni ómak e. starf*, vinna e-ð fyrir mann honum til léttis, eða spara manni ómak. **15.**: *hún tók af mér þorstann*, gaf mér að drekka; *sýrublanda tekr vel af þorsta*, svalar vel. Einnig ópers.: *nú tók af mér þorstann.* — **tala** *af sér*, segja það sem maðr getr ekki staðið við. — **telja** *af*, * **1.** telja og taka frá e-n hluta af stœrri mergð: *teldu þarna af 20 kver handa manninum; taktu seðlana úr veskinu og teldu af 30 krónur og fáðu henni.* **2.** letja e-s: *taldi Grímr þat alt af* (ɔ: þingferðina) *ok sat Egill heima um þingið; telja af að e-ð sé gert; telja af fyrir e-m*, letja e-n; * *telja e-ð af*, ráða frá e-u; *telja e-n af e-u*, letja e-n e-s. * **3.** *telja e-n af*, telja e-n dauðan (hafa farist). — **vega** *af*, * **1.** vega smærri vigt úr stœrri: *þarna er 10 fjórðunga baggi af riklingi; vegðu 5 pund af handa honum Þórði* (sbr. *telja af 1*). * **2.** draga af e-m í vigt: *hann óg af mér 6 pd. á ullinni*, óg sviksamlega ullina, svo að hún ógst

6 pundum léttari, en hún var rétt vegin. — **veita** *ekki af,* ekkert vera í afgangi; ekki vera vanþörf á: *þeir vóru þrír um að selja fram skipið, og veitti ekki af,* og var ekkert um fram að þeir orkuðu því; *það veitir ekki af að minna hann á það aftr,* ekki vanþörf á; *nú veitir okkr ekki af að fara á stað, ef við eigum að ná háttum,* nú má ekki dragast . . . — **venja** *af,* koma til að hætta e-i venju, venja á að afleggja e-ð, koma e-u til að hverfa við vana: *venja af komur sínar þangað = venja sig af að koma þangað; venja sig af að reykja tóbak; hann vandi af honum illan munnsöfnuð; hún vandist af því með aldrinum = það vandist af henni m. a.; venja barn af brjósti.* — **vera** *af,* *1. *vera af vegi,* vera fjarstæðr: *það er ekki af vegi að spyrja hann um það.* 2. umliðinn, horfinn, afmáðr: *það er nú af, sem áðr var,* liðið, hætt; *en er af vóru Jólin,* um liðin, úti; *sú skuld væri af með öllu,* afmáð (greidd e. upp gefin); *þriðjungr er af nótt = af er þriðjungr nætr,* liðinn. 3. *vera af e-u,* hafa mist e-ð, fyrirgert e. tapað e-u: *er hann af því legkaupi,* hefir fyrirgert rétti til . . .; *ég er af kaupunum,* hefi mist færið til að kaupa; † *vera af réttarfari um e-ð,* tapa e-u við málssókn. — **verða** *af,* 1. haft um e-ð, sem óskiljanlega hverfr: *hvat varð af húnum mínum?* hvert hurfu synir mínir? e. hvar eru þeir niðr komnir? Völ.; *hvað er orðið af vettlingnum? hvað verðr af börnunum mínum, þegar ég dey?* hvað verðr um þau, tekr við fyrir þeim? *hann hvarf og enginn veit, hvað af honum varð.* 2. verða úr: *ekkert verðr af því; ef e-ð verðr af þessu,* verði e-r framkvæmd úr þessu; *það varð af, að hann tók við sveininum,* þau urðu málalok, að . . . 3. missa, fara á mis við: *hann varð af ráðahagnum; verða af kaupinu.* 4. um tilefni: *e-m verðr gott af e-u,* e-m verðr e-ð að góðu: *mér varð ekki gott af matnum,* ég sýktist eftir að ég hafði borðað matinn; *honum varð gott af skyrinu,* nautst vel að því, varð ekki meint við það; *honum hefir orðið gott af viðkynning sinni við Jón,* hefir hlotið gott af, hefir orðið h-m til góðs. Ópers.: *það verðr ilt (út) af þessu,* hlýtst ilt af. — **víkja** *af,* 1. víkja frá: *víkja af réttum vegi; víkja af fyrirmælum,* breyta öðruvísi en fyrir var mælt. 2. ás., beina frá sér: *hann veik þeim vanda af sér mér á hendr.* *3. inna verk af hendi, í talsh.: *vel af sér vikið,* rösklega, myndarlega, drengilega gert. — **vita** *af,* vita til (e-s), um (e-ð): *vissi ekki af þeim orðrómi; þú veitst af því, að þetta er satt.* — **þerra** *af,* þurka burt: *þerra af oss synda dust með iðranar hendi; þerra tár af hvarmi.* — * **þorna** *af,* þorna burt af: *döggfallið þornar af grasinu.* — **þreyja** *af,* bíða eftir að e-ð endi: *ég held ég þreyi ekki af þrjár nætr,* haldi ekki út, uni ekki, að bíða; *hann þreyði af um vetrinn.* — **þurka** *af,* = þerra af. — * **þykjast** *af,* miklast yfir, vera hróðugr yfir: *hann var hreppstjóri í sveitinni og þóttist mjög af því.* — * **ætla** *af,* gizka á (um stærð) til frádráttar e. viðbótar: *við skulum ætla af fyrir því sem ég á að skila honum Páli, og svo má selja hitt; að ætla sér af,* meta, hverja áreynslu megi bjóða sér e. leggja á sig: *hann ætlar sér ekki af,* hann leggr meira á sig e. að

sér, en hann er maðr fyrir; *ætla hestinum af.*

† **afa** e. † **áfa** *kv*, ofsi, ofstopi (í orði e. verki).

*a* **áfá** *kv*. Það að e-ð fær á e-n, áhrif: *áfá öls*, áhrif öls; *þetta var elið til að hindra öls áfá*, Lach. c. 74.

**áfall** *kl*, egl. það sem fellr á e-n. **1.** sjór, sem fellr yfir skip; einnig um annan vatns ágang: *varð mikit á. af því at steinninn kom niðr* [í vatnið], stór bylgjugangr e. boðafall; *þá kom mikið áfall á skipið*, ágjöf. * **2.** skriða, hlaup: *túnið varð fyrir áfalli*, hljóp á túnið; *engið á nesinu liggr undir áföllum bæði af vatni og aur.* * **3.** dögg á jörðu: *áfall var mikið um nóttina, (sn.* döggfall). † **4.** refsing, dómsáfelli: *á. sektar*, sektargjalds-dómr; *ef þeir vilja á. dæma*, dæma hann sekan; † **5.** e-ð, sem yfir e-n kemr: *á. alls konar freistni.* **6.** slys, óhapp, tjón, meiðsli: *það er mikið á., sem hann hefir orðið fyrir, að missa 20 fjár og 2 skip; þar rekr hvert á-ið annað*, tekr hvert óhappið e. slysið við af öðru; *það er ekki von að hann þoli þung áföll, svo gamall maðr*, byltur e. meiðsli af þunga eða kasti. * **7.** = *áfelli: gerði slæmt á. eftir páskana.*

* **áfallasamr** *lo*, (um tímabil) sem mörg áföll (6) koma fyrir á: *á. vetr*, LLF, XIV, 111.

† **áfalls-dómr** *k*, sektardómr, áfellisdómr.

† **áfang** *kl*, **1.** líkaml. ofbeldi, það að leggja (e. að lagðar eru) hendr á e-n: *varð hann fyrir miklu spotti ok áfangi.* **2.** ólögleg notkun á annars manns eign; einnig: sektir fyrir slíka ólögl. hagnýting: *ef maðr hleypr á bak hrossi manns úlofat, þat varðar sex aura á-i.* **3.** flt. *áföng*, átölurettr: *á. á e-m*, átölurettr gagnvart e-m.

† **áfangi**[1] *k*, = *áfang (2).*

**áfangi**[2] *k*. Upphafl. myndin var *ái-vangr* [af *æja, áði, hefi áið* e. *áð*, og *vangr*] og þýðir því upphaflega: áningar*staðr*, *staðr* þar sem áð er e. hvílt og beitt hestum. Úr *ái-vangr* varð svo *áifangr*, síðan *áifangi* og loks *áfangi* (Grett. 59, Flb. I, 165), sem er nú tíðkaða myndin. † **1.** staðr, þar sem áð er e. æja skal: *höfðu þeir dvöl nokkura á á-a.* * **2.** leið eða vegarbil, sem farið er milli tveggja staða, sem áð er á: *vér riðum úr Reykjavík um morguninn og áðum fyrst um hádegisbil í Seljadalnum; það var hæfilegr á; þaðan héldum við yfir heiðina niðr í Vilborgar-keldu og áðum þar aftr; það er nokkuð langr á.; þá var stytstr síðasti á-inn, að Þingvöllum.* — »*drjúgur verður síðasti á-inn*«, Gr. Th.; *þar er sex stunda reið milli grasa og er það langr á.* **3.** dagleið: *það er langr á. frá Kalmannstungu að Grímsstöðum.* — Sams.: * **áfangalaust** *lo*, án þess að æja hestunum: *ferðast á.*, Asn. * **áfanga-staðr** = *áfangi*[2] *(1).* Egl. er *staðr* ofaukið eftir upprunamerking orðsins *(-vangr).*

† **áfangr** *k*, = *áfangi*[2] *(1).*

**afar-** *fsk*, **1.** *a.* sett framan við annað a. e. lo., mjög, ákaflega, fyrirtaks-, frámuna-, feiknarlega; t. d. **a-auðugr**; **a-breiðr**; **a-gamall**; **a-fagr**; **a-fastr**; **a-góðr**; **a-hreinn**; **a-illa**; **a-síðla**; **a-tregt.** Má setja framan við hvert ao. og lo., sem vera skal, þar sem merkingin getr átt við. **2.** sett framan við nafnorð merkir það e-ð, sem er um fram það sem rétt er e. hóflegt e. venjulegt, stundum líkt og *stór-*.

⊙ **afar-kaup** *kl*, kaup með ókjörum.

**afar-kost|ir** *k. flt*, ósanngjarnir kostir, neyðar-kostir. — **a-a-laust** *a*, með sanngjarnlegu móti, án afarkosta.

**afarlegr** *lo*, ógurlegr, mikill: *a-t ranglæti*, ranglæti úr hófi fram.

**afarmenni** *kl*, **1.** afburðamaðr að vexti e. afli, tröllmenni. ***2.** afburðamaðr (að viti): *afarmennið hans Nietzsche* (Þ. übermensch).

***afarmenska** *kv*, ofurmagn: *vægja fyrir afarmensku e-s*, EspÁ, II, 132.

† **afarorð** *kl*, ofsa-orð, stóryrði, (hótanir?)

† **afarúðugr** *lo*, drambsamr, ofsafenginn.

***afar-verð** *kl*, geipi-verð, 3 ritg. 26, og algengt.

**afaryrði** *kl. flt*, = *afarorð*.

**áfastr** *lo*, samfastr, fastr við: *á. e-u*, og: *á. við e-ð*.

† **afát** *kl*, = *ofát*, N.

**áfátt** *lo. kl*, (upphafl. tvö orð), ***1.** egl. skortandi á, vantandi á fulla tölu: *þeir töldu fiskana af nýju og reyndist 3 fiskum á fátt.* **2.** skortandi til að vel sé e. fullkomið e. eins og vera ber: *þótti mikils áfátt*, mikill galli á, Ridd. 143; *sýnist oss í lögbókinni sumt á. vera*, sumt vanta, H&T. **3.** *e-u er á.* e-ð er ófullkomið: *hér er mörgu áfátt*, hér er margt að, margt í ólagi, ófullkomið; *honum er áfátt í mörgu vinnumanninum nýja*, hann er vankunnandi e. ófullkominn í mörgu.

† **afauðið** *lo. kl*, misheppnað, auðnulaust, synjað auðnu: *þess varð afauðit*, forlögin synjuðu þess, þess varð eigi auðið; *a. verðr oss mjök um þetta mál*, mjög verðr oss hamingjulítið u. þ. m. — En í tveim orðum: *af auðið* með e-u orði (undirskildu) í þgf.: *þessa tilraun skalt þú gera og vita, hvers þér verðr af* [ɔ: henni] *auðið*, hversu þér heppnast hún; *ég vona þeim verði góðs af auðið þessu fyrirtæki.*

***afbaga (-aði)** *ás*, skekkja, færa úr lagi orð: *hann a-ar alt, sem hann hefir eftir; afbagaðr*, færðr úr lagi, StÓ, AF. [*Sbr.* bagr *lo*, afbjaga *s*, bjaga *s*, ambaga *kv*, afbaka *s*].

***afbaka (-aði)** *ás*, = *afbaga*. [*afbaka* er líkl. afbögun úr *afbaga*].

***afbata (-aði)** *ás*, færa til málsbóta, vera e-u til málsbóta; afsaka: *vangætslan a-ar ekki þess háttar syndir*, afsakar ekki, bætir ekki úr, V.Post. 274; *hann vildi a. sig með því*, færa það sér til málsbóta.

***afbeiðni** *kv*, það að afbiðja.

⊤ **afbendi** *kl*, orðmynd, sem Sveinn Pálsson læknir hefir búið til, samkv. hugmynd sinni um uppruna orðsins *abbendi* (s. þ. o.), en það orð er fornt (Hávam. 137. er.) og enn tíðkað í V.-Skfs. og víðar á suðrlandi.

***af-bera** *ás*, þola, standast (þjáning, sársauka, harm osfr.); *hann gat ekki af-borið píslirnar lengr.*

*♂ **afberging** *kv*, það að bergja af, Milt. 93, 273.

***af-biðja** *ás*, biðja e-ð af sér, b. að e-ð verði eigi e. verði eigi gert: *Akreyringar afbáðu alla hjalp annara eftir brunann.*

***afbjarga** *a*, af björgum (fjöllum) horfin: *sólin er a.*, sést ekki lengr sólskin á (hæstu) fjöllum, BH.

† **afblaðning** *kv*, ágrip af, úrval úr (riti): *lítil a sögu sæls Nicolai.*

† **afblómga** *ás*, **1.** egl. svifta blóma: *afblómga jurt.* **2.** rýra: *afblómga frægð manns.* ***3. afblómgast** *plm*, fella blóm.

* ♂ **afblœða** *s*, blœða út: *þá* [*er*] *afblætt hefir (dýrinu)*, LFR, VIII, 98.

† **afboð**[1] *kl*, ofsi, ofboð (s. þ. o.).

* **afboð**[2] *kl. flt*, mótboð, boð (skilmæli osfr.) gegn e-u, um að e-ð verði ekki: *Á. hafði heitið að koma, en sendi síðar afboð*, boð um, að hann gæti ekki komið; *nú eru komin a. frá h-m.*

* **afboða** *ás*, senda eða birta afboð: *úr því að ekkert getr orðið úr fundinum á Þriðjudaginn, þá verðum vér að a. hann í blöðunum; fundrinn var afboðaðr.*

* **afboða-veðr** *kl*, aftaka-veðr, ofsa-veðr.

△ **afbolun** *kv*, útilokun, fráboeging: *hrein afbolun er það fyrir marga*, það bœgir mörgum alveg frá, Lögr. IV, 2b[30] (Jón í Múla).

* **afborga** *ás*, borga hluta af skuld: *ég fékk 100 kr. að láni með því skilyrði að afborga þær með 10 kr. á mánuði.*

* **afborgun** *kv*, borgun á hluta af skuld: *nú eru að eins eftir þrjár afborganir af skuldinni; að kaupa e-ð á a.*, kaupa hlut og eiga að greiða borgunina í jöfnum hlutum, venjul. vikulega e. mánaðarlega.

* **afbrá (-brár)** *kv*, linun sóttar eða sorgar um stundar sakir: *hvernig líðr h-m? það er eins og e-r a. núna síðari hlut dagsins; — sífelt sömu þjáningarnar, aldrei nokkur a.*, linun.

**afbragð** *kl*, það sem er svo ágætt, að það tekr öðru fram: *bókin er mesta afbragð*, fyrirtak; *»það er a., sem af öðru ber«; hann var a. annara ungra manna*, bar af öðrum ungum mönnum; *þat kalla menn konungs-gersimi, ef nökkut er annars a. — ef. et.* **afbragðs-** er haft fyrir fyrri hluta samsettra *n.*, *lo.* og *a.*, og merkir þá: ágæta-, ágætis-, fyrirtaks- osfr.: **afbragðs-góðr**, mæta-góðr. **-maðr**, ágætismaðr; fyrirtaks-maðr; afburðamaðr. **-vel**, ágæta-vel. *afbragðs-* má skeyta framan við hvert *n.*, *lo.* eða *a.*, þar sem það getr átt við að merkingu.

† **afbragðlegr**, * **afbragðslegr** *lo*, ágætr, afburða-, fyrirtaks-, afbrigða-.

* ♂ **afbráning** *kv*, = *afbrá.*

* **afbreyting** *kv*, tilbreyting, 3 ritg. 74.

* **afbreytingarlaus** *lo*, tilbreytingarlaus: *a-t líf*, Sch.

ν **afbreytingar-megin** *kl*, hœfileiki eða þróttr til að breytast (frá tegundarmyndinni): *tvær gagnstœðar stefnur: a. og arfgengi*, JÓAlm. 33.

† **afbrigð (-s)** *kl* og **(-ar)** *kv*, egl. það sem bregðr frá boði, reglu, röð eða venju; sérstakl. misgerð, afbrot: *sættarof ok afbrigð við guð.*

**afbrigða-**, sjá: *afbrigði-.*

† **afbrigðar-tré** *kl*, egl. yfirsjónar-tré, misgerðar-tré ɔ: skilningtréð góðs og ills.

**afbrigði** *kl*, oftast í *flt*, † **1.** misgerð(ir): *Þ. afsakar sik um öll a. við þik.* * **2.** aflát: *framhalda e-u án a-s*, án afláts, látlaust, LFR, I, xxviij; *stormarnir eru a. í hœgri og jafnri vinnu líffœranna*, Björl. 68. * **3.** frábrigði; undantekning: *a. frá þingsköpum*, frábrigði; *merkileg afbrigði frá því sem nú hefir lýst verið*, undantekning. * **4.** í orðtœkinu: *með afbrigðum*, svo að yfir tekr, ber af öðru(m): *hann var fimleikamaðr (sláttumaðr, hagleiksmaðr* osfr.) *með a-um*, svo að afbragð var. — **afbrigða-** og **afbrigðis-**, fyrri hluti í samsetningum, = ágætis-: **afbrigðis-hestr**, ágætis-hestr; **afbrigða-vel**, fyrirtaks-vel, osfr.

*v* **afbrigðilegr** *lo,* frábrugðinn (því sem algengt er í skoðunum e. trú): *a-ar skoðanir,* Mill. 67.

*v* **afbrigðileikr** *k,* það sem afbrigðilegt er: *að a-um frá gamalli venju sé ekki þrengt inn í hleypidóma-steypumót gamallar venju,* JÓAlm. 38.

**afbrot** *kl,* misgerð, misbrot, glœpr: *eftir a. Adams.*

* **afbrotamaðr** *k,* glœpamaðr, Vpost. II, 119; Klp. IV, 98.

* **afbrotsmaðr** *k,* sama, Skír. XII, 25.

† **afbrugðning** *kv,* afbrot.

* ♂ **afbruni** *k,* það að brennr af: *a. túna;* Klp. III, 23.

**afbrúðugr** *lo,* **1.** (um karlmann) hræddr um konu, sem maðr ann; (um konu) hrædd um karlmann, sem hún ann; ofsjónafullr yfir því, að sá e. sú, sem maðr ann, sýni öðrum of mikla athygli e. velvild. **2.** sem sér ofsjónum yfir því, að annar er meira metinn en hann; öfundsjúkr.

† **af|brýða (-brýddi)** *óás,* vera afbrúðugr.

**afbrýði** *kv,* sá ótti e. hugraun, sem stríðir á afbrúðugan mann e. afbrúðuga konu: *en er S. sá Cl. . . . standa hjá konu sinni, þá viltist hugr hans mjök af . . . a.* — Sams.: * **afbrýðis-fullr** *l.* ***-samr** *l.* ***-semi** *kv.*

† **afbúð** *kv,* búð, klefi, út úr aðalbúðinni (sbr. afhús, afklefi), Korm.

* **afbugr** *k,* krókr af leið e. afleiðis, Milt. 131.

**afburðr (-ar; -ir)** *k,* egl. það að bera af öðrum ɔ: taka öðrum fram, e. sigra annan: *ekki annat vænna til afburðar,* til sigrs; *at engi varð afburðrinn,* að hvorugum vegnaði betr; *at hún yrði eigi með minnum afburðum,* eigi síðr frægileg. — **afburða-** og **afburðar-,** fremri hluti samsettra *n, lo.* og *a,* fyrirtaks-, ágætis- osfr.: **afburðahestr, -skip, a-vel; afburðar-digr,** feiknadigr; **-jarn,** fyrirtaks-jarn; **-vel; a-armaðr** og **a-a-maðr,** ágætis-maðr, hreystimaðr, merkr maðr; † **a-ar-mikill,** sem mikið ber á.

* **afburðalaus** *l,* sem lítið eða ekkert þolir e. megnar: *hann hangir einvirki við jörðina, sjalfr svangr, með konu og börnum afburðalausum og nöktum,* LFR, IV, 178.

* **afbýli** *kl,* býli, sem er bygt úr stœrri jörð: *jörð með meðfylgjandi a.,* Lþb. 1744, nr. 31.

* **afbær** *l,* **1.** frábær, sem ber af öðrum, tekr öðrum fram. **2.** þolandi, sem verðr afborinn; ópers.: *e-m er ekki (varla) a-t; verkjarhviðurnar eru svo harðar, að h-m er varla afbært.*

* **afbœjar** *ób. lo,* utan heimilis: *hvort sem það eru heimahestar eða a., þá rektu þá úr engjunum.* — Sams.: **afbœjar-fé, -folk,** fé, folk, sem ekki á heima á bœnum. **-hestr. -hundr. -maðr.**

* **afbögun** *k,* rangfœrsla, aflagafœrsla orða e. efnis: *þetta er afbögun orða minna.*

* ⊤ **afbökun** *k,* = *afbögun;* »afbögun« er rétta myndin.

* **afbötun (-ar; afbatanir)** *kv,* afsökun, málsbót.

**afdalr** *k,* **1.** dalr, sem gengr út úr öðrum (aðal)dal. **2.** dalr fjarri manna bygðum. Sams.: * **afdala-bóndi,** bóndi, sem býr í afskektum dal, LFR, VII, 83.

* **afdeila** *s,* skifta sundr, BH.; afmarka: *a. e-m reit; hans hluti í túninu var alveg afdeildr.*

* **afdeiling** *kv,* aðskilnaðr, sundrgreining, BH.

**afdeilingr** *k,* hluti, partr, Bps. I.

* **afdeyja** *s,* linna gersamlega (um

storm e. hafrót), BH. *afdáið veðr*, óveðr, sem alveg er lint, VF; BH.

* **afdjúp** *kl*, gjá, hyldýpi, Skír. '*84*, 95.

**afdráttr** *k*, **1.** það að draga, e. það sem dregið er, af e-u, rýring; missir, tjón: *þetta lét hann koma til afdráttar af kaupi hennar; greiða e-ð án afdráttar*, greiða að fullu; *sýslumaðr skal gera hjá þeim atför... svo kongr engan afdrátt líða skuli*, líði ekkert tjón, missi einskis í, Lþb. 1718, nr. 21. † **2.** frádráttr (í reikningi), Alg. 358. ꝺ **3.** söfnuðr (um mat), Sch. — Sams.: * **afdráttar-laus** *l*, refjalaus, skilgóðr: *a. um alt, er greiða skal*, LFR, V, 56. **-laust** *a*, **1.** svo að ekki vanti á: *(smjörskökunni) . . . varð hún að skila manni sínum a.*, PoS, 36. **2.** svo að ekki sé vangert, fullkomlega: *ala kalf a.*, LFR, VI, 27. **3.** hiklaust, svo að ekki sé úr dregið; fortakslaust, V.Post. 292. *α* **-réttr**, tollunar-réttr: *a. af útfluttum eigum*, Klp. V, 103.

△ **afdreg|inn** [-drei-] *lm*, (um hugmyndir) tekinn einn sér, alveg út af fyrir sig, sérnæmr, sjalfrœnn, sérstœðr *(abstract): in a-na hugmynd: þjóð*, Fjk. '88, 7b. *And.*: viðkendr.

* **afdrep** *kl*, skýli fyrir regni e. snjókomu (einnig fyrir stormi).

* **afdrif** (-s) *kl*, mismunrinn milli stýrðrar og sigldrar stefnu (í hliðvindi e. beitivindi).

**afdrif** *flt. kl*, † **1.** afköst, framkvæmd (forlög?): *barn líklegt til stórra a-a*, líkl. til að mikið eigi fyrir því að liggja; *lítil verða okkr a.*, lítið legst fyrir okkr, lítið verðr úr okkr. † **2.** afkvæmi: *váru þessar hans kynferðir ok a.*, Stj. **3.** endi, lyktir; ævilok.

* **afdrukkinn** *lo*, kominn til sjalfs sín aftr, búinn að ná sér, eftir ölvun e. ölœði.

† **afdrykkja** *kv*, N., = *ofdrykkja*.

† **afdœma** *s*, dœma af: *at limr a-i höfuðit sinni sœmd*, Bps.

* **afdœma-** *fsk*, dœmalauslega, dœmalaust: *a-vitlaus, a-vitleysa, a-veðr*, ógrlegt, dœmalaust.

* **afdœmi** *kl. flt*, e-ð óheyrt, óheyrilegt, ódœmi, endemi: *a. eru að heyra þetta!*

* **afdœming** *kv*, = afdœmi.

* **afdœmislegr** *l*, óheyrilegr: *a. útsóun*, Skír. '87, 46.

**afeggja (-aði)** *ás*, letja, telja af: *a- e-n e-s*, telja e-n af e-u, letja e-n e-s. *And.*: áeggja, hvetja, brýna.

† **afeigna (-aði)** *ás*, afsegja, afsala: *a. sér alla hlýðni við Rómakirkju.*

*α* **afeinka (-aði)** *ás*, svifta (eignrétti að): *a. manni eign hans til handa öðrum manni*, TstÍ, I, 218.

† **afeira (-ði)** *ás*, taka frá (e-m), svifta (e-n e-u): *afeira þá sinni sœmd*, svifta þá s. s.; *a. e-n riddaradómi.*

† **afeista (-aði)** *ás*, gelda, taka eistun úr (e-m).

* **áfel|la (-di)** *ás*, fella sök á (e-n), fordœma, átelja: *allir áfeldu hann fyrir þetta*, lögðu þungan dóm á hann fyrir þetta, lögðu h-m þetta til lýta; *hann vitti þau bæði fyrir þetta, og áfeldi hana þó meira en hann*, gaf henni þó meiri sök á því en h-m.

* **áfella** *kv*, lausholt, fjöl sem feld er, sperra milli, ofan á langás, þann er sperruleggirnir hvíla á.

* **áfellast** *pms*, = áfella: *Ólafr byskup tók til að á. Einar prest*, EspÁ, II, 92.

**áfelli** *kl*, † **1.** = áfall (6): *þrenging og á; it 10. áfelli*, plága. † **2.** *þat á. hafði legit á því folki*, sá kross, þau álög höfðu osfr. † **3.** harðræði, tjón: *hvert á. jarl hafði veitt h-m.* † **4.**

þungi, refsing, sem á e-n er lögð: *banns á.* 5. sök, sekt; álas, ámæli: *snúa máli til á-s e-m,* telja e-m sök á máli; *það varð honum til á-s, að peningapyngjan fanst hjá h-m,* til sektar; *h-m var það til á-s talið,* lagt það til lýta. * 6. illviðri, sem gerir jarðbann; snjókyngi, e. snjóbleyta, sem frýs og gerir ísalög, svo að fénaðr nær eigi til beitar: *þar hafa hestar verið á gjöf síðan á-ið í Þorra-byrjun.* — Sams.: **áfellis-dómr** *k,* 1. dómr, er dœmir e-n sekan. * 2. álit, er telr e-n vítaverðan: *fyrir þetta fékk hann margra manna á-m,* ámæli. * **-verðr** *l,* ámælisverðr, FjÞ, 66; MillFr. 197. — * **áfella-samr** *l,* (um tíma), sem *áfelli (6)* eru tíð á: *á. vetr; á-t vor,* vetr, vor, þá er áfelli eru (voru) tíð. * **-vetr,** áfellasamr vetr; * **-vor.**

* **áfengi** *kl,* 1. sá eiginleiki e-s efnis, að það fær á mann, svo sem eru vín og vínanda drykkir, ópíum o. fl.: *kolsýra hefir á. til að bera,* hefir þann eiginleik að »fá á« (ɔ: örva, œsa) mann. 2. hvert það efni, sem œsir mann e. ölvar, sér í lagi, vín, vínandi, öl: *gera á-ið útlægt,* Skuld IV, 211. — * Sams.: **áfengis-áhrif** *flt.* **-bann. -böl. -drykkr. -eitr. -fjandi,** óvinr áfengis. **-frí** *l.* **-kraftr. -laus** *l.* **-leysi. -lyf. -lögr. -nautn. -postuli. -sala. -tollr. -vara. -varningr. -veiting. -verzlun. -vinr. -þræll.**

† **áfenginn** *l,* = áfengr.

**áfengr** *l,* sem fær á, svífr á (mann). *á-ir drykkir,* drykkir, sem gera mann ölvaðan.

* **áferð** *kv,* 1. það, hversu (vel eða illa) fer á (t. d. yfirborði dúks); sléttleiki e. fegrð vínginda á dúk. 2. það að »fara á«, e. það að »fer á« e-n í svefni = martröð. [Líka klámorð: *coïtus cum aliqua*]. — Sams.: **áferðar-fagr** *l,* sem falleg á. er á. **-fallegr** *l,* sama. **-góðr. -ljótr. -sléttr. -slæmr.**

† **aferfa** (-ði) *ás,* gera arflausan.

* **áfergi** *kl,* * **áfergja** *kv,* áköf eftirsókn, ákafi. — Sams.: **áfergi-lega** *a,* LFR, IX, 226. **áfergis-læti** *kl. flt.* **áfergju-legr** *lo,* MT, I, 123. **-skapr** *k,* Þús. I, 18.

**áfesting** *kv,* sú athöfn að festa e-ð á e-ð, EJO.

* **áfestingr** *k,* mjalldrífa svo lítil, að festir að eins á jörð, AF.

* **afeyrðr** *lm,* sem eyrun eru af (hvort heldr um skepnu, bolla e. krukku).

**afeyringr** *k,* sá sem eyrun eru skorin af; um sauðkind, Bps; um mann, Háv.

* **afeyrt** *kl. lm,* = *hluststýft* (fjármark).

**affall** *kl,* * 1. (egl. það sem fellr af) kvísl (úr öðru straumvatni), afrás. Næstvestasta kvíslin úr Markarfljóti (milli Þverár og Ála) heitir *Affallið;* það skilr Landeyjar frá Austr-Landeyjum. § * 2. það sem af (e-u) fellr, gengr úr, úrgangr: *það má nota a-ið handa hœnsunum og svínunum.* 3. *flt.* afföll, lækkun á verði, afsláttr: *selja með afföllum,* Svd. † 4. lækkun á eftirgjaldi: *byggja jörð með a-i,* N. † 5. rýrnun: *a. jarðar,* N. * 6. það sem af gengr uppistöðunni, þá er vefr er fullofinn og er skorinn niðr (»feldr af« — sjá: »*af* — fella af«) þ. e. voðin klipt frá afgangi uppistöðunnar, (sem er í lykkjum brugðnum um skaft). *Sn.* afuggur (flt.). — Sams.: **affalls-endi,** spotti af þræðinum e. bandinu í affallinu (6). **-spotti,** sama. **-þráðr,** sama. **-torf,** torf, sem orðið er afgangs e. úrgangs (helzt gamalt), LFR, I, 196 (7. gr.).

* **affalli** *k,* sá hluti lands, er sjór fellr

af með fjöru, en yfir með flóði (einkum um leirur við fjarðar-botna), EJO.

*x* **affangadagr** = *aðfangadagr.*

* **affara**[1] *a*, afleiðis, burt frá réttum vegi: *þeir viltust og fóru a.*, AF. — **-snið**, hjáleitt e. tilgerðarlegt snið e. látœði, LFR, II, 182, Milt. 263.

**affara**[2] *ób. l.*, **affari** *l*, sem verðr áfátt, misgerir (við e-n): *verða a. við e-n*, gera á hluta e-s, Fms. VIII, 237 v.l., EspÁ, I, 49.

**affara-**, **affarar-**, sjá: *afför.*

† **affeðrast** *pms*, verða verrfeðrungr, úrkynjast frá föðr sínum.

† **Affeldr** *k*, nafn á spæni Heljar.

* **affella** *kv*, =

* **affelling** *kv*, sú athöfn í prjóni, að »fella af«, þ. e. mjókka (sjá »fella a.« s. v. »af«) það sem prjónað er (t. a. m. sokk, vettling, þumal) með því að taka úr í hverri umferð unz alt endar í totu með 4—6 lykkjum, sem bandið er svo dregið í gegn um: *hún er komin að a-unni*, að því að fara að fella af; *vera í miðri a-unni*, vera halfnaðr að fella af.

**afferm|a** (-di, -t) *ás*, flytja, taka, farm úr (skipi) e. af (vagni).

*v* **affermandi** *k*, áhald til að sameina andstœð rafmögn án þess að straumrinn fari gegn um mann, Fisch.

* **afferming** *kv*, sú athöfn að afferma.

* **affextr** *lm*, (um hest) faxkliptr, faxrakaðr, faxskorinn, Þj. *'53*, 144.

* **affjalla** *a*, horfinn af fjöllum: *sólin er a.*, skín ekki lengr á fjöllin; sólskinið síðasta er horfið, eftir að sólin er gengin undir.

* **affleka** (-aði) *ás*, gogga lax með ífœru úr veiðifleka, LFR, VI, 184.

**afflett|a** (-i) *ás*, fletta af, afklæða: *a-ir hann sik tignarklæðinu*, flettir hann af sér, afklæðir hann sig, tignarkl., Hms. *a-ast* [= a. sig] *allri blygðun.*

**affletting** *kv*, † **1.** svifting, missir: *a. allra sinna penninga.* **2.** það að afspletta e. vera afflettr.

**afflutningr** *k*, **1.** rógr, bakmæli, ósönn hallmæli á bak. † **2.** úrtölur, latning, afeggjun: *hélt þeim aftr . . . a. ok feðranna fortölur*, Hms.

**afflytja** *ás*, **1.** bakmæla e-m, rœgja e-n; fœra á verra veg, spilla, með ósannindum á bak (rógi): *a. e-n*, rœgja e-n; *a. mál (e-s)*, rangfœra mál (e-s) með rógi. † **2.** letja, telja úr: *affluttu ferðina mjök forsjálega*, löttu fararinnar.

* **affrey|ða** (-ddi) *ás*, veiða froðu ofan af, BH.

* **affreyðing** *kv*, það að affreyða.

* ? **affrægja** *ás*, ófrægja.

**afför** *kv*, egl. brottför, viðskilnaðr, lok, endir; et. að eins höfð í sams.; *flt. affarir*, málalok, úrslit, endir: *ég er hræddr um að þetta hafi illar a-ir*, að þetta fari illa, hafi illan endi. — Sams.: **affara-dagr** *k*, loka-dagr, síðasti dagr hátíðar: *a-d. Jóla*, Þrettándi(nn). * **-drjúgr** *l*, sem ber drjúgan árangr, Skír. VI, 1; VII, 1. * **-fé** *kl*, af sér genginn, lítt nýtr, munr (fyrir slits sakir): *þetta er orðið a.*, útslitið, sem búast má við að þá og þegar verði alónýtt e. bili. * **-góðr** *l*, heillaríkr til árangrs: *það reynist jafnan a-gott (a-bezt)*, gefst ávalt vel (bezt). * **-illr** *l*, sem gefr illa raun. **-kveld** *kl*, síðasta hátíðar-kveld. * **-nótt** *kv*, a. e-s dags = nóttin eftir e-n dag: *á a. þriðja dagsins í síðustu viku . . . sumars*, nóttina eftir þriðja daginn (ɔ: aðfaranótt fjórða dagsins) í síð. v. s., Lþb. 1697, nr. 1. * **-ríkr** *l*, afleiðingamikill:

*þau tíðindi mega teljast merkileg og a-rík*, Skír. V, 57. * **-slæmr** *l*, sem illa gefst: *það er ávalt a-slæmt; a-slæmr vetr*, LFR, XIV, 112. * **-sæld** *kv*, sá eiginleiki að vera (reynast) affarasæll: *a. verzlunarinnar*, Ísaf. *'85*, 158a. * **-sæll** *l*, sem góðar afleiðingar e. góð not verða af = a-góðr. † **affarar-** = affara-(dagr).

**afgamall** *l*, afar-gamall, æva-gamall.

† **afganga (-göngu)** *kv*, **1.** afgangr, það sem um fram er. **2.** útúrdúr. **3.** afhvarf (af réttum vegi): *a. guðs laga*, afvik frá guðs lögum, Thom. (**4.** brottför, lok; að eins í) Sams.: **afgöngu-dagr**, affara-dagr.

**afgangr** *k*, **1.** leifar, það sem af gengr e. um fram er: *hafa hey með afgöngum*, meira en nœgilegt; *hafa e-ð afgangs*, um fram, að leifum. † **2.** skuldskiftareikningr: *gera löglegan a. með e-m* N., gera e-m lögfull reikningsskil. ☌ **3.** ævilok, dauði, FsN; *bæn um góðan afgang*, Ldb. 190. * Sams.: **afgangs-**, sem um fram er. **-borð. -jarn. -laus** *l.: -laust*, svo að ekkert gengr af, LFR, IX, 53. **-leifar. -nagli. -saumr** = -naglar. **-stafr**: *-stafir verða, þá orðið kemst ekki alt, hvar línan endar*, Sch.; — og ótal fleiri sams.

**afgangs** *ób. l.* og *a*, egl. ef. af »afgangr«; um fram.

*(?) **af|gata (-götu)** *kv*, egl. gata, sem liggr út frá alfaravegi eða aðalvegi; villistigr.

*a* **afgeipa** *a*, ákaflega, óstjórnlega; afvega(?): *eg mun eigi | fara a.*, Milt. 302; *afsast einförum | a. fram | eitthvað út í | ið endalausa*, Klopst. II, 72. VF.

† **afgelja** *kv*, hjal, skraf.

**afgera** *s*, misgera; ᵠ fullráða.

**afgerð** *kv*, misgerð, Kgs; Fms; *afgerð móti skyldunni*, afbrot, VPost., 184, 299.

**afgift** *kv*, **1.** afgjald = *afgjöf*. † **2.** eftirgjöf, uppgjöf, forlát, fyrirgefning.

† **afgiftarbréf** *kl*, syndlausnarbréf (í kaþólsku).

† **afgiftarfé** *kl*, fé, sem enginn gerir eignar-tilkall til og því fellr til konungs (landssjóðs): *ef ... hvárki kennir sér þann grip, þat heitir a.; þat á konungr*, Bjark.

† **afgiftu-vika** *kv*, gangdaga-vika, N.

† **Afgiftu-Þórsdagr** *k*, Uppstigningardagr, N. *Sn.:* Parduns-Þórsdagr.

* **afgirða** *s*, gera garð e. gerði um; skilja (reit) frá öðru (svæði) með garði.

* **afgirðing** *kv*, girðing, sem skilr e-ð frá öðru; umgirðing.

* **afgisa** *ób. l*, orðinn þéttr aftr (um ílát, sem hefir verið gisið), AF.

* **afgisja (-aði)** *ás*, gera (ílát, svo sem kirnu e. tunnu e. kút) afgisa (með því að láta vatn standa í ílátinu, e. láta það standa niðri í vatni), AF.

**afgjald** *kl*, **1.** eftirgjald, leiga (eftir jörð o. fl.). † **2.** álaga, gjald, sem á er lagt, Vilk. — Sams.: * **afgjalds-frí** *l*, = *-laus*. * **-kvöð** *kv*, sú kvöð e. skylda að greiða afgjald. * **-laus** *l*, **1.** laus við að greiða afgjald (1.). **2.** sem ekkert afgjald (1.) er goldið eftir: *a. ábúð á Möðruvöllum*, StT, A, '77, 126.

† **afgjarn** *l*, stopull, sem illa heldst á: *a-t er öfundarfé*.

† **afgjöf** *kv*, hlutr af veiði á helgum degi, goldinn til fátœkra: *afgjafir heilagra daga veiða*.

* **af|glap** *(flt.* **-glöp)** *kl*, skyssa, fljótræðisleg e. heimskuleg yfirsjón: *Nú gerir hann eitthvert a-ið!* Tíðast í flt. *afglöp: Mig hafa jafnan skilið sköp |*

*frá skœru unaðs-blómi.* | *Það voru grátleg þings-afglöp* | *í þeirra sleggju-dómi,* KJL.

† **afglapa (-aði)** *ás,* trufla, glepja (með hávaða e. troðningi e. œrslum): *ef menn troðast svo mjök at Lögréttu fyrir önnkost, eðr gera þar hrang þat eðr háreysti, at fyrir því a-ask mál manna, ok varðar þat fjörbaugsgarð,* Grág.

† **afglapan,** sjá: *afglöpun.*

* **afglapaskapr** *k,* Klopst. 2.b. 55.

**afglapi** *k,* maðr, sem ekki er með öllum mjalla; fífl; fól (í báðum merkingum): *úmœt eru a-a orð,* Laxd.; nú er sagt: *ómœt eru ómaga orð.*

† **afglöpun** *kv,* það að afglapast, glepjast, að manni skjöplar; kemr að eins fyrir í sams. *þings-a.,* sjá þ. o.

* **afgoð** *kl,* **1.** falsguð: *þú lœtur heimsins fornu afgoð falla,* JÓLj.[3] 204. **2.** átrúnaðargoð; það sem maðr hefir svo miklar mætr á, að hann nærri trúir á það.

* **afgogga (-aði)** *ás,* losa af goggi: *a. steinbít,* Sch.

* **afgoldningr** *k,* (sá sem goldið er af?).

* **afgreiða (-greiddi)** *ás,* greiða úr þörf, bón e. erindi e-s; sinna erindi e-s; gera e-ð tilbúið til sendingar e. burtferðar, o. fl. þvíl.: *ég ætlaði að tala við þig, en ég sé að hér er annar maðr á undan mér; afgreiddu hann fyrst,* sintu honum fyrst; *afgreiða skiftavin við verzlun,* selja h-m og afhenda það sem hann ætlar að fá; *hann er latr við bókina* (ɔ: reikningaskriftir), *en lipr að afgreiða; af því að þröng er inni, þá er hver maðr beðinn að fara út jafnótt og hann er afgreiddr,* jafnótt og erindum hans hefir sint verið; *afgreiða blað með pósti,* slá utan um, rita utan á, frímerkja blað og flytja það til pósthúss; *a. póst,* taka við póstsendingum og ganga frá póstsendingum, sem koma og fara með pósti; einnig að afhenda (viðtakendum) póstsendingar: *illa gengur að a. póstinn,* | *aldrei úr rúminu hreppstjórinn fer* (í »Daníelsens-vísum«); *a. skip,* reka á landi erindi skips, annast afferming þess og útskipun varnings í það, sölu farbréfa osfr. Einnig: rita á skipsskjöl osfr. *a. störf,* inna af hendi störf.

**afgreiðsla** *k,* † **1.** afgjald, greiðslu-kvöð af tekjum (sbr. B.M.Ó. í Safn t. s. Í, IV, 334). * **2.** það að afgreiða: *hann hefir á hendi afgreiðslu blaðsins og reikningshald, en ekki ritstjórnina; a. póstskipanna; a-n er örðugt verk og vandasamt.* **3.** það að vera afgreiddr: *hann bíðr eftir a-u; það mál bíðr nú a-u.* **4.** = *afgreiðslustofa.* — * Sams.: **afgreiðslu-draugr,** maðr, sem er seinn og stirðr við a. **-hús. -kostnaðr. -lipr. -maðr, a.** sá maðr, sem afgreiðir. **b.** sá maðr, sem greiðir (fé) af hendi: *a. skulda,* EspÁ, III, 41. **-staðr. -stofa. -tími. -þjónn.**

* **afgrein** *kv,* egl. grein af (e-u), deild, kvísl (einnig í óel. merkingu), afkvísl osfr.

* **afgróði** *k,* eftirtekja (af e-u, sem sáð hefir verið).

φ **afgrunn** *kl,* =

φ **afgrunnr** *k,* dýpi, hyldýpi. — Sams.: **afgrunns-alda,** hafdjúps-alda, Iðr. 7. **-búar,** undirheima-búar, Klopst. **-þrömr,** Klopst.

ν **afgrœðingr** *k,* egl. frjókvistr e. jurt, sem skilin er frá aðal-trénu e. aðaljurtinni og gróðrsett sér í lagi; óel. ávöxtr: *þjóðernis-stefnan var a. af stjórnbyltingunni.*

*** afguð** *k*, = *afgoð*. — Sams.: **afguða-dýrkun. -dýrkari.**

† **afguðlega** *a*, heiðinglega, N.

*** afgœðingr** *k*, sérgœðingr, hroki.

*** afgœðingslegr** *l*, sérgœðingslegr, hrokafullr, drembinn.

*** afhald** *kl*, met, mætr: *vera í miklu a-i*, vel þokkaðr, vera í miklum kærleikum (hjá e-m). Sbr. halda af e-m (sjá: *halda* s. v. *af*).

*** afhallandi** *lm*, aflíðandi: *a. dagmálum, a. miðjum morgni, a. hádegi, a. miðmunda, a. nóni, a. miðaftni, a. náttmálum*, aflíðandi dagmálum, hádegi osfr.; [en um *miðnætti* er ekki sagt *a.*, heldr: *aflíðandi*].

**afhallr** *l*, hallandi út af.

*** afhaltr** *l*, heill orðinn af helti: *klárinn verðr afhaltr aftr á morgun*, klárnum verðr bötnuð heltin.

† **afhaugr** *k*, afherbergi í haug, sem gengr út úr aðal-haugnum. Sbr. afhellir, afherbergi, afhús.

† **afhefð** *kv*, það að halda undir sig annars manns fé.

† **afhegna** *ás*, afgirða.

† **afheima** *kl*, útbýli, nokkuð frá aðalheimilinu e. aðalbœnum, N.

*** afheimila** *ás*, afsala; [ekki sama sem D. *afhjemle*, sem merkir: að staðfesta með eiði], LFR, IV, 29.

† **afheimis** *a*, utan þessa heims; í öðru lífi.

† **afhelgast** *plm*, vanhelgast.

**afhellir** *k*, hellir, sem gengr út úr aðalhelli(num).

**afhenda** (þát. **-hendi**, ***-henti**; lh. l. t. **-hendr**, ***-hentr**) *ás*, **1.** láta af hendi (bókstaflega): *hann a-i mér peningana*, fékk mér p. í hendr; *a. e-m skuld*, greiða e-m skuld(ina) í hendr; *ég a-i póstinum bréfið*, fékk p. bréfið í hendr (sjalfum). * **2.** sér í lagi við verzlun: að (mæla, vega og) fá manni í hendr þær vörur, sem hann hefir keypt: *þeir eru 2 í búðinni, Björn við bókina, en Finnr afhendir; birgðaskála-maðr mælir og afhendir alla þungavöru eftir ávísun úr búðinni.* **3.** *(óel.)* fá í hendr (um réttindi e. þvíuml.): *ég a-i þér skuldkröfuna á Guðmund*, veiti þér rétt til að krefja G. um skuldina.

△ **afhendilegr** *l*, sem afhenda má, auðið er að afhenda: *réttindi þau eru . . . a-g og viðskiftileg*, (A. Ó.).

**afhending** *kv*, * **1.** það að afhenda (1.—3.). † **2.** bragarháttr forn, ein tegund dróttkvæðs háttar, svo löguð, að 1. samstafa 2. og 4. vísuorðs er söm og næst-síðasta samstafa næsta vísuorðs á undan, og gerir aðalhending í 2. og 4. vo. Ef skothent er í 1. og 3. vo., þá er háttrinn dunhenda, svo sem: »Hreintjörnum gleðr horna, | horn náir lítt at þorna«. En sé líka aðalhendingar í 1. og 3. vo., þá heitir það iðurmælt, þannig: »Seimþverrir gefr seima | seimörr liði beima«. * **3.** rímnabragarháttr (eigi forn), þannig: »Afhending er öllu góð, þá annað brestur; | við hana er Siggi setstur«, (Sig. Brf.). — * Sams.: **afhendinga-bók**, bók, sem í er ritað við verzlanir það sem afhent er e. afhenda skal í birgðaskála. **-maðr**, ♂ birgðaskálamaðr, sem afhendir þaðan vörur; alment: innanbúðarmaðr, sem afhendir, (en ekki ritar í bœkr). *a* **afhendingar-bréf**, afsalsbréf: *kvittantia og a. Guðbrands Þorlákssonar á sömu jörð*, Lpb. 1695, nr. 49. **-miði, -seðill**, miði e. seðill, sem kaupandi (þunga)vöru fær í búð og er ávísun til birgðaskálamanns um að láta hana af hendi.

**afhendis** *a*, **I.** af höndum sér: *segja sér e-ð a.*, afsala sér; *sverja sér konu a.*, afsala sér konu með eiði. **2.** úr höndum sér, frá sér: *láta e-ð a.*, láta e-ð frá sér.

**afhendr** *l*, † **I.** frá skilinn, laus af (e-u): *a. allri fornri villu*, Barl. **2.** sem hönd er slept af; sem maðr lætr frá sér; sem er úr ábyrgð (e-s): *segja sér mann a-an*, sleppa verndarhendi af manni, reka hann frá sér, OHm.; *nú færi ég yðr þjófinn og segi mér hann a-an með öllu*, úr minni ábyrgð.

† **afhentr** *l*, að eins kl.: *afhent*, óhent, óhentugt.

† **afheyrandi** *lm*, sem heyrir eigi til: *við mann áheyranda eða a-a*, Grág., Trist. *And.:* áheyrandi.

**afheyris** *a*, á bak; svo að e-r heyrir eigi: *vini skal lofa a., en víta áheyris*, GÍO. *And.:* áheyris.

Ψ **afheyrsla** *kv*, yfirheyrsla (vitna), Klp. VIII, 136. D. *Afhøring*, *Afhørsel.*

* **afhjúpa (-aði)** *ás*, **I.** (í egl. skilningi) að draga hjúp af: *afhjúpa mynd*, Skír. VIII, 24. **2.** (óel.) draga dularhaminn af e-m, koma upp um e-n því, sem hann hefir viljað leyna: *a. hræsnarann.*

* **afhjúpun** *kv*, athöfnin að afhjúpa.

* **afhlaða** *ás*, afferma.

† **afhlaðning** *kv*, afferming, N.

**afhlaup** *kl*, † **I.** afgangr: *til a-s*, afgangs. Ψ **2.** afrás, afrensli: *vatnið hafi óhindrað a.*, [D. Afløb], LFR, I, 175. — Sams.: Ψ **afhlaups-gröftr**, afrásarskurðr. † **-korn**, afgangs-korn. Ψ **-renna**, afrásar-skurðr.

* **afhleðsla** *kv*, afferming.

α **afhleypa** ⊤ *kv*, það að hleypa af: *a. skotvopns*, Klp. IX, 172; [rétt mynd væri: *afhleyping*].

△ **afhljóð** *kl*, hljóðbrigði, VÁRit, [*hljóðbrigði* er miklu betra orð, enda komið inn í málið]. Þ. *Ablaut.*

* **afhluta (-aði)** *ás*, **I.** skilja frá: *þeir hafa fengið sinn skerf afhlutaðan*, fengið sínum skerf skift úr. **2.** afskifta: *mönnum þótti hann a. systr sína*, hafa af henni í skiftunum.

† **afhlutr** *k*, hlutr, sem e-m er skift e. hlotnast: *hafði mikinn fjár afhlut.*

† **afhlýðast** *pms*, neita, skorast undan: *a. e-s*, synja e-u; *afhlýddist upplyktar landskuldar*, synjaði greiðslu landskuldar.

* **afholfa (-aði)** *ás*, afþilja, gera holf, sem skilr rúm frá öðru, gera rúm að holfi e. herbergi út af fyrir sig; skifta í holf e. kompur: *hann lét a. tvö stafgolf í suðrendanum og var það svefnherbergi; a. handraða í kistunni*, þilja af handraða.

* **afhóp** *kl*, »afkimi úr vatni, og lón út úr öðrum lónum, bæði um straumvötn og stöðuvötn«, Sch.

* **afhorfinn** *lm*, horfinn af e. frá e-u, afhuga.

* **afhorn** *kl*, afkrókr; afskektr reitr.

* **afhrak** *kl*, (= *afrak)* versti úrgangr; varmenni; hlutr svo lélegr, að einskis er nýtr: *þetta get ég ekki notað, það er mesta a.; karl-skrattinn er mesta a.; þangað safnast a. mannkynsins.*

* **afhrapi** *k*, illar afleiðingar(?).

* **afhreistra (-aði)** *s*, **I.** *ás*, ná hreistri af (fiski). **2.** *ópers.:* losna við hreistr, flagna: *en er mig fór að a. eftir mislingana*, eftir að hreistrið fór að flagna af mér.

* **afhreistrun** *kv*, það að afhreistra e. það að e-n afhreistrar.

* **afhreistrunar-tími** *k*, sá tími er mann afhreistrar; flögnunar-tími, LFR, XV, 47.

⊤ **afhrjóða** ⊥ *s*, taka burt: *ljúf gleði er afhroðin*, JÞ, II, 91.

† **afhroð** *kl*, tjón: *gjalda a.*, bíða tjón [etv. ambögun af *afráð*, s. þ. o.].

* **afhrot** *kl*, [oftast í flt.] það sem hrýtr af (af gœðum e. gnœgðum); lítilfjörlegr afrakstr e. ágóði, EJO.

**afhuga** *ób. l*, **1.** hættr að leggja hug á [a. e-u]: *hann varð henni a.*, hætti að leggja hug á hana. **2.** hættr að vonast eftir, úrkula vonar um: *vér vórum orðnir a. að þú kæmir héðan af í kvöld*, hættir að búast við því. **3.** hættr að muna eftir: *verðum eigi a. at vér erum þjónustumenn guðs*, gleymum því eigi, að . . .; *ég mundi eftir því í morgun, en svo varð ég einhverneginn a. því aftr*, hvarf það mér úr minni. † **4.** *a. við e-n*, fráhverfr e-m.

† **afhugaðr** *lm*, [við e-n], fráhverfr e-m.

† **afhugast** *pms*, gerast fráhverfr: *a. allsvaldanda guði.*

**afhús** *kl*, afvikið hús; herbergi út úr öðru herbergi.

**afhvarf** *kl*, egl. það að hverfa af (leið). ♂ **1.** krókr: *afhvarf mikit | er til ills vinar | þótt á brautu búi*, Hávam. † **2.** útúrdúr (frá efninu). **3.** það að villast frá, hverfa frá: *a. frá guði.* **4.** brottför = andlát: *Og Íslands börn við a. hans | umspennir treginn sterki*, SEL, 62[4].

* **af|hverfast** *pms. ás*, verða afhverfr: *síðar afhverfðist ég mjög hann og hans skoðanir. And.* aðhyllast.

* **afhverfr** *l*, frábitinn.

* **af|hvetja** *ás*, *a. e-n e-s*, telja e-n af e-u, letja e-n e-s, ráða frá.

**afhýða** *ás*, **1.** hýða rœkilega, »draga húðina af« e-m. * **2.** flysja hýði af (ávexti): *a. epli*, flysja epli; *a. kartöflur*, flysja kartöflur.

† **af|hylja (-huldi)** *ás*, afhjúpa, bera.

† **afhyrning** *kv*, afhorn, afkrókr.

* **afhýsi** *kl*, afhús.

† **afhæra (-ði)** *ás*, svifta hári.

**afhöfða (-aði)** *ás*, taka höfuðið af: **1.** halshöggva (einkum um menn). **2.** skera höfuð af (um skepnur, einkum fisk): *slægja og a. fiskinn.*

**afhögg** *kl*, † **1.** það að höggva af: *ef maðr höggr hönd e. fót af manni, e. hvert a. er hann veitir*, N. **2.** höggspænir; það sem heggst af (við smíðar t. d.). * **3.** þvert nei, harðneitun: *ég sárbað hann, en það var hreint a.*

**afi** *k*, **1.** föðurfaðir e. móðurfaðir. † **2.** maðr: *afi eftir afa*, niðr eftir nið; *er afi hefir afa leift.* — Sams.: * **afa-bróðir. -systir.** * **-systkin.**

* **áfir** [áir] *kv. flt*, mjolk, sú er afgangs verðr í strokknum og skekst ekki smjör úr.

* **áfjáðr** *l*, áfergjulega fíkinn, sem sœkir e-ð fast og áfergjulega, nærgöngull í fíkn.

* **afkáralegr** *l*, fáránlega frábrugðinn því sem títt er, vel þykir fara e. vera ber.

* **afkáraskapr** *k*, það sem er afkáralegt.

† **afkárlegr** *l*, = *afkáralegr.*

* **afkarma (-aði)** *ás*, þilja sundr, skifta af svæði (herbergi) með þili e. vegg, EÓK, 155. [sbr. *karmr 1*].

† **afkárr** *l*, = *afkárlegr: er hér nokkuð afkárt inni*, nokkuð óvanalegt, undarlegt, FsN. [af *kárr?* afkárr = sem hrökkr e. vindst frá réttu lagi].

* **afkast** *kl*, **1.** arðr, árangr, afrakstr: *árangr e. a. vinnunnar*, Auðf. **2.** *flt*, *afköst*, unnið verk, það sem afkastað

er: *tveggja maki að a-um.* — *Sams.: **afkasta-lítill** *l,* lítilvirkr, sem litlu afkastar. **-maðr,** maðr, sem miklu afkastar. **-mikill** *l,* sem miklu afkastar. **-samr** *l,* = *-mikill.* **-semi,** dugnaðr til afkasta.

* **afkasta (-aði)** *ás. m. þgf,* inna (verk) af hendi: *það var alveg ótrúlegt, hverju sá maðr gat a-að á svo skömmum tíma.*

† **afkaup** *kl,* kaup (verzlun), sem maðr skaðast á (sbr. »kaupa af sér«). *And.* hagkeypi, happakaup.

* **afkeimr** *k,* egl. (lítilsháttar) annarlegt bragð heldr en það sem hlut er eiginlegt: *það er a. að vatninu, mjolkinni,* eitthvert annarl. bragð; *mjolkin hefir a. af ilátinu,* hefir fengið bragð af íl.

*x* **afkimi,** sjá: *afkymi.*

* **afklefi** *k,* klefi (út úr öðru herbergi).

† **afkleyfis-orð** *kl,* smá-orð (einkvætt) um fram rétta tölu atkvæða (samstafna) í vísuorði.

† **afkleyfis-samstafa** *kv,* samstafa um fram rétta tölu í vísuorði.

* **afklippa** *kv,* geiri e. pjatla, blað e. þvíuml., sem klipt er af e-u.

*a* **afklofi** *k,* skíð, klofið af tré, BH.

**afklæ|ða (-ddi, -tt)** *ás,* **1.** færa úr fötum (klæðum). **2.** ógl. sýna nekt e-s (andlega). **3.** *plm, afklæðast,* afklæða sig, fara úr fötum.

* **afkoma** *kv,* **1.** það sem kemr af e-u, afrakstr, arðr, gagn (af búi e. búpeningi): *að bera saman alla bús-afkomu eins árs við annað,* Þjóð. X, 9. (sbr. *sumar-afkoma* = sumar-málnyta). **2.** það að komast (vel e. illa) af; það, hvernig maðr kemst af: *jafna svo eigurnar, að allir hafi jafna a-u,* Íf. '80, 48 b.; *hann hefir allgóða a-u,* kemst allvel af, h-m farnast allvel; *það er vist bága a-n hjá þeim vesalingunum* þau eiga víst við mjög örðugan hag að búa. — Sams.: * **afkomu-lítill** *l,* **1.** afurðamagr, afurðarýr: *búa í hörðu og a-litlu landi,* Þr. R. 87. **2.** málnytulítill, nytlítill: *jörðin er mögur, peningur þar a.,* SL, Sch.

**afkomandi** *k,* niðr, niðji.

* **afkrá** *kv,* = *afkrókr (2).* Sbr. *kró.*

* **afkristna (-aði)** *ás,* snúa frá kristinni trú: *afkristna landið,* eyða kristni í landinu.

* **afkró (-krór; -krœr)** *kv,* afgirt skot. Sbr. *dilkr.*

* **afkróa (-aði)** *ás,* kvía í kró; einangra.

* **afkrókr** *k,* **1.** krókr út frá réttri leið: *ég ætla að bregða mér dálítinn a-k,* gera lykkju á leið mína, skreppa dálítið af leið. **2.** skot, skúmaskot, afsiðis krókr.

* **afkvista (-aði)** *ás,* höggva, sníða, kvistu af tré.

* **afkvisti** *kl,* greinar og kvistir, sem höggvið er af bol trés e. viðar.

† **afkvistr** *k,* = *afgrein.*

* **afkvistun** *kv,* það að afkvista: *a. viðar,* Klp. VII, 97.

**afkvæmi** *kl,* **a.** afkomandi, niðr. **b.** *so,* afkomendr (í einu). — Sams.: † **afkvæmis-maðr** *k,* afkomandi.

**afkymi** *k,* **1.** afsiðis horn eða krókr. **2.** opinn skápr e. holf í vegg: *afkymar í veggjum . . . til að geyma í líkkistur og smyrlinga,* IðSG, 138.

**afkynjast** *plm,* úrættast, úrkynjast; *lm:* **afkynjaðr,** úrættaðr, úrættr.

† **afkœmi** = *afkvæmi.* — Samsetn.: † **afkœmis-maðr,** afkomandi.

**afl**[1] [abbl] (flt. **öfl** [öbbl]) *kl,* **1.** líkaml. megn, máttr, kraftr: *ramr að afli, styrkr að afli; hann hafði meira a. í einum fingri, en meðalmaðr hefir í*

*allri hendi; hann hafði tveggja manna a., þeirra er knáir eru; hafa afl* (krafta) *við e-m,* vera jafn-sterkr e-m; *hafa afl til e-s,* krafta til e-s. **2.** ofríki, ofbeldi: *taka með afli; bjóða e-m afl,* sýna e-m (beita e-n) ofríki. **3.** magn, náttúru-magn: *a. dauðfærandi grasa,* kraftr banvænna jurta. **4.** (ólíkaml.) máttr: *hafa a. til e-s,* vera fær um að gera e-ð eða koma e-u til leiðar. **5.** gildi: *dæmdu vér þetta boð úlögligt ok ekki afl hafa,* ógilt, marklaust, DI, III, 3; *kvittun, sú er honum var gefin, skyldi ekkert a. hafa,* EspÁ, II, 27. **6.** atkvæðafjöldi: *nú verða menn eigi ásáttir, þá skal a. ráða með þeim.* — Sams.: △ **afl-aukning** *kv,* aukning afls (í fræði samveikislækna: þynning lyfja, sem á að gera þau áhrifameiri. [D. *Potensering*]), Homö, 50. △**-auka-aðferð** *kv,* aðferð til að auka afl (lyfja), Homö, 26. **-fár** *l,* að eins til í kl. í talshættinum: *e-m verðr -fátt,* e-n þrýtr (skortir) afl (til e-s). ***-fræði** *kv,* fræðin um jafnvægi og hreyfing (fastra) líkama, um öflin. * **-fræðislegr** *l.* * **-fræðingr** *k.* * **-gengr** *l,* (um hest), sem gengr þróttlega, StÓ, 56. ***-krumma** *kv,* harðsperra (stjarfi) í fingrum (eftir áreynslu), EJO. **-laus** *l,* máttvana. **-leysi** *kl.* ***-leysingi** *k,* þróttlaus, afllítill, maðr. **-lítill** *l,* burðalítill, kraftasmár. ***-maðr** *k,* sterkr maðr, kraftamaðr. **-mikill** *l,* sterkr, burðamikill, knár. **-raun** *kv,* krafta-þraut; tilraun, hvor (hver) sterkari (sterkastr) sé; áreynsla á kraftana. ***-rim** *kv,* efsta og neðsta rim í hverri hlið á kláf (meis), sú er heldr honum saman. ***-sin** *kv,* sin, sem afl e. þróttr er í. **-skortr** *k,* vöntun krafta. ***-taug** *kv,* máttartaug, sterk taug. **-vana,** **-vani** *l,* sem ekki hefir nægt afl. ***-vöðvi** *k,* meginvöðvi, einkum sá í upphandlegg, og jafnvel þróttmesti vöðvinn í hendinni. ***-þrota, -þroti** *l,* aflvana, LFR, II, 177. — **afla-fátt, -mikill,** sjá: *afli.* △ **afla-frœði** *kv,* = *afl-frœði.* △ **-frœðingr** *k,* = *aflfrœðingr.* — † **afls-maðr** *k,* = *aflmaðr.* **-munr** *k,* mismunr afls eða krafta: *kendi þá -munar,* kom þá fram krafta-munrinn. Í *flt:* **-munir,** kraftar: *hann hefir mikla aflsmuni,* er mjög sterkr; *varð hann að kosta aflsmuna áðr hann kæmi honum undir,* varð að kosta e. neyta afls (síns), beita öllu afli. † **-raun** = *aflraun.*

**afl**[2] [abbl] *k,* **1.** eldstœði í smiðju e. sérstaklega sá umbúnaðr allr, sem aflholkrinn liggr gegnum: *bregða e-u fyrir* [ekki *í* né *á*] *aflinn,* eldbera það (t. d. ljá eða þvíuml.). † **2.** eldstœði alment, eldstó, N. — Sams.: **afl-gróf** *kv,* gróf niðr í golfið, sú er neðri hluti belgsins gengr niðr í. ○**-heitr** *l,* sem hefir heitan afl: *aflheit Krafla* (um eldfjallið Kröflu), Klp. IV, 46. **-hella** *kv,* hellan undir eldstœðinu fyrir afli e. framan við afl, hellan, sem eldrinn er á. ***-holkr** *k,* holkr í smiðjubelg, sá er liggr fram úr belgnum gegnum aflinn að eldstœðinu, en um -holkinn fer vindrinn þá er blásið er. ***-spræna** *kv,* bitið í (elddengdum) ljá frá því er hann er dengdr og þar til er brýna þarf fyrsta sinn: *hann sló (risti) svo og svo mikið í -sprænunni,* SL, Sch. [sbr.: »í einni brýnu«].

**afla (-aði)** [bbl] *ás,* **1.** *afla e-s,* ávinna (sér) e-ð, útvega (sér) e-ð, eða (ef um ilt er að ræða) baka (sér) e-ð: *a. sér fjár ok frama (frægðar),* ávinna sér fé og fremd (frægð); *a. sér vinsælda,*

ávinna sér vinsældir; *a. sér óvinsælda,* baka sér óvins.; *a. manna til skips,* útvega (ráða) menn á skip; *þetta a-aði h-m óvirðingar,* bakaði h-m óv. † **2.** (lagamál): *afla e-m blóðs eða bens,* veita e-m blóðugan áverka, N. † **3.** *a. e-u,* orka e-u, vera fœr um e-ð, megna e-u: *hann aflaði brátt mikilli vinnu,* var brátt maðr fyrir e. orkaði mikilli vinnu; *sem hánum þótti landit mestu mega afla,* (um útboð) geta risið undir, fá borið; *ekki aflar hann því at standa í móti yðr,* hann megnar ekki, hefir ekki afl eða afla til að st. í m. y. **4.** með þlf, † **a.** *a-aði hann þar mikit fé,* fékk hann, hlotnaðist h-m, þar m. f.; *hafit ér ok mikit í aflat,* aflað mikils; *e-m a-ast e-ð,* ávinst, áskotnast. * **b.** fiska, veiða fisk: *þeir a. vel nú í Vestmannaeyjum; hér hefir lítið aflast á vertíðinni; a. síld, þorsk, ýsu, steinbít* osfrv.; *a. vel, illa, lítið, mikið.*

† **afla-fátt** = *aflfátt.*

**aflag**[1] [avlag] *kl,* að eins tíðkað: **I.** í ef. **aflags** sem a., afgangs, umfram þörf e. nauðsyn. * **2.** í þgf. flt. **aflögum,** sama: *hafa e-ð a-um,* hafa afgangs; *vér verðum að hafa nóg áðr en vér höfum a-um,* SmSp. 24. [*aflögum* getr eins verið þgf. af *aflaga*[1]]. — Sams.: * **aflags-fœr** *l,* sem fœr er um að leggja e-ð af mörkum, hefir e-ð í afgangi.

† **aflag**[2] *kl,* förgun, slátrun (fénaðar): *bað byskup ráðsmann at leggja af margan fénað, þvíat lítt var heyjat . . . minnti byskup enn á um aflögin.*

* **aflaga**[1] **(-lögu)** [vl] *kv,* = *aflag 1.;* að eins tíðkað **I.** í þgf.: **aflögu** sem a.: *hafa hest a.,* afgangs; *hann hefir ekkert aflögum* e. *í aflögum,* honum veitir ekki af. **2.** í ef. flt. aflagna: *hafa vopn aflagna,* hafa vopn aflags e. aflögu. — Sams.: **aflögu-fœr** = *aflags-fœr* (sjá: *aflag).*

† **aflaga**[2] [vl] *s,* egl. fœra frá réttum lögum, hafa að engu (lög), Hms.

* **aflaga**[3] [vl] *s,* **I.** fœra úr lagi, skekkja: *hagga því eða a. það,* fœra það úr lagi, Fjöl. III, *2,* 26; *hræddr er ég um, að orð hans hafi eitthvað a-ast í meðferðinni,* afbagast, verið vikið e-ð við. **2.** afbaga, afskræma: *prýða málið sitt með því að a. það,* Fjöl. II, *1,* 6. **3.** spilla, skemma, leiða afvega: *a. tilfinningar þeirra,* Fjöl. IV, *1,* 9.

† **aflaga**[4] [vl] *a,* ólöglega: *hafa þeir nokkuð gert a. við hann?* gert h-m nokkurn órétt; *ganga a.,* fara í lagaleysi (fram), Stj.

* **aflaga**[5] [vl] *a,* ekki í réttu lagi, öfugt, í ólagi: *hér fer margt a. fyrir hirðuleysi og vankunnáttu.*

* **aflagi** [avlæji, abblæji] *kl,* ómynd, lagleysa, afmán; það sem er fáránlega ólögulegt; það sem hefir afskræmda lögun: *ógnarlegt a. er þetta!; þetta hefir orðið mesta a. hjá þér!* — Sams.: * **aflagis-háttr.** ***-snið.**

† **aflaglega** [vl] *a,* = *aflöglega.*

**aflan** [bl] *kv,* og **aflanar-,** sjá: *öflun, öflunar-.*

* **aflaki** [vl] *k,* ónytjungr, rati, mannræfill, sauðr (um mann), maðr til einskis nýtr. — Sams.: * **aflaka-legr** *l.*

**aflangr** [vl] *l,* sem meiri er að lengd en á breidd e. hæð, Ann. 1414.

*α* **aflangréttferhyrningr** [avl.] *k,* rétthyrningr (ɔ: aflangr ferhyrningr rétthyrndr), LFR, IX, 65.

**aflát** [vl] *kl,* **I.** það að láta af e-u, hætta við e-ð: *a. synda,* afhvarf frá syndum. **2.** það að e-u linnir (þótt að eins sé um stund), hlé: *biðja án*

*a-s*, stöðugt, sífeldlega; *það hefir blásið svona án a-s í alla nótt*, lotlaust, án þess nokkurt hlé hafi á orðið. † *án afláti*, sama. 3. fyrirgefning: *a. synda*, fyrirgefning synda; einkum sérstaklega um aflát kaþólsku kirkjunnar. † 4. tjón, missir, EJO. † 5. það sem umfram er (í sams.). — Sams.: * **aflátsbréf**, syndakvittunar-bréf. †**-korn**, aflögu korn, N. ***-mangari**, maðr, sem selr aflátsbréf (kaþólsku kirkjunnar). ***-sala**. ***-sali**. ***-sölumaðr**. †**-vegr** (í sambandinu) *a. synda*, vegr burt frá syndum. ***-verzlun**, verzlun með aflátsbréf = *afláts-sala*.

**af-látinn** *l*, réttara í 2 orðum: *af látinn*, þ. e. látinn af (e-u), hættr.

* **aflátslegr** *l*, líklegr til að fara að láta af e. hætta: *hann er ekki a.*, ekki líklegr til að linna (um veðr), Sch.

† **aflátr** *l*, hirðulítill, vanrækinn.

* **aflaukning** [abbl-], sjá: *afl*.

**aflausn** *kv*, † **1**. eftirgjöf e-ar skyldu e. kvaðar. **2**. það að inna e. leysa af hendi e-t skylduverk eða kvöð. 3. synda-kvittun = *aflát (3)*. 4. syndafyrirgefning boðuð af presti eftir að syndarinn hefir gert syndajátning í áheyrn safnaðarins (»opinberar skriftir« — héldust hér á landi fram á 18. öld).

**afleggja** *ás*, † **1**. egl. leggja frá sér, sníða burt: *skal hann þann liminn a., er þeir segja glæpinn gert hafa*, sbr. »sníða af þann liminn, sem hneykslar«. † **2**. vanrækja, hirða eigi um, hafna: *þót lagavegr sé aflaginn*, þótt eigi sé gefinn gaumr lagaveginum, þótt lögin sé vettugi virt. † 3. gefa upp, falla frá: *var hann eigi gjarn at a. sitt mál*, hverfa frá sínu máli, láta af sínu máli. 4. hætta við (e-n vana), venja sig af (e-u): *afleggið lygar og talið sannindi; hann hefir aflagt* (e. *af lagt*) *þann ósið; húslestrar eru nú víðast af-lagðir*.

* **afleiða** *ás*, (um orð) leiða (eitt orð) af (öðru): *afleidd orð*, orð sem mynduð eru (með ending eða ending og hljóðvarpi) af öðrum orðum e. stofnum, sem eru frumlegri en afleidda orðið, t. d. orðið *bar-ning* er afleitt af *bar*, stofninum í *ber-ja*.

**afleiðing** *kv*, † **1**. samkomulag: *þó urðu með þeim góðar a-ar*, þó samdi þeim vel, féll vel á með þeim. † **2**. yfirvarp, yfirskin: *at a-um*, að yfirvarpi, til yfirskins, málamynda. † 3. framhald(?): *hér er inn fyrri vísuhelmingr leiddr af þeirri vísu, er áðr var kveðin, ok fylgir þat máls-orð, er a. er kölluð*, SnE. * 4. það sem í hugsun e. reynd leiðir af e-u öðru: *háa kaupið er afleiðing af vinnufolkseklunni; það hefir einatt illar a-ar að kunna ekki að stjórna geði sínu*. — * Sams.: **afleiðingar-háttr**, (í málfræði) viðtengingar-háttr, tengiháttr *(modus conjunctivus)*. **afleiðinga-mikill**, = **-ríkr** *l*, sem hefir miklar e. margar afleiðingar.

† **afleiðingr** *k*, = *afleiðing 1*.

**afleiðis** *a*, burt af réttri leið (bæði egl. og óel.): *þeir sigldu a.*, ranga leið (stefnu); *færa orð e-s a.*, snúa orðum e-s við, færa þau úr lagi; *snúa e-m* († *e-n*) *a.*, leiða e-n afvega frá því sem rétt er.

* **afleiðsla** *kv*, **1**. það að e-ð (t. d. orð) er leitt af e-u (öðru): *það er fróðlegt að rekja a-u margra orða frá einum og sama stofni*. * **2**. afveita: *a. vatns*, LFR, I, 188. — * Sams.: **afleiðslu-ending**, ending, sem skeytt er aftan við orðstofn, til þess að mynda nýtt orð, t.

d. *greið-sla* af *greið(-a);* þar er *greið* stofninn, en *-sla* -ending. **-renna,** renna til að veita e-u fljótandi efni burt, LFR, XI, 152 (um sorprennur).

**afleifar** *kv. flt,* leifar, eftirleifar; það sem enn er eftir af e-u: *a-ar heiðins siðar.*

† **afleitast** *þms,* gerast ógeðfeldr.

† **afleitinn** *l,* = *afleitr 1—3.*

**afleitlegr** *l,* = *afleitr.*

**afleitr** *l,* **1.** egl. hjáleitr, sem er öðruvís en aðrir (eða annað): *bar hann þann klæðnað, at eingi var vandaðr, enda mátti öngum manni sýnast mjök a.,* sýnast stinga í stúf við annara búning, sýnast hjáleitr; fráleitr, sem engu tali tekr: *þetta er a-t frammistaða,* óheyrileg(a fjarstæð). **2.** ógeðslegr, ljótr. **3.** vitlaus, bjánalegr; fyrirlitlegr. † **4.** frásnúinn, sneyddr: *a. hamingjunni.*

† **aflendis** *a,* erlendis, N.

† **aflendr** *l,* fjarri landi: *grœr því skjótara gulit sem meirr er a-t,* Bps.

* **aflestrar** *ef. et.* af *aflestr;* haft sem *a.: góð (slæm) hönd a.,* hönd, sem gott er að lesa; *handritið er máð og ilt a.*

**afletja** *ás,* letja, telja af: *a. e-n að gera e-ð,* telja úr, ráða frá, að e-ð sé gert; † *a. e-ð fyrir sér,* telja sjalfan sig frá e-u; *a. e-n e-s,* telja e-n af e-u. *And.:* áfýsa.

**aflétta** *óás,* = létta af, hætta, linna.

* **afléttilegr** *lo,* sem lítr út að ætli að fara að linna eða hætta, einkum um veðrlag: *hann er fremr a. nú; ekki a. enn.*

† **af-léttr** *l,* greiðr = *of-léttr,* N.

* **afleysa** *ás,* **1.** inna af hendi, reka, rœkja: *a. erindi sín,* lúka erindum sínum. **2.** létta e-u af (e-u): *a. skuld,* losa skuld af (fasteign). **3.** leysa (e-n) frá (syndasekt): *sá hinn sami, sem þig með munnsins orðum a-ir.* (Sbr. *aflausn).*

**aflfár, aflfrœði, aflgengr,** sjá: *afl.*

**afli** [abbli] *k,* **I.** það sem maðr aflar sér með starfi. **1.** fengr, afrakstr, ávinningr: *forráð þess liðs ok svá a-a þess alls, er verðr í ferðinni,* alls þess fengs; *eignir . . . með öllum a-a ok ávexti,* afrakstri og arði; *bóndi hafði mikinn a-a heys og matvæla,* mikinn feng, forða (sbr. *hey-afli).* * **2. a.** fiski: *hér er góðr afli þessa vertíð,* gott fiski; *í Leirunni er enginn a. nú,* fiskast ekkert nú. **b.** sjófang, fiskr (er aflast hefir) úr sjó: *þar eru nægtir í búi, mörgu slátrað í haust og alls konar afli, hertr, saltaðr og alla vega til hafðr.* † **3.** tœki til að afla sér fengs: *rétti höndina til bogans: — hér er minn a. ok atvinna,* Post. **II.** † **1.** dugr, þrek: *hafa a. til einskis,* vera til einskis nýtr. **2.** lið (manna, skipa), liðstyrkr: *Ásgr. sagði þat mikinn a-a,* mikinn liðstyrk; *draga a-a at e-m,* draga saman her á hendr e-m; *a. liðs ok skipa,* herlið og floti; *a-inn Magnúss konungs flýði allr,* meginherinn. (Sbr. *mannafli). —* Sams.: **afla-brögð** *kl. flt,* fiski: *a. hafa verið hér með bezta móti í vor,* hér hefir fiskast m. b. m. í v. † **-fátt** *l. kl,* **1.** = *aflfátt.* **2.** liðfátt. **-fé,** fé, sem maðr hefir sjalfr aflað *(and.:* erfða-fé). *__-föng__ *kl. flt,* veiðifang úr sjó, afli (I, 2, b.). *__-góz__ = *-fé.* *__-hár__ *l,* sem hefir fengið mikla tölu fiska: *þeir hafa orðið a-hæstir á »Snarfara«, en þeir hafa líka í flesta staði að skifta.* *__-hæð,__ tala fiska á skip eða í hlut: *-hæðin er langmest hjá Brandi, en fiskrinn er í smærra lagi.* *__-kló,__ **1.**

bogin kló, arnar-kló, BH. **2.** frábærlega aflasæll maðr: *hann er mesta a-k.!* ***-laus,** án afla: *hér er alveg -laust,* hér eru alls engin aflabrögð. ***-leysi,** skortr á afla. **-lítill, I.** sem hefir lítinn liðsafla. ***2.** snauðr af fiskafla: *hér hefir verið -lítið í haust,* lítið um aflabrögð. **-maðr, I.** liðsterkr, voldugr maðr. **2. a.** maðr, sem er duglegr að afla fjár og fanga til bús síns (fágætt): *heyfyrningar hjá góðum a-mönnum* (úr stýls-efni hjá Jónasi Guðm. kennara). **b.** fiskisæll maðr: *G. var mesti a.* **c.** voldugr maðr, Lv. **-mikill, I.** sem hefir mikinn liðsafla. **† 2.** = *aflmikill.* **-munr, I.** liðsmunr. ***2.** mismunr á afla (I, 2). ***-reytingr,** strjáll, lítill, afli. **-skortr, I.** liðskortr. ***2.** skortr á fiskafla. ***-slór** *kl,* lítilræði af fiski (á fiskimiðum). **† -stund,** vertíð, Bps. ***-sæld,** það að vera aflasæll. ***-sæll, I.** heppinn með aflabrögð: *hann hefir löngum verið a.* **2.** (um sjó, fjörð, mið osfr.) auðugr að fiski: *það er oftast a-sælt hér í firðinum á haustin,* oftast gott til fiskjar. ***-tíð. *-tími. *-von.**

*** aflíðandi** [1] *lm,* **I.** = *afhallandi* (sjá það orð). **2.** sem er með litlum (jöfnum) halla: *gekk jafnt a. vall-lendi ofan að sjónum,* Rób. 40.

*** aflíðandi** [2] *k,* halli, hallandi: *að norðanverðu er jafn a. frá halsunum,* Ið. IV, 120.

**aflið|inn** *lm,* (egl. af liðinn), liðinn til enda: *að a-num jólum, vetri.*

**aflífa (-aði)** *ás,* lífláta, taka af lífi, Klm.

*** aflífun** *kv,* líflát, Klopst. VI, 24.

**aflima** [1] **(-aði)** *ás,* (af + limr), taka (höggva, skera) lim e. limu af, limlesta.

*** aflima** [2] **(-aði)** *ás,* (af + lim), skera, höggva, lim e. limar af tré. *Sn.:* afkvista.

**aflima** [3] *ób. l,* frá skilinn: *verða e-m a.,* slitinn frá e-m.

**aflimun** *kv,* það að aflima e. vera aflimaðr.

*** aflkrumma, afllaus, aflleysi, afllítill** osfr. — sjá: *afl.*

*** aflóa** *ób. l,* egl. sem lóin er slitin af; slitinn; orðinn affarafé.

**† aflofa (-aði)** *ás,* banna, synja leyfis.

**áflog** *kl. flt,* handalögmál; (í góðu) tusk; það að fljúgast á (í illu eða í gamni). — Sams.: *** áfloga-hundr,** maðr sem gjarnt er til að fljúgast á í illu. — *** -kragi** *k,* fuglsheiti *(machetes pugnax),* Gr. Df. 62. — ***-maðr,** maðr sem gjarnt er til áfloga. — ***-seppi** = áflogahundr.

*** aflóg** *kl,* slátrfénaðr, BH.

*** aflóga** *ób. l,* ekki til annars en frálags: *kýr a. fyrir aldrs sakir,* Sch.

**afloka (-aði)** *ás,* **† I.** opna, Thóm. 301. ***2.** Ψ læsa (með lykli e. loku).

a **áflot** *kl,* árensli: *verja vatninu á. á mýrina,* LFR, II, 36.

**† aflugr** = *öflugr.*

*** aflúinn** *lh,* sem hefir náð sér aftr eftir lúa. *Sn.:* afþreyttr.

**aflúka** = *lúka af.*

*** aflýja** *ás,* gera aflúinn.

*** aflýjast** *plm,* verða aflúinn.

*** aflýsa (-ti)** *ás,* **I.** lýsa úr gildi: *a. veðsetningu.* **2.** lýsa því, að ekki eigi af e-u að verða: *a. messu; a. uppboði.* *** aflýsing** (skuldabréfs), Johns. 107.

*** Ψ aflæsa (-ti)** *ás,* læsa með lykli (e. loku e. slá, ef að innan er læst).

**† aflætast** *pms,* gera sig viðskila við, láta frá sér.

**† aflöglegr** *l,* ólöglegr.

***aflögun (-ar; -laganir)** *kv,* afmyndun, færsla úr lagi.

**afmá (-ði)** *ás,* [avmá, ammá] þurka burt, svo að hverfi; eyða: *eyða ok a.,* Stj.; *a. af jörðunni,* eyða, upprœta; *það verðr þó aldrei a-ð* = það verðr aldrei út skafið.

***afmáandi** *k,* sá sem fyrirfer e-m, Klopst. 1. b.

***afmáanlegr** *l,* sem auðið er að má af.

***afmán (-ar, -ir)** *kv,* (samdr. fyr. *afmáan),* egl. það sem af er máð. **1.** handaskömm, það sem aflagislega er gert, ómynd: *það er mesta a.!* mesta aflagi, ómynd. **2.** ósvinna: *a. er að sjá til strákanna!* △ **3.** strokleðr (D. Viskelær; E. eraser).

† **afmána (-aði)** *ás,* saurga, svívirða: *afmánaðr,* Rb.

***afmarka (-aði)** [avm, amm] *ás,* **1.** setja (e-u) takmörk: *afmarkað svæði,* svæði sem mörk eru um sett; *a. með orðum,* skilgreina. **2.** breyta eyrnamarki á sauðkind (e. hesti) í annað mark: *hann hafði a-ð tvö lömb.*

***afmenni** [avm, amm] *kl,* vesalmenni, liðleskja, ónytjungr (að kröftum).

***afmeyja (-aði)** [avm, amm] *ás,* svifta meydómi; hafa fullkomið samrœði við konu (í fyrsta sinn á æfi hennar), svo að meyjarhaftið *(hymen)* slitni.

***afmóðr** [avm, amm] *l,* sem hefir kastað mœðinni.

*a* **afmór** *k,* (= amor); ástaguðinn; ást, ástir, ástafar, losti (altítt í fornrímum og fram yfir 1800).

**afmynda (-aði)** *ás,* afskræma, aflaga mynd; **a-st** *plm,* verða ólíkr sjalfum sér, aflagast, afskræmast.

⊤ † **afmœðing** *kv,* (móðir — afmœðra; ætti að vera: *afmœðrun),* egl. það að venja frá móðurinni, fœra frá. Réttr til fráfœru-staðar: *kirkja á lamba a. í Mölvíkr-höfða,* Vilk.

† **afmœðra (-aði)** *ás,* venja frá móður, venja af brjósti, fœra frá: *fá . . . helgir menn algerleik og a-st heiminum.*

***afmæli** [vm, mm] *kl,* fœðingardagr. Sams.: **afmælis-barn,** sá sem fœddr er þann dag, er talað er. **-dagr,** afmæli, fœðingardagr. **-gjöf,** gjöf, sem manni er gefin á afmæli sínu. **-kvæði,** kvæði orkt um mann eða til manns á afmæli hans. **-ósk. -spjald,** heillaóskarspjald, til að senda e-m á afmæli hans. **-vísa.**

**afnám** *kl,* **I.** egl. það sem af er numið, tekið frá. **1.** fengr eða fé, tekið af óskiftu ɔ: áðr en hinu er skift milli manna: *konungr skyldi hafa úr hlutskifti þriðjung við liðsmenn, en um fram at a-i bjórskinn öll ok safala,* Eg. *Fá að a-i verðlaun tvenn,* G. Th. † **2.** afgangr: *a-it veittu þeir fátœkum mönnum,* Hms. † **3.** tjón, missir: *þeim mönnum nokkrum, er oss mun þykja a. í,* Eg. ***4.** sá fénaðr, er slátra verðr (fyrir elli), SKF. **II.** það að nema af. **1.** upprœting, aftaka, Stj. ***2.** það að e-ð er numið úr lögum, venju e. þvíl., tekið af, lagt niðr: *afnám lestagjalds; a. hýðinga; a. þrælasölu; a. heimavista í skólanum.* — Sams.: **afnáms-fé, -góz, -gripr,** fé, gripr, tekið að afnámi (fyrir fram af óskiftu). ***-kýr, *-ær,** kýr, ær, ætluð til frálags, LFR, VII, 88; BH. (u. »afnám«). ***-laus** *l,* svo að ekkert vanti upp á, affallalaus: *skila öllum kúgildum a-um,* EspÁ, IV, 57.

***afnáma** *ób. l,* farlama (um skepnur) SKF, Sch.

***afnáms** *a,* að afnámi.

**afnefjaðr** *lm,* sem nefið hefir mist.

**afneit|a (-aði** og **-ti)** *ás,* m. þgf. **1.** hafna: *afneita sínum eignarvilja; afn. djöflinum.* * **2.** kannast ekki við: *Pétr a-aði Jesú.* **3.** neita, kveða nei við: *en er hann a-ti ekki með öllu, þá báðu þeir hann.* † **4.** m. þolf.: *a. sér e-ð,* telja sig lausan við: *eigi vil ek mér a. þau mannlýti.*

**afneiting** *kv,* =

**afneitun** *kv,* það að afneita.

* **af|nema (-nem; -nam, -námum; -numið)** *ás,* nema úr gildi, taka af e-a venju e. þvíl.: *a. alþingistollinn,* taka úr lögum; *þá venju þyrfti að a.,* koma henni af.

**afneyzla** *kv,* † **1.** afnot: *a. skógar.* *a* **2.** það að éta (neyta) fæðu af e-u: *a. trés,* Milt. 127 (sbr. 328).

† **afnít|a (-ti)** *ás,* = afneita.

* **afnot** *flt. kl,* **1.** það að nota, notkun: *sá er á jörðunni býr eða hefir hana til a-a,* L. um skatt á ábúð og *afnotum* jarða osfr. 14/12 77; *guð hefir gefið oss heiminn til a-a,* HE, III, 162. **2.** not, þau sem að e-u verða, gagnsemi: *fyrirhöfn . . . í samanburði við a-in; hann hafði lítil a. af þeirri eign sinni.*

*a* **afnotkun** *kv,* = afnot 2, OLfr, II, 2, 52.

* **áfóðr** *kl,* (egl. *ái-fóðr*); fóðr, sem ferðamenn hafa með sér til að gefa hestum, þá er áð er, BH.

* **áform,** *kl,* ásetningr; tilgangr, markmið.

**áforma (-aði)** *ás,* † **1.** laga til, sníða, höggva til og gefa lögun: *á-aðir steinar,* tilhöggnir, Stj. **2.** ásetja sér, fyrirhuga, leggja niðr fyrir sér: *verðum vér at á. ok ræða,* verðum vér að leggja niðr fyrir oss, íhuga, og ræða, Fms.; *hann hafði á-að að reisa bú um vorið,* fyrirhugað, ásett sér.

* § **afplána (-aði)** *ás,* bœta fyrir, bœta yfir (ávirðing e. misgerð).

* § **afplánun** *kv,* það að afplána: *a. sekt með fangelsi,* bœta fyrir brot sitt, e. þola refsing með fangelsisvist í stað þess að greiða fésekt.

† **afr** *kl,* e. k. drykkr, Eg. 43. kap.

† **áfrá** *sto.* m. þgf. (*á* f. *af,* egl. affrá), í frá, burt frá, út frá, frá: *á. þeim degi; á. þumalfingri.*

† **afráð** *kl,* **1.** e. k. afgjald e. skattr af landi, N. **2.** tjón, missir (ávalt með s. *gjalda*): *þat a. munu vér gjalda,* Nj.; *Lýtingr mun þykkjast mikit a. goldit hafa í láti brœðra sinna.*

* **af|ráða (-réð, -ráðið)** *ás,* **1.** ráða frá, letja, **a.** *a. e-m að,* ráða e-m frá að: *afráða vorum sálum að hafa þvílíka heimsku.* **b.** a. e-n e-u: *hann afréð mig því,* réð mér frá því; *þeir afréðu hann þeirri ferð.* **2.** fullráða: *a. eitt af tvennu; a. athöfn; a., hvað vænlegast er að gera; hann afréð loks að þiggja þetta,* réð loks við sig að . . . — **afráðinn** *lh,* **1.** *a. í e-u,* einráðinn, fullráðinn. **2.** *hann var a. því,* h-m var ráðið frá því. **3.** (= af ráðinn) ráðinn af dögum.

* **afrak** *kl,* **1.** tað, sem mulið hefir verið (»barið« með »kláru«) og breitt á tún til áburðar, en síðan rakað af (»hreinsað« af), er gras er tekið að spretta: *a-ið var borið saman í hrúgur og síðan haft til eldsneytis,* AF. *a* **2.** = afhrak: *a. folks,* LFR, XII, 61. *a* **3.** = afrakstr (1), það sem e-r hlutr gefr af sér, afurð(ir), NFr, IV, 158. Sams.: **afraks-bingr. -haugr. -hrúga.**

* **afrakst|r (-ar, -rar, -rs)** *k,* **1.** afurð, framleiðsla, það sem hlutr (fyrirtœki, land) gefr af sér: *a-inn af kúnni,* eftirtekjan, Auðf.; *a. búsins,* afurð(ir). *a* **2.** afnytjar:

*ljá til brúkunar, a-rs eða nota fyrir utan leigu*, Lþb. 1771, nr. 23. **3.** = *afrak (1)*, VF. Sams.: **afrakstar-haugr**, = afraks-haugr, LFR, I, 168. **-mikill**, sem gefr mikla eftirtekju, LFR, XI, 297.

**áfram** *a*, **1.** um staðlega hreyfing: í áttina, er stefnir beint af augum, frá andlitinu: *hann féll á.; halda á. leiðina e. leiðar sinnar; aftr á bak eða á.*, aftr eða fram. **2.** hreyfingarlaust um stefnu: *horfa á.*, horfa fram undan sér. **3.** um tíma, framvegis: *hann var með jarli sumarit á.; þú hefir verið í Vík þetta ár — verðr þú þar á.?* **4.** sérst. talsh.: *halda áfram*, linna ekki; vera vel að; *viltu ekki vera hér í nótt? — Nei, ég ætla að halda á.*, halda lengra. *Haltu á. að lesa. Haldið þið nú vel á. meðan ég er burtu*, sláið nú ekki slöku við verkið meðan . . .

* **áframhald** *kl*, **1.** það að halda áfram (ferð e. verki): *á-ið er stundum erfiðara en byrjunin.* **2.** það að haldið er áfram; það, hvernig haldið er áfram: *þetta er vel á stað farið, ef nokkurt á. verðr nú á þessu. — Hér er ekkert á. við vinnuna. — Það er gott á., ef þið náið háttum að Grund.* **3.** það (starf), sem haldið er áfram; starf, sem tekr við af því er áðr var byrjað, og heldr því áfram; framhald: *Þetta er á. af sögunni, ritgerðinni. — Guð vorn anda' ef á. | ei fá seinna lætur, | röðulbanda reist er tjald | rétt til einnar nætur*, Njóla.

* **áframhaldssamr** *l*, iðinn, sem heldr vel áfram (ferð e. verki).

† **afrapi** *k*, ?: *var torfæra . . . upp ófærom mönnom eþa svá þeim er með a-a fóro*, Hom. 130.

* **afrás** *kv*, **1.** afrensl: *vatnið fær hvergi a.; — þá er hann óhreinn af þeirri a.* (þ. e. sáðláti), Lev. 15,3. **2.** flot, sem rennr af feitu kjöti, þá er það er soðið.

* **áfreði** *k*, (oftast í flt.: **-ar**), þunt snjólag, sem blotnar, frýs svo og setr skel e. skorpu yfir (þiða) jörð. (Sbr. *hjarn*). — Sams.: **áfreða-haust.** **-samr** *l*, *á. vetr*, LFR, XIV, 130; *á-söm jörð*, LFR, XIV, 216. **-tíð.**

† **afreið** *kv*, brottreið, heimreið.

† **af|reiða** (**-reiddi**) *ás*, **1.** bægja frá, fjarlægja. **2.** afhenda, láta af hendi; greiða, N. **3.** afgreiða: *a. e-n með e-u*, greiða e-m fullnaðargjald með e-u, N.

† **afreizla** *kv*, greiðsla, borgun.

**afrek** *kl*, stórvirki, hreystiverk, frægðarverk: *lofuðu mjök a. Egils*, hreystiverk E.; *lét ok gera . . . naust bæði mörg ok svá stór, at a. var í*, svo stór að frábært var. — Sams.: **afreks-gripr**, dýrindis-gr., frábær gr., ágætis-gr. ***-kappi**, LFR, XIV, 281. **-maðr**, frábær, ágætr maðr: *a-m. at afli ok áræði; a-m. um flesta hluti; a-m. um vöxt eðr afl.* **-verk**, frábært verk, hreystiverk, frægðarverk.

**afreka** (**-aði**) *ás*, **1.** gera, vinna, koma til leiðar: *munu þér mikit a.*, Lv. *a* **2.** koma til leiðar, valda: *lögmálit a-r eigi annat en reiði*, OG,Róm. ***3.** ávinna: *afrekaðr með [Jesú] blóði*, VPost. 312; *þitt pund hefir a-t tíu pund*, OG,Lúk.

* **afrekan, afrekun** *kv*, verk, það sem e-m hefir verið áunnið: *a. Jesú*, HE, III, 326.

† **afremma** *kv*, kvöð: *sú er a. meðr þessum tillögum, at prestr skal vera at heimilishúsi ok syngja allar heimilistíðir*, Am.

† **afrendi** *kl*, (sbr. *afrendr*), afl, þróttr, Hým.

† **afrendr** *l,* = *afrhendr.*

*a* **afréna (-aði)** *óás,* slota (um veðr, sótt osfr.), BH.

*a* **afrénun** *kv,* það að afréna(r).

* **afrensl, afrensli** *kl,* = *afrás (1).*

**afrétt** *kv,* (á einum stað í Grg. II, og nú tíðkanl. AF. og NL.) = *afréttr.*

**afréttr (-ar)** *k,* beitiland, er tveir eða fleiri eiga saman, utan heimalands, og reka fé á til beitar að sumarlagi, SL. og forn mynd; *þat er a., er tveir menn eigu saman eða fleiri,* Grg. II. — Sams.: * **afréttar-bóndi** *k,* bóndi, sem býr við afréttarland eða næstr því. **-dómr,** dómr, sem dœmir um mál, er afrétt snerta. ***-fé,** fénaðr á afrétti. ***-land,** land, sem er afréttr. **-maðr,** í flt. **-menn,** eigendr afréttar, Grg.

† **afrhendr** *l,* sterkr, rammr.

* **afrifur** *kv. flt,* »skinnleysi af núningi fata við kroppinn«, Sch.; hörundsæri, sem kemr af þvi að »tekr af« manni.

† **afroð** *kl,* = *afráð.*

* **afrof** *kl,* grassvörðr ristr e. stunginn ofan af mold; torf, hnausar, VF.; »það sem stungið er ofan af mónum«, Sch.

† **afróg** *kl,* afsökun; hreinsun af áburði eða ásökunum.

† **afruðningr** *k,* það að ryðja frá sér, vörn: *er hann lítill til a-s, ef víkingar kunnu koma til lands.*

† **afrunr** (flt. **-ir**) *k,* **1.** hrösun, ávirðing. **2.** misgerð (við e-n), N.

**áfrýja (-ði, *-jaði)** *ás,* † **1.** ámæla: *á. e-n,* hallmæla e-m, sbr. *frýja á,* sjá: *frýja.* * **2.** skjóta til œðra dóms; með þgf.: *á. máli, úrskurði, skiftagerð, til yfirdóms.*

† **áfrýja** *kv,* ámæli(sorð).

* **áfrýjandi** *k,* sá er skýtr máli til œðra dóms.

*a* **áfrýjulaus** *l,* ámælislaus, BH.

*a* **áfrýjuverðr** *l,* ámælisverðr, Fjörg.

* **áfrýjun** *kv,* málskot (til œðra dóms). — Sams.: * **áfrýjunar-efni,** það í dómi, sem áfrýjað er: *málskostnaðr einn út af fyrir sig er ekki á-e. að íslenzkum lögum.* ***-frestr,** frestr, sá er lög leyfa, frá því er dómr (úrskurðr) er birtr, til að skjóta honum til œðra dóms. ***-stefna,** stefna, er birtir málskot til œðra dóms.

† **afræði** *kl,* N., **1.** umráð (yfir). **2.** afgjald (= *afráð 1).*

* **afræðilegr** *l,* líklegr, ákjósanlegr, úrræða: *sjá í hvert sinn, hvað a-legast er,* hvað líklegast er af að ráða; hvað bezt e. vænlegast er til ráðs að taka, TST, 49.

**afrækja (-ti)** *ás,* vanrækja: *afrækt skylda ein og hver,* KP; *a. guðs boð,* óhlýðnast.

**afrækjast** *þms,* = *afrækja;* **1.** lítilsvirða; m. þlf.: *a. sitt höfuðmerki,* lítilsvirða. † **2.** m. þgf.: *a. lögunum,* óhlýðnast l. **3.** m. nh.: *konungar afræktust at sitja at Uppsölum,* tóku að leggja niðr, hætta.

† **afrækilegr** *l,* óhafandi, sem útskúfa eða hafna ber, = *rækilegr (andst.:* rœkilegr).

* **afrœta** *s,* taka rœtr af (tré): *tré vel borðlægt að digurð, afrætt með höggum, kaðalfæri yfir um mjórri endann,* Lþb. 1720, nr. 39.

* **af-rœtast** *þms,* = *rœtast,* EspÁ, II, 129.

* **afsa-,** sjá: *afsi.*

† **afsáð** *kl,* sáðkorn, korn til útsæðis.

* **afsagnar-,** sjá: *afsögn,*

**afsaka (-aði)** *ás,* **1.** egl. bera undan sök, bera sök af, bera grun af: *hann*

*afsakaði Þórð með öllu. And.* ásaka. 2. bera í bœtifláka fyrir e-n: *hann a-aði sig með ókunnugleik sínum,* fœrði sér til málsbóta. 3. undanþiggja; biðja undanþeginn: *afsakist enginn þennan dýrka, lofa ok vegsama,* Hms.; *þá bað hann Sigurð með sér fara, en hann a-aði sig.*

**afsakan** *kv,* = *afsökun.*

* **afsakanlegr** *l,* sem afsaka má, afsökunarverðr.

† **afsaki** *k,* afsökun.

† **afsakni** *k,* söknuðr, missa.

* **afsal** *kl,* **I.** uppgjöf eignréttar í annars manns hendr; yfirlýsing manns um, að hann láti e-ð af hendi, sleppi öllu tilkalli til e-s, Milt. 279. **2.** = *afsalsbréf,* Lþb. 1759, nr. 32. — * Sams.: **afsals-bréf,** bréf, sem lýsir yfir afsali á seldum hlut. **-bréfabók,** bók, sem þinglýst afsalsbréf eru skráð í. **-bók,** sama, TN, II, 161. **-skjal** = *-bréf.* **-vottr,** vottr að afsali.

* **afsala (-aði)** *ás,* **I.** lýsa yfir afsali, skeyta (fornt), m. þgf. og þlf., a. e-m e-ð: *afsala ég honum . . . nefnda eignarjörð mína,* Fmb. 18; 22. — Með 2 þgf-m, a. sér e-u (miðr rétt): *a. sér þingmenskunni,* Skír. '84, 39; *a. oss frelsi voru,* MillFr, 206. **2.** lýsa (sig) lausan við: *a. sér allri* [réttara: *alla*] *ábyrgð á e-u,* lýsa sig úr allri áb.

* **afsalan** *kv,* = *afsölun,* Klp. VI, 68.

* **afsalta (-aði)** *ás,* afvatna (saltan mat, t. d. kjöt, fisk), BH.

* **afsast (-aðist)** *plms. óáv,* láta óstjórnlega: *þú þarft ekki að a. svona!* láta svona óhemjulega; *a. fram,* ana, gana athugalaust, Klopst. II, 42.

**afsanna (-aði)** *ás,* a. e-ð, hrekja sönnun (sannanir) fyrir e-u; gagnsanna, hrekja með sönnunum.

* **afsi** *k,* **I.** œsingr, óstjórnleg læti: *óttalegr a. er í manninum! það er mesti a. í veðrinu.* **2.** óstýrilátr maðr: *hann er mesti a.,* AF. — Sams.: **afsabrim. -legr** *l.* **-læti. -skapr,** EÓ, 175.

**af segja (-sagði)** *ás,* **I.** neita: *þeir afsögðu leiðangr úti at hafa; hann a-ir alveg að gera þetta.* † **2.** *a. sér e-ð,* afsala sér; *a. sér heiminn,* hafna heiminum. † **3.** undanþiggja (= afsaka 3).

* **afsetja (-ti)** *ás,* **I.** víkja (e-m) úr embætti, stöðu. ᛘ **2.** selja.

**afsetning** *kv,* **I.** það að setja e-n frá embætti; það að e-r er settr frá embætti. ᛘ **2.** sala. — Sams.: * **afsetningarbréf,** bréf, sem e-r er afsettr með, Tíð. I, 97; EspÁ, II, 80. **-dómr,** dómr, sem dœmir mann til afsetningar. **-sök,** (brot e. vanhirða, sem er gild) ástœða til afsetningar. ᛘ **-vörur** *flt. kv,* söluvarningr, VPost. II, 114.

* **afsía (-aði)** *ás,* sía frá.

⊤ **afsíing** *kv,* afsíun: *með margfaldri a. skilin frá allri fitu,* LFR, XV, 168.

* **afsíun** *kv,* það að sía frá.

† **afsiða** *l,* ósœmilegr, ósiðlegr.

† **afsíða** *a,* =

* **afsíðis** *a,* á afviknum stað; einslega.

α **afsíðishald** *kl,* sóttkvíun: *a. skipa og manna um 40 daga,* Hbfh, 189.

α **afsíðissetning** *kv,* kyrrsetning (muna e. manna með fógetagerð), Hbfh, 291.

† **afsifja (-aði)** *ás, a. sér e-ð,* afsala e-ð sér og ætt sinni (»sér og sínum erfingjum«).

**af-skafa** *ás,* = skafa af: *það verðr aldrei af (honum) skafið,* því verðr aldrei auðið að neita að (hann) [um e-ð gott]; e.: aldrei verðr auðið að hreinsa það af (h-m) [um e-ð ilt].

* **afskamta (-aði)** *ás,* mæla af: *gef mér hvorki fátœkt né auðœfi, en láttu mig*

*hafa mitt afskamtað uppeldi*, Sal. orðskv. 30, 8.

*** afskapa (-aði)** *ás*, fœra úr lagi, afmynda, afskræma.

*** afskapa-** *fsk*, stóreflis-, afdœma-, óhemju-: **-demba** *kv*, óhemju-regnskúr. **-rigning. -stormr. -veðr.**

**afskaplegr** *l*, herfilegr; hryllilegr: *a-t áfelli*, hryllilegt áf.; *herfilegr ok a.*

† **afskeiðis** *a*, afleiðis, afvega; brott af réttri leið: *hrinda e-m a.*, leiða e-n afvega, HE, I, 252.

*** afskektr** *lh*, afsíðis, á afviknum stað; fjarri alfaravegi, mannabygðum, öðrum þjóðum osfr.: *þjóðir, sem liggja a-ar á hnettinum; a-t bygðarlag.*

*** afskepi** *kl*, vanskapaðr hlutr, vansköpuð vera; vanskapnaðr (2.), BH.

*** af|skera (-skar, -skorið)** *ás*, **I.** skera (e-ð) af eða frá (e-u): *á snöggu augabragði | afskorið verður fljótt*, HP. Ψ **2.** bœgja frá, hamla frá, hindra: *hann er afskorinn frá að ná rétti sínum*, honum er meinað . . .

**afskifta** *ás*, skifta (e-u) svo, að e-r fái eigi sinn hlut, e. eigi fullan sinn hlut: *þeir afskiftu hann alveg*, rændu hann öllum sínum hlut í skiftunum; *hann sá, að hinum systkinunum var gefið helmingi meira en honum, og þóttist því vera illa afskiftr*, hafðr út undan í skiftunum. **afskiftr** *lm*,: *a. e-u*, sneyddr, Stj. 155, 195.

**afskifta** *ób. l*, sviftr sínum hluta: *vera gerr a.*, Hrk.; *verða a.; bezt að gera engan a.*, láta engan verða út undan.

**afskifti** *flt. kl*, það að láta e-ð til sín taka, gefa sig við e-u, hafa við e-n að sælda, íhlutun: *veita sér a. um e-t; veita a. heiðnum goðum*, Fms.; *a. hans af því máli voru mikil og góð; hafa lítil a. af búskap*, gefa sig lítt við b.; *a. stjórnarinnar*, íhlutun, MillFr.; *ég hefi aldrei haft nein a. af þeim manni*, aldrei haft neitt við hann að sælda, gefið mig við h-m. — Sams.: *** afskifta-daufr** *l*, afskiftalítill. ***-fár** *l*, sem skiftir sér af fáu. ***-gjarn** *l*, gefinn fyrir að skifta sér af. ***-hœgr** *l*, sem fer hœgt að afskiftum, Tíð. I, 405. **-laus** *l*, sem ekki skiftir sér af (neinu); *gera sér a-t um e-n*, hafa ekkert við e-n að sælda, Flb. ***-leysi** *kl*, **I.** það að skifta sér ekki af. α **2.** hlutleysi í ófriði. ***-leysingi** *k*, sá sem er a.-laus, Sch. α **-leysis-gerningr** *k*, hlutleysis-samningr, Skír. VI, 30. **-lítill** *l*, Fms. VII. **-samr** *l*, sem lætr margt (mikið) til sín taka. ***-semi** *kv*. ***-svið** *kl*, það umdœmi, svið, sem heyrir undir afskifti e-s, MillFr, 190.

⊤ **afskiftingarleysi** *kl*, = *afskiftaleysi*, Kvöldv. I, 206.

**afskiftinn** *l*, = *afskiftasamr.*

ძ **afskilja** *ás*, undanskilja, fráskilja, BH.

*** afskipa (-aði)** *ás*, α **I.** afnema, rjúfa: *a. félag*, EspÁ, X, 60 (sb. IV, 98). Ψ **2.** senda (varning) frá sér á skipi: *hann hafði a-ð vörunum áðr en honum barst símskeytið.*

† **afskipun** *kv*, afsetning frá embætti (e. stöðu), N.

† **afskirrandi** *k*, úrþvætti; maðr, sem allir skyldu forðast: *leiði þér þennan a-a út úr borginni*, 656C.

† **afskrámlegr** *l*, herfilegr, afmyndaðr, óskaplegr, andstyggilegr. **-lega** *a.*

*** afskreppr** *l*, sem tæpt er að fóta sig á, hætt við að fótrinn skreppi af: *það er a-t á þrepinu.*

*** afskrifa** *ás*, rita upp, taka eftirrit af: *a. e-ð.*

* **afskrifari** *k,* maðr (karl e. kona), sem afskrifar.

* **afskrift** *kl,* eftirrit.

**afskrý|ða (-ddi)** *ás,* fœra úr skrúða: *a. e-n e-u,* Klm. *afskrýðast,* fœra sig úr skrúða, EspÁ, I, 58.

* **afskræma (-di)** *ás,* afmynda, gera herfilegan, afskræmilegan: *a-ir maðrinn guðs mynd með syndinni.*

* **afskræmi** *kl,* ófreskja, afmyndun, ómynd.

**afskræmilegr** *l,* **-lega** *a,* = *afskrámlegr, -lega.*

* **afskræming** *kv,* aflögun, það að afskræma: *a. líkamans,* Klp. VII, 177.

* **afskræmislegr** *l,* = *afskræmilegr.*

* **afskræmisskapr** *k,* afskræmilegt látœði, snið, aðferð e. þvíl.

**afskurðr** *k,* **1.** egl. það að skera af; limtaka, LFR, I, 243. **2.** það sem af er skorið, Cl., Fr. ***3.** þverneitun: *það er a. að ég geri það,* Sch. *Sn.* afhögg (3).

* **afskurðar-geiri** *k,* ræma skorin e. klipt utan af dúk, pappír e. þvíl.

† **afskyld (-ar; -ir)** *kv,* kvöð (til að greiða eða gjalda e-ð af e-i eign e. gjöf): *sú er a. þessa fjár,* sú kvöð fylgir (hvílir á) þessu fé, DI.

* **afsköp** *flt. kl,* hræðileg ódœmi, ósköp, firn. — Sams.: **afskapa-sjón, -veðr.**

* **afsköpun** *k,* vanskapnaðr: *a. mannlegs líkama,* LFR, IX.

* **af-slá** *s,* (slá af) **1.** *slá e-u af,* hætta við (e-a fyriræetlun): *því er nú afslegið,* Sch. *Því var öllu afslegið um morguninn, sem ráðið var um kveldið,* BH. ℉ **2.** hafna, synja, neita. — Sjá efr. »slá« s. v. »af«.

℉ **afslag** *kl,* þverneitun.

* **afsláttr (-ar)** *k, án flt,* **1.** það að hætta við e-ð (slá e-u af): *ætla það verði ekki a.?,* skyldi ekki verða hætt við það? **2.** þverneitun, afhögg: *því var ekki nærri komandi, alger a.; undandráttr er enginn a.,* GÍO, 341. **3.** niðrþokun á verði: *hann seldi það með afslætti,* fyrir minna en það var verðsett; *5% a. er gefinn þeim er kaupa fyrir 10 kr. eða meira. Sn.* afföll. **4.** frálag (slátrun gripa); að eins í sams.: **afsláttar-gripr,** gripr, sem á að lóga. **-hestr. -hross. -meri. -kýr. 5.** það, hvernig er að slá (gras): *gott, ilt, land afsláttar.*

* **afsleppr** *l,* sem ilt e. lítið hald er á: *a. eins og lax.*

† **afslíðra (-aði)** *ás,* draga úr slíðrum: *a. sverð,* bregða sverði, Æv.

* **afslitr** *kl,* það sem slitið er af e-u.

**afsmekkr (-s)** *k,* afkeimr (2), Leif. (hdr. skr. um 1430).

† **afsnið** *kl,* e-ð, sem skorið er af e-u (sbr. afskurðargeiri).

**af|sníða (-sneið)** *ás,* rista (skera, klippa, sníða) af: *a. þann liminn, sem hneykslar; sé afsniðit,* Mar.

† **afsníðis** *a,* þannig, að skorið er þvers um, eins og til að skera af: *a. um e-t.*

† **afsniðning** *kv,* afskurðr, burtskurðr.

† **afsniðningar-járn** *kl,* afskurðar-hnífr, afskurðar-járn.

* **afsóp** *kl,* = *affall (2);* rusk.

† **afspraki** *k,* afspurn [e.t.v. er þetta tvö orð: af spraki, rangl. prentað í einu orði]. Kemr að eins fyrir á einum stað: *Hákon jarl hafði fengið af spraka* [útg.: *afspraka*] *nokkurn,* Fms. I, 187, (sjá: *spraki).*

**afsprengi** *kl. so,* afkvæmi, afkomendr: *alt hans a.,* allir hans afkomendr, alt hans afkvæmi.

† **afspringi** *kl,* **1.** = *afsprengi.* **2.** jarð-

argróði. 3. deild, flokkr (af stœrri heild): *a. af ferð þeirra Þorgils.*

**afspringr (-s, -ir)** *k*, **1.** = *afspringi 1.* † **2.** afleiðing: *nokkurr a. af þessum ófriði.* † **3.** ávöxtr (jarðar). † **4.** fregn, afspurn (kvittr, pati).

**afspurn (-ar, -ir)** *kv*, **1.** fregn: *ég hefi talsverða* [*enga*] *a. af h-m*, talsv. (ekkert) af h-m frétt. **2.** frásögn: *það er ilt (til) a-ar*, mælist illa fyrir, ilt (til) frásagnar.

† **afspýttr** *lm*, spýttr svo, að h-m er bœgt frá, sviftr [sbr. *spýta* 1.].

* **afspyrnu-rok, -stormr, -veðr,** aftaka-, ofsa-, voða-veðr; rok, stormr; hvassviðri, sem enginn fær staðist.

**af|staða (-stöðu)** *kv*, * **1.** lega (lands e. e-s hlutar), hlutföll, stefna og fjarlægð: *a. landsins,* lega þess gagnvart öðrum löndum, lega þess á hnettinum, Fjöl. I, 5,25; *a. tunglsins hefir áhrif á jarðbrautina*, fjarlægð (nálægð) og stefna tunglsins . . ., Úrs. 106.; *sólin stillir hita og kulda eftir a-u jarðarinnar, e. eftir því hversu löndin liggja við geislunum*, hvernig jörðin snýr við sólinni, Fjöl. I, 106 9-10. * **2.** það hvernig e-u víkr við: *skýra a-u málsins*, Fjk. *'86*, 106. * **3.** það hversu e-u hagar e. víkr við gagnvart e-u öðru: *a. austrálfu-málanna við norðrálfumálin*, TBm. IX, 10; *a. Dana gagnvart Þjóðverjum er sú*, svo hagar til milli Dana og Þjóðverja; *a. mín í málinu er sú, að mér líkar tilgangr frumvarpsins, en ekki aðferð þess til að fá honum framgengt; a. mín í flokknum* (ef ég er í honum); *a. mín til flokksins* (ef ég er ekki í honum). † **4.** föst stefna, skynsamlegt vit: *máttu nökkut þess mæla, er a. er í?* Hms. — * Sams.: **afstöðu-breidd** *kv*, fjarlægð frá miðjarðar-baugi, OLfr, Inng. 94. **-lengd** *kv*, fjarlægð frá hádegis-baugi, þeim sem við er miðað (t. d. Ferró-baug), OLfr. Inng. 42. **-uppdráttr,** mynd af landsvæði (einkum altítt um slíkar myndir til afnota í landaþrætumálum, stundum og við fasteigna-kaup).

**af|standa (-stóð, -staðið)** *ás*, **1.** láta af hendi, Fms., Sturl. * **2.** halda (e-ð) út (þar til því linnir e. lýkr): *ef hann fær afstaðið þessa sótt*, ef hann lifir af þessa sótt, lifir það að h-m batni, [ekki sama sem *afbera* = þola]. *Lm.:* **afstaðinn,** umliðinn, um garð genginn, til lykta leiddr. — [Sbr. »standa« s. v. »af«].

Ψ **afstands** *a*, afgangs, um fram.

**afstigr (-s; -ar, *-ir)** *k*, afgata, stigr út frá aðalvegi.

* **afstinga (-stakk, -stungið)** *ás*, þverneita, aftaka.

† **afstopi** = *ofstopi*, N.

† **afstúfa (-aði)** *ás*, skera (greinar e. kvistu) af (við, tré).

**afstúka** *kv*, stúka, afklefi.

* **afstúka (-aði)** *ás*, afþilja í (smá)herbergi e. klefa.

* **af|stýfa (-stýfði)** *ás*, skera af, burt; stýfa af.

* **afstýra (-stýrði)** *ás. m. þgf.*, varna (því að e-ð verði), hindra, koma í veg fyrir: *a. hættunni; a. hallæri; a. því að e-ð sé gert.*

**afstyrmi** *kl*, patti, peðlingr, maðr (e. skepna), sem er vanburða að vexti og afli.

**af|svar (-svör)** *kl*, neitun, synjun: *veita e-u afsvör*, synja um e-ð; *það var a. hjá honum*, hann synjaði. *Sn.* afhögg.

**afsvara (-aði)** *s*, synja, neita: *a. e-u; a. e-m e-u*, synja e-m e-s; *a. um e-ð.*

**afsveip|a (-ti)** *ás,* afhjúpa: *a. lík,* taka blæjuna af líki.

*** afsveittr** *lm,* sem svitinn er farinn (þornaðr) af: *vera orðinn öldungis a.,* Nacht. 18.

*** af|sverja (-sór, -svarið)** *ás,* egl. afsala sér með eiði: *leikmenn afsóru sér staðina,* EspÁ, I, 14; *stór félög . . . hafa nú afsvarið brennivín,* Fjöl. I, 10, hafnað brennivínsnautn, heitið að bergja ekki brennivíni.

† **afsviftr** *lm,* útilokaðr frá: *a. e-u.*

*** afsýk|ja (-ti)** *ás,* sýkja frá sér: *mislingar a-a við snertingu.*

*** afsýking** *kv,* það að afsýkja: *(kláði) breiðist út með a-u,* Ísaf. *'90,* 199 b.

**afsýnis** *a,* ekki í augsýn, úr augsýn.

† **afsæll** *l,* sem lítil (engin) hamingja fylgir: *a-t verðr annars glys jafnan.* (Sbr. »afgjarn«).

*** af|sögn (-sagnar; -sagnir)** *kv,* **1.** neitun: *hjá honum var algerð afsögn um nokkurt liðsinni.* **2.** mótmæli (um víxla): *a. á víxli,* JÓ, Ív, 50. **3.** uppsögn: *ég sendi honum 5 afsagnir á blaðinu,* tilkynning frá 5 mönnum að þeir segðu sig frá kaupi á bl. **4.** frásögn: *hann er mikill framkvæmdamaðr að a. manna.* — Sams.: **afsagnar-bréf** *kl,* EspÁ, X, 3. **-gerð** (á víxli), JÓ, Ív, 51.

**af|sökun** *(flt.* **-sakanir)** *kv,* **1.** undanburðr undan sök: *mér fanst a., en ekki ásökun, í orðum hans.* **2.** það sem fram er borið (e. veitir ástœðu) til að afsaka: *þessar afsakanir eru einskis virði; mér finst það gild a.* *** 3.** málsbót: *það er auðvitað a., en eigi nein réttlæting, á því sem hann hefir gert.* *** 4.** málamyndar-gerð til að fullnœgja e-i kvöð e. skyldu: *ætla sig vel hafa rekið guðs erindi, þegar þeir hrifsa eitthvað úr einhverri bók til að gera a. sína,* VPost, 165. — *Sams.: **afsökunar-bréf. -efni. -orð. verðr** *l,* = afsakanlegr.

*** af|sölun** *(flt.* **-salanir)** *kv,* = afsal.

**af|tak** *(flt.* **-tök)** *kl,* † **1.** burttaka: *a. prestlegs embættis; lífs a. ok lima.* † **2.** dráp: *hvat hann vill bjóða fyrir a. Geirsteins; með a-i Ólafs.* † **3.** líflát (= aftaka): *um manna aftök,* Gþl. 4. (helzt í flt.) **aftök,** þvert nei, þverneitun: *hann hafði ekki a. um það,* aftók það ekki með öllu. *** 5.** (að eins í flt.) **aftök,** grimdarfrost: *fjörðinn hér leggr ekki nema í mestu a-um.* *** 6.** hámark e-s, fádœmi, ódœmi, yfirtak: *það er nú a., hvað strákrinn er latr.* Í sams. **aftaka-** (ef. flt.) og **aftaks-** (ef. et.), feiknalegr (-lega), ákaflegr, óhóflegr: *** aftaka-brim. *-bylr. -frost. *-harðr,** *a. vetr,* SkA, II, 32; EspÁ, IV, 92. ***-harka,** Skír. XI, 96. ***-hvass. *-hvassviðri. -langr:** *ræsin í stórborgunum hljóta að vera aftaka-löng,* Ið. VI, 176. †**-lítill** (aftak 4.), ekki þver í neitun: *stóð konungr . . . fast á móti, en drottning var alt aftaka-minni* (sbr. *taka af* s. v. »af«). †**-maðr,** þver maðr, sem ekki lætr undan, Hkr. ***-stórhríð. *-stormr. *-stórviðri. *-strangr. *-veðr.** (Sbr. *aftöku-).* — *** aftaks-illa,** ákafl. illa, Fjöl. III, 2, 14. †**-skjöldr,** feiknastór skjöldr.

**aftaka** *s,* sjá: *taka* s. v. »af«.

**af|taka (-töku)** *kv,* † **1.** missir, sviftir: *hve mikil a. ok missa Ásunum var í fráfalli Baldrs.* † **2.** dráp. *** 3.** líflát, (er menn eru af lífi teknir eftir dómi). *** 4.** flt. **aftökur** = *afrifur,* Sch. — Sams.: **aftöku-,** sjá í stafrófsröð.

ᛘ **aftal** *kl,* samningr, samkomulag, fastmæli.

*** aftal|a (-aði)** *ás,* **1.** lýsa yfir því, að maðr vilji láta meta ótalað e-ð, sem

hann hefir sagt; milda úr stygðar-orðum e. stygðar-aðferð við e-n, biðja gott fyrir: *honum varð skapbrátt og móðgaði mig með ókurteisum orðum, en hann kom daginn eftir og a-aði það alt saman.* ♆ 2. binda fastmælum: *a- e-ð við e-n.*

**aftan** *a,* **I.** að baki [*and.:* framan]: *augu a. í hnakka,* a. að baki til í hnakkanum [*and.:* framan í höfði]; *höggið kom a. í höfuðið = í höfuðið a.,* í höfuðið bak-megin. 2. á þeim hluta e-s hlutar, er nær er endanum, fjarlægari upphafinu: *á skammri stund höfðu þeir rutt allan drekann a., a-t lyftingunni,* allan aftari hluta drekans, alt (aftr) að lyftingunni. 3. með ýmsum sto.: *aftan á e-n e. e-m; a. í e-n e. e-m; a. af e-u; a. undir e-ð, a. undir e-u; a. úr e-u; a. við e-ð:* »*aðalinn dingla' eg aftan við*«, Bragi I, *1*, 40, (SPL); *a. að e-u; a. yfir e-ð.* 4. með *mo.: að aftan* = aftan. 5. *fyrir a., sto.,* að baki: *þeir stóðu fyrir a. hann,* að baki honum. — *Sams.: **aftanhallr** *l,* að eins í *kl.:* aftanhalt: *a-t á skutinn,* hliðhalt aftan á. **-léttr** *l,* léttr að aftan; *and.:* rassþungr, Sch. **-til** *a,* aftarlega: *aftantil á bógnum,* á aftanverðum bógnum. **-verðr** *l,* sem er á e. nær eftri hluta: *stefndi á a-t skipið,* á aftrhluta skipsins; sem er á þeim hluta, er aftr snýr: *höggið kom á höfuðið a-t; á a-a lendina á hestinum,* aftan til á lendina.

**aftann** *k,* **I.** kveld, tíminn fyrir, um og eftir miðaftan. *aftann* er fátíðara en *kveld* í sundrlausu máli: *einn aftan at kveldi,* þá er farið var að kvelda (dimma). *Þriðjudags-aftann,* Þriðjudagskveld; *að aftni dags,* (þ. e. e-n) dag um kveldið. 2. síðari hluti dags (eftir nón) daginn fyrir e-n meiri háttar helgidag, sjá sams.: Jóla-aftann, Jónsvöku-aftann, Lárentiusmessu-aftann, Páska-aftann osfr. — Sams.: ***aftan-blær. -drykkja.** ***-geisli.** ***-kyrð. -langt** *a,* allan a-inn. ***-roði.** ***-skin.** ***-ský.** ⊙ **-skæra,** kveldskíma, þá er tekið er að rökkva en ekki orðið dimt. ***-sól. -stjarna.** ***-stund.** ***-svali. -söngr,** kveldsöngr. **-söngs-mál. -tíðir. -tími.** ***-verðr** *k,* kveldverðr. ***-vindr,** kveldvindr.

**aftar(r)** *a, ms,* sjá: **aftr.**

* **aftari** *l, ms,* = **eftri.**

**aftarla** *a* (nú ♂) =

**aftarlega** *a,* langt aftr, nær hala (enda) en höfði (upphafi): *hann er a. í röðinni,* aftan við miðja röð, seint í röðinni; *a. í bókinni,* seint í bókinni.

**aftastr** *l, y,* sem er lengst aftr, fjarstr höfði (broddi, upphafi), lengst að baki, síðastr í röð: *eigi vil ek vera aftastr allra minna manna,* að baki öllum mínum mönnum.

**aftekja** *kv,* inntekt (af eign): *ábúð ok a. staðanna; til forræðis ok allra aftekna,* og til að taka allar tekjur af þeim.

**aftekning** *kv,* **I.** burtnám, burtfelling: *a. (bók)stafs,* burtfelling stafs aftan af orði, SnE. — * **I.** afnám: *a. konungaveldis,* MT, I, 70; Klp. VII, 136.

† **aftekt** *kv,* **I.** afgjaldseyrir af jörðu, aftekja, inntekt. **2.** = aftaka (2), líflát: *manna a.,* Mag.

* **aftelgja** *ás,* telgja (= talga) af: [*aftegldr* =] *aftelgdr,* LFR, III, 213.

**af|telja** *ás,* **I.** ráða frá, letja: † *a. e-t fyrir e-m,* Hms.; *a. e-n e-u,* VPost, II, 63; *hann aftaldi þá að fara,* latti þá fararinnar, réð þeim frá að fara.

¶ 2. telja í sundr: *í hverju umslagi eru aftaldar 23 krónur.*

**aftigna (-aði)** *ás*, svifta tign: *prestr skal a-st allri sinni sæmd*, skal sviftr verða, Thom.; *ráðgjafi hefir lögtign meðan hann er við völd, en a-ast er hann fer frá völdum.*

**aftn|a (-aði)** og **aftnast (-aðist)** *óás*, kvelda, líða á dag: *þar til at a-aði; þá a-aðist*, kveldaði.

* ♂ **aftór** *kl*, fánýti; einskisvert rusl, BH [VF?].

**aftr** *a; ms.* **aftar(r)**, *y.* **aftast. I.** um stað og hreyfing, stefnu: bakleiðis (*and.* fram), í andstæða átt frá upphafinu e. framhliðinni, í áttina að baki sér: *falla á bak aftr*, á bakið; *hopa á bak aftr*, hopa á hæl; *fram og aftr*, áfram og bakleiðis; *ganga aftr eftir þilfarinu*, ganga eftir þilfarinu í áttina til skutsins; *líta aftr (fyrir sig)*, í áttina að baki sér; *ganga a. á bak*, svo að fæturnir hreyfist á mis í hæla-áttina. **2. a.** í þá átt, sem úr var komið: *snúa aftr; koma heim aftr; taka orð sín aftr*, éta ofan í sig; *reka e-ð a.*, hrekja; *a. rekst lygi þá er sönnu mætir*, verðr rekin ofan í þann sem laug, hrakin »til baka«; *taka a. gjöf*, rifta gjöf sína; *taka a. loforð*, rjúfa heit sitt, brigða orð sín. **b.** á ný; í samt lag: *hann datt af baki, en fór þegar á bak a.*, á ný; *láta aftr hurð*, loka hurðinni (egl. láta hana í samt lag á ný); *láta aftr*, loka; *láta a. herbergið*, loka herberginu; *húsið er a.*, »f. látið aftr, f. hurð hússins er látin *aftr* á sinn stað«, Sch. **3.** (án hreyfingar) að aftan: *þat er maðr fram, en dýr a.*, maðr að framan, en dýr að aftan (eftri hlutinn); * *aftr frá*, aftarlega: *einhvers staðar a. frá á bakinu*, aftarl. á b.; *aftr frá á skipinu*, aftarl. á sk. (en: *bátr aftr frá skipinu*, aftr af, fyrir aftan); *hann er aftar (aftast) í fylkingunni*, lengra (lengst) aftr. **4.** (um tíma) á ný, af nýju: *Freyja vaknar ok snerist við ok sofnar a.*, sofnar á ný. **5.** endr-, í stað e-s, er farist hefir e. þvíl.: *vinna ríki aftr; bæta e-m tjón hans a.*, bæta h-m það sem hann hefir mist. — Sams.: **aftr-**, sjá í stafrófsröð sinni.

**aftra (-aði)** *ás*, egl. þoka aftr á bak, halda aftr; draga úr, letja; hefta, hindra. **1.** *a. e-m*, Þorst. hv.; *þeir öftruðu honum frá því*, hindruðu, heftu, hann frá því, talmuðu h-m.; *mér fær ekkert a-að*, ekkert getr talmað mér; *þeir gátu eigi a-að ferð hans*, afstýrt. † **2.** *a. sér*, hika: *eigi mun ek a. mér at þessu*, Grett. † **3.** taka aftr, aftrkalla: *skal eigi boði a.*, standa skal það sem ég hefi boðið, Vallalj.; *a. ummælum sínum*, aftrkalla ummæli sín.

**aftran** *kv*, = öftrun.

**aftrbati** *k*, bati af sjúkdómi: *hann er í a-a*, honum er að batna. — Sams.: * **aftrbata-píka** *kv*, stúlka (ógift), »sem langt er um liðið síðan hún átti barn: *hún er orðin a.-p.*«, Sch.

† **aftrbeiðilegr** *l*, egl., sem vísar hvor til annars; sem skifta má, hvorum fyrir annan; *a-leg metaphóra*, kenningar, sem snúa má í gagnstæð orð og tákna þá gagnstæðan hlut e. hugmynd, t. d. »storð fiska« = sjór, og »mar jóa« = land.

△ ⊥ **aftrbeygilegr** *l*, sem vísar til sjálfs sín aftr: *a-t fornafn* (fornafnið »sig«); *a-t sagnorð* (t. d. »hyggjast« = hyggja sig). [Orðið er rangmyndað að merkingu, því að orðin beygjast ekki

aftr, heldr v í s a aftr; ætti því að réttu lagi að heita: *endrvísilegr* — s. þ. o.]

* **aftrboginn** [-boijinn] *l*, boginn aftr á bak, fattr: *á villihrútunum ferhyrndu í Núpsstaðarskógi eru 2 miðhornin aftrbogin eins og á steingeit.*

† **aftrborinn** *lm*, endrborinn.

† **aftrbyggi** *k*, helzt í flt., þeir menn, er byggja (skipa) in eftri rúm á herskipum. *And.:* frambyggjar, stafnbyggjar.

**aftr|byrgja** *ás*, byrgja (aftr), loka, láta aftr.

**aftrbœtilegr** *l*, bœtandi, sem verðr bœttr, EJO.

† **aftr|dráttr, -ar** *k*, frásog (frá landi): *a. hafsins*, fjara, útfall.

* **aftrdregill** [-drei-] *k*, aftrhluti eða aftasti hluti drags undir bát e. skipi, Vmey.

† **aftrdrepa** *kv*, egl. slag á móti (t. d. er knöttr er sleginn aftr); mótkast, mótspyrna: *meðan þeir vissu sér enga von a-u.*

* **aftr|elding** *kv*, síðasti hluti nætr, rétt í dögun; nú á tímum: birting, dögun. [Orðið er varla fornt, myndað af misskilningi á *elding*[2]. Sbr. *elda*[2]].

* **aftr|endi** *k*, sá endi, er aftr snýr; *and.* framendi: *aftrendi skips.* (Eintómt) aftrendi = rass: *hann sneri í mig a-anum*, rassinum; *sn.* bakhluti.

* **aftrfenginn** *lm*, endrfenginn; sem maðr hefir fengið á ný.

† **aftrferð** *kv*, heimferð; það að fara sömu leið á ný í gagnstœða átt, LFR, IV, 159.

* **aftrflutningr** *k*, = *aftrfœrsla.*

* **aftrfótr** *k*, annar inna eftri fóta. — S a m s.: **aftrfótar-skeifa.**

* **aftrfundinn** *lm*, fundinn aftr eftir að hafa verið týndr.

* **aftrfundr** *k*, = *endrfundr (2)*, Milt. 252.

† **aftrfœrsla** *kv*, aftrflutningr, það að flytja (e-ð) aftr (á sama stað).

**aftr|för (-far|ar; -ir)** *kv*, † **1.** = *aftrferð.* **2.** hnignun; það að e-u fer aftr, e-ð gengr úr sér.

* **aftr|gafl** *k*, eftri gafl (t. d. á húsi).

**aftrganga** *kv*, **1.** svipr dáins manns; dauðr maðr, sem birtist lifandi mönnum í líkamsgerfi sínu, »gengr aftr«. † **2.** það að gengið er aftr, reimleikar.

† **aftrgangr** *k*, = *aftrganga 2.*

**aftrgenginn** *lm*, orðinn að aftrgöngu, genginn aftr.

**aftrgjald** *kl*, endrgreiðsla: *veð fyrir a-i lánsins*, Bps., Johns. 101.

* **aftrgjörð (-gjarð|ar; -ir)** *kv*, kviðgjörð, eftri gjörðin í söðli e. klifbera. *And.* framgjörð.

* **aftrgreiddr** *lm*, aftrkembdr: *hárið aftrgreitt óskift.*

**aftrhald** *kl*, **1.** það að hefta e-ð, hefting, talmun. * **2.** spornun móti breytingum, sér í lagi gegn óreyndum tiltœkjum eða nýmælum. *Sn.:* íhald. *a* 3. synjun: *lasta . . . lausnir og aftrhald* [*lausna*], Vísnab. 78. — S a m s.: * **aftrhalds-átt**, sú átt, er veit í a-stefnu. **-band**, band, sem heldr e-u aftr: *a. e-s*, Barl. * **-blað**, (stjórnmála)blað, sem fylgir aftrhalds-stefnu. ***-félag.** ***-flokkr.** * **-gaur(r).** * **-gjarn,** = *-samr.* * **-hreyfing.** ***-lið. -maðr.** † **1.** *a. e-s*, sá sem heftir e-ð. **2.** maðr, sem er íhaldssamr í skoðunum og stefnu. ***-málgagn.** ***-mót,** -svipr. * **-pistill.** * **-prédikun.** * **-rœða.** ***-stefna.** ***-straumr,** straumr í a-áttina. ***-svipr:** *það er e-r a. á því*, það er á því e-t ættarmót við aftrhald. ***-vani.** ***-viðleitni.**

**aftrhaldsamr** *l*, ***1.** hneigðr til aftrhalds. † **2.** fastheldinn (á fé), sínkr.

***aftrhaldsemi** *kv*, tilhneiging til aftrhalds.

***aftrhallr** *l*, sem hallar aftr.

***aftr|hals** *k*, eftri hals (á skipi), LFR, IX, 3. — Sjá: *hals*.

***aftr|heili** *k*, litli heilinn *(cerebellum)* í dýrum, LFR, X, 210.

***aftr|hjól** *kl*, eftra hjól (t. d. á vagni eða hjólhesti).

***aftrhlaðinn** *lm*, **1.** hlaðinn í aftrrúmi: *skipið er a-ið*, meira hlaðið aftan en framan. **2.** (um skotvopn) sem hlaða skal að aftan: *a-in byssa.*

† **aftr|hlaup** *kl*, aftrferð á hlaupi, hlaup til baka.

***aftrhlestr** *lm*, = aftrhlaðinn 1. (bæði haft um skip og vagna).

***aftr|hlið** *kl*, hliðin, sem aftr veit, bakhlið.

***aftrhluti** *k*, eftri hluti.

***aftrhlœðr** *l*, **1.** = *aftrhlestr*, BH, Sch. **2.** = *aftrhlaðinn 2.*

† **aftr|hnekking** *kv*, það að e-m er hnekt (hrundið) aftr; hnekkir.

△ ⊥ **aftrhneigðr** *l*, endrvísilegr. (Sbr. *aftrbeygilegr)*, VÁRitr.

***aftr|hófr** *k*, hófr á aftrfœti. — Sams.: **aftrhófs-skeifa**, aftrfótarskeifa.

***aftr|holf** *kl*, eftra holf(ið í hjartanu): *flytja blóð úr hœgra a-i hjartans til lungnablaðranna*, JEml. 67.

***aftr|hrammr** *k*, (annar) eftri hrammr (inn á bjarndýri), Sch.

**aftr|hryggr (-hryggjar)** *k*, eftri hluti hryggjar (á dýri; sérstakl. á dauðu dýri hryggstykki með kjötinu á).

**aftr|huppr** *k*, aftrhluti hupps.

**aftr|hvarf** *kl*, **1.** það að snúa aftr (ferð sinni): *illr a-s*, tregr að snúa aftr (móti óvinum sínum), Fms. VII, 325. † **2.** það að snúa aftr til fyrri trúar: *a. til heiðni.* **3.** aftrhvarf frá synd e. villu: *iðrun og aftrhvarf.*

***aftr|hvolf** *kl*, = *aftrholf.*

† **aftri** *y*, = *aftari, eftri*, e. t. v. misritun í FsN, III, 244.

**aftr|kall** *kl*, það að taka (kalla) aftr orð, ummæli e. loforð.

***aftr|kalla** *ás*, taka aftr, lýsa ómæt e. ógild ummæli, ákvörðun e. heit.

***aftr|kallan** *kv*, = *aftrköllun.*

**aftr|kast** *kl*, † **1.** mótspyrna, hrakningr. **2.** það að hrökkva aftr: *ef maðr kastar steini í klett eða þil, fellr hann ekki lóðrétt til jarðar, heldr hrekkr frá aftr; það heitir a.; a. ljósgeislanna (t. d. frá spegli); a. hljóðsins er bergmálið.* ***3.** (ólíkaml.) hreyfing, er vaknar við gagnstœða hreyfing, og miðar til að fœra alt í gagnstœða átt, þar á meðal andstœð hreyfing framför e. frelsi, ekki íhaldsemi, aftrhald, sem að eins miðar til að viðhalda því sem er, heldr hreyfing í átt til þess, sem var á undan framfarahreyfingunni eða frelsishreyfingunni: *a-ið kæfði niðr allar frelsishreyfingar*, Ið. VII, 60. *a* **4.** sinadráttr í mænunni *(opisthotonus)*, LFR, XV, 147. — Sams.: ***aftrkasts-átt**, sú átt, er miðar til aftrkasts, eða a-ið stefnir í. ***-blað**, blað, er fylgir e. vinnr í a-stefnu. ***-flokkr.** ***-geisli**, geisli, sem brotnar á e-m fleti og kastast aftr, Fisch. 278. ***-hreyfing** (bæði í líkaml. og ólíkaml. merking). ***-maðr.** ***-málgagn.** ***-stefna**: *in kristilega siðfrœði hefir á sér öll einkenni a-u*, MillFr. 100. ***-straumr**: *skyldi a-inn verða svo sterkr*, MillFr. 104.

**aftr|kaup** *kl*, **1.** endrkaup; það að maðr kaupir aftr hlut, er hann hefi

áðr átt. † 2. kaup á varningi í stað annars, sem maðr hefir fargað, Rb.

† **aftr|kemba** *kv,* maðr með aftrkembt hár.

* **aftr|kembdr** *lm,* kembdr aftr; með hárið kembt (greitt) aftr (óskift); *sn.:* aftrgreiddr.

* **aftr|kertr** *lm,* reigðr (kertr) aftr á bak, fattr (sbr. hnakkakertr).

* **aftr|kippr** *k,* kippr aftr á bak, stöðvun, hik, fráhvarf frá fyriræltun: *það er kominn e-r a. í hann, svo að hann hættir víst við,* hik; *í það alt, sem G. hafði gert, . . . hlaut nú að koma a.,* stöðvun, Skír. *'83,* 48.

**aftr|koma** *kv,* endrkoma á sama stað aftr, sem maðr var áðr á e. fór frá.

* **aftr|kreista** *kv,* vanmetaskepna (helzt um sauðkind, sem frá upphafi hefir verið kyrkingr í).

* **aftr|kreistingr** *k, = aftrkreista,* VF. Sch.

† **aftr|kváma** *kv, = aftrkoma.*

**aftrkvæmt** *l. kl,* heimilt e. auðið að koma aftr: *hann á eigi a.,* e. *h-m er ekki a.,* hann á ekki kost á, eða h-m er ekki heimilt (fritt) að koma aftr.

* **aftr|köllun** *kv, = aftrkall.*

† **aftr|lag** *kl,* það að gefa e-m e-ð aftr, skila aftr: *a. e-s.*

† **aftr|laga** *kv,* endrgreiðsla á ofskiftum arfi, N.

*a* **aftr|lagning** *kv,* hrakning (það að hrekja með rökum), EspÁ, IV. þ. 71.

† **aftr|lausn** *kv,* **1.** lausnargjald, Hom. **2.** (réttr til eða) það að leysa til sín gegn endrgjaldi hlut, sem genginn er úr eigu manns, N. — Sams.: † **aftrlausnar-jörð,** jörð, sem fyrri eigandi á rétt á að leysa til sín aftr, N.

**aftr|leggja (-lagði)** *ás,* † **1.** endrgreiða, N. *a* **2.** hrekja (með rökum), EspÁ, IV. þ. 71.

* **aftr|leggr (-leggjar)** *k,* eftri fótar leggr.

* **aftr|lið** *kl,* sá hluti herliðs, sem síðast fer eða aftast er.

* **aftr|liðr (-ar)** *k,* **1.** sá síðari af tveim liðum. **2.** aftasti liðrinn í þríliðu: *margfalda miðlið með a., og deila því sem út kemr með framliðnum.*

* **aftr|lit** *kl,* það að líta aftr (fyrir sig), JÞ, I, 105.

* **aftr|lokun** *kv, = lokun.*

* **aftrlægr** *l,* **1.** sem liggr (veit) í aftrátt e. aftr á bak, e. hallast aftr: *siglutrén nokkuð aftrlæg.* **2.** sem leggja má aftr: *a-ir hnífar eða sjalfskeiðingar öðru nafni.*

*a* **aftr|lær** *kl,* aftrfótar-lær á ferfætlingi, Klp. VIII, 114.

* **aftr|löpp (-lappar)** *kv,* önnur eftri löpp(in á ferfætlingi, t. d. hundi eða ketti).

**aftr|mjór** *l,* sem mjókkar eftir því sem aftr dregr, með mjóan aftrhluta (um laxinn), SnE.

† **aftr|mund** *kv,* eftirsjá: *sú gjöf es . . . óþæg gupe, es a. es á lögþ,* sem séð er eftir.

† **aftrmundr** *k, =* sama: *mér er mikill a. at gripum þeim,* mikil eftirsjá.

* **aftr|partr** *k,* aftrhluti.

**aftr|reka** *ób. l,* **1.** hrakinn aftr: *skipið varð a.,* hraktist aftr, til baka. **2.** sem vísað er frá, gerðr erindislaus: *þau gengu 15 börn til prestsins, en þegar að fermingunni kom, urðu þrjú a.,* var vísað frá; *ég var gerðr a. með fiskinn, því að hann var illa verkaðr,* fekk ekki selt fiskinn, — fór erindisleysu í kaupstað með fiskinn.

**aftr|rekstr (-rekstrar)** *k,* það að reka aftr: *a. nauta.*

* **aftr|réttingr** *k,* **1.** slitinn, boginn (skeifu)nagli, sem hefir verið sleginn

réttr aftr. 2. uppskafningr: *a-ar láta mest*, GÍO, 37.

* **aftr|rúm** *kl*, (á bátum og opnum skipum nú) rúmið fyrir aftan bita, skutrúm. *And.*: framrúm, stafnrúm, AF.

* **aftr|rækr** *l*, = *aftrreka*, KP, 36.

* **aftr|segl** *kl*, segl á eftri siglu.

† **aftrsettr** *lm*, hrakinn (með röksemdum), Stj.

* **aftr|sigla** *kv*, eftri sigla (á bát e. skipi).

† **aftr sjá (-sjár)** *kv*, eftirsjá, eftirsjón.

* **aftr|sjón** *kv*, endrsjón, það að sjá(st) aftr.

* **aftr|skilun** *kv*, það að skila aftr, Klp. VIII, 137.

† **aftr|skipun** *kv*, endrreising í sitt fyrra ástand.

* **aftr|skutr** *k*, skutr(inn eftri). *And.* stafn, framskutr, AF. (Sbr. *skutr 2)*.

* **aftr|snúningr** *k*, **1.** maðr, sem verðr nauðugr að snúa aftr, BH. **2.** það að snúa (e. að snúið er) aftr.

* **aftr|stafn** *k*, **1.** = (aftr)skutr, AF. **2.** eftri stafn á húsi.

* **aftr|stefni** *kl*, eftra stefni á bát eða skipi, LFR, II, 174.

* **aftr|sæti** *kl*, eftra sæti (t.d. á vagni).

* **aftr|tá** *kv*, baktá (á fugli).

* **aftr|tækr** *l*, sem taka má aftr: *a-t umboðsskjal*, sem má aftrkalla, Fróði.

† **af|trú (-ar)** *kv*, vantrú, villutrú, hjátrú.

† **af trúa (-aði)** *ás*, snúa (e-m) frá (réttri) trú: *aftrúaðu folkit ok heiðnaðu*, Gyð. — **aftrúast**, að kasta trú, túrna.

* **af|trúa** *ób. l*, hættr að trúa: *hann er nú orðinn a. því* e. *a. á það, að ...*, úrkula vonar um, eða hættr að trúa því; *orðinn a. því, að það hafi draugr verið*, hættr að trúa því.

* **aftr|uggi** *k*, eftri uggi (á fiski).

* **aftr-úr** *sto*, **1.** með þgf., út úr (e-u e. e-m) að aftan: *lagði árina svo í bátinn, að árarblaðið stóð langt a. skutnum*. **2.** án þágufalls (sem þá er undirskilið): *skip hans var gangminst og dróst a.* (undirsk.: flotanum). *Ég reið lötum hesti og seinum og dróst a.* (hópnum).

* **aftr|vasi** *k*, lendar-vasi á buxum; lafa-vasi á frakka.

† **aftr|velting** *kv*, það að e-u er velt aftr; aftrkast.

△ **aftr|vik** *kl*, aftrsnúningr (2): *a. jafndægra-punkta*, OLfr. inng. 50.

† **aftœkilegr** *l*, tiltœkilegr, ráðlegr.

† **aftœkr** *l*, vítaverðr, útásetningarverðr.

**af|tœma** *ás*, gertœma, tœma alveg: *lét önd h-s a-st illum hlutum*, Hms.; *tunnan er a-d*.

**aftök** *kl. flt*, sjá: *aftak*.

* **aftöku-harðr** *l*, ákaflega harðr: *vetr . . . a.*, Fjöl.

* **aftöku-staðr** *k*, **1.** staðr þar sem menn eru líflátnir [teknir af]. **2.** staðr, þar sem ferðinni lýkr [ferðina tekr af? tekið er af hestunum?]: *hér er þá komið á a-inn*, hér er þá komið þangað sem ætlað var; *auðmaðr, sá sem um ég kveð, | a. þann hljóta réð*, þann viðtökustað eftir dauðann, GTh, 105.

* **afugga (-aði)** *ás*, skera ugga af (fiski).

* **afuggar** *k. flt*, afskornir uggar.

* **afuggur** *kv. flt*, = *affall (6)*.

† **afugr** *l*, = *öfugr*.

† **afund** *kv*, = *öfund*.

* **afundinn** *lm*, önugr, ónotalegr í orði eða viðmóti.

* **afurðir**[1] *kv. flt*, hlutir, sem framleiddir eru af náttúrunni, þ. e. það sem náttúran gefr af sér, annaðhvort sjalfkrafa eða fyrir tilverknað mann-

anna: *a. jarðar, a. lands,* JÓVskfr. 3. og *passim,* OLfr. inng. 79.

* ϱ **afurðir**[2] *k. flt,* sama TUM, I, 18.

* **afurða-drjúgr** *l,* sem gefr af sér drjúgar afurðir. ***-góðr** *l,* sem gefr af sér góðar afurðir. ***-lítill** *l.* ***-magr** *l.* ***-mikill** *l.* ***-rýr** *l,* = **-magr l.* ***-sæll** *l.*

* **áfús** *l,* fús til [»úr gömlu hdr.«] Sch.

† **afusa** *kv,* N,= *áfúsa, aufúsa, avusa,* N, *afuusa,* N, *ofussa, öfusa.*

† **áfúsa** *kv,* BH = *aufúsa, öfusa.* **1.** sterk löngun: *á því er mér mikil öfúsa,* mér leikr sterklega hugr á; *ef yðr er þar nökkur á. á,* ef yðr er nokkur ánœgja að því, ef yðr langar til þess. **2.** velþoknun, þökk, þakklæti: *vilju vér au. gefa þeim góðum mönnum; kann hann þess ofussu, at ...; þakkaði ... með mikilli avusu.* [Uppruni orðsins alls óvís, og eins hitt, hver réttust sé mynd þess]. — Sams.: **áfúsu-gestr,** velkominn gestr. †**-laus,** óþakklátr. †**-orð,** velþoknunarorð, þakkarorð. † **-svipr,** velvildarsvipr, ánœgju-svipr.

† **af|valdr** *l,* valdandi: *a. e-s, a. e-u.*

* **af|vani** *k,* vanaleysi (um e-ð, sem maðr hefir verið vanr, en er hættr að vera vanr við): *það er komið í a-a fyrir mér að ...,* ég er hættr að tíðka það, leggja það í vana minn, að ...

* **afvanr** *l,* ekki lengr vanr, hættr að leggja í vana sinn: *hann er orðinn a. sjóferðum,* hættr að fara á sjó.

* **afvatna (-aði)** *ás,* **1.** leggja e-ð (saltað, t. d. fisk, kjöt) í bleyti, til að leysa upp að nokkru saltið og taka af því saltbragðið (mesta): *stóran fisk verðr að a. lengr.* **2.** að láta e-ð ósaltað liggja í vatni, til að hreinsa það eða taka bragð af því: *a. litr,* Matr. 56.

† **afvega (-aði)** *ás,* fœra (tæla, leiða) af réttri leið.

**afvega** *a,* afleiðis, burt frá (réttum) vegi: [*œrin*] *var ett a.; þvers a.,* þvert af (úr) leið; *leiða e-n a.,* til að breyta ranglega, til spillingar. — *Sams.: **af-vega-leiða,** s. **-leiðsla:** *a. frá guði.* **-rensl(i):** *a. blóðvessa nokkurra,* LFR, IX, 215.

**afvegar** *a,* = *afvega: víkja e-u a.,* víkja (viljandi) úr réttu lagi, rangfœra (orð e. atvik). [Egl. ef.]

† **afvegis** *a,* = *afvega.*

* **afveg|r (-ar; -ir)** *k,* **1.** vegr út frá aðalvegi. **2.** röng leið: *það er a., sem ... íslenzkri gestrisni hættir ... til að villast á,* KJUf. 40.

* **af|velta (-velti)** *ás,* velta (e-u) af (e-u): *örðugt að a. því oki.*

**afvelta** *ób. l,* oltinn þannig á bakið, að hann fær ekki risið á fœtr sjalfkrafa: *sauðrinn lá a. milli þúfna.*

* **af|venda (-vendi)** *ás,* afstýra: *a. e-u frá e-m.*

* **af|venja (-vandi)** *ás,* koma e-m af e-m vana: *a. e-n e-u* = venja en af e-u; *afvenjast,* verða afvanr: *hann afvandist fljótt þessum ósið,* vandist fljótt á að hætta þessum ósið.

* **afvigt** *kv,* afdráttr (sviksamlegr) af vigt; það að vega af manni; fölsun á vog.

**afvik** *kl,* **1.** afhvarf af vegi, krókr. ***2.** afhvarf frá því sem rétt er, JÞ, I, 470. † **3.** afskektr staðr.

* **afvikasamr** *l,* illr í rekstri (um hest), [»styggr«, Sch.].

* **afvikinn** *lm,* afskektr: *geyma e-ð á a-um stað; leiða e-n á a. stað.*

† **afvinna** *kv,* **1.** kvöð, afgjald (t. d. af gefinni fasteign), N. **2.** útgjöld: *a-ur miklar, en tillög engin,* mikil gjöld, en engar tekjur, Bps. *And.* atvinna.

**af|virða (-virði)** *ás,* † **1.** gera lítið úr: *a. fyrir e-m.* † **2.** hafa óbeit (andstygð) á: *a. ódáðir. a-st, plm,* þykjast of góðr til: *a. e-ð, a. við e-ð, a. at . . .* **3.** lítilsvirða, Klopst., 10. bók. [*afvirða* í norskum hdr.; *auvirða* í ísl. hdr.; nú: ⊤ *auðvirða*].

† **afvirðilegr** *l,* fyrirlitlegr, N. [ísl. myndin er: *auvirðilegr,* s. þ. o.].

† **afvirðing** *kv,* lítilsvirðing, óvirðing, niðrun.

† **af|vísa (-aði)** *ás. m. þgf,* vísa frá: *svá at um síðir er unga manni a-t,* Mar., 514.

ℓ **afvopna (-aði)** *ás,* taka vopn af (e-m): *a. e-n.*

ℓ **afvopnun** *kv,* niðrlagning vopna: *a. hersins á báðar síður,* MT, I, 109.

† **afvænn** *l,* óvænn, óvænlegr, N.

* **afvötnun** *kv,* það að afvatna.

† **af|vöxtr (-vaxtar)** *k,* tjón, töpun. *And.* ávöxtr.

* **áfylgis** *a,* **1.** samferða, í för með, BH. **2.** *vera e-m á.,* styðja e-n, fylgja að málum, Sch.

* **áfýsa (-fýsti)** *ás,* eggja, fýsa, fýsa á: *hann á-ti mig lengi þess verks,* eggjaði, fýsti; *ég á-ti hann að fara,* fýsti (taldi) hann á.

† **áfýsa** *kv,* löngun.

† **áfýsi** *kv,* sama.

* **áfýsing** *kv,* það að áfýsa, LFR, IX, 295.

* **áfýsinn** *l,* sem áfýsir, gerir mikið til að áfýsa.

* **áfýsni** *kv,* (iðuleg eða sterk) hvatning, mikil áfýsing, BH.

* **af|þekja (-þakti)** *ás,* taka þak af.

**afþerra (-þerði)** *ás,* þerra, þurka af; afmá: *a. öll mein.*

* **afþilja (-aði)** *ás,* **1.** þilja sundr: *húsið var a-ð í 3 herbergi.* **2.** skilja frá (öðru) með þili: *niðri var alt húsið einn salr, nema a-uð forstofa.*

* **afþilja** *kv,* afþiljað skot (rúm) í lestinni á skipi, Árm. IV, 93.

**af þokka (-aði)** *s,* * **1.** *a. e-n,* rœgja, baktala e-n, BH. † **2.** *a. fyrir e-m,* tala ilt um e-n á bak, spilla fyrir e-m. † **3.** *afþokkast e-m,* vanþoknast e-m; *a-st e-ð,* geðjast ekki að e-u. * **4.** *a-st,* ófríkka: *hann er farinn að a-st,* farinn að ófríkka, SL.

† **afþokkun** *kv,* **1.** niðrun, ámælisorð. **2.** ógeð, þykkja.

* **afþorna (-aði)** *ás,* hleypa af þorni; að eins í talsh.: *gjörðin a-r sig,* þornhlaup verðr á hringju, svo að gjörðin losnar frá móttakinu.

* **afþreyja** *kv,* dœgrastytting; hugarhœgð; það að maðr þreyr af, heldr út, tímann: *hann hafði sér til a-u að fara til fiskjar,* til að stytta sér stundir; *hann reyndi að gera h-m ýmislegt til a-u í sorg hans,* til að hafa af honum, hœgja hug hans með því að stytta h-m stundir e. draga huga h-s að öðru.

* **afþreying** *kv,* = *afþreyja.*

* **afþreyingar-laus** *l,* friðlaus, sem enga ró hefir, órór.

* **afþreyjulaus** *l,* afþreyingarlaus.

* **afþreyta** *ás,* hvíla til fulls, gera óþreyttan aftur: *ég ætla nú að a. mig fyrst,* ná mér fyrst aftr eftir þreytuna.

* **afþreyttr** *lm,* hvíldr, sem hefir náð sér eftir þreytu.

* **afþróttasamr** *l,* rýrandi þrótt (hold) á búpeningi: *það er a-söm veðrátta,* »hold rigna af útigangs-peningi«, VF, Sch.

† **afþvá, afþváttr,** sjá: *afþvo, afþvottr.*

* **afþvo (-þvæ; -þó, *-þvoði; -þvegið)** *ás,* þvo af, hreinsa af: *a. syndir.*

**afþvottr (-þvottar)** *k*, það að þvo (e-ð) af (e-u).

† **af|þýða (-þýddi)** *ás*, fœra á verri veg, til verri vegar: *flestar hans gerðir váru afþýddar*, lagðar út á verri veg.

* **afþyrstr** *l*, sem hefir svalað þorsta sínum, hættr að vera þyrstr.

† **áfœra (-fœrði)** *ás*, hallmæla, ávíta.

† **áfœri** *kl*, árás, er tveir ráðast á einn: *ef tveir menn fella einn við jörðu, þá skal annar þeirra bœta rétt, fyrir því at þat verðr á. at lögum*, N.

**afæta** *kv*, * **1.** pyttr, er ekki frýs, kaldavermsl; mýri, er hiti gufar upp úr, svo að hana leggr ekki (»étr af sér«). † **2.** maðr, sem er harðsnúinn og lætr ekki buga sig, sem »bitr frá sér«.

* **afætu-dý** *kl*, dý, sem frýs (leggr) ekki, Vingl. 135.

* **aföngla (-aði)** *ás*, losa af öngli, Sch.

* **áförull** *l*, (um karldýr) gefinn fyrir að eðla sig: *Það má heita furða full | að F....... er prestur; | alt af er hann á. | eins og graður hestur*, Vestf. vísa.

† **aga**[1] **(agi; agði; agað)** *hs*, vera ófriðlegt útlits, horfa ófriðlega: *nú agir við svá*, nú lítr ófriðlega út, horfir ófriðlega við, Flat.

* **aga**[2] **(-aði, og agi, agði, agað)** *óás*, **1.** renna, vætla (um vatn): *hér agar (agir) vatn undan brekkunni*, vætlar, rennr; *hér agar (agir) alt saman* (egl. rennr saman), hér er alt í hrœrigraut, alt hvað innan um annað; *þar agaði (agði) alt (× öllu) saman; þar hefir alt (× öllu) agað saman.* **2.** *agast*, blotna, gagnbleytast (svo að mýkist): *skórnir agast*, blotna upp (um harða skó).

* **aga**[3] **(-aði)** *ás*, **1.** refsa, hegna, tykta: *þann sem drottinn elskar, þann agar hann.* **2.** temja, venja við reglu: *hermenn hans vóru vel agaðir.*

* **agafullr** *l*, mýrlendr, votlendr, OLfr. II, *2*, 63. (agi[2]).

*α* **aga|hús** *kl*, betrunarhús, EspÁ, X., 60.

**agalaus** *l*, **1.** sem eigi heldr á aga og reglu: *a-ir yfirvaldsmenn*, HE, III, 148, y., sem eru órefsingasamir, halda mönnum eigi til löghlýðni. * **2.** sem skortir aga; sem eigi er haldið til hlýðni e. vaninn við hlýðni: *sá agalaus lifir, ærulaus deyr*, Þjv. Alm. *'99*, 56. (J. Ó.). (agi 2). † **3.** óhegndr, refsingarlaus, Mar. **4.** friðsamlegr, ófriðarlaus: *var nú alt kyrt og a-t; hér er aldrei a-t*, aldrei friðr.

* **agalegr** *l*, geigvænlegr, hræðilegr: *a. sjógangr*, voðalegr; *það var a-t að sjá þær aðfarir*, hræðilegt, geigvænlegt.

* **agaleysi** *kl*, stjórnleysi, skortr á aga (agalaus 2): *alast upp í agaleysi.*

* **agalítill** *l*, lítt taminn, lítt vaninn: *drengrinn hefir a. upp vaxið*, verið illa upp alinn; *her Tyrkja hafði lengi verið a.*, lítt við hlýðni og reglu vaninn.

* **ágalli** *k*, galli, ókostr.

* **agamikill** *l*, votlendr, OLfr.

**agan** *kv*, = *ögun.*

† **áganga (ágöngu)** *kv*, **1.** vinna að e-u, atverknaðr: [*kirkjan*] *á tveggja manna ágöngu á hval í Kjölsvík*, rétt til að senda tvo menn til hvalskurðar. **2.** yfirgangr, N.

† **ágangalaus** *l*, N. = *ágöngulaus.*

† **ágangandi** *k*, N. = *ágöngumaðr.*

**ágangr** *k*, **1.** yfirgangr, usli, það að ganga á rétt annars: *frjals af á-i konunga ok illræðismanna*, yfirgangi; *ég hefi mikinn á-g af fénaði hans*, fénaðr

hans gerir mér mikinn usla; † *á. múgsins,* yfirgangr við múginn; *veita e-m á. ok bana,* ófrið, árás. † **2.** ákæra, N. * **3.** hávaði, ólæti, = *atgangr* (sbr. mikið gengr á): *hvaða á. er þetta?* hvaða læti (áflog, hávaði) er þetta?

**ágangsamr** *l,* **1.** yfirgangssamr, uppivöðslumikill. * **2.** sem fljótt gengr á, fljótt eyðist: *varð á-t á heyin,* heyin tóku að eyðast. * **3.** sem fljótt sækist, vinst: *honum varð ekki á-t með sláttinn,* sóttist seint sláttrinn.

**ágangsmaðr** *k,* **1.** yfirgangsmaðr: *á. e-s,* yfirgangsmaðr við e-n. * **2.** ötull maðr: *á. til stritvinnu á landi, en óvandr við sjó,* Lþb, 1748, nr. 33.

**ágangssamr** *l,* = *ágangsamr 1.*

† **agasamlegr** *l,* óstjórnlegr.

**agasamr** *l,* **1.** ófriðlegr: *a-t mun þá verða í héraðinu; — það er a-t á Siglufirði á síldarvertíðinni.* **2.** stjórnsamr, refsingasamr: *hann var a. við börnin.*

* **aga|vöndr (-vandar; -vendir)** *k,* hirtingarvöndr: *ástin hans mun einsaman | á agavendi halda,* Njó.

† **ágauð** *kv,* egl. það að gelta að (geyja að), skammyrði, háværar átölur: *veita e-m mikla á.,* Gísl.

* **agðalegr** *l,* óskipulegr, Sch.

* **ágenginn** *l,* = *ágengr 1.*

† **ágengilegr** *l,* **1.** auðgenginn (vegr). **2.** árennilegr, aðgengilegr.

* **ágengni** *kv,* **1.** yfirgangsemi. **2.** það hvað manni verðr ágengt, miðar áfram (með verk): *á. sláttumanna,* LFR, X, 156.

**ágengr** *l,* † **1.** sem verðr fyrir (hætt er við) ágangi annara. * **2.** yfirgangsamr. * **3.** í talsh.: *e-m verðr á-t,* e-m miðar áfram með verk sitt, e-m vinst það sem hann vinnr að; *þeir eru 3 að smíða húsið, en verðr lítið á-t,* sækist seint verkið; *hann reyndi oft að sannfæra Þóri, en varð ekkert á-t.*

* **ágerast** *þms,* vaxa, aukast: *ágerðist þessi tilhneiging með ellinni,* jókst, óx.

† **ágerð** *kv,* ávinningr, arðr, Bps. I, 426.

† **ágervi** *kv,* = *gervi;* útbúnaðr, klæðnaðr.

* **ágezkun** *kv,* lausleg áætlun, tilgáta, Árm. III, 73. (Þar ritað *ágetskan;* nú oft ritað: *ágizkun).*

* **agg** *kl,* **1.** metingr. **2.** þræta, rifrildi(s-nöldr).

**agi**[1] *k,* **1.** ógn, ótti: *skelfr jörð öll í aga miklum,* HomU.; *stendr a. af e-m.* **2.** ófriðr, hreður: *agi ok úfriðr; — konungr sat við engan úvina aga.* † **3.** ógnblandin lotning: *var eigi sá annarr konungr, er mönnum stæði jafnmikill a. af fyrir vizku sakir.* **4.** tamning við reglusemi og siðgœði: *í æskunni meðan hann er undir aga,* Skgs.; *Þjóðverjar hafa góðan aga á liði sínu* (sbr. *heragi); — það verðr að hafa aga á börnunum* (refsingaraðhald). — Sams., sjá í stafrófsröð.

* **agi**[2] *k,* vatnsrensl úr jörðu (sbr. *aga*[2]).

† **ágildi** *kl,* ígildi einnar kvíær (sbr. *kúgildi, kvígildi). Sn.:* * ærgildi.

† **ágildr** *l,* jafngildr einni á (sbr. *kúgildr).*

**ágirnast (-girndist og -girntist)** *þms,* girnast að eiga, langa til að eignast: *á. e-ð; á. að . . .*

**ágirnd** *kv,* † **1.** sterk girnd e. ástríðulöngun til e-s, girnd á e-ð: *á. ok ofsi,* áfergja og ofsi; *á-ar blindleiki,* ofrástar blindleiki; um hefndargirni, Kgs. 739. **2.** girnd til að eignast, fégirnd: *á. fjár,* HomU.; *draga undir sik með á.,*

Fms. — Þessi er nú einkamerking orðsins síðan siðbótina. — Sams.: **ágirndar-*auga**: *renna á-a. til e-s,* horfa á e-ð með ágirnd. †**-bál**, girndarbál. †**-broddr**, girndarhvöt. †**-eldr** = *-bál.* †**-gall**, girndar-beiskja. **-legr** *l.* †**-logi** = *-bál.* †**-ok.** ***-maðr**, ágjarn, fégjarn maðr. **-synd.**

† **ágirndlegr** *l,* ástríðulegr.

**ágirni**[1] *kv,* = *ágirnd 1.* og *2.*

† **ágirni**[2] *kl,* = *ágirni*[1].

**ágjarn** *l,* egl. gjarn á e-ð, solginn í e-ð. † **1.** valdfíkinn, ráðríkr: *á. ok fégjarn.* † **2.** solginn, fíkinn: *á. til ríkis;* — *á. til fjár,* Fms. (sbr. fíkjast á fé, Sól.). † **3.** framgjarn, grimmr: *kappar á-ir ok óhræddir;* — *hógværir sem lamb í friði, en í úfriði á-ir,* grimmir. **4.** fégjarn.

† **ágjarnlega** *a,* ágirndarlega.

† **ágjarnlegr** *l,* **1.** fíkilegr, ákafr: *á. girnd.* **2.** ágirndarlegr.

* **ágjöf** *kv,* **1.** sjór, er gefr á skip: *þeir fengu miklar ágjafir,* mikinn sjó gaf á skipið. **2.** borgun fyrir fóðr: *ég fóðraði fyrir hann 5 ær og fékk 4 króna á. á hverja,* AF.

* **ágjöfull** *l,* sem hætt er við ágjöfum: *á-t skip,* skip, sem ver sig illa, Klp. II, 172; *þeir fá á-t þegar út fyrir tangann kemr,* þeir fá tíðar á-ir.

*r* **Agla** [aggla] *kv,* Egils saga (Skallagrímssonar). Réttari mynd en »Egla« (sbr. *Katla,* en ekki *Ketla,* af *Ketill).*

**Agli** [ggl] þgf. et. af *Egill* (»Egli« er ung mynd).

**agn** [aggn] *kl,* **1.** beita fyrir láðs eða lagar dýr (nú oftar *agn* um beitu fyrir landdýr, en *beita* fyrir fisk): *flesk er gott agn fyrir völskur og mýs;* einnig í óel. merking: *mikið af þessum skrumlýsingum er ekkert annað en a. fyrir vestrfara.* † **2.** bráð, herfang (óel.): *agn dauðans.* **3.** að eins í sams. *(agnsamr* osfr.) veiði á sjó eða landi.

**agna** *ef. flt* af *ögn.*

**agna-haugr** *k,* (af *ögn)* haugr af ögnum.

**agnarr** *k,* ? auknefni í Sturlungu: *Magnús a.*

* **agnbiti** *k,* biti af agni, LFR, XII, 229.

* **agndofa** *ób. l,* alveg forviða, sem þrumu lostinn: *hann varð a. við,* honum féllust hendr, hann stóð sem þrumu lostinn, vissi ekki hvaðan á sig stóð veðrið, e. þvíuml. (Egl. um fisk, er lengi hefir hangið á krók).

**agngjarn** *l,* veiðigjarn, gjarn á bráð: *láttu mig ekki, ástvinur kær,* | *a-ar fara í Djöfulsins klær,* VÓBr, Ópr. vísur.

* **agnhald** *kl,* = *agnhnúi.*

* **agnhaldslaus** *l,* agnhnúalaus: *a. ífæra,* LFR, VII, 33.

**agnhnúi** [aggnúi] *k,* **1.** aftrlægr fleinn innan á öngli, skamt fyrir ofan odd, til að varna því að fiskrinn losni aftr af önglinum. **2.** tormerki, torfœra, talmi: *þar eru ýmsir a-ar á,* ýmsir örðugleikar, tormerki, vandkvæði; *ég get fengið jörðina keypta, en sá a. er á, að eigi er auðið að losa hana úr ábúð í næstu fardögum.*

**agnhnúalaus** *l,* sem enginn agnhnúi er á, annaðhv. í egl. e. óel. merking: *a. goggr,* ífœra, sem eigi er með agnhnúa, LFR, III, 98; *kostr er á því að vísu, en það er samt ekki a-t,* en samt er hængr á.

* **agnhæll** *k,* = *agntittr.*

**agnir** *kv flt* af *ögn.*

*a* **agnknúi** = *agnhnúi.*

* **agnop** *kl,* op á aftrgafli tóugildru, þar sem agnið er látið inn um, eða egnt er í gegn um.

*** agnsamr** *l,* (um jörð eða tiltekið svæði) veiðisæll: *agnsælt land, agnsæl jörð,* jörð þar sem gott er til veiðifanga á landi e. sjó; *þar er a-t mjög, laxveiði, æðarvarp, bjargfugl, útræði gott og fiskisælt.*

*** agnsax** *kl,* fiskbredda, BH.

*** agnsemi** *kv,* veiðisæld: *að Grímsey hafi fyrir a. sína þótt fýsilegr bústaðr,* Ísaf. *'84,* 43c.

*** agnsemislaus** *l, a. jörð,* LFR, VII, 95.

*** agntittr** *k,* tittr í tóugildru, sá er agnið er fest á: *í honum* [*aftrgaflinum*] *miðjum afsleppr tappi, er ég kalla agntitt,* Fr.Grl. 48.

**agnúi** *k,* = *agnhnúi.*

*** agnþráðr (-ar; -þræðir)** *k,* þráðr, sem agn er bundið (fest) með við agntitt, LFR, XII, 229.

*** agnþrota** *ób. l,* þrotinn að beitu, beitulaus, LFR, III, 209.

† **agnör** *kv,* agnhnúi.

**ágóðahlutr** *k,* hlutr e. partr af ágóða.

*** ágóðanot** *kl. flt,* afnot ágóða e-s hlutar [sem annar maðr á] *(usus fructus),* Tiro, 54.

*** ágóða-pantr** *k,* *** ágóða-veð** *kl,* veð í ágóða, svo að veðhafi má njóta ágóðans *(antikresis).*

**ágóði** *k,* arðr, gróði, ávinningr.

*** ágoggast (-aðist)** *þls,* festast á öngli, JÁÞj. I, 133.

*** ágreining** *kv,* **1.** ósamþykki. *a* **2.** flokkadráttr, 1 Kor. 11, 19 W.

*** ágreiningr** *k,* skoðanamunr, ósamþykki, misþykkja: *það er enginn á. um verðið,* mönnum kemr saman um v.; *það varð e-r á milli þeirra,* einhver misþykkja. — Sams.: *** ágreiningsatriði** *kl,* atr., sem mönnum kemr ekki ásamt um. ***-efni** *kl,* **1.** tilefni til ágreinings. **2.** efni, sem skiftar skoðanir eru um: *á. aldar vorrar,* MillFr. 1.; *eitt af á-um í siðfræðinni,* MillFr. 31. ***-frelsi,** frelsi til að hafa frábreyttar skoðanir, MillFr. 14. ***-maðr,** maðr með frábrugðnum skoðunum [í trúarefnum] *(dissenter),* MillFr. 13, 67. ***-skoðun,** frábrugðin skoðun (helzt í trúmálum), MillFr. 15.

**ágrip** *kl,* † **1.** átaka: *lítit ágripum,* lítið á að taka, N. ***2.** stutt inntak: *þetta er ágrip stœrra rits,* af stœrra riti, úr stœrra riti; *á. mannkynssögunnar,* stutt inntak (yfirlit) helztu atriða.

§ **agúrka** *kv,* e. k. ávöxtr *(cucumis),* gúrka.

*** ágœ|ða (-ddi)** *ás,* snúa til góðs, bœta úr, LFR, IX, 25.

**ágæ|ta (-tti)** *ás,* víðfrœgja, lofa mjög: *á-ttu allir vörn hans.*

**ágæta-,** sjá: *ágæti.*

**ágæti** *kl,* það sem frábært er (að kostum, hreysti osfr.), frægð, frægðarverk: *leita sér á-s,* frægðar; *hefir hverr til síns á-s nokkut,* Njá.; *þetta er mikið á.,* mikið fyrirtak; í flt. ágætis-verk, frægðarverk: *mikil á. váru sögð frá Gunnari,* Nj.; *gera e-ð að ágætum,* ágæta e-ð; *gerðust nökkurar jarteignir í burð hans: sjau á. urðu,* Elu. — Sams.: **ágæta-** *(ef. flt)* og **ágætis-** *(ef. et)* er haft sem fyrri liðr í samsetningum bæði með *n.-um, l.-um* og *a.-um* til að tákna að e-ð sé fyrirtak, sé með afburðum: **ágæta-góðr. -gripr. -naut. -skjótr. -steinn. -vel. ágætis-afli. -akr. -góðr. -gripr. -kona. -maðr. -orð. -steinn. -siðsamr. -verk.** osfr.

† **ágætingr** *k,* ágætismaðr.

**ágætis-,** sjá: *ágæti.*

**ágætlegr** *l,* = *ágætr.*

† **ágætleikr** *k,* ágæti, ágætis-eiginleiki.

**ágætr** *l*, frægr, frábær, fyrirtaks-góðr, fyrirtaks-fagr, osfr.

† **ágætsamlega** *a*, ágætlega.

† **ágöngulaus** *l*, óátalinn, átölulaus: *á-t*, óátalið.

† **ágöngumaðr** *k*, = *ágangsmaðr (1)*.

* **áhafnar-lið** *kl*, skipshöfn: *fengu honum 4 skip og á.*, OLfr. II, *3*, 291.

**áhald** *kl*, † **1.** mest í flt. *áhöld*, ryskingar, átök: *verða á. með mönnum*, lendir í handalögmál, sviftingar; *hélt þeim við áhöld*, lá við áflogum, Eb. † **2.** flt. mótstöðu-magn: *hafa áhöld við e-n um e-t*, hafa liðsmagn til varnar. — Sérstakl. orðt.: *hafa engin áhöld við e-m*, mega ekki við e-m. † **3.** tilkall, tilkalls-réttr: *þótti leikdómrinn meira á. hafa á kirkjunum en klerkdómrinn.* † **4.** varðveizla, eignarhald: *hafa nökkut á-s*, hafa í sínum vörzlum, vera handhafi e-s. * **5.** (egl. það sem maðr heldr á): tœki, verkfœri, tól: *þetta er vænt á.*, gott verkfœri; *hafa öll áhöld til heyvinnu*, tœki, amboð, verkfœri. * **6.** átaka, það að halda á: *tveir sauðir líkir til á-s og upptöku*, DuH, 69. — Sams.: **áhalda-skrá**, skrá yfir áhöld 5. **-spjöll**, skemdir á á-m 5, Br. H. og B, II, 112.

* **áhalli** *k*, **1.** halli til annarar hliðar (á bagga-burði): *það er á. á brúna hestinum*, þyngri burðrinn á annari hliðinni, svo að reiðingnum hallar. **2.** (óel. ójafna): *áhallinn gamli með tekjum og gjöldum.* **3.** það að hallað er á e-n: *mér fanst á. gerðr á Jón með þessum málalokum*, fanst vera hallað á Jón.

* **áhangandi**[1] *lm*, **1.** tilheyrandi, viðkomandi: *þetta fólk er mér á.*, er á mínum vegum. Ψ **2.** sem leiðir af: *á. af tímanum*, PP, Rsn. 22.

Ψ **áhangandi**[2] *k*, fylgismaðr [þ. *anhänger*].

**áhankast (-aðist)** *ópers. s*, *e-m á.*, e-m hlekkist á.

**áheit** *kl*, egl. áskorun um liðveizlu. **I.** ákall á sér máttugri veru til liðsemdar, einkum á goð e. helga menn. * **2.** gjöf, sem þeim er heitin, sem á var heitið: *á. til Strandakirkju 5 kr.*; en: *á. á Str.*, loforð um gjöf til Str., ef e-ð verði svo e. svo. * **3.** herkjur, í talsh.: *með áheitum*, með naumindum (upphafl.: með því að heita á ...).

**áheldi** *kl*, **I.** = *áhald (4)*. * **2.** sjálfheldi eða kvíar: *að koma grip í á.*; *að reka laxana í á.*, í hylji, sem þeir komast ekki úr, Sch.

* **áhelling** *kv*, það að hella (e-u) á (e-ð): *á. vatns*, Klp. VIII, 147.

† **áhenda (-di)** *ás*, handsama; *áhendr*, *lh* af *á.*

* **áherzla** *kv*, **I.** það að herða á e. það að hert er á: *áherzlan er á fyrsta atkvæðinu*, hert er (í framburði) á fyrstu samstöfu; »þeir gengu upp í *loft*« (ɔ: loftherbergi); »sauðrinn lá *upp* í loft« (ɔ: á bakið) — í fyrri setningunni er *áherzlan* á orðinu *loft*, en í síðari setningunni á *upp*. **2.** óegl. *leggja á. á e-ð*, þykja mikið undir e-u komið; *Farísear lögðu mikla á. á, að lögmálinu væri stranglega fylgt*, F-um þótti mikið undir því komið, þótti það miklu varða; *hann lagði mikla á. á, að menn ættu að . . .*, brýndi sterklega fyrir mönnum, að þeir ættu að ... — Sams.: **áherzlu-laus** *l*, sem engin áherzla er lögð á: *á-ar samstöfur*, JÓ, Enb., 5, 10 o. v. **-merki. -tákn. -samstafa**, JÓ, Enb. 6, 8, 9 o. v.

**áheyrandi**[1] *lm*, sem hlustar á. *And.* afheyrandi: *hann spurði þá, allri*

*hirðinni á.*, svo að öll hirðin heyrði; *hann sagði það að mér á.*, svo að ég heyrði, í mín eyru. *Sn.* áheyrsi.

* **áheyrandi**[2] *k*, maðr, sem heyrir á, hlýðir á: *Vóru margir áheyrendr á þinginu í dag?* Vóru margir að hlusta á umræðurnar á þinginu?

* **áheyrenda-pallr** *k*, pallr fyrir áheyrendr. ***-pláz. *-svæði.**

**áheyrilegr** *l*, snjallmæltr; verðr að heyra, sem skemtilegt e. fagrt er að hlýða á eða heyra tala: *hann er á.; hann talar áheyrilega*, svo að áheyrilegt er.

**áheyris** *a*, að e-m áheyrandi, í áheyrn: *öllum þeim á. And.* afheyris: *vini skal lofa (þeim) afheyris, en vita á.*, GÍO, 353.

* **áheyrn** *kv*, **1.** það að e-r heyrir til: *í á. allra*, svo að allir heyrðu. **2.** það að hlýða á e-n; *vér getum útvegað þér á. hans*, fengið hann til að hlýða á þig, unna þér viðtals, Þús. II, 119. **3.** bœnheyrsla: *vér höfum oft farið þess á leit, en enga á. fengið.* — Sams.: * **áheyrnar-salr**, salr þar konungr (eða annar höfðingi) veitir mönnum áheyrn eða áheyrslu.

† **áheyrsi** *l*, = *áheyrandi*[1].

* **áheyrsla** *kv*, = *áheyrn: á. guðs evangellii*, Corv.; *stefna [manni] um votta á-u*, til að hlýða á vitni, Lþb. 1723, nr. 16; *konungr synjaði þeim á-u*, viðtals, Skír. '55, 8; *hann fékk enga á.*, bœnheyrslu.

† **áheyrsli** *l*, = *áheyrsi.*

* **áhittinn** *l*, heppinn að hitta á (eða geta upp á), BH.

* **áhittni** *kv*, það að vera áhittinn.

* **áhlaðandi** *k*, ósjór, BH.: *Sundið er oft um smástraumsfjöru lítt fœrt, einkum ef hvast er og á.*, Þjóð. X, 70.

**áhlaup** *kl*, **1.** árás. **2.** snögglegr ákafi, dugnaðr í skorpum: *hann er afkastamikill í á-um, en latr þess á milli.* * **3.** búkhlaup, niðrgangr (sbr. »hleypr á e-n«): *hann fékk á. eftir bauna-átið.* † **4.** samræði af karldýrs halfu: *gefa þeim rakkana upp til á-s ok sambúðar*, Stj. — Sams.: **áhlaupa-maðr**, † **1.** ákafa-maðr. * **2.** maðr, sem vinnr í skorpum og sprettum: *hann er iðinn og jafnvirkr, en enginn á.* **-samr** *l*, gefinn fyrir að vinna í áhlaupum (2). **-veðr**, veðr, sem skellr á alt í einu. **-verk** og **áhlaups-verk**, verk, sem er auðunnið í snatri: *það er ekkert á.*, það er ekki hlaupið að því, það verðr ekki unnið í einni e. tveim skorpum. * **áhlaups-klukka** *kv*, klukka, sem hringt er í borg, er áhlaup er gert á borgina, Ið, VI, 294. **-lið**, lið, sem gerir áhlaup.

**áhlekking** *kv*, † **1.** farartalmi: *drepa fótum í á.*, reka fœtr í e-ð, sem í vegi er, Hms. † **2.** yfirsjón, synd, ávirðing, Hms. II, 502. **3.** ófarir, slys: *hryggvist af hans á.*, af óförum hans; *vér fengum þá á. á heiðinni, að annað kerruhjólið brotnaði.*

* **áhlek|kjast (-tist)** *ópers. s, mér á-kist* = ég verð fyrir slysi, óhappi: *ég kem aftr í kveld, nema mér á-kist e-ð á leiðinni*, einhver slystalmi komi fyrir mig.

† **áhleypinn** *l*, ákafr, áhlaupsfús.

* **áhleypni** *kv*, framhleypni, BH.

* **áhlustari** *k*, viðvaningr í stjórnarskrifstofu, sem á að læra af því sem þar fer fram; maðr, sem sitr í dómi, en hefir ekki atkvæðisrétt: *ungr herra og á. í rentukammerinu*, TB, IX, 229. [ÚTL. *auscultant*].

* **áhlýðandi** *k*, áheyrandi.

† **áhlýðast** *pms*, **1.** *ás*, hlýða á, fallast

á: *á. ummæli e-s*, samþykkja, fallast á. 2. *hs*, *á. við e-n*, verða samþykkr e-m: *vildi eigi á. við frændr sína.*

**áhlýðinn** *l*, leiðitamr (sbr. *talhlýðinn).*

***áhorf** *kl*, I. ásýnd, það að horfa á: *þau fara tilsýndar vel, en verða óþægilegri á-s, er nær er komið.* 2. * *áhorfs, a.*, að horfum til: *okkr þótti óvænlegt á., brúin brotin, engin ferja og fljótið óreitt.* 3. = *áhorfsmál.* — Sams.: **áhorfs-mál**, efamál, íhugunarvert mál: *það er á., hvort vér eigum ekki heldr að þiggja þetta*, það er vert að íhuga, hvort . . .; *það er ekkert á.*, ekki neitt vafa-mál, ekki hikandi við.

***áhorfandi**[1] *lm*, sem horfir á: *að okkur báðum á.*, ásjáandi, svo að við horfðum á.

***áhorfandi**[2] *k*, maðr (karl eða kona), sem horfir á: *leikr hans féll á-um vel í geð; frá á-ans sjónarmiði*, frá sj.m. þess er að eins horfir á, en tekr ekki þátt í, MillFr. 152. — *Sams.: **áhorfanda-bekkr. -pallr. -pláz. -svið.**

***áhorfast** *ópers. s*, líta út fyrir: *það rættist betr úr en áhorfðist*, betr en út leit fyrir: *nú þykir mér betr á.*, líta vænlegar út, horfurnar vera betri.

***áhorfenda-**, sjá: *áhorfanda-.*

***áhorfsmál**, sjá: *áhorf.*

***áhreytings-yrði** *kl. flt*, ónot, sem á e-n er kastað, Asn.

***áhrif** *kl*, (nær ávalt í *flt.)*, I. mót, er e-ð setr (í bráð e. lengd) á huga manns e. tilfinning: *hlutirnir gera in réttu skaldlegu á. á anda mannsins;* (í eint.) *gera þeir með sama þreki sérhvert áhrif*, Fjöl. I, 35. 2. máttr til að móta e. laga e. fá á e-ð (»verkun«): *vatn, snjór og ís hafa mikil á. á lögun landanna*, valda miklu um lögun l.; *bráðlyndi hans hafði þau góðu á. á mig, að ég hefi jafnan verið miklu stiltari og geðbetri maðr eftir þennan eina vetr, sem ég var heimilismaðr hjá honum.* — *Sams.: **áhrifa-laus** *l*, I. sem engin áhrif hefir: *kenningin verðr . . . áhrifalaus til góðs.* 2. sem ekki verðr fyrir (tekr við) áhrifum: *ríkið . . . eigi að vera á-t af kristindóminum.* **-lítill** *l*, sem lítil áhrif hefir. **-mikill** *l*, *and.* -lítill. **áhrifs-laus** *l*, (um sögn) sem ekki tekr með sér andlag, hvorkynleg, óávirk. **-sögn** *kv*, sögn, sem stýrir andlagi, ávirk sögn; *and.* áhrifslaus, óávirk, sögn: *»deyja« er áhrifslaus sögn, en »deyða« er áhrifssögn.*

**áhrin** *kl*, það sem hrín á; að eins haft í sams.: * **áhrins-góðr**: *áhrinsgóð . . . heillaljóð*, sem vel hrína á, rætast, JThLj. 238. **-orð**, orð, sem rætist, hrín á.

***áhrun** *kl*, egl. e-ð, sem hrynr niðr, hellirigning (BH.) eða bylr: *tók enn að gera hríðir, og in mestu á.*, EspÁ, X. 92.

Ψ **áhrœra (-rði)** *ás*, koma við, snerta, taka til: *sem manninn á-ir*, sem m. snertir, til mannsins tekr; *á-andi stafsetninguna*, er við kemr stafs., Fjöl.; *annað á-ndi náttúrufræðina*, Fjöl.

**áhugi** *k*, I. löngun: *biðja þau goðin með miklum á-a, at þau gæti sér barn*, Nor. Skr. 1, 85.; *hann hefir mikinn á-a á að verða sjómaðr.* † 2. tilgangr. † 3. grunr á hendr e-m, Fær. 4. sterkr hugr á, það að manni er ant um: *hann hefir mikinn á. á öllum þjóðmálum*, h-m er ant um, hann er hugðnuminn mjög af . . . 5. stórhugr. — Sams.: ***áhuga-efni**, hugðarefni. **-fullr** *l*, † I. áhyggjufullr. *2. sem hefir mikinn áhuga (4) á: *á. endrbótamaðr.* ***-laus. -lítill. -maðr**,

† **1.** stórhuga maðr. ***2.** maðr, sem hefir mikinn áhuga (4). ***-mál**, mál, sem manni er ant um. **-mikill** *l*, † **1.** stórhuga. ***2.** sem hefir mikinn áhuga (4). ***3.** **-ríkr**, = *-mikill (2)*. **-samr**, † **1.** sem veldr áhyggjum. ***2.** = *-mikill (2)*. ***-semi**, það að vera -samr (2). **-stór**, † **1.** stórhuga. **2.** -mikill (2). **-verðr**, † **1.** alvarlegr, sem vekr áhyggju. ***2.** verðr þess að láta sér ant um, verðr þess að hugsa um.

***áhugr** *k*, = *áhugi (1.* og *4.)*.

† **áhúsun** *kv*, það að reisa hús (sem fallin eru): *á. tufta (= tofta) klaustrsins*, N.

**áhyggja** *kv*, † **1.** áhugr. **2.** umönnun: *bera á-u fyrir e-m*, annast um e-n, Hms.; *hann ber á-u fyrir mér*, hann sér um mig, gætir mín, annast mig. **3.** kvíðafullar hugsanir, hugsýki: *pat fékk hánum mikillar á-u; hann hafði miklar á-ur út af drengnum*, hugraunir; *taka sér e-ð til á-u*, setja e-ð fyrir sig, EspÁ, X. 39. † **4.** óþœgindi, mótlæti, sem veldr áhyggjum: *inar ytri á-ur*, Hom. — Sams.: † **áhyggju-fenginn** *l*, = **-fullr** *l*, hugsjúkr. ***-laus** *l*. ***-legr**. ***-leysi** *kl*. **-mikill** *l*, = *-fullr*. **-samlegr** *l*, sem lítr út fyrir að áhyggjur hvíli á, áhyggjulegr. **-samr** *l*, **1.** hugsjúkr. † **2.** sem lætr sér ant um e-ð: *á-t um e-t*, ant um e-ð; *nú er hún eigi áhyggjusöm at þjóna hánum*, lætr sér eigi ant um, hirðir lítt um. **3.** gaumgæfinn, athugull: *heyrðu með á-u hjarta orð ok kenning postulans*. **-svipr** *k*, áhyggjulegr svipr. **-yfirbragð** *kl*, sama.

† **áhyggjast (-aðist)** *pms*, ástunda, láta sér ant um: *á. vel at lifa; á. e-t; á. um e-t*.

**áhætta** *kv*, vogun, það að eiga mikið í húfi: *á. og endingargœði skips; mikið í á-u*, mikið í hættu, undir vogun. — Sams.: ***áhættu-laus**. ***-lítill**, sem lítil hætta er í. ***-mikill**, *and.* -lítill. ***-samr**, sem hefir hættu í för með sér. ***-spil**, **1.** vogunarspil, mikil áhætta; **2.** = *fjárhættuspil*. ***-spilamenska**.

**áhöfn** *kv*, **1.** farmr í skipi. † **2.** farþega-farangr, Jónsb.

† **áhögg** *kl*, ærdráp, það að slátra á(m).

**ái** *k*, † **1.** langafi. ○ **2.** forfaðir.

† **áifangi** *k*, = *áfangi*.

† **áifangr** *k*, = *áfangi*.

† **áifóðr** *kl*, fóðr til að gefa hestum (skepnum) þá er áð er.

***áir** *kv. flt*, = *áfir*.

† **áivangr** *k*, = *áfangi*.

**aka (ek; ók; ekið)** *s*, **A.** *ás*, með þgf, hreyfa (e-ð), þoka (e-u): *ók hann af sér fjötrinum*, þokaði, smeygði af sér; *ekr Oddr sér þar at*, þokar sér þangað; *G. ókst undan*, lét siga undan; *aka seglum*, snúa seglum (eftir vindstöðu); * *aka seglum eftir vindi*, haga sér eftir því sem manni bezt gegnir, leika tveim skjöldum; * *ég get ekki ekið hestinum úr sporum*, hreyft hann, fengið hann til að hreyfa sig; *honum verðr ekki ekið til þess*, það er ekki unt að nudda honum til þess; * *aka sér*, vinda til skrokkinn milli hauss og mjaðma, innan í fötunum (oftast við kláða): *vertú ekki að aka þér, | ættlands frjálsi blómi; | bara' ef lúsin íslenzk er, | er þér bitið sómi*, H. Hafst. † *akast í tauma*, ópers., bregðast, rætast ekki: *e-m ekst í tauma*, e-m bregzt (e-ð). **B.** flytjast á kerru, vagni e. sleða. **1.** *ás*, með akfœrið í þgf.: *svá breiðar, at a. mátti þrem vögnum á víxl; gott er heilum vagni heim að a.* **2.** *óáv. s*, með sto. *í*: *Freyrr ók í kerru*

*með gelti.* 3. *óáv. s,* einstætt: *þeir óku upp á land; fóru þeir í sleðum og óku nóttina alla.* **C.** *ás,* flytja með akstri: † **l.** með ækið í þlf.: *saman ók hann heyit; ekr fé sitt til skógar; líkin váru ekin í sleða.* **2.** með ækið í þgf.: *a. skarni á hóla; a. heyjum.* **3.** *óáv. s,* með akdýrin í þgf.: *Þórolfr lét aka þrennum eykjum um daginn,* aka á þr. eykj.; einnig með sto. *á: hesti þeim er hann hafði ekit á um aftaninn.* **4.** *ás,* einstætt: *þat mun ek til finna at hann ók ekki í skegg sér; aka á völl,* a. mykju á tún. † **5.** *lh. ll, ekinn,* aktamr: *ekinn uxi,* aktamr uxi; DI, IV, 219; *sn.:* aktamr, aktaminn, akvanr. **D.** Sérst. talshættir: *aka höllu fyrir e-m,* fara halloka. — † *a. e-m á bug,* hrekja e-n á hæl. — † *a. bug á e-n,* hrekja e-n til að hopa (egl. aka bug á, sveigja, fylkinguna). — † *a. úr öngum,* komast úr klipu, vandkvæðum. — † *e-m er nærri ekið,* fast gengið að e-m, e-m nærri gengið. — † *hart ekr at e-m,* sama. — * *e-m á ekki úr að aka,* það á ekki undan að hefja fyrir e-m: *það á ekki úr að aka fyrir mér með slysin.*

**aka²,** **(-aði)** *s,* = *aka, ók:* † **l.** *þeir ökuðust undan ok tóku á skógana,* Fsk. (eina dæmi fornt). * **2.** *hann akaði sér* [= ók sér, s. v. *aka, ók,* **A.**], VF.

**ákafa** *a,* feiknalega, stórlega; *á. fagr,* stórfríðr; *á. fjölmennir,* mjög fj.; *á. kátr; á. reiðr; á. vifinn,* Konr.; *á. þreyttr; á. þykkr.*

**ákafa-,** sjá: *ákafi.*

**ákafast (-aðist)** *pms,* vera eða verða æstr: *tekr hafit at á.,* tekr að gerast æst, æsast; *á-andi æði,* Thom.; † *á. á e-t,* sœkja ákaflega fast eftir e-u.

**ákafi** *k,* ofsi, æsingr; kapp; áfergja: *þá gerðist svo mikill á. á. at . . .,* þá urðu menn svo æstir, að . . .; *með á-a miklum,* með miklu kappi; *í á-a,* ákaflega; *hann talaði máli sínu af helzt til miklum á-a,* helzt til miklu kappi. — Sams.: * **ákafa-legr** *l,* sem ber vott um ákafa eða æsing: *alt eins er ferð nú á-g | og alt eins reiðir þú vopnið hátt,* JÓLj², 165. **-maðr,** ákafr maðr. ***-lund,** áköf lund. **-mikill,** mjög ákafr (en: *ákafa mikill,* ákaflega mikill), osfr.

**ákaflegr** *l,* kappsfullr; stórkostlegr: *á. bardagi,* æstr bardagi, stórfeldr b.; *á-g reiði,* æst reiði; *á-t mein,* stórkostlegt mein.

**ákaflega** *a,* feikna-, stórlega: *á. fríðr, grimmr, vænn, stór.*

† **ákafleikr** *k,* = *ákafi, ákefð.*

**ákaflyndi** *kl,* áköf lund.

**ákaflyndr** *l,* ákafr í lund.

**ákafr (áköf, ákaft)** *l,* æstr, áfergjulegr; megn, sœkjandi e-ð mjög fast; mikill, sem mikið er um að vera: *á-f orrusta,* æst, fast sótt, o.; *vóru bœndr mjök á-ir at hann væri formaðr þeirra,* sóttu það mjög fast, að hann . . .; *áköf rás,* mjög hratt hlaup; *áköf vella,* sterk suða (í katli); † *er veizlan var sem ákafust,* stóð sem hæst; *var á-t um vináttu þeirra,* var heit vinátta með þeim; *láta á-t um e-ð.* — **ákaft** *kl,* haft sem *a.*: *sækja e-ð á-t,* sœkja fast; *róa á-t,* ákaflega; *kalla á-t á e-n,* títt og með mikilli áherzlu; *ms,* ákafara, *y,* ákafast.

**ákall** *kl,* † **l.** það að kallað er á (e-n), kall: *af orðum þeirra ok á-i.* **2.** það að ákalla (guð, helga menn eða aðra bjargvætti) til hjalpar e. líknar sér: *á. á nafn guðs.* † **3.** tilkall: *veita, gera, á. til e-s,* krefjast e-s. — Sams.: † **ákalls-laust.** *l,* sem engin kvöð hvílir

á, óátalinn, sem enginn annar á tilkall til.

**ákalla (-aði)** *ás*, heita á sér til liðs, kalla á: *á. miskunn heilags anda; á. Maríu; af djúpri hrygð á. eg þig*, salmsupphaf.

† **ákallaðalaus** *l*, = *ákallslaus*.

**ákallan** *kv*, = *ákölluu*.

† **ákals** *kl*, krafa, tilkall.

**akarn** *kl*, ávöxtr (aldin) eikrinnar (eikitrésins).

**ákast** *kl*, † **1.** það að kasta á. † **2.** árás. † **3.** ávarp (sbr. kasta orðum á e-n); flt. *áköst*, ávítur, ásakanir. † **4.** freisting. * **5.** útálát (út á graut).

† **ákastan** *kv*, = *ákösluu*.

† **ákastasamr** *l*, ámælissamr, illmáll, brigzlinn, slettinn.

* § **ákavíti** *kl*, e. k. brennivín (gott brennivín, sem sykr og stundum e-t seyði, t. d. kúmen-seyði, er látið í).

**akbraut** *kv*, braut e. vegr, sem aka má á, akvegr.

* **akdynr** *k*, dynr undan e. af vagni e. öðru akfœri.

* **akdyr** *kv. fll*, dyr á húsi (t. d. hlöðu), sem aka má út og inn um.

**ákefð** *kv*, [ákjevð, ákjebð] = *ákafi*. — Sams.: * **ákefðar-laus** *l*, laus við ákefð: *það er mér ákefðarlaust*, ekkert kappsmál, HE, III, 433. ***-óp**, LFR, VIII, 270. **-orð**, orð í ákefð e. vanstillingu talað. **-ótti**, ákaflegr ótti. ***-raus**, raus í ákafa gert.

**ákenning** *kv*, † **1.** smekkr (af e-u). **2.** sársauka-tilfinning, það að kenna á e-u: *gera þeim nökkura á. sinna verka; þarna fékst þú á. af því, hvernig . . .*, fékst þú að kenna á því, hvernig . . .; *Ó Jesú, leggðú á mig hér | á. hörmunganna* (úr gl. salmversi).

**ákenningr** *k*, = *ákenning*.

† **ákeypi** *kl*, forkaupsréttr, N.

**akfœri** *kl*, **1.** flt. vagn og eykreiði (til samans). * **2.** án flt. fœrð til akstrs, einkanl. sleðafœri: *gott a.*, góð fœrð fyrir akstr.

* **akfœraleysi** *kl*, skortr akfœra, Frkl.

* **ak|hestr** *k*, eykhestr, aktamr hestr.

* **ak|hlið** *kl*, hlið (á garði), sem ekið er um, akport.

○ **ak|jór** *k*, akhestr, OdKv, IV, 11.

* **á|kjósa** *ás*, óska sér: *ekkert, það er á. mátti*, ekkert, sem menn gátu óskað sér; *sem bezt varð ákosið*, sem bezt varð óskað.

* **ákjósandi** *lm*, sem á verðr kosinn, ákjósanlegr.

* **ákjósanlegr** *l*, œskilegr.

* **akka (-aði)** *ás*, hrúga saman, dyngja upp: *hann sá kvöl á kvöl ofan a. sér*, hrúgast upp, aukast, vaxa, Klopst. 7. bók.

**akkeri** *kl*, áhald (úr járni) til að halda skipi á floti föstu, svo að það reki ekki. Einstakir hlutar a-s heita: a-is-leggr (l); akkerisfleinn; þeir eru 2 (ff); endar hvor þeirra á a-s-spaða (sp); a-s-stokkr (ss) myndar kross við legginn og liggr þvers um við fleinana; úr hringnum (h) gengr festi (keðja) frá akkerinu, þegar það er í botni, og upp á skipið: *kasta a.*, láta a. síga til botns; *leggjast með a.*, *leggjast um a.*, * leggjast við e. fyrir a.; *liggja um a.*, liggja við e. fyrir a.; *heimta upp a.*, draga upp a., létta a.; *a. hrífr við*, a. nær festu e. haldi í botninum. — Sams.: * **akkeris-botn**, haldbotn: *góðr, slæmr, a.* ***-dufl**, dufl, sem fest er í annan enda akkerisfestar, svo að skip geti náð endanum og fest sig við. ***-festi**, LFR, I, 220

[⊤ *akkerafesti*, Klp. IX, 14], akkeriskaðall, -keðja, -rekindi, -strengr, -tog. **-fleinn**, sjá: *akkeri*. ***-hringr**, sjá: *akkeri*. ***-kaðall**, = *-strengr*. ***-keðja**, = *-strengr*. **-laus**, *l*, án akkeris. **-leggr**, sjá: *akkeri*. **-lægi**, staðr fyrir skip að kasta akkerum, skipalægi. ***-rekindi**, akkeristog úr jarnhlekkjum. †**-sát**, = *-lægi*. **-stokkr**, þverstokkr úr tré (e. jarni), sjá: *akkeri*. **-strengr**, strengr sá, nú nær ávalt úr jarni, sem festr er í -hringinn; hann tengir skipið við akkerið, þá er það liggr um akkeri. †**-sæti**, akkeris-lægi. **-tog**, akkerisfesti.

***akkneskr** *l*, kendr við Akkaia (á Grikklandi).

† § **akkorða**, *hs*, semja (við e-n um e-ð).

***akkr** *k*, ágóði, vinningr, hagsmunir, styrkr, stoð: *mér er lítill a. í því*, mér er lítill hagr, lítil bót í því; það stoðar mig lítið.

***Akkverjar** *k. flt*, íbúar Akkaia (á Grikklandi).

***akkverskr** *l*, = *akkneskr*.

***áklaga (-aði)** *ás*, kæra, færa sakir á hendr: *misgerð þá mig á-ar*, Ísl. salmvers.

**áklagan** = *áklögun*.

***áklakka (-aði)** *ás*, að koma þversilanum milli hagldanna ofan á klakkinn: *litlu munaði; hann gat lyft bagganum nógu hátt, en hann var svo stuttr, að hann gat ekki á-að hann*, AF.

***akleið** *kv*, leið sem aka má (sbr. akvegr).

***akleyfi** *kl*, leyfi til að aka: *á sumum þjóðbrautum þar* [í Danmörku] *er a. fyrir bifreiðar, en á öðrum ekki*.

***akljóst** *l. kl*, nógu bjart til að aka: *enn er vel a.*

**áklæði** *kl*, ábreiða — fyrrum haft helzt um rúmábreiðu, nú um ábreiðu á ísl. kvensöðli.

**áklögun** *kv*, kæra, Bps, I, 856.

***akmaðr** *k*, ökumaðr, ekill.

† **ákneiki** *kl*, vanvirða, hneisa.

***akneytast (-aðist?)** *hs*, þrátta, metast: *a. um e-ð*, SLFJ.

***akneyti** *kl*, helzt í *flt*, dýr (naut) til að beita fyrir vagn e. sleða, eykr.

*a* ⊤ **áknýing** *kv*, tilknúning.

**ákoma** *kv*, † **1.** e-ð sem að höndum ber: *enginn andskoti eða úfriðar á. sturlar mik*, Stj. **2.** meiðsl, helzt bolga e. mar undan höggi, áverki. ***3.** hörunds-útbrot í andliti, helzt á vörum, áblástr. ***4.** úrfelli, áleiðing: *ég held hann ætli að gera á-u*, ætli að »koma á«, koma úr honum. ***5.** snerting, viðkoma: *viðlíka á-u*, viðlíka að þreifa á, koma við, LFR, X, 114.

***ákomið (á komið)** *lm. kl*, að eins í talsh. »jafnt, ójafnt á.«: *jafnt er á., þarf enginn öðrum of góðr að þykjast*, GÍO, 394. *Það er jafnt á. með þeim*, þeir standa jafnt að vígi, ástæður beggja eru ámóta.

***ákomulegr** *l*, úrkomulegr, Sch.

***akport** *kl*, hlið (á girðingu e. gegn um hús) til að aka um.

**akr (-rs; -rar)** *k*, † **1.** (sléttlend?) jörð, sem menn hagnýta á e-n hátt, til sláttar, beitar, yrkingar e. skógræktar. **2.** yrkt land. **a.** plógland: *hvárki a. né engi*, Grág.; *bleikir akrar* [ɔ: kornakrar], *en slegin tún*, Njá.; *túns ok akra ok engja*, Bps. **b.** grasvöllr: *þetta er mikill akr*, »um það sem vel er sprottið«, Sch. † **3.** ávöxtrinn (kornið) á akrinum: *sá inn góði akr, er upp rann af þeirri inni góðu jörð.* — *Akr* og *Akrar* er títt bæjarnafn; einnig *-akr*, *-akrar:* Bringakr, Kald-

akr, Leifsakr. — Sams.: **akra-ávöxtr.** **-gerði,** umgirt akrlendi. † **-karl,** akryrkjumaðr. *Akrakarl* í Ljósv. mun merkja: frá bœnum Ökrum; Þórir Akra-karl er í sama (13.) kap. nefndr Akra-Þórir. **-merki,** mark milli akra. **-skifti,** það að ökrum er skift (milli granna). **-spillir,** maðr sem skemmir akra. — **Akrs-**, sjá í stafr.röð.

* **akr|beit** *kv,*

**akr|dái** *k,* e. k. illgresi *(galeopsis).*

† **akr|deili** *kl,* = *akramerki,* N.

ᵛ **ak|reiði** *kl,* = *aktygi,* JÓÍO, s. v. *brjóstgjörð.*

* ⊤ **akr|er|tir (-ta)** *kv. flt,* (rétt mynd: *akrertr, -tra, kv. flt),* ertr, sem í akra er sáð: *þessar alþektu ertir* [ertr] *eru þær helztu á meðal akrerta* [-ertra], Lach, 62. *(Pisum arvense).*

† **akr|för** *kv,* plógfar, arðrfor.

† **akr|gerð** *kv,* akryrkja.

† **akrgerðar|maðr** *k,* akryrkjumaðr.

**akr|gerði** *kl,* umgirt akrlendi.

**akr|hœna** *kv,* kvenfuglsheiti *(perdix cinerea).*

* **akr|hœns** *kl. flt,* fuglinn *perdix cinerea,* LFR, XIII, 12.

† **akr|höfuð** *kl,* ? N.

† **akri** *k,* fuglsheiti í Eddu.

† **akr|jarn** *kl,* e. k. sigð, kornskurðarjarn.

**akr|kál** *kl,* káljurtar-tegund *(brassica campestris).*

† **akr|karl** *k,* akrgerðarmaðr (í óvirðulegri merking).

† **akrkarla|lífi** *kl,* halfgert útilegu-líf.

† **akr|kvísl** *kv,* mykikvísl.

**akr|land** *kl,* land, sem er akr eða akrar. — Sams.: **akrlands-deild** *kv,* deild af akrlandi.

* **akr|lendi** *kl,* = *akrland.*

† **akr|lengd** *kv,* lengd eins akrs (stuttr spölr).

† **akr|lykkja** *kv,* = *akrgerði,* N.

† **akr|maðr** *k,* akryrkjumaðr.

* **akr|mál** *kl,* 1. flatmál akra, GZ,EÍ, s. v. *acre.* 2. ákveðin (norsk) flatmáls-stœrð, 2650 eða 2744 □ alnir danskar, LFR. XIV, 230.

† **akr|neyttr** *lm,* notaðr fyrir akr.

* **akr|plógr** *k,* plógr til að plœgja akr, StÓ, 62.

† **akrplógs|maðr** *k,* akryrkjumaðr.

**akr|rein** *kv,* óplœgð rein af akrlendi, höfð til að gera mörk milli tveggja akra.

* **akr|rifr** *k,* herfi: *a. er verkfœri með hvössum og sterkum jarntindum dreginn* (sic) *um mosateiginn,* LFR, I, 182; II, 45; X, 99.

† **akr|sáð** *kl,* sáðkorn.

**Akrs|borg** *kv,* 1. borgin Acre í Sýrlandi. 2. Akershus-kastali við Kristíaníu.

**Akrs|efni** *kl,* norskt bœjarnafn.

† **akr|skifti** *kl,* skifting akrs.

† **akrskurðar|maðr** *k,* kornskurðarmaðr, maðr sem vinnr að uppskeru.

* **akr|starf** *kl,* akrvinna.

† **akr|súra** *kv,* túnsúra *(rumex acetosa)?*

* **akr|sæði** *kl,* = *akrsáð: a. guð fœðir,* Vísnab., 53.

† **akr|tíund** *kv,* tíund greidd af akri.

**akr|verð** *kl,* verð akrs.

**akr|verk** *kl,* vinna á akri.

† **akrverks|maðr** *k,* akryrkjumaðr, maðr sem vinnr akrverk.

**akr|vinna** *kv,* = *akrverk.*

* **akr|vörðr (-varðar)** *k,* vörðr akrs.

* **akr|yrki** *k,* akryrkjumaðr.

* **akr|yrkja** *kv,* yrking jarðarinnar. — Sams.: **akryrkju-*áhald** *kl.* ***-frœði** *kv.*

*el,* og *kl. flt.* ***-fræðimaðr*** *k,* Arm. IV. 111. ***-jörð.*** ***-kunnátta.*** ***-land:*** *Bandaríkin eru nálega öll a.-land.* ***-maðr.*** ***-ríki.*** ***-tæki.*** ***-þjóð.***

*α* **akryrkjari** *k,* akryrkjumaðr.

* **ak|stígr** *k,* akvegr.

* **ak|stóll** *k,* stóll á hjólum, sem aka má.

* **akstr (-rs)** *k,* sú athöfn að aka.

† **akta (-aði)** *s,* **1.** telja, virða, gjalda skatt: *a. folkit,* telja f., Stj.; *öktuðu vísaeyri konungs,* mátu; *akti því dýrra,* greiði því hærra skattgjald. **2.** rannsaka: *aktið . . . öll leyni, þau er hann má felast í,* rannsakið; *a-aði eftir um eignir staðarins,* grenslaðist eftir. **3.** stunda, annast um: *a. íþróttir, hagleik ok áskurð,* stunda; *nú sem þetta var a-at,* þá er þessu var lokið; *akta til e-s: lézt þá þegar í stað skyldu a. til gjaldsins,* annast um greiðslu gjaldsins. **4.** útvega, sjá fyrir: *a. þá luti, er inum sjúka hentu,* útvega; *nóglega inn aktaða,* er nægilega var fyrir séð (að til væri); *hversu sú renta aktist inn,* innheimtist. * **5.** bera virðing fyrir.

**ak|tamr** *l,* taminn við akstr.

† **aktan** *kv,* = *öktun.*

**ak|taumr** *k,* egl. taumr, sem aka má e-u til með. **1.** taumr, sem festr er sinn í hvorn enda seglrár, svo að aka megi seglinu (hagræða því) eftir vindstöðu. * **2.** stjórntaumar á stýri. * **3.** *flt,* taumarnir, sem eyk er stýrt með. *And.* bandtaumr (sem hafðr er til að binda hest, þá er við er staðið, án þess að frá sé spent).

* **aktygi** *kl. flt,* tæki, þau er á hesti eru höfð, þá er hann er spentr fyrir vagn e. sleða. — Sams.: * **aktygja-smiðr** *k,* maðr sem býr til aktygi (E. *harness-maker).*

† **á kúfóttr** *l,* hvelfdr, halfkúlumyndaðr.

* **á|kúra** *kv,* ávíta, snupra, ámæli. Helzt í flt.: *veita e-m á-ur; mæta á-um.*

† **á|kváma** *kv,* = *ákoma.*

* **á|kvarða (-aði)** *ás,* ákveða; einsetja sér: *fyrst þat var svo á-at, þá hlaut þat svo at vera,* Marg.; *ég hafði á-að að fara á morgun,* einsett mér.

**á kveða (-kvað; -kveðið)** *s,* mæla fyrir, tiltaka; skera úr: *eigi þarf ok lengi at bíða, hvat ek skal á.,* Njá, 2. k.; *jarl sagði, at hann mundi síðar um fégjöld á.,* Flat. II, 181.; *síðar á-r Ólafr konungr svo mikit kvikfé . . . sem hann vill hafa,* Flat, II, 25.; *hún á-r, hvort skjóta skuli sakamálum til hæstaréttar.* — *lh. lt,* **ákveðinn,** tiltekinn (sbr. *kveða á);* einráðinn.

* **ak|vegr (-ar; -ir)** *k,* vegr til að aka á. *And.* reiðvegr; gangstígr.

† **á|kviðr (-kviðar)** *k,* áfellis-kviðr (áfellis-úrskurðr): *bera á-u á Snorra,* Bps. I, 439.

**ákvæði** *kl,* † **1.** ummæli, tillaga: *mun ek nú segja yðr, hvat mitt á. er,* Njá. **2.** fyrirmæli: *hann kvað þat á. Magnúss konungs, at . . .; það eru á. laganna, að . . .,* fyrirmæli; *vér höfum sett með oss þau ákvæði,* þær reglur, þá samþykt. **3.** álag, álög: *þykkir þetta á. á hafa hrinit,* Laxd.; nú oftast í flt. þessari merking: *verða fyrir á-um,* álögum (einkum um kveðskap). — Sams.: **ákvæða-laus** *l,* † **1.** sem engin álög eru á. * **2.** sem engin fyrirmæli eru um: *það er alveg á-t um það í ísl. lögum,* engin ákvæði til um það. * **-skald,** kraftaskald. — * **ákvæðis-staðr,** staðr, sem ferðinni er heitið til. **-teigr,** teigr sem manni er ætlað að slá á dag, dagslátta (í upphafl. merk). ***-verð,***

nafnverð (á hlutabréfum, skuldabréfum e. öðrum verðbréfum). *And.* gangverð, markaðsverð. **-verk, I.** verk, er vinna skal á tilteknum tíma: *þat er títt á Íslandi at hafa á., þykjast þeir þá komnir til hvíldar . . . er verki er lokit*, Fms, V, 203. ***2.** ákveðið verk, er unnið er fyrir ákveðna borgun, samningsverk (NDO, s. v. *akkord-arbeide). ***-vinna,** það að vinna á-verk.

† **ákynnis** *a*, í heimsókn, í kynnisferð.

**á kæra (-kærði)** *ás*, kæra: *á. e-n* ásaka, kæra; *á. e-ð*, bera sig upp undan e-u, kæra e-ð.

**ákæra** *kv*, ásökun, kæra; kvörtun.— Sams.: **ákæru-**, sjá stafrófsröð.

† **ákærari** *k*, kærandi.

† **ákæri** *kv*, = *ákæra*, N.

† **ákærsla** *kv*, = *ákæra*.

† **ákærslu-**, = *ákæru-*.

**ákæru laus** *l*, óátalinn, sýkn saka, Mkl.; Lþb, 1776, Nr. 5.; Tyro 109; Klp. II, 103.

† **ákæru maðr** *k*, kærandi.

*** áköllun** *kv*, það að ákalla.

† **ákönnulaus** *l*, = *ákærulaus*, N.

**áköstun** *kv*, það að kasta á.

† **al** *kl*, = *öl*: *a. ok enskan mjöð.*

**al-** *fsk*, táknar: alveg, gersamlega; það má skeyta framan við nafnorð, lýsiorð, nokkrar sagnir og sér í lagi við *lh lt*, yfir höfuð hvar sem það á við að efni. Nokkur þau orð verða talin á sínum stöðum hér í stafrófsröðinni; en auðvitað er ógerningr, enda óþarfi, að reyna að tæma þá upptalning.

† **ál** *kv*, sjá: *ól.*

**ála-**, sjá: *áll* og *ól.*

**ala (el; ól; alið)** *s; lh lt:* **alinn,** † **aliðr;** þar sem beygingar-endingin byrjar á raddstaf: *-a, -u, -um*, breytist *n* nú oftast í *d: alda* f. *alna, öldu* f. *ölnu, öldum* f. *ölnum;* í ef. stundum *aldrar, aldra* f. *alinnar, alinna.* † **I.** geta (afkvæmi); sjaldh. um karlmann: *börn, þau er hann elr við þeirri konu*, Grág.; *barn, þat er þau ala*, geta; óel.: *elr hverr þessa stafa níu annan staf undir sér.* **2.** um konu (e. kvendýr): fæða (afkvæmi í heiminn): *ól kona hans son; kona hans ól honum dóttr; ef barn elst* (ɔ: fæðist) *svá nær páskum; alnir ok úbornir*, nú: *aldir og óbornir*, fæddir og ófæddir. **3.** fæða = næra (á viðrværi): **a.** gefa mat: *gestr var ek ok ólut þér mik; a. mann í eitt mál; a. gest ok ganganda til guðs þakka; vel er alin herrans hjörð*, Bólu-Hj. **b.** veita fæðslu og alla aðhlynningu: *a. ómaga; utanhrepps göngumenn skal enga a. ok eigi gefa mat; a. upp*, fóstra upp, fæða upp; *a. upp hest*, ala frá fæðingu til þess er fullvaxinn er (en: *a. hest einn vetr*, hafa hest á gjöf einn vetr). **4.** Í sérst. talsháttum: ** a. á e-u*, † *a. á e-ð*, ámálga e-ð iðulega; — *a. aldr sinn*, lifa lífi sínu; — *a. harm, sút, hatr (í brjósti)*, varðveita; — ** a. önn fyrir e-m* eða *e-u*, † *a. önn of e-t*, sjá farborða; † *a. önn at e-u*, sjá um e-ð, láta sér ant um; † *a. eftir e-m*, ** a. upp í e-m*, venja e-n á e-ð, þola manni e-ð: *ól hann eftir engum manni ódáðir; aldu ekki upp í honum heimtufrekjuna.* — *a. upp*, siða, manna: *hún hefir alið barnið vel upp; þessi piltr er illa upp alinn*, illa siðaðr. *lh. lt, alinn* (um hest) fæddr upp við (hey)gjöf, en ekki á útigangi (sbr. *eldishestr).*

⊙ **alað** *kl*, [*ekki:* alaðr *k*], það að ala (3), eldi.

† **alaðsfestr** *kv*, einn áttungr fjör-

baugs, þ. e. eyrir silfrs, því að 8 aurar voru í 1 mörk: *par skal gjaldast mörk lögaura at féránsdómi goða peim er féránsdóminn nefndi; pat fé heitir fjörbaugr, en einn eyrir pess fjár heitir alaðsfestr; ef pað fé geldst eigi, pá verði hann skógarmaðr úœll,* Grág.

* **ála-feiti** *kv,* feiti af álum, LFR, III, 214.

* **ála-fiski** *kl,* ála-veiði.

**álag** *kl,* † **1.** spjót-lag (sbr. leggja vopni á e-m). † **2.** skylduverk, sem e-m er fyrir lagt að vinna. † **3.** þraut e. þjáning, sem e-m er á herðar lögð. † **4.** = *álaga.* † **5.** bœtr fyrir vanskil eða e. k. dráttarvextir, aukagjald, sem manni var gert að greiða, auk höfuðstóls, ef skuld var eigi greidd í gjalddaga. * **6.** gjald fyrir fyrning á húsum (á leigujörð) eða fyrir vanunnar jarðabœtr samkv. byggingarbréfi (sbr. *úttekt).* * **7.** ofanálag, kaupbœtir. † **8.** fyrsta orð í vísuorði, það er að efni til heyrir til næsta vísu-orði á undan, sjá: *álagsháttr* hér á eftir. * **9.** framfœrsla verðs á varningi: *á. á glysvöru nemr einatt 50—100%, en á kornvöru 15—20%.* **10.** flt. **álög,** † **a.** viðlög: *í álögum,* ef á liggr, í viðlögum. **b.** fyrirmæli með kyngikrafti, sem verða að áhrinsorðum, þess eðlis, að sá sem fyrir á-um verðr, breytist í aðra veru, e. að e-r eiginleiki fylgir honum upp frá því: *verða fyrir álögum; vera í á-um; segir, at hann skal verða at einum híðbirni, ok aldri skalt pú ór pessum á-um fara.* (Á einum stað í Landn. i et. í þessari merking: *pat er álag mitt.* Nú ávalt í flt. eins og: forlög, örlög). *v* **11.** það sem lagt er fyrir dáleiddan mann, svo að hann hlýðir ósjalfrátt síðan í vöku, N.Ö. III, 17. — Sams.: † **álags-bót,** fégjald, sem á var lagt í refsingar skyni. **-háttr,** bragarháttr, þar sem 2. og 4. vísuorð byrja með *álagi* (8), t. d.: *Ískalda skar ek öldu | eik;* osfr. *-**torfa** *kv,* tvídýna, reiðingstorfa, VF.

**álaga (álögu; álögur)** *kv,* greiðsla, sem á mann er lögð (afgjald, skattr osfr.): *hér hvíla nú miklar á-ur á alpýðu, og sveitargjöldin pó einna pyngst.*

**ála garðr** *k,* afgirt kví í lœk e vatni, veiðibrella til að veiða ála í, LFR, III, 211.

* **ála-gildra** *kv,* = *álagarðr,* Klp, VIII, 102.

* **álagning** *kv,* það að leggja (reiðfœri) á (hest).

* **ála-háfr** *k,* háfr til álaveiða.

* **ála-hylki** *kl,* laupháfr til að veiða ála í, LFR, III, 209.

* **ála-kelda** *kv,* kelda, sem álar eru í, Atli 52.

* **ála-kista** *kv,* = *álahylki.*

† **alamandr** *k,* ávöxtr svo nefndr, möndull, mandla (D. *mandel;* E. *almond).*

* **ála-móðir** *kv,* fisk-tegund, svo nefnd *(zoarces viviparus).*

* **álands-stormr, *-vindr** *k,* vindr, sem stendr upp á land.

* **álappalegr** *l,* klaufalegr, bögubósalegr.

* **ála-roð** *kl,* roð af álum, flt. af *áls-roð,* LFR, III, 215.

* **álas** *kl,* hallmæli, ámæli, lastmæli: *hann varð fyrir miklu á-i út af pessu,* h-m var mjög hallmælt fyrir þetta.

* **álasa (-aði)** *ás,* hallmæla, ámæla: *til hvers skyldi' eg vera að álasa pér?* JÓLj², 86.

* **álasan** *kv,* = *álösun.*

*** álasandi** *k*, hallmælandi, JÞ, I, 481.

*** ála-stöng** *kv*, stöng til að veiða (stinga) ála með.

**alauðn** *kv*, **1.** gersamleg eyðing. *** 2.** alveg snjólaus jörð.

**alauðr** *lo*, **1.** gersamlega gróðrlaus, óbygðr e. mannlaus. *** 2.** alveg snjólaus.

**ála veiði (†-veiðr)** *kv*, álafiski.

**ála-virki** *kl*, = *ála-garðr*.

*** albata** *ób. l*, **albati** *lo*, alheill á ný.

*** albati** *k*, fullkominn bati.

*** albata-meðal** *kl*, lyf, sem læknar alla sjúkdóma, BH.

*** albeinn** *lo*, **1.** gersamlega beinn. *a* **2.** mjög gestrisinn, BH.

† **ál belti** *kl*, ólar-belti.

† **ál bera** *ás*, = *ólbera*, = *vaðbera (1)*.

**al ber(r)** *l*, **1.** gersamlega ber, nakinn, strípaðr. † **2.** auðsær.

**al bitinn** *lm*, allr bitinn hvervetna.

**al bjartr** *l.*

*** al blár** *l.*

*** al blindr** *l.*

**al blóðugr** *l.*

*** al blómgaðr** *lm.*

*** albogi** *k*, = *ölnbogi.*

*** al borga** *ás*, borga að fullu, Johns. 69.

† **al breiðr** *l*, sem hefir fulla breidd: *a. léreft.*

**al brenna** *óás.* og *ás*, brenna alveg.

**al brjóta** *ás*, brjóta gersamlega.

*** al bróðir** *k*, bróðir samfeðra og sammæðra.

**al brynjaðr** *lm*, brynjaðr frá hvirfli til ilja.

**al búa (-bý; -bjó; -búið)** *ás*, útbúa að öllu leyti: *a. kirkju; a. skip.* — *lh. lt.* **albúinn, 1.** út búinn að öllu leyti: *Nú býst hann út til Íslands, ok er þeir váru a-ir*, alveg ferðbúnir. **2.** viðbúinn, fús til: *hann kvaðst þess a.*, fús til þess þá í stað.

† **ál burðr** *k*, = *ólburðr.*

**al byggja (-ði)** *ás*, byggja alveg, til fulls.

**alda (öldu; öldur)** *kv*, **1. a.** bylgja (á sjó, stœrri en bára): *reið mikil a. undir skipið.* *** b.** *so*, öldugangr, ósjór: *það er talsverð a.*, talsv. öldugangr. **c.** óel.: *hvaðan sjá a. rennr undan*, hvaðan þessi ráð stafa; *reis milli þeirra svá hörð a., at erkibyskup varð at rýma land*, fjandskapr, ófriðr. **2.** hæð, hóll (á landi): *átjan öldur undir Sand | eru frá Sauðafelli.* — Sams.: **öldu-**, sjá í stafrófsröð.

○ **alda-faðir** *k*, guðs-kenning, guð, LFR, XIII, 294; Milt. 393.

**Aldafars-bók** = *Aldarfars-bók.*

⊙ **alda-gautr** *k*, Óðinn.

○ **alda-kyn** *kl*, mannkyn(ið um allan aldr), Milt. 398.

*** alda-langr** *l*: *a-löng kvein*, Klp. IX, 1.

*** alda-máttr** *k*, máttr aldanna, afl tímans, JÞ, II, 594.

**alda-mót** *kl*, mót tveggja alda; þá er tvær aldir mœtast. Í fornmálinu í et.; nú ávalt í flt. *tveim vetrum síðar varð a.*, Íslb. X. kap., virðist eiga við tunglöld (1121 fyrsta tunglaldar-ár).

† **alda-óðal** *kl*, ævinleg, eilíf, eign.

**alda-skifti** *kl*, **1.** = aldamót. *** 2.** í flt.: *það geta verið a. að því*, það getr skiftst til með öldunum, verið með sínu móti á hverri öld.

*** aldar-andi** *k*, andi, andastefna, aldarinnar.

**aldar-ár** *kl*, (það e. það) ár aldarinnar (í röðinni): *nú er 17. a-ið*, 17. árið á öldinni.

*** aldar-bragr** *k*, aldar-andi, aldar-háttr, aldar-tízka (sbr. *aldar-far).*

† **aldar-eðli** *kl*, = *alda-óðal.*

***aldar-endir** *k,* endir aldar(innar), Milt. 403.

○ **aldar-eyðir** *k,* guð, kenningar-heiti á guði, Vísnab. 195.

† **aldar-faðir** *k,* patríarki (í gl. testam.).

**aldar-far** *kl,* **1.** rás viðburðanna, saga(n). ***2.** aldarbragr, aldarháttr, Frkl. 118.

**Aldarfars-bók** *kv,* nafn í Landnámu á bók Beda prests: *De ratione temporum.*

***aldar-háttr** *k,* aldar-andi, aldar-bragr, aldar-far, aldar-tízka.

*a* **aldar-lína** *kv,* (sam)tíð: *merkismann | missti vor a.,* JÞ, II, 266 (orðið er ekki annað en hortittr).

***aldar-lok** *kl. flt,* lok aldar, aldar-endir.

† **aldar-mál** *kl,* ráðstöfun, er gilda skal um aldr og ævi: *gera a. um gjafir sínar.*

† **aldar-menn** *k. flt,* inir fyrstu forfeðr vorir: *svá ero guðs lög, at maðr eigi eina kono, svá sem inir fyrstu aldarmenn várir gerðo.*

⊙ **aldar-rof** *kl,* endir alls tíma, dómsdagr.

⊙ **aldar-róg** *kl,* ófriðr manna.

***aldar-siðr** *k,* aldarbragr, JÞ, I, 21.

† **aldar-tal** *kl,* **1.** tímatal. **2.** frásaga um aldarfar.

† **aldar-trygðir** *kv. flt,* eilífar trygðir.

***aldar-upphaf** *kl,* byrjun (nýrrar) aldar.

† **aldar-þofti** *k,* gamall félagi, samverumaðr; sbr. alda-vinr; [*þofti* = sessunautr].

**aldauða** *ób. l,* út dauðr: *sú ætt er nú a.; drauga-trú er eigi a. enn; mér er a. Magnús konungr,* M. kgr. er mér nú horfinn að fullu.

**aldauði** *l,* = *aldauða.*

† **aldauða-arfr** *k,* arfr, sem enginn er á lífi erfingi að.

**alda-vinr** *k,* vinr um langa tíð, stöðugr trygðavinr.

***alda-vinkona** *kv,* PoS, 30.

***alda-ævi** *kv,* mikil tímalengd: *Kafla var í a. einhver helzti kaupstaðr,* OLfr, II, *2,* 33.; *um a.,* sama (ákafl. lengi).

**alda-öðli** *kl,* **1.** = *alda-óðal, aldar-eðli.* ***2.** upphaf tímans, ómuna-tíð: *frá a.,* frá ómunatíð, frá öndverðu.

***al-défli** *kl,* allr djöflaheimr; samsafn allra djöfla; helvíti. LFR, XIII, 280; Milt. 309; JÞ, II, 579. [*al-djöfli* ætti myndin að vera, af *djöfull;* en til er og myndin *défill,* s. þ. o.].

***al|deyfa** *kv,* **1.** gersamlegt hreyfingarleysi: *a. líkamanna,* algert hreyfingarleysi líkamlegra hluta, Urs. 87, 89. **2.** aðgerðaleysi, Fjk, *'90:* 30a.

***al|dimmr** *l,* alveg dimmr.

**aldin** *kl,* **1.** ávöxtr á tré, svo sem epli, perur, vínber osfr., jafnvel ber: *gnægt aldina,* nægt af aldinum. Einnig haft sem so.: *korni ok öllu aldini.* — »ummyndað eggleg, sem þá nefnist fræleg, með þroskuðum fræjum«, Fl.Ísl., 208. † **2.** ávöxtr, afkvæmi: *blezat sé a. kviðar þíns.* — Sams.: † **aldins-garðr** = *aldingarðr.* ***aldina-rækt** = *aldinrækt.*

**aldin|berandi** *l,* = *aldinbær.*

***aldinbor** *k,* nafn á skorkvikindi *(Melolontha),* LFR, XIII, 21.

***aldinbær** *l,* sem ber aldin, Fl.Ísl., 208.

⊙ **aldinfalda** *l. kv,* sem faldar sér að fornum hætti, með fornu sniði.

○ **aldin|frjór** *l,* frjór af aldinum, KJL, 138, 191.

**aldin|garðr** *k,* garðr, þar sem aldintré eru ræktuð. — Sams.: ***aldingarða-rækt,** OLfr, I, 63. ***-snigill,** e. k. teg-

und snigla, LFR, XIII, 81. — * **aldingarðs-hnífr**, hnífr hafðr til að afkvista með tré, LFR, VI, 3. ***-maðr**, Atli, 116. ***-rækt**, Atli, 115. ***-yrkja**, LFR, II, 279.

* **aldin|grein** *kv*, grein á tré, sú er ber aldin.

* **aldin|gróði** *k*, vöxtr aldina: *kennir hann hér fyrst,* | *und kuldabelti* | *hversu árna* [= afla] *skuli* | *aldingróða*, Fjörgm.

**aldin|grös** *kl. flt*, ? LFR, II, 207.

○ **aldin|gull** *kl*, gull-lit aldin, KJL, 51.

△ **aldinhelft** *kv*, »deilaldinið af tvíkleyfu klofa-aldini«, Flóra, 208.

△ **aldin|hold** *kl*, = *aldinkjöt.*

**aldini** *kl*, = *aldin.*

△ **aldin|kjöt** *kl*, »kjötkent lag utan á steinaldinum og í sumum berjum«, Flóra, 208.

* **aldin|kvistr** *k*, = *aldingrein*, JÞ, II, 231.

**aldinlaus** *l*, sem er án aldina.

△ **aldin|leggr (-jar; -ir)** *k*, »blómleggrinn, eftir að blómið er fallið og plantan orðin aldinbær«, Flóra, 208.

* **aldin|mangari** *k*, aldinsali.

* **aldin|mörk** *kv*, völlr, sem aldintré vaxa á (e. aldinskógr?), Klopst. 36, 84.

⊙ **aldinn** *l*, gamall (helzt í skaldskap).

* **aldin|reitr** *k*, JÞ, II, 47.

* **aldin|rós** *kv*, blóm, JÞ, II, 355.

* **aldin|rót** *kv*, rótarávöxtr, ætirót, Lacch. 65, 80.

* **aldin|rækt** *kv*, ræktun aldina, LFR, II, 278.

* **aldin|safi** *k*, vökvi úr aldinum.

* **aldin|sali** *k*, maðr sem selr aldin.

* **aldin|settr** *lm*, settr aldinum, Skír., XVII, 10.

**aldin|skógr** *k*, skógr af aldintrjám, Stj., Hms., Milt. 23.

* **aldin|stæði** *kl*, »blómbotninn þegar plantan er orðin aldinbær«, Flóra, 208.

* **aldin|stöng (-stangar; stangir e. stengr)** *kv*, = *aldinleggr*, Milt, 137.

**aldin|tré** *kl*, tré sem ber aldin.

△ **aldin|trjóna** *kv*, mjór rani e. hali á efri enda sumra aldina, Flóra, 208.

△ **aldin|varp** *kl*, kallast það, er plantan fellir aldin fullþroska, Flóra, 208.

△ **aldin|verpr** *l*, »aldinverp er plantan sögð, er hún fellir aldinin fullþroska,« Flóra, 208.

**aldin|viðr (-ar; -ir)** *k*, aldintré; einkum haft sem so.

* **aldin|vísir (-vísis; -vísar)** *k*, óþroskað aldin, sem að eins er farið að fá á sig lögun.

* **aldin|vökvi** *k*, aldinsafi, Klp, IV, 167; JÞ, II, 614.

* **aldin|völlr (-vallar; -vellir)** *k*, Milt, 25 (sbr. *aldinmörk).*

* **aldin|yrkja** *kv*, LFR, II, 279.

* **al|dofinn** *l*, alveg dofinn, tilfinningarlaus.

* **aldómari** *k*, (heims), dómari gjörvalls heims, guð.

**aldr (-rs; -rar)** *k*, **1.** æviskeið, það sem maðr er á, í þann tíma sem um er að ræða; áratala: *þú ert á þeim a-i*, á því æviskeiði; *hver er aldr þinn?* hversu gamall ertu? *17 vetra að aldri*, að áratölu; *ungr að aldri, á ungum aldri, á gamals a-i; hniginn að a-i*, farinn að eldast, gamlast. **2.** ævi, lífdagar: *ala a. sinn*, lifa, eyða dögum; *allan minn a.*, alla ævi; † *nema, ræna, e-n a-i, synja e-m a-s*, svifta lífi. **3.** elli: *a. færist yfir e-n*, e-r eldist, gerist gamall; *vera við a., a-i farinn, a-i orpinn*, kominn á efri ár. **4.** langt tímabil: *a. heims*, heimsaldr; *allan a.*, ávalt; † *eftir mikinn a.*, langt tímabil; *um langan a.*, langa-lengi; *aldrigi um a.*, aldrei nokkurn tíma; *hvar um a.*,

hvar . . . nokkru sinni; *um a., um a. og ævi,* eilíflega. † 5. *af a-i,* frá ómunatíð, N. — Sams.: **aldrs-ár,** ævi-ár: *á 16. a-i; hér hefi ég lifað öll mín a.,* alla ævi. ***-hár** *l,* gamall: *spurði, hvað a-á hún væri,* hve gömul, Kv. I, 33. ***-leyfi, 1.** leyfi (kgl.) til að vera fulltíða. **2.** leyfi til undanþágu lögum e. fyrirmælum, er binda e-n rétt við áratölu (t. d. til fermingar, til inntöku í skóla, osfr.). ***-máli** = *aldrmáli,* N. **-munr,** munr á aldri. ***-skeið,** aldrs-tímabil: *hann er á því a-i,* því tímabili ævinnar; *vera á bezta a-i.* ***-smár,** ungr, JÞ, II, 177. ***-takmark:** *aldrs-takmark enskra kjósenda er 21 ár,* TB, V, 10. ***-tímabil** = *aldrs-skeið.* ***-þroski.**

**aldraðr** *l,* gamall.

* **aldr|dagar** *k. flt,* allr aldr, eilífð: *um a-a,* um eilífð; ævilangt.

**aldregi** *a,* aldrei.

* **aldrei** *a,* ekki nokkurn tíma.

* **al|drepa** *ás,* drepa til fulls.

† **aldr|fremd** *kv,* ævinleg fremd.

**aldr|hniginn** *lm,* tekinn að eldast, hniginn á efra aldr.

† **aldri** *a,* **1.** (eftir efasemd e. eftir ms. og »en«) nokkru sinni: *örvænt at vér munum a.,* að vér mnnum nokkurn tíma; *fyrr sé ek óð ok ær . . . en Julien gamli taki a. sínum skjalfandi höndum á mínum líkam.* **2.** aldrei. **3.** eigi: *stöndum a. svá lengi hér.*

† **aldrigi** *a,* aldri (1. og 2.)

† **aldrigin** *a,* = aldri (1.).

† **aldr|lag** *kl,* **1.** ásköpuð lífskjör. **2.** ævilok, dauði.

† **aldrlok** *kl. fll,* ævilok.

† **aldr|máli** *k,* lífstíðar-bygging (á jörðu), N.

⊙ **aldr|nari** *k,* eldr.

⊙ **aldr|rúnar** *kv. flt,* rúnir, sem varðveittu líf manns, Rm. 40.

† **aldr|sáttr** *l,* sáttr um aldr og ævi, N.

**aldr|slit** *kl. flt,* ævilok, bani.

⊙ **aldrstamr** *l,* feigr.

**aldr|tili** *k,* bani, dauði. — Sams.: **aldrtila-stund,** banadægr, dauðastund, KJLj.

⊙ **aldr|tjón** *kl,* dauði.

⊙ **aldr|tregi** *k,* dauði.

* **al|drýgja** *ás,* drýgja (glæp) til fullnustu.

○ **ald|rœmr** *l,* þjóðfrægr.

† **aldrœnn** *l,* aldraðr.

† **aldur|maðr** *k,* = *öldurmaðr.*

† **al|dyggilegr** *l,* alveg dyggilegr.

**aldyggr** *l,* alveg trúr.

† **aldz** *to,* = *alls.*

* **al|dœla** *kv,* **1.** hvers manns fœri. **2.** hvers manns maki: *það er ekki a., sem fer í draughóla í þoku,* Sch.

**aldœli** *l,* sem er hvers manns viðfang.

○ **aldœmir** *k,* = *aldómari: a. heims,* Klopst. II, 37; VI, 240.

*a* **aldöðli** *kl,* ævinleg tíð, eilífð: *að a. og að eilífu,* Msp, X5.

*a* **aldöðlegr** *l,* ævinlegr: *aldöðleg eilífð,* ævinleg eilífð, ÓS, 296.

* **al|dökkrauðr** *l,* einlitr dökkrauðr: *a. boli,* Klp, VIII, 160.

* **al|eðli** *kl,* gjörvöll náttúran, Milt. 341. — Sams.: * **aleðlis-hringr** *k: að sjá út yfir | a., | sem alt endanlegt | innilykr,* Klopst. 5. b.

* **al|efli** *kl,* almegn, allr máttr: *taka á af a.,* af öllu afli.

* **álega** *kv,* það að liggja á: *langvaranleg á. vatns,* LFR, I, 175; *Siggi Gunnu á bak þá braut, | bæði féllu niðr í laut; | en það engan blekki, | af því karlmanns álega | ofan á konu*

*hjálega* | *í það sinn varð ekki,* austf. vísa.

* **álegging** *kv,* **1.** *á. refsingar,* það að leggja refsing á e-n, Klp. IV, 107. **2.** *á. taðs á tún,* LFR, VI, 232.

† **áleiddr** *lm,* lokkaðr, teygðr til.

* **áleiðing** *kv,* létt sudda-skúr, er stendr stutt, AF.

**áleiðis** *a,* fram á leið. † **1.** á rétta leið: *eigi afleiðis, heldr á.,* eigi afvega, heldr á rétta leið; *and.* afleiðis; *færa orð e-s á.,* til betra vegar; *snúa e-m á.,* til réttrar trúar, aftrhvarfs. **2.** áfram (leiðina, veginn): *héldu áleiðis til skipa,* á leið til; *halda á.,* halda áfram. **3.** *koma e-u á.,* koma e-u til vegar, fá framgengt; *snúa e-u á.,* endrbœta.

**al|eiga** *kv,* alt sem maðr á. — Sams.: * **aleigu-félag** *kl,* félagsskapr, sem tekr til allra eigna félagsmanna *(societas universalis),* Tiro, 157. **-mál, -sök,** mál e. sök, er varðar aleigu manns.

**áleikinn** *l,* **1.** hrekkjóttr, sem leikr á aðra. * **2.** sem hefir rangt við í leik, tafli eða spilum.

**áleikni** *kv,* það að vera áleikinn.

† **áleiksi** *l,* sem hefir miðr, tapar, í leik (sbr. leikst á e-n).

* **al|einn** *l,* alveg einn.

* **al|einsamall** *l,* alveg einsamall.

† **á|leita** *ás,* leita á (e-n), gerast (e-m) nærgöngull, ráðast á.

† **áleitilegr** *l,* aðfinningarverðr, ámælisverðr.

† **áleiting** *kv,* það að áleita, N.

**áleitinn** *l,* hneigðr fyrir að leita á; sem iðulega leitar á.

**áleitni** *kv,* tilhneiging til að leita á e-n, það að leita iðulega á.

**alelda** *ób. l,* sem alkviknað er í, skíðlogandi, Milt. 365.

†ℊ **alemandel** *kl,* =

†ℊ **alemandr** *k,* = *alamandr.*

**álengdar** *a,* † **1.** framvegis. * **2.** í (nokkurri) fjarlægð: *ég hefi að eins séð hann svona á.,* svona nokkuð frá mér; *það er fallegast að sjá langt á.,* í mikilli fjarlægð.

† **álengr** *a,* **1.** framvegis. **2.** *á. er,* þegar er: *á. er hann er 16 vetra,* undir eins og hann er 16 vetra.

* **al|éta** *s,* éta alveg.

* **áletra (-aði)** *ás,* rita, rista, grafa, letr á.

**al|eyða** *kv,* gersamleg auðn: *gera a-u,* eyða alveg.

**al|eyða** *ób. l,* alauðr, aleyddr: *gera a. landit; a. voru bœirnir,* alveg mannlausir.

**al|eyða (-eyddi)** *ás,* eyða gersamlega, leggja alveg í auðn.

* **aleyðing** *kv,* gersamleg eyðing, LFR, XI, 301; EÓ, 54.

**alfa** *kv* (s. s. halfa), **1.** í talsh.: *frá minni (þinni, hans, þeirra* osfr.) *alfu,* frá minni hlið, af minni hendi; *af annari a-u,* frá annari hlið, af annari hendi. **2.** heimshluti: *um allar alfur heims;* (sbr. Norðralfa, Australfa, heimsalfa osfr.).

* **al|faðir** *k,* faðir allra, guð.

* **al|fagr** *l.*

* **al|fallinn** *lm.*

† **alfar** *kl,* aðalrensli (Björgynjarkalfskinn); líkl. réttara að lesa:

† **ál|far** *kl,* meginkvísl.

* **alfara** *ób. l,* = *alfari: hann er kominn hingað a.,* fluttr hingað búferlum.

* **alfara|vegr** *k,* almennings-vegr.

**alfari** *l,* farinn fyrir fult og alt: *ríða brott a.; koma til skips a.,* svo að hann kemr ekki heim aftr í það sinn; *hann kom heim frá Ameríku a.,* fluttr bú-

ferlum, Skír. XIII, 30; Lþb. 1748, nr. 2; EspÁ, IV, 32.

* **alfarinn** *lm*, **1.** = *alfari*. **2.** alment farinn: *a. vegr*, Johns. XII.

* **al|fastr** *l*, alveg fastr.

**al|feginn** *l*, mjög feginn.

† **al|feigr** *l*, bráðfeigr.

* **al|ferma (-di)** *ás*, fullferma, alhlaða, FfH, '42, 107.

* **al|fermi** *kl*, fullr farmr.

* **alf|heimr** *k*, heimr alfanna, klettar og hólar; helzt í flt. alfheimar: *18 ár í alfheimum*, 18 ár meðal alfa.

**Alf|heimr** *k*, ríki Freys (samkv. Eddu): *Alfheim Frey | gáfu í árdaga | tívar at tannféi*. Í elztu fornöld var landið milli Raumelfar og Gautelfar kallað Alfheimar, og landsmenn þar Alfar.

**alf|kona** *kv*, kona af alfafolki.

† **alf|kunnugr** *l*, af alfa-kyni.

† **alf|kunnr** *l*, alfkynjaðr, alfakyns.

† **alf|kyndr** *l*, alfkynjaðr.

* **alf|kynjaðr** *l*, af alfakyni.

* **al|flatr** *l*, **1.** alveg flatliggjandi. **2.** al-sléttr, Úrs. 161.

* **al|flóra (-aði)** *ás*, steinleggja (flóra) alveg (t. d. golf, hlað eða veg).

* **al|flytja** *ás*, flytja að öllu leyti; þls. **alflytjast**, flytja sig búferlum.

* **al|flœða** *óás*, **1.** flœða til fulls, svo að háflóð verði: *það er ekki alflœtt enn*, ekki komið háflóð. **2.** flœða alveg (yfir e-ð): *a-ir yfir engjarnar*, flœðir yfir allar engjarnar (svo að þær eru allar í kafi).

* **al|flœði** *kl*, algert flóð: **1.** háflóð (í sjó). **2.** flóð yfir alt: *nú er a. yfir alt nesið*.

* **al|forsjón** *kv*, forsjón fyrir öllu, guð, Klopst. 7. b., 250.

**alfr** *k*, **1.** huldumaðr, ljúflingr. **2.** Alfar hétu íbúar Alfheima (s. þ. o.).

* **3.** einfeldningr, flón: *mikill a. er hann!* mikill einfeldningr; *a. og aplakalfr*, flón og heimskingi. — Sams.: * **alfa-barn**, barn alfa. **-blót**, blót til dýrðar alfum. ***-bruni**, e. k. útbrot í andliti, LFR, IX, 185. **-bœr**, bústaðr alfa. ***-drottning. *-folk. *-hamar**, hamraklettr, sem alfar búa í. ***-háttr**, flónsháttr. *** -hóll. * -höll. * -kongr. * -kyn. *-legr** *l*, flónslegr, ankannalegr. ***-læti**, flónsleg læti. **-menn**, menn af alfafolki. ***-mær. *-piltr. *-prestr.** ○**-rann** *kl*, alfahíbýli. ***-reið. *-saga. *-skapr**, flónska, flónsleg aðferð. *** -slot. * -sveinar** flt. ***-trú**, trú á tilveru alfa. ***-vök, -vakir**, **1.** vakir á vorísi (sem alfarnir fiska í). **2.** lognblettir bjartir á sjónum; þar trúðu menn að alfa-bátar væri að fiska.

⊙ **al|framr** *l*, ágætr.

† **alf|rek** *kl*, =

† **alf|reki** *k*, egl. það sem fœlir, styggir burt, alfa; í talsh. *ganga a-a*, ganga õrna sinna, ganga að hœgja sér, skíta; *hafa a-a einhverstaðar*, hafa dritstað, stað úti til að hœgja sér á.

* **al|friðr (-ar)** *k*, algerðr friðr; almennr friðr, MT, I, 179; Klp. I, 120, IX, 14 og 59.

⊙ **al|fríðr** *l*, fyrirtaks-fríðr.

**al|frjals** *l*, gersamlega frjals.

○ **al|frjór** *l*, LFR, V, 6.

⊙ **al|frjóvaðr** *l*, í fullum blóma.

**al|fróðr** *l*, sem hefir fulla þekking (á e-u).

ν **alfrœðibók** *kv*, bók, sem hefir inni að halda yfirlits-ágrip allra frœðigreina *(encyclopaedia)*; ýmist er í þeim sérhver frœðigrein í skipulegri ágrips-heild út af fyrir sig *(realencycl.)*; ýmist er öllu skipað eftir nöfn-

um og fræðiorðum í einni stafrófs-röð í orðabókar-formi, JÓ.

* **alfræðiskóli** *k*, háskóli *(universitas)*, JÓ. í Fjk.

⊙ **alf|röðull** *k*, sól.

○ **alf|sveinn** *k*, piltr af alfafolki, BTh. 225.

**alft** (**-ar**, flt. **alftir** og (örsjaldan) **elftr**) *kv*, svanr *(Cygnus)*, sundfugl af anda-ættinni, hvítr á lit (»svanhvítr«) alstaðar í heiminum (nema í Ástralíu; þar eru svanir e. alftir svört á lit). Upphafl. var svanr heiti karlfuglsins, en alft kvenfuglsins (sbr. svanbrúðr). — Sams.: * **alftar-fjöðr**. **-hamr**. **-líki**, lögun e. mynd alftar. ***-ungi**. ***-vængr**. — * **alfta-hópr**. ***-vatn**, vatn, sem alftir halda sig á; einnig bœjarnafn. ***-veiði**. **-ver**, svæði þar sem alftaveiði er; nafn á sveit í V.-Skaftaf.s. Fyrri hluti í mörgum staðarheitum: **Alftá**. **Alfta-gerði**. **-gröf**. **-mýri**. **-nes**. **-vatn**. **-vík**. **-ver**. **Alftar-bakki**. **-ós**. **-tunga**.

† **alft|veiðr** *kv*, alftaveiði. — Sams.: **alftveiðar-skip**.

**al|fúinn** *l*.

* **al|fullkominn** *l*, algerlega fullkominn: *a. er guð einn.*

⊤ **alfullkomlegleiki** *k*, =

* **alfullkomleiki** *k*, sá eiginleiki e. það ástand að vera alfullkominn.

**al|fullr** *l*.

*α* **al|fundr** *k*, = aðalfundr: *a. félags*, MT, I, 317.

**al|fús(s)** *l*.

* **al|fylla** *ás,: alfyltr*, Urs, 154.

* **al|fœr** *l*, **1**. alveg fœr í e. um e-ð e. til e-s (sbr. »fœr í flestan sjó«). **2**. sem fyllilega má fara: *a. vegr.*

**al|föðr** *k*, alfaðir, Óðinn.

* **al|gáðr** *l*, sem ekki er miðr sín fyrir vínnautnar sakir.

* **al|gangs** *a*, alment, algengt, OLfr, II, *3*, 27.

**algangsa** *ób. l*, **algangsi** *l*, algengr.

* **al|geimr** *k*, himingeimr.

* **al|geisli** *k*, heill geisli *(radius)* í hring: *drag geislabrot af a-a*, LFR, IX, 75.

* **al|gelda** *ás*, **1**. gelda alveg með því að taka eistun úr karldýri e. eggjastokkinn úr kvendýri. **2**. gera alveg geldmjolka.

**al|geldr** *l*, * **1**. sem hefir verið geltr til fulls. *And.:* laungraðr. **2**. alveg geldmjolka.

* **algengr** *l*, almennr, altíðr.

* **al|ger** *l*, **1**. fullgerðr; alsmíðaðr. **2**. gersamlegr: *a. breyting.* **3**. alfullkominn: *svo að guðs maðr sé a.*, 2 Tím, 3, 17.

**al|gera** *ás*, fullgera, lúka við að fullu.

* **algerðr** *lm*, = *alger.*

**algerlega** *a*, gersamlega.

⊤ **algerlegleikr** = *algerleikr.*

* **algerlegr** *l*, **1**. gersamlegr. **2**. alveg gerlegr.

**algerleikr** *k*, það að vera alger (3), alfullkomleiki.

† **algerningr** *k*, fullgerð, það að algera.

* **al|gert** *a*, algerlega, gersamlega, fyllilega.

**al|gervi** *kl*, **1**. fullkomleiki, það að ekkert skortir á: *skaldskaparkonstarinnar a.*, EO, 7. † **2**. alklæðnaðr; full herneskja (1.).

* **al|gervingr** *k*, maðr, sem gerir sig siðferðilega alfullkominn: *þeir kalla sig »perfectionista« (algervinga)*, Fjk. '87, 123a.

**al|gildi** *kl*, † **1**. fullar bœtr, fullvirði. * **2**. alment gildi (í hvívetna): *sú regla hefir ekkert a.*, ekkert alment gildi.

**algildis-vitni** *kl,* fyllilega gilt vitni.

**al|gildr** *l,* **1.** sem hefir fult verð, gildr að fullu. *And.:* halfgildr, ógildr. **2.** sem hvervetna gildir: *a-d regla; a. sannleikr.*

**al|gjafta** *l,* sem verið hefir allan vetrinn á gjöf (ekki á útigangi að neinu leyti).

**al|gjöf** *kv,* algerð gjöf.

**al|gjör,** sjá: *alger.*

* **al|gleymi** *kl,* algerð gleymska allra hluta. — * Sams.: **algleymis-ást,** ást, sem lætr mann gleyma öllu öðru. **-skaut,** skaut algleymskunnar: *hverfur í tímanna a.*

**al|gleymingr** *k,* (af *glaumr)* **1.** hávær gleði e. kæti: *slá á a-g,* Sturl. * **2.** hvað eina, sem er á hæsta stigi, af tilfinningum e. ástríðum. *⊥ **3.** = *algleymi.*

† **al|gleymr** *l,* fullr kæti.

**al|góðr** *l,* * **1.** alfullkomlega góðr: *a. guð,* Árnap. II, 208. * **2.** alveg heilbrigðr aftr: *hann lá lengi í vetr, en er nú orðinn a.* † **3.** *y, al-beztr,* allra-beztr.

**al|grár** *l.*

* **al|gróa (-greri, -gröri; -gróið)** *óás,* gróa alveg (um sár): *skurðrinn algröri á fimm dögum.*

* **al|gróinn** *lm,* **1.** kominn í fullan gróðr. **2.** *lh,* gróinn að fullu (um sár).

* **al|grœnn** *l.*

† **al|gullegr** *l,* = **algulllegr** =

**al|gullinn** *l,* alveg sem gull.

* **al|gulr** *l.*

* **al|gyði** *kv.* (eða *kl?),* sú skoðun e. trú, að guð og náttúran sé eitt — að sköpunaraflið (skaparinn) og alt ið skapaða (skepnan) sé eitt. — * Sams.: **algyðis-kenning. -legr. -maðr,** maðr, sem hefir **-trú,** NF, IV, 120—122.

* **algylla (-ti)** *ás,* gylla í krók og kring.

† **al|gyldr** *lm,* =

* **al|gyltr** *lh,* allr gullroðinn.

† **al|gæft** *a,* fyllilega.

* **al|gœzka** *kv,* alfullkomin gœzka: *að mannssálin sé algœzkunnar verk,* JÓLj[2] 165.

† **algör-,** sjá: *alger.*

* **al|hagr** *l,* hagr á alt: *a. smiðr,* alfullkomlega hagr, Milt, 93.

* **al|hátta** *ás,* afklæða sig alveg og leggjast í rekkju.

**al|heiðinn** *l,* algerlega heiðinn.

* **al|heiðr** *l,* alveg heiðríkr.

**al|heilagr** *l,* * **1.** algerlega heilagr: *helgir menn og a. guð.* **2.** (um dag) heilagr allan daginn *(and.* nónheilagr).

* **al|heilbrigðr** *l,* = *alheill 2.*

**al|heill** *l,* **1.** gersamlega óskerðr, óbrotinn. **2.** algerlega heill heilsu.

† **al|heilsa** *kv,* algerð heilbrigði.

* **al|heimr** *k,* **1.** alt sem til er í endalausum geimi: *sólnakerfi það alt, er vér köllum vetrarbrautina, er í raun og veru varla lítill hlutr í a-i,* Urs, 157. **2.** jarðhnöttr vor með öllu, sem í honum er og á. **3.** alt mannkynið: *því a-inn lét rétt eins og flón,* JÓLj[2] 41. — Sams.: * **alheims-áform,** tilgangr alheimsins (1): *prófun ins fundna a-s,* Njó, 13. ***-áforms-frœði,** frœðin um alheimsáformið *(teleologia mundi),* Njó, titilbl. ***-dómr,** dómr alheims (3), LFR, XII, 242. ***-drottinn,** guð. ***-faðir,** guð. ***-frægð.** ***-frægr.** ***-legr, 1.** sem nær um allan heim: *að Enskir reki a-a kaupverzlun,* OLfr, II, *2,* 202. **2.** sem tekr til allra þjóða: *mentunin er eigi einstakrar þjóðar, heldr a-g,* Skuld, II, 384. ***-mál, 1.** málefni, sem allar þjóðir varðar. **2.** tungumál, er öllum þjóð-

um væri sameiginlegt; sem allar þjóðir töluðu og rituðu. ***-ríki**, ríki, sem tekr yfir allan heiminn (hnöttinn). ○**-stýrir**, guð(s-kenning). ***-veldi**, **1.** alheimsríki. **2.** veldissvæði drottins, alheimr (1).

* **al|heimskr** *l*, gersamlega heimskr: *enginn er a., ef þegja kann*, GÍO, 89.

* **al|héla** *s*, leggja alveg með hélu: *gluggana a-ar*, gluggana héluleggr alveg; *rúðan er alhéluð*, alveg e. öll lögð hélu.

**alhenda** *kv*, = *aðalhenda*.

**alhendr** *l*; svo er vísuorð kallað, er hefir tvær aðalhendingar, t. d.: *harð--múla varð Skúli.*

* **al|herða** *ás*, herða til fulls, fullherða.

* **al|hesta (-aði)** *ás*, hesta að öllu leyti: *hann a-aði okkr suðr*, lagði okkr til alla þá hesta, sem við þurftum, suðr.

* **al|himinn** *k*, gervallr himininn.

* **al|hirða** *ás*, hirða alt; hirða að öllu leyti: *þá höfðu flestir alhirt af túnum.*

* **al|hita** *ás.*

* **al|hitna** *óás.*

* **al|hjaðna** *óás.*

* **al|hjúpa** *ás.*

* **al|hlaða** *ás*, **1.** fullferma (skip). **2.** hlaða (byssu) að fullu (svo að ekki þurfi nema hleypa af skotinu): *byssan er alhlaðin.* **3.** fullhlaða (garð, vegg).

* **al|hliða** *ób. l*, **1.** sem veit í allar áttir, nær til alls: *a. hæfileikar; a. þekking.* **2.** haft »um blómskipanir, þar sem blómin standa út til allra hliða«, Flóra, 208.

* **al|hljóma** *ób. l.*

**alhnept** *lm. kl*, kveðskapar-háttr forn, t. d.: *Hrönn skerr, hratt ferr, | húfr kaldr, alvaldr, | lá brýtr, lög skýtr, | limgarmr, rangbarmr.* »Í þessum hætti eru 4 samstöfur í vísuorði ok tvær aðalhendingar, og lúkast báðar í einum staf«, Háttatal.

**al|hreinn** *l.*

* **al|hress** *l.*

* **al|hringr** *k*,

**al|huga** *ób. l*, einlægr: *a. ást.*

**al|hugaðr** *l*, **1.** fastráðinn: *e-m er e-ð a-ð*, e-r er einráðinn í e-u; e-m er e-ð alvörumál. **2.** *kl*, (nærri sem *n.)*, alvara: *blanda hégóma við a-t.* **3.** einlægr: *a-ir fylgismenn kirkjunnar; kl.* (sem *a.) alhugað*, fyrir alvöru, einlæglega: *iðrast a.;* fyllilega: *a. úsekr.*

**alhugi** *k*, egl. allr hugi e. hugr, **1.** allr áhugi, allr hugarmáttr: *hann leitaðist við af a-a, að . . .*, af öllum lífs og sálar kröftum; *biðja guð af a-a um e-ð*, af öllu hjarta. **2.** einlægni, alvara: *a. minn, en enginn hégómi*, alvara mín; *þetta er varla af a-a talað*, af einlægni mælt. — *S a m s.: **alhuga--mál**, einlægt áhugamál: *ef það er a. yðar*, Kv. I, 34. **-ósk. -þökk.**

† **alhuglegr** *l*, einlægr.

* **al|hugr** *k*, = *alhugi: þess af alhug óskum vér*, JÓLj[2] 73; *af alhug sver ég við sjalfan mig | að sýsla' af almegni fyrir þig*, (H. Hafst.) Nanna, III, 41.

**al|hungraðr** *lm*, mjög hungraðr.

**al|húsa** *ás*, húsa alveg; *a. bæ*, byggja öll hús á bænum.

* **al|hverfa** *hs*, hverfa allr, hverfa að fullu: *þá er siglt er frá landi, hverfr fyrst undirlendið, síðan fjöllin, svo ekki standa upp úr hafi nema tindarnir, og loksins alhverfr landið; alhorfinn | til ódáins bygða*, horfinn fyrir fult og alt (og sést aldrei aftr).

**al|hvítr** *l.*

* **al|hyggja** *kv*, einlægni.

* **al|hylja** *ás.*

**al|hýsa** *ás*, = *alhúsa.*

† **alhýsi** *kl*, öll bœjarhús.

**al|hœgr** *l*, mjög auðveldr, sem engin vandkvæði eru á.

* **al|hærðr** *l*, **1.** alveg gráhærðr. **2.** alsettr hárum. △ **3.** hærðr öllum megin, á öllum hliðum; *and.:* einhliðhærðr, tvíhliðhærðr, Flóra, 209.

**ali-** *fsk*, táknar dýr, sem menn ala, hvort heldr tamin eða ótamin, svo sem: **ali-björn**, **-dýr**, *a.*, *þat sem vér köllum búsmala*, Stj. 18. ***-fé**, *and.* útigangsfé, BH. **-fiskr.** **-fugl.** **-gás**, flt. **-gæs(s)**. **-hafr.** ***-kalfr.** **-karl**, auknefni: *Þórgrímr a.*, Þ. feiti(?). ***-kind**, Fjörg.m. **-sauðr.** **-svín.**

**áliðinn** *lm*, sem tekið er að líða á: *á. dagr*, síðari hluti dags; *á. vetr; á-ð sumar.*

* **álíka** *ób. l*, ámóta, áþekkr, sviplíkr. — Einnig *a.*

**álíkr** *l*, sviplíkr, áþekkr, *kl*, **álíkt**, haft fyrir *a*, = *álíka.*

* **álímdr** *lm*, límdr á: *greiða burðareyri með á-um frímerkjum.*

* **álíming** *kv*, það að líma á.

**alin (alnar**; flt. † **alnar** og **alnir)** *kv*, ⊙ **1.** framhandleggriun frá ölnboga og fram á fremsta enda löngustangar (miðfingrs); kemr fyrir í kenningum: *alnar strengr*, armband; *a-r gim*, gull. **2.** lengdarmál (upphafl. miðað við handleggs-lengd frá ölnboga til miðfingrs enda), um 18 þumlunga (danska). Lögalin forn var um $18^{4}/_{5}$ þuml. danskir. [»Stikan«, eftir 1200, var 2 alnir]. Í byrjun 16. aldar var lögleidd Hamborgar-alin, um $21^{9}/_{11}$ þml. (danskan) á lengd, og stóð hún til 1776, að dönsk alin komst á (24 þml. danskir). Sjá: B. M. Ólsen: *Um hina fornu ísl. alin*, Árb. Fornl. 1910. **3.** verðmælir; forfeðr vorir reiknuðu verð eftir vaðmálsalin tvíbreiðri; voru 120 taldar 1 hundrað, en 2 fiskar voru í 1 alin. Sbr. B. M. Ólsen: *Um baugatal.* Vér reiknum enn landaura eftir fiskum, alnum og hundruðum (landauratal; verðlagskrárnar). — Sams.: **alnarborð**, borð alnarlangt. **-breiðr.** **-kefli**, alnarlangt kefli. **-langr.** **-tíund**, tíund-(argjald), sem nemr 1 alin. **-virði.** — † **alna-lag**, alna-virðing, N. **-mál**, mál eftir alnum. † **-máls-sök**, sök, er rís út af »röngum alnum«. * **-reikningr**, reikningr eftir alnum, LFR, IV, 180. † **-sök** = *alna-máls-sök.* [**-váð (-voð)**. **-vágr (-vogr)**, sjá í stafrófsröð].

* **al|innlendr** *l.*

**álit** *kl*, **1.** það að líta á: *fagr álitum*, fríðr sýnum; *eigi réttr álits*, boginn að sjá (um brotinn fót); *hann hafði ýmissa manna á. eða kykvenda*, líki, mynd. † **2.** það að horfa, líta, á: *eldr brann í brjósti hans í á-i konu þeirrar*, er hann horfði á þá konu. **3.** íhugun, athugi: *gera e-ð að á-um*, íhuga; † *taka ráð með skjótu á-i*, með fljótum (ɔ: litlum) athuga. **4.** skoðun: *var eitt á. allra, að . . .; að réttsýnna manna á-i*, skoðun, dómi. † **5.** útsjón, líkindi, útlit: *mennirnir munu engi á. eða ván hafa, at nökkurr heilagr maðr biði fyrir þeim*, Mar. — Sams.: * **álitsgerð**, (skriflegt) álit, sem þar til kvaddir menn láta uppi. * **góðr** ? Sch. ***-mál**, **1.** mál, sem vert er að íhuga, vafamál: *það er á., hvort betra er.* **2.** álitsgerð. ***-skjal**, skrifleg álitsgerð. ***-vandr**, vandlátr um útlit?: *ástin er álitsvönd*, GÍO, 34. ***-verðr**, íhugunarverðr. — † **álitaleysi**, íhugunarleysi, fljótræði. †**-lítill**, hvatvís, íhugunarlítill. **-mál**, = *álitsmál.* ***-skjal**, skrifl. álitsgerð.

† **álita (-aði)** *ás*, íhuga.

† **álita** *kv*, íhugun, gaumr: *ef þér vilit nokkura álitu á þí hafa*, gefa því nokkurn gaum, íhuga það nokkuð, N.

* **álíta (-lít; -leit; -litið)** *s*, **1.** *ás*, meta, virða, þykja: *á. e-ð gott*, meta, telja, e-ð gott; *á. e-ð vel fallið*, þykja, telja. **2.** *óás*, hafa (þá e. þá) skoðun, ætla, hyggja, virða (svo e. svo sem): *þeir álíta, að betra sé; á. að fara megi.* **3.** *ás*, skoða, meta; gera skoðun, mat (á e-u): *skal valdsmaðr kveðja til þrjá menn að á. skaðann*, skoða og meta; *þeir skyldu á. verkið, er því væri lokið.*

† **álitari** eða **álítari** *k*, (skoðari ɔ:) stjórnari: *á. allra hluta*, guð.

**álitlega** *a*, **1.** vænlega (osfr., sbr. *álitlegr). †* **2.** vel að sjá; vel að útliti til: *fór alt á. með þeim, en eigi sem þá er blíðast var.*

**álitlegr** *l*, † **1.** vel íhugaðr. * **2.** mikill, vænlegr, vænn álitum: *álitlegt gjaforð*, tigulegt, vænlegt; *álitleg staða*, virðuleg, vænleg; *á. maðr*, tilkomumikill, vænn álitum; *það er ekki á-t*, ekki vænlegt, ekki árennilegt, ekki sigrvænlegt, ekki arðvænlegt, osfr.

† **álitning** *kv*, það að líta á, sjá.

**al|jafn** *l*, alveg jafn.

**al|jarna** *ás*, jarna (hest) á öllum fótum.

* **al|jarpr** *l*, **1.** allr jarpr: *a. hestr.* **2.** alveg jarpr: *a. á hár.*

* **al|jastra (-aði)** *ás*, jastra til fulls: *ölið er ekki a-að enn.*

* **aljátaðr** *lm*, alment játaðr *(homologumenos)*, HH, Ks. 183.

† **áljótr** (ef. **áljóts** og **áljótar**) *k*, **1.** alvarlegr líkamlegr áverki, veittr með ásetningi, sá er lætr merki eftir sig, þau er eigi hylr hár né klæði: *á. eða bani*, Grág. II, 191; *fara til á-ar við mann*, II, 246, sbr. II, 189 og 191. **2.** illmæli: *ef maðr bregðr manni brigzlom eða mælir hánom á-t* (= meiðyrði), *þót hann segi satt, ok varðar fjörbaugsgarð*, Grág. II, 146. — Sams.: **áljóts-eyrir**, bœtr, er gjalda skyldi fyrir hvert sár, það er var áljótr að lögum. **-ráð**, sá tilgangr, að veita manni áljót, sbr. fjörráð, sárráð, dreþráð.

**alka**[1] *kv*, nafn á fugli *(alca)*. — Sams.: **alku-ungi**.

* **alka**[2] *kv*, löng haka: *teygja alkuna*, terra fram hökuna.

* **al|kendr** *lm*, alþektr.

† **al|keyptr** *lm*, fullkeyptr, dýrkeyptr.

**al|kirkja** *kv*, aðalkirkja: *and.:* halfkirkja (= útkirkja, annexía) og bœnhús.

*a* **alkjötvi** *k*, spikfeitr maðr, ístrubelgr, BH.

* **al|klestr** *lm*, allr með klessum.

* **al|klyfjaðr** *lm*, sem er með fullum klyfjum: *hann teymdi þrjá hesta a-aða.*

* **al|klæða** *ás*, **1.** fœra alveg í föt: *hann alklæddi sig og fór út*, fór í öll fötin; *hún alklæddi barnið*, fœrði það í öll fötin. **2.** láta e-m í té, gefa e-m, alfatnað: *allmörg fátæk börn alklæddi hann.* **3.** tjalda alveg að innan: *kirkjan var alklædd svörtum tjöldum.* **4.** alfóðra utan, t. d. með borðum, pappa, bárujarni e. þvíl.: *hann alklæddi suðrhliðina og vestrgaflinn með bárujarni; húsið er nú komið undir þak og alklætt, svo að það er fokhelt.* **5.** alþakinn: *hlíðin er alklædd skógi.*

**alklæðnaðr** *k*, alfatnaðr, fullr klæðnaðr.

* **alkort** *kl*, spil, sem mjög tíðkaðist á Íslandi fram undir síðasta þriðjung 19. aldar. ($3 \times 3 =$) 9 spil voru gefin; 5 slagi minst þurfti til vinnings. Tígulkongr var hæstr, þá hjartatvistr,

lauffjarki, spaðaátta, hjartanía, tígulnía (til samans nefndar »skiturnar«), ásar, gosar, póstar; þar fyrir neðan hin spilin, »hundar«; spaðanía kölluð »stóra-brúnkolla«, laufnía »gadda-jórunn«; sjöin hétu »besefar« e. »bísefar« og tók þá ekkert spil, ef þeim var spilað út, ella voru þeir ónýtir. Ef maðr, sem ekki var í forhönd, hafði bísefa, einn eða fleiri, en ekkert háspil til að ná slag með, svo að hann gæti spilað þeim út á eftir, vóru þeir kallaðir »móðurlausir« bísefar. 5 slagir voru vinningr, en fengi einhver 5 slagi áðr en hinir fengu nokkurn slag, gat hann hann hætt, og hét það »múkr« (vinningr: 5); fengi hann 6 slagi á sama hátt, hét það »6 blaða stroka« e. »skuðmúkr« (vinningr: 6), og þótti óvirðing að; 7, 8 e. 9 slagir, áðr en nokkur annar fékk slag, hét 7, 8 e. 9 blaða stroka (vinningr: 7, 8 e. 9). Lauffjarkinn var stundum kallaðr »kopprinn«, lauffjarki og spaðaátta til samans »lýjurnar«, hjartanía »sú feita« og tígulnía »sú magra«; átturnar þrjár voru kallaðar »fríður«; þær gátu ekkert tekið, nema tvisti, þristi, fjarka og »fúlhunda« (fimmin); en sá sem átti ekki svo mikið sem póst, mátti taka stokkinn: »ég er ekki fríðu-fær, | fáið þið mér stokkinn«. Spilað af 4, 2 og 2 saman. Ef sá sem fengið hafði múk eða stroku, hélt áfram og hinir náðu slag, varð vinningrinn að eins 1.

**alkristinn** *l*, alveg kristinn.

**al|kristna** *ás*, kristna að fullu: *þá var landið alkristnað.*

**al|kunna** *ób. l*, **1.** alkendr, alþektr. † **2.** er þekkir vel til, Vegt. 8, 10, 12.

† **al|kunnigr**, = *alkunnugr.*

**al|kunnr** *l*, öllum kunnr, alþektr.

**alkunnugr** *l*, **1.** alkunnr: *það er a-t*, öllum kunnugt, á allra vitorði. **2.** sem þekkir alveg til: *hann var a. veginum yfir heiðina*, hundkunnugr; *ég hafði heyrt kvis um það, en óglögt; mér varð ekki a-t um það fyrri en í gær*, fullkunnugt; *ég er a. hans háttum.*

† **al|kyrra**[1] *ób. l*, grafkyrr.

* **al|kyrra**[2] **(-ði)** *s*, kyrra til fulls: *alkyrði er á kvöldið leið.*

* **al|kyrra**[3] *kv*, algerð kyrð.

* **al|kærleiki** og **alkærleikr** *k*, algerðr kærleikr, sem tekr til alls.

**all-** *fsk*, má skeyta framan við svo að segja sérhvert l. og a. í málinu. Í fornmálinu merkir það nær ávalt: mjög, sérlega, e. þvíuml., stöku sinnum: talsvert, töluvert; merkingunni »mjög« heldr það stundum í nútíðar-máli, oft í kveðskap (»allfagrt ljós oss birtist brátt«), og á eftir neitun heldst enn in forna merking (»ekki allfáir« = ekki mjög fáir, ekki ýkjafáir) og eins oft í l.-um, sem byrja með *ó-; all-óhægt*, mjög óh. Annars er merkingin í nútíðarmáli venjulega: töluvert, býsna-, æði- e. þvíuml. Stundum er merkingin nú: viðunanlega, sæmilega, meðallags- osfr. T. d. *þar er allmikill afli* þýddi til forna: mjög mikill, en þýðir nú: talsvert mikill, töluverðr, og getr líka þýtt: viðunanlegr, ekki svo lítill, — alt eftir því, hvernig á stendr og hversu áherzlan er á orðin lögð. — Hér á eftir eru talin upp *nokkur* helztu orð, sem byrja á all-, og eru flest þeirra auðskilin af sjalfu sér samkv. því er áðr er sagt, en þau ein eru skýrð, er fágætust eru eða hafa frábrugðna merking að einhv. leyti, eða þá ef

síðari hlutinn kemr eigi fyrir ósamsettr. — Sams.: **all-ágætr. -áhyggjusamlegr. -ákaflegr. -ákafr. -ant** (um e-ð). **-apr**, mjög bitr, strangr, kuldalegr. **-áræðilegr**, mjög líklegr [af *ráða*]; hugrakkr; hættulegr; árennilegr. **-ástúðlegr. -auðsóttlegr. -auðveldlegr. -auðveldr. -banvænn. -beinn**, † **1.** allgestrisinn. * **2.** mjög beinn (réttr). **-beiskr. -bitr. -bjartr. -bjúgr. -blár. -blíðr. -bráðr. -bráðum. -broslegr.** †**-dasigr (-dösugr)**, mjög latr, tómlátr, sljór. **-dátt** *l. kl.* **-deigr. -digr. -djarfr. -djúpr. -djúpsettr. -drengilegr. -drœmr. -dyggr. -dýr. -eigulegr.** ***-eina** *a*, einungis, einvörðungu. **-einarðr.** †**-eins** *a*, alteins, alveg eins, allaðeina, altaðeinu. **-ellilegr. -fagr. -fálátr. -fálega. -fámennr. -fár-. -farþungt** *l. kl*, mjög illfœrt: *þeir áttu nú a.*, Fljótsdœla in meiri, Kh. 1883, 108, v. l. **-fárœðinn. -fastr. -fastorðr. -feginn. -feiglegr. -feitr. -fémikill. -ferlegr. -fjarri. -fjartekinn** *l*, tekinn mjög langt frá. **-fjölmennr. -fjölrætt. -fjölugr** *l*, sem mjög margt er af. **-forsjáll. framr. -frekr. -friðlega. -friðr. -frjals. -fróðr. -frægr. -frækinn. -fús(s). -fýsilegr. -fœrðþungt** *l. kl*, = *farþungt*. **-fölr. -gagnsamr. -gamall. -gegn. -gemsmikill. -gerla. -gervilegr. -gestrisinn. -geysilegr. -giftusamlega. -glaðlega. -glaðr.** †**-gleymr**, allhávær af gleði. **-glæsilegr. -glöggsær. -glöggr. -góðr. -greiðr. -grimmr. -grunsamlegr. -göfugr. -háleitr. -hár. -harðr. -háskasamlegr. -heiðinn**, alheiðinn. **-heimskr. -hermannlegr. -hjaldrjúgr. -hóglegr.** †**-hóleitr** N, = *-háleitr*. †**-hór** N, = *hár*. **-hraðr. -hraustr. -hreystimannlegr. -hrumr. -hræddr.** †**-hræðinn**, mjög hræðslugjarn. **-hugsjúkr. -hvass. -hygginn. -hýr(legr). -hæðilegr. -hœglega** = *hóglega*. †**-hældreginn**, sem dregr mjög hælana í gangi. **-iðinn. -illr. -jafnlyndr. -kaldr. -kappsam(leg)r. -karlmannlegr. -kát(leg)r. -kaupmannlega. -kerskilegr. -klókr. -knálegr. -kostgæfilega. -kostugr. -kviklátr. -kynlegr. -kyrlegr. -kær. -lágr. -langr. -laus. -lengi. -léttbrúnn, -léttbrýnn. -léttmælt** *l. kl, vera -l. um e-ð*, láta vel að tala um e-ð. **-léttr. -lík(leg)r. -lítilfjörlegr. -lítill. -lyginn. -maklegr. -málugr. -mannfár. -mannhættr. -mannskœðr. -mannvænn.** †**-marglega**, vingjarnlega. **-margmæltr. -margr. -margrœtt. -máttfarinn. -máttlítill.** †**-meginlaus**, -magnlaus. **-mikilfenglegr. -mikill. -mikilmannlega. -misjafn. -mjór. -mjök.** ***-mótfallinn**, mjög mótf., EspÁ, I, 6. **-myrkr. -mœðilega. -náinn. -náttförull. -nauðugr. -nauðulega. -níðskár. -nóg. -nær(ri). -óbeinskeytr. -óblíðr. -óbragðlegr. -ófagr. -ófimlegr. -óframlegr**, -óframr. **-ófriðr. -ófrýnn. -ófrægr. -oft. -óglaðr. -ógrlegr. -óhœgr. -óhöfðinglegr. -ókátr. -óknár. -ókonunglegr. -ókunnugr. -ólíflegr. -ólíklegr. -ólíkr. -olmlega. -ólyginn.** †**-ómáttulegr**, máttlítill. **-óráðinn. -óráðlegr. -orðfár. -ósannlegr. -ósáttfús. -óskyldr. -óspakr. -ósvás. -ósýnn**, -vafasamr. **-ósælegr**, **-ósjálegr. -óvinsæll. -óvíslega. -óvænlegr. -óvænn. -óþarfr. -ráðlaus. -ráðlegr. -rammlega. -rauðr. -reiðilegr. -reiðr. -ríkmannlegr. -ríkr. -rýrlegr. -röskr. -sannlegr. -sáttfús. -sáttgjarnlegr. -seinn. -sigrsæll. -skammr. -skaplega.** †**-skapvær(r)**, -hœglátr. **-skapþungr. -skarpr. -skeinuhættr. -skemtilegr. -skillítill**, óáreiðanlegr. **-skjallkœnlega**, mjúklátlega. **-skjótt. -skrautlegr. -skygn. -skyldr. -skyndilega. -skynsamlega. -skörulega.** †**-sljálega**, = ***-sljólega**, = **-slœlega. -slœglega. -smár. -snarpr. -snemma. -snjall(r). -snœfr**, röskr. †**-snœfrmannlegr, -snöfrmannlegr**, rösklegr. **-spakr. -starsýnn. -sterklegr. -sterkr. -stillilega. -stirðr. -stór(r). -stórhöggr. -stórlega. -stórmannlegr. -stórorðr. -strangr. -styggr.**

**-styrkr. -svangr. -svinnlegr. -sættfús. -sœmilegr. -tiginn. -tillátssamr. -tíðrœtt. -tíðvirkr. -torfyndr**, torfundinn. **-torfœr. -torsóttr. -tortryggilegr. -torveldlegr. -trauðr. -tregr. -trúr. -tryggr.** ⊤**-tvítugr**, ranglesið í hdr. *all-tvítugr* i st. f. *alls tvítugr*. **-undarlegr. -ungr. -ú-**. ., sjá: **-ó-**. . . **-vandlátr. -vandlega. -vándr** osfr., sjá: **-vondr. -vant. -varfœr. -vaskr. -veðrlítið. -veglegr. -vel. -vesall. -vesalmannlegr. -víða. -víglega. -vígmannlega. -vígmóðr. -vingjarnlega. -vingott. -vinsæll. -virðulegr. -vitrlega. -vís(s). -vondr. -vopndjarfr. -vænn. -vörpulegr**, álitlegr. **-vöxtulegr.** ○**-þakklegr** (= þekklegr, þekkilegr), ásjálegr. **-þakksamlegr. -þarfr. -þarfsamlega. -þéttr. -þreklegr. -þröngr. -þung(leg)r. -þykkr. -œfr. -œgilegr. -œstr. -örorðr. -öruggr.**

**áll**[1] **(-s; -ar)** *k*, **1.** nafn á einni tegund (linugga-)fiska *(anguilla)*, kviðuggalaus, en bakuggi, sporðuggi og gotraufaruggi renna allir saman (eru áfastir). † **2.** frjóstöngull (e. mergr í furu?).

**áll**[2] **(-s; -ar)** *k*, **1.** dýpsti farvegr í rennandi vatni; djúpr aflangr dalr á sjávarbotni, þar sem grynnra er til beggja hliða: *vaða ána út í miðjan ál; djúpir eru Íslands álar, en þó munu þeir væðir vera* (sagði tröllskessan, sem ætlaði að vaða frá Noregi til Íslands). ***2.** miðjan langsetis á heylön niðr til beggja enda. [† 3. ef áll í tré merkir merginn (í furunni), en ekki frjóanga, þá á »áll[1] 2« hér heima, en ekki undir »áll[1]«].

***allaðeina, allaðeinu** *ób. l.* og *a*, alveg eins: *þessi hestr er a. eins og hinn; ég geri það a. fyrir því*, engu að siðr; *fyrri ferðin fór illa og þessi fer a.*, alveg eins; *vettlingarnir eru báðir a.*

***alla-daga** *a*, **1.** ávalt: *hann er a-d. samr og jafn.* **2.** hvernig sem fer, í öllum tilfellum: *það er a-d. gott að eiga von á því, ef á þarf að halda.*

***alla-götu**, eða tíðara: **allar-götur** *a*, **1.** lengst: *a. framfrá*, lengst innfrá; *a. fram (frammi) á dal*, lengst inn (inni) á dal, AF. **2.** alla leið: *a. við mýrina*, LFR, II, 37.

***alla-jafna** *a*, tíðast, nær ávalt, oftast nær: *hann kemr hér a. daglega; það er a. eins að heimsækja þig.*

***alla-leið** *a*, = *alla-götu* 1. [En *alla leið* í tveim orðum, sjá: *leið*].

♆ **alla-reiðu** *a*, þegar, nú, undir eins: *ég sá hann a. daginn eftir*, undir eins næsta dag; *honum er a. runnin reiðin*, nú þegar.

***allar-götur** *a*, = *alla-götu.*

***alla-tíð** *a*, sífelt: *ár og síð og a.* | *ég man blíðu pína*, JÓLj[1], 106.

***alla-vega** *a*, **1.** á allar hliðar, á alla vegu: *freistingar umkringja a.* **2.** á allan hátt: *a. litir dúkar*, dúkar með öllum litum; *a. lagaðir*, með ýmsu (margbreytilegu) lagi; *ég get a. komið því fyrir*, á hvern hátt sem vera vill.

† **allföðr**, (ef. **allföður**) *k*, egl. alfaðir, allra faðir, heiti Óðins »fyrir því at hann er faðir allra guðanna ok manna ok alls þess er af honum ok hans krafti var fult gert«, SnE.

⊤ **allherjar**, Klopst, 1. b. = *alls-herjar.*

**al|líkr** *a*, alveg líkr, að öllu líkr, Post.

**al|ljós** *l*, **1.** albjartr: *a. dagr.* **2.** alveg auðsær.

**al|loðinn** *l.* algerlega, allr, loðinn.

***al|lóga (-aði)** *ás*, lóga gersamlega: *hann a-ði fé sínu um haustið*, lógaði öllu fé sínu.

**allr (öll, alt)** *l*, **1.** heill, óskertr, sem ekkert vantar á: *eiga allan arf eftir e-n*, vera einn erfingi að eignum ó-

skertum; *alla ævi; alt hennar líf; hann er a. skemdr,* ekkert óskemt af honum; *hann er ekki a. þar sem hann er séðr,* hann er viðsjáll; líka: það býr meira í honum, en út lítr fyrir; *allr-saman,* allr til samans; *alt-saman féð; þennan hernað allan-saman; eru kaup þau öll-saman ógild; mýrin er öll-saman grasgefin.* [Í nútíðar-máli er nf. et. í kv. og nf. og þlf. flt. í kl. oft: *öllsömun* og *öllsömul: jörðin er öllsömun (öllsömul) sléttlend; börnin eru hér öllsömul (öllsömun); telja öllsömun lömbin.* — Sbr. einsamall f. einn saman]. † **2.** heill, fullr: *allan halfan mánuð,* fullan h. m.; *eigi alla tvá vetr,* eigi fulla; *alt ár,* heilt ár. **3.** gersamlegr (e. nál. sem *a.:* gersamlega): *allr annar maðr,* gersamlega annar; *a. sami sem áðr,* alveg sami sem áðr; † *sá er a. einn og gestr sá er við oss talaði,* sá er alveg sami maðr sem gestrinn, er við oss talaði; *klofna a. í sundr,* alveg í sundr; *hann var þá allr á (bak og) burt,* gersamlega horfinn; *þeir kváðu Örn allan villast,* vera alveg viltan. **4. a.** liðinn, horfinn, svo að ekkert er eftir: *áðr sá dagr var a.,* liðinn; † *var þá öll þeirra vinátta,* var þá úti þ. v., var þá lokið þeirra vináttu; *alt er nú mitt megin,* þrotinn er nú minn máttr. † **b.** dáinn, dauðr: *þá er Geirmundr var a.* **5.** í kl. *alt,* **a.** samfleytt, hvervetna: *ríki E. konungs mundi alt yfir standa í Eyjunum,* um gervallar Eyjarnar; *konungr alt um Þrænda-lög,* um öll Þr.; *bjuggu þar alt fyrir þingmenn Runolfs,* hvervetna fyrir; *hafið svá alt kesjurnar fyrir, at ekki megi á ganga,* hvervetna. **b.** *alt of,* mikils til of: *alt of góðr.* **6.** kl. þgf. et.: *öllu,* **a.** með ms. haft sem a.: † miklu; * heldr, fremr: *öllu lengra* († miklu lengra), * heldr lengra; *öllu skárri,* fremr skárri; *öllu heldr,* talsvert fremr; *öllu minni, stœrri, hærri,* fremr eða heldr minni, stœrri, hærri. **b.** *að öllu,* á allan hátt, að sérhverju leyti: *honum að öllu þokkuð,* að sérhv. leyti geðfeld; *mér líkar það ekki að öllu,* að öllu leyti; *þetta vill hann ekki að öllu; | annars hug er vandi' að kanna,* þetta vill hann alls ekki, með engu móti; *sælla vart er eitt að öllu | enn að sigla heim til kvenna,* tæplega mun nokkur hlutr alls sælli (sbr. *at all* í ensku). **c.** *með öllu,* algerlega: † *með öllu eigi,* eigi á nokkurn hátt; *það er með öllu ófært,* algerlega ó. (sbr. *withal* í ensku); *eg er hreint með öllu frá, | efnið þegar dvínar,* algerlega frá, alveg af baki dottinn; * *með öllu og öllu,* að öllu samtöldu: *þar voru 6 hundruð fjár á bænum með öllu og öllu.* **7.** einst. talsh.: *alt að, alt að því,* því nær: *skálin tekr alt að því þrjár merkr, alt að þrem mörkum,* framt að. — *alt frá* (um rúm), alla leið frá: *alt frá yztu töngum;* (um tíma) alla tíð frá: *alt frá vetrnóttum;* um hreyfingu: alla leið (um veg); alla tíð (um tíma) með *fram, inn, niðr, upp, út, um,* t. d. *alt fram á vor; alt fram á dal; alt niðr að sjó; alt upp á fjall; alt um kring (»Vertu yfir og alt um kring | með eilífri blessun þinni«);* † *alt um daga Hákonar konungs,* alla tíð um d. H. k. **8.** ef. et. kl. *alls,* **a.** samtals: *hann hafði alls 9 menn með sér; alls fórust 9 menn.* **b.** gersamlega, alveg, nokkurstaðar, með nokkru móti osfr., með neitun, spurning eða efa: *alls ekkert,* gersaml. ekkert; *þar var*

*ekkert alls, er notað yrði,* alls ekkert; † *kallaði sig Eirík alls ekki;* † *alls hvergi skal sök koma undir inn þriðja mann; ef hér er nokkur inni alls, er mínu máli vill sinna;* † *hvar komum vér þess alls, að . . .,* hvar komum vér svo nokkru sinni (e. nokkur staðar) að . . .; einnig (í fornu máli) án efa, neitunar e. spurningar: *alls geldar* [*ær*], alveg geldar; *alls vesall,* alveg vesall, alaumr, að öllu leyti vesall; *alls skyldastr.* † **c.** *alls of, alls til,* alt of: *alls of ágjarn; alls til lítill.* **9.** *alls* to., sjá í stafrófsröð. **10.** ef. flt. *allra-,* haft sem fsk. við *y., l.* eða *a.* **a.** af öllu: *allra bezt er það,* bezt af öllu; *þykir mér allra-líklegast,* líklegast af öllu; *allra-sízt,* sízt af öllu; *allra-beztr,* beztr af öllum; *ungum er það allra-bezt | að óttast guð sinn herra,* Hallgr.Pét. **b.** einkum, sér í lagi, því fremr: *allra-helzt ef þeir heyra,* einkum, því fremr, ef þ. h. * **c.** með *y.* í veikri beyging, fyrirtaks-, sérlega, ákaflega: *allra-bezti maðr,* fyrirtaksgóðr; *allra-mesta þjóðráð,* sérlega gott þjóðráð; *allra-mesti afli,* ákaflega mikill afli; *allra-versti vegr,* ákafl. vondr vegr; *allra-fallegasta stúlka,* ljómandi falleg; *allra-duglegasti, allra-nýtasti, maðr,* fyrirtaks-duglegr (nýtr). — En sé greinirinn skeyttr aftan við nafnorðið, breytir fsk. *allra-* merking, og þýðir þá: af öllum; t. d. *þetta er allra-sælasta ástand,* afbragðs-sælt; en: *allra-sælasta ástandið er það,* sælasta ástandið af öllu er það; *hér er allra-mesta vatnsfall á leiðinni,* heilmikið vatnsfall; en: *hér er allra-mesta vatnsfallið á leiðinni,* lang-mesta vatnsfallið (sem til er) á leiðinni. — Sams. aðrar sjá í stafrófsröð.

* **allra-gagn** *kl,* **1.** egl. hvað eina, sem allir mega hagnýta. **2.** séríl. um óskírlífa stúlku, sem »liggr undir hverjum strák«, skœkja.

**allra-handa** *ób. l,* alls-konar, alls-kyns: *a. góz,* Clar.

**allra-heilagra-dagr** *k,* allra-heilagra-messa.

**allra-heilagra-kirkja** *kv,* kirkja helguð öllum heilögum (dýrlingum).

**allra-heilagra-messa** *kv,* messudagr helgaðr öllum dýrlingum kaþólsku kirkjunnar: 1. Nóvember.

**allra-heilagra-messudagr** *k,* sama.

* **allra-meina-bót** *kv,* bót allra meinsemda: *leyndarlyf eitt, sem mjög er auglýst, nefnist Cure-all, þ. e. allra-meina-bót.* Annars réttara ritað í 3 orðum: *Andinn leynist oft til þín, | yndishreina snótin, | þú ert eina unun mín | og allra meina bótin,* JÓl, Smást.

* **allra-sálna-messa** *kv,* messudagr helgaðr sálum framliðinna: 2. Nóvember, Lesr. 34.

△ **allra-vagn** *k,* aflangr vagn á fjórum hjólum, dyr aftan á, sæti til beggja hliða; nefndr *omnibus* á útl. málum, KJÚf, 19.

**alls** *a,* sjá: *allr (8).*

† **alls** *to,* með því að, þar eð, þar sem, úr því að: *alls vér erum einnar tungu,* þar sem vér . . .; *alls þú ert góðr drengr kallaðr,* með því að . . .; *alls þó hefir þetta með meirum fádœmum gengið,* með því að (þar sem) þetta hefir þó . . . Sjaldan með *er* á eftir: *alls er þú ert svo þráheldinn,* þar sem þú ert.

△ **allsa**[1] *a,* að engu frádregnu (umbúðum, kostnaði osfr.). ÚTL. *brutto.* (*And.* einsa).

△ **allsa**[2] **(-aði)** *ás,* gefa í ágóða að

engu frádregnu: *skipið allsaði mér í ár 30,000 kr.*, gaf mér 30,000 kr. arð að öllu ófrádregnu. *And.* einsa.

**alls-áni** *ób. l,* alt skortandi, sem er án alls: *alls-áni verðr | sá's einskis biðr,* Sólarlj. 28 (vafas. texti); *ég má nú heita a.,* allslaus.

* **alls-einn** *l,* aleinn.

† **allsendir** *k,* fullnusta; að eins í orðt.: *til allsendis,* til fullnustu, algerlega, að öllu leyti: *engi maðr heldr sínum þrifnaði til a-s,* algerlega.

**allsendis** *a,* algerlega; oft haft með neitun: *ekki a. vel;* einnig án neitunar: *a. enginn,* alls ekki neinn.

* **allsháttaðr** *l,* alls-konar, af öllum (ýmsum) tegundum, OG; JGHv.

**allsháttar** *ób. l,* (egl. ef.), = *allsháttaðr.*

⊤ **allshendis,** = *allsendis.*

**alls-herjar,** egl. ef. af *allr her(r);* [*herjar* er forn ef.-mynd]; haft sem ób. l., að eins sem fsk., en ekki eitt út af fyrir sig, nema í orðtækinu: * *drott-a.*, guð zebaoth. — Sams. sjá hér á eftir í stafrófsröð.

* **allsherjar-álit** *kl,* almennings-álit: *engin siðfræðiskenning getr staðist gegn stöðugu a-i,* Auðf.

**allsherjar-búð** *kv,* búð allsherjargoðans á Alþingi.

* **allsherjar-dómari** *k,* dómari allra manna (drottinn), VPost.[9], II, 88.

**allsherjar-fé** *kl,* almannafé, alþjóðareign, Ísl.bók, 1. k.

* **allsherjar-friðr** *k,* almennr friðr; friðr um heim allan eða einhverja alfu: *þá hafði lengi verið a. í Norðralfunni.*

* **allsherjar-foringi** *k,* æðsti yfirmaðr alls herliðs e-s ríkis *(generalissimus).*

* **allsherjar-fyrirliði** *k,* sama.

* **allsherjar-gagn** *kl,* almennings-gagn, lands-heill, JÞ, I, 85.

**allsherjar-goði** *k,* goðinn í Kjalarnesþingi; Alþingi var háð í hans goðorði, og því skyldi hann setja þingið.

**allsherjar-lið** *kl,* landsherinn, N.

**allsherjar-lýðr** *k,* þjóðin, landsmenn (allir).

**allsherjar-lög** *flt. kl,* landslög(in).

* **allsherjar-lögmaðr** *k,: a. fyrir* [*alt*] *landið,* Maur.

* **allsherjar-lögmál** *kl,* lögmál, sem gildir ávalt og hvervetna, algilt lögmál.

* **allsherjar-mál** *kl,* **1.** mál(efni), sem alla þjóðina (e. allar þjóðir) varðar, landsmál. **2.** tunga, sem allar þjóðir geta skilið og talað.

* **allsherjar-mót** *kl,* þjóðfundr.

* **allsherjar-mótspyrna** *kv,* almenn mótspyrna.

* **allsherjar-póstsamband** *kl,* félagsskapr (flest)allra ríkja um póstmál *(union postale universelle).*

*a* **allsherjar-ráð** *kl,* ráð (ɔ: þing) fyrir alt ríkið, OLfr, II, *3,* 408.

* **allsherjar-ríki** *kl,* þjóðríki, ríki sem tekr yfir heilt landsvæði; sjalfstætt, fullveðja ríki: [*Ulfljótslög*] *mynduðu fyrst og fremst íslenzkt a.,* Maur. 139.

○ **allsherjar-skelfir** *k,* sá er alla skelfir: dauðinn, JÞ, II, 143.

* **allsherjar-skóli** *k,* alfræðaskóli *(universitas),* Frankl., 53.

*a* **allsherjar-stjórnarráð** *kl,* þing fyrir alt ríkið *(genaralcongress),* OLfr, II, *3,* 333.

**allsherjar-þing** *kl,* **1.** þing fyrir alt ríkið. **2.** sambandsþing, bandaþing(ið, sem stýrir sameiginl. málum allra Bandaríkjanna — *congress),* Frkl. 82.

* **alls-huga** *a.* [fágætt], af öllum hug, allshugar: *tóku kunningjar hans hon-*

*um a.*, af heilum hug, hjartanlega, ÆBP, 6.

* **alls-hugar** *a.* [alm.] = *alls-huga.* — Sams.: **allshugar-feginn** *l*, innilega, hjartanl., feginn, VPost[s], 288. **-glaðr** *l*, hjartans-glaðr.

**alls-konar** [egl. ef. af *allr* og *konr* = kyn, úrelt], *ób. l*, **1.** af öllum (mörgum) tegundum, fjölbreytilegr, margvíslegr: *at a. drengskap*, að sérhverjum dr.; *alls-k. aldini*, margvísleg aldini. † **2.** *a*, á allan hátt: *leika e-n a. illa*, OH.

* **alls-kosta** *ób. l*, í orðt. *eiga a. við e-n*, eiga alls kosti, geta gert hvað sem maðr vill við e-n.

**alls-kostar** *a*, að öllu leyti, að sérhverju leyti; oftast haft með neitun: *eigi a. sanngjarn*, ekki vel sanngjarn, ekki alveg sanngj.

**alls-kyns** *ób. l*, = *alls-konar.*

* **alls-nægt** *kv*, oftast í flt. -ir, gnægð af öllu, LFR, II, 256.

* **alls-ólíkr** *l*, EspÁ, I, 74; gersamlega ólíkr; sjá: *allr (8, b.).*

* **alls-ráðandi** *lm*, sem öllu ræðr: *hún er a. þar á heimilinu.*

**alls-staðar** *a*, = *alstaðar.*

**alls-valdandi** *lm*, almáttugr.

† **alls-valdari** *k*, almáttugr drottinn.

**alls-valdr** *l*, † **1.** allsvaldandi, almáttugr. * **2.** öllu valdandi: *hún var allsvöld | um ólán mitt.*

† **alls-vesall** *l*, al-vesall, al-aumr: *er a. ok á engan penning*, FsS.

† **alls-vesöld** *kv*, algert eymdarástand.

† **alls-völdugr** *l*, allsvaldandi.

* **alls-þurfandi** *lm*, sem alls þarfnast, VPost, 182.

* **alls-þurfi** *ób. l*, = *allsþurfandi.*

**allvaldr** *k*, konungr, einvaldsherra: *heilir, allvaldar báðir!; of veikr, of veikr allvalds bogi; því heilir hann a., at hann er einvaldr alls ríkis síns.* (Sbr. *alvaldr).*

**allvalds-konungr** *k*, (nú tíðara: *alvalds-)*, einvalds-konungr.

† **allungis** *a*, = *öllungis, öldungis.*

**alma** *kv*, kvísl, grein, angi (kemr fyrir í Fms. V, 63 sem viðrnefni).

⊤ **álmága (-að)** *ás*, N, afbögun (við stafraðar-skifti) úr: *ámálga.*

⊤ **álmágaðalaus** *l*, N, =

⊤ **álmágalaus** *l*, N, átölulaus.

* **almalmr** *k*, eiginlegr malmr. Í efnafræðinni var fyrrum talað um a-a og half-malma; half-m-ar vóru þeir malmar nefndir, er stökkir vóru og eigi urðu slegnir (arsen, antimon, wismuth ofl.). Sú skifting er nú úrelt, LFR, III, 48.

* § **almanak (-naks, -nök)** *kl*, bók með dagatali eins árs, vikum, mánuðum, tunglkomum, sólargangi, merkidagatali og stjarnfræðilegum fróðleik. — * Sams.: **almanaks-ár**, hvert ár frá 1. Jan. til 31. Desbr., Lesr. 7. Þá er talað er um að gera e-ð (e. að e-ð verði) »innan árs«, þá er átt við að það verði innan sama mánaðardags næsta ár; en ef sagt er: »innan árs--loka«, þá er átt við lok almanaksársins. **-mánuðr**, hver mánaðanna (Jan.—Des) með þeirri dagatölu, sem hann hefir í almanakinu, Lesr. 8. *And.:* vikumánuðr (sem er 4 vikur, 28 dagar).

* **almandr** *k*, = *alamandr.*

**almanna-** *fsk*, (egl. ef. flt. af *almenn*, hugsaðri orðmynd, sem eigi finst í ritum, alþjóð, almenningr). — Sams.: **almanna-bygð**, fjölmenn bygð. ***-fé**, allsherjar-fé, ríkisfé, ríkiseign; fé almannastofnunar e. a.-félags, svo sem

sýslufélags e. sveitar-félags *(and.:* einstakra manna fé, einkafélags fé). ***-félag,** íbúar ríkis e. lögskipaðs ríkishluta með einhverri sjalfstjórn í sínum málum, svo sem sýslufélag, sveitarfélag, bœjarfélag: *hver hreppr er a-f. út af fyrir sig.* **-fœri** *kl,* vegr e. svæði, sem almenningr fer um e. kemr á. **-gjá** *en,* nafn á gjánni miklu vestan við Þingvöll. **-leið,** alfaravegr. **-lof,** lof, hrós, alls almennings. ***-mál,** almæli; það sem almenningr mælir e. álitr. ***-rómr,** almanna-mál, almennings-álit. ***-sjóðr, 1.** ríkis-sjóðr. **2.** (sjaldh.) sjóðr a-félags (svo sem sýslu- -sjóðr, sveitar-sjóðr osfr.). **-sjónir** *kv. flt,* allra sýn, almennings-augu: *láta rit þetta koma fyrir a.,* birta það almenningi, gefa það út; *leiða fyrir a.,* LFR, I, 79. **-skarð** *en,* nafn á fjallveginum milli Lóns og Hornafjarðar. **†-skrift,** almenn skriftamál. **†-skriftargangr,** almennr skriftagangr. *And.:* einkaskriftargangr: *tviðr* [ɔ: tvennr] *skriftargangr, annarr fyrir hversdagssyndir, þat er a.; en annarr skal vera einka-skriftargangr fyrir höfuðsyndir,* Hom. **†-stofa,** líkl. sama sem skáli(nn) á 12. og 13. öld. *And.:* litla stofa. ***-stofnun,** stofnun, sem er eign e-s almannafélags e. er almannafélag: *veita lán sveitum, bœjum og a-um,* LHA, III, 319. **-tal** *kl,* **† 1.** alment tímatal, alm. reikningr: *dciiij vetrum eftir burð Krists at a-i,* eftir því sem alment er talið. **† 2.** tímareikningr alþýðu (= *alþýðu-tal), and.* rímtal, sbr.: *3 nóttom eftir crucismesso, þá er jamndeogri á því merki at rímtali;* en áðr: *8 nóttom fyr gagndaginn eina at a-i,* og *15 náttom eftir crucismesso at a-i,* Rb. **† 3.** alment manntal vopnfœrra manna, N. ***4.** almæli, EJO. **-vegr,** alfaravegr. **†-þing,** alment þing, N.

**† almannlegr** *l,* almennr: *a-g stefna,* alment mót, þing, N.

**almátt|r (-ar)** *k,* máttr til að gera hvað sem vera skal, takmarkalaus máttr, almætti.

**almáttugr** *l,* alls megnugr: *a. guð,* guð, sem alt megnar.

**almbogi** *k,* **1.** bogi (til að skjóta af) úr almi ger. **⊤ 2.** = *ölnbogi.*

*** almegn** *kl,* allr máttr, sem manni er gefinn: *af alhug sver ég við sjalfan mig | að sýsla' af a-i fyrir þig,* HHafst., Nanna, III, 41.

*** almegt** *kv,* almáttr, almætti, LFR, XII, 291.

*** almeina|bót** *kv,* bót allra meina, LFR, XIII, 211.

*** almekt** *kv,* = *almegt,* sem er réttari stafsetning.

**† almenni** *kl,* almenningr, alþýða, Rb. — Sams.: **almennis-stefna,** almenn samkoma, mót, N.

**almennilega** *a,* **† 1.** alment, opinberlega; *and.:* einslega. *** 2.** vel, drengilega, ríflega: *þetta var a. af sér vikið, a. gert,* vel, drengil., rífl. gert osfr. *** 3.** viðunanlega, svo að í lagi sé: *gerðu nú þetta a.,* svo að mynd sé á, myndarlega; *því var ekki a. lokið,* ekki fyllilega. *** 4.** þykkjulaust, gorgeirslaust, blátt áfram: *þeir geta aldrei talað saman a.; hann talaði mjög a. um það.*

**almennilegr** *l,* **1.** almennr, sameiginn öllum *(and.:* einkanlegr, sérstaklegr): *a-t þing,* alment þing; *heilög, a-g, kristileg kirkja,* almenn, Trúarjátn.; *a-g kristni, trú,* almenn kristni, trú; *a-g púta,* almenn skœkja (= »sú er öllum er heimil«, Hms.). *** 2.** sem er eins

og vera ber: *allra a-asti maðr*, mjög viðkunnanlegr maðr, geðugasti m. *3. í góðu lagi, vel viðunandi: *a-g hús úr tré*, viðunanleg, LÍ, 38; *a. matr*, matr í góðu lagi; *þarna færðu a-a viðbót!* viðbót, sem um munar, ríflega v. *4. kenjalaus, prúðr: *vertu nú a., drengr minn*, vertu nú dæll, þekkr; *hann var aldrei a. við konuna*, aldrei ófúll, þóttalaus. *5. með réttu ráði; með feldu; einleikinn; *hann er eitthvað ekki a.*, ekki alveg með réttu ráði; *það er ekki a-t þetta*, ekki einleikið, ekki alt með feldu.

† **almenning** *kv*, = *almenningr (1)*.

**almenningr** *k*, **1.** landsvæði, sem ekki er einkaeign, en allir mega nytja (t. d. til beitar, skógarhöggs osfr.). † **2.** í Noregi: óbygt svæði í borgum, torg og stræti í einu (heitir enn í sumum bæjum *alminding* e. *aalmenning*, t. d. í Björgvin). † **3.** í Noregi: autt svæði til almenningsnota fyrir framan kirkju. **4.** allir menn: *hann mun upp rísa, er a. ríss upp*, Hms. † **5.** fult útboð liðs og skipa (í Noregi): *allr* e. *fullr a.*, 7. hver fulltíða karlmaðr; *halfr a.*, 14. hver fulltíða karlmaðr. **6. a.** allr þorri e. hávaði manna: *það er á a-s vitorði*, það veit nærri því hver maðr. **b.** alþýða, almúgi: *a. hefir ekki not af slíkum bókum; (and.:* lærðir menn); *a. kann illa slíkum yfirgangi; (and.:* embættismenn, heldri menn, höfðingjar). *a* **7.** *það kalla menn a-g, er 2 æðr búa í einu hreiðri*, LFR, IV, 222. — Sams.: ***almennings-álit**, skoðun e. álit almennings eða alls þorra manna. † **-bréf**, auglýsingar-bréf eða birtingar-bréf til almennings. [NB. Gott orð, sem væri vert að taka upp aftur]. † **-drykkja**, almenn samdrykkja. †**-far** *kl*, = ***-ferja** *kv*, ferja til afnota öllum, LFR, XII, 124. **-folk**, alt folk án greinarmunar. ***-gagn**, gagn alls þorra þjóðarinnar. **-gata**, alfaravegr. † **-glófi**, almennr hanzki e. vettlingr; *a-glófar*, vettlingar, sem almenningr notar (óvandaðir v.), Rb. ***-heill**, velferð almennings; þörf, gagn, nytsemd almennings. ***-hrós**, = *-lof*, lof e. hrós meðal almennings. ***-kostnaðr**, kostn., sem þjóðin, ríkið, ber, LFR, XIV, 222. †**-mörk**, skógr, sem allir máttu höggva í, N. ***-not** *kl. flt*, not e. gagn almennings, Z. †**-skógr**, = *-mörk: konungs a.*, skógr, sem allir máttu höggva í, en urðu að fá konungsleyfi til, ef þeir vildu fá einkaleyfi á nokkrum hluta hans, og urðu að greiða gjald (afráð) fyrir, N. ***-skylda**, almenn (hvers manns) skylda, LFR, XII, 130. **-stræti**, str., sem er alfaravegr. **-tollr**, tollr, sem allir verða að greiða. **-trú**, † **1.** almennileg (kristileg, kaþólsk) trú. * **2.** þjóðtrú, alþýðutrú (ɔ: almenn hjátrú): *presturinn... hafði líka snefil af þessari a.*, JH. 273. **-vegr**, almanna-vegr, alfara-vegr. ***-þörf**: *engan má skylda til að láta af hendi eign sína, nema a. krefji*, Stj.skrá, 50. gr. † **-öl**, algengt öl(?), N. Sbr. almennings-glófar.

**almennr** *l*, **1.** sem nær til allra (eða flestallra e. þó margra): *til almennra nota*, öllum eða almenningi til nota; *varð a. fögnuðr yfir þeim tíðindum*, allir (allr þorri manna) fögnuðu; *það vakti a-a gremju*, gremju mikils (eða meiri) hluta manna (almennings); *héðan er að frétta almenna heilbrigði*, heilbrigði meðal almennings. * **2.** algengr: *alment vaðmál*, algengt; *selja e-ð með a-u verði*, tíðkanlegu v.; *það var hátt verð fyrir almennan ferœring*,

algengan. *3. sem tekr yfir alt eða margt, víðtœkr: *almenn mannréttindi*, réttindi, sem öllum mönnum bera; *nokkur almenn* (fjölbreytt, víðtœk) *mentun verðr að vera grundvöllr allrar sérmentunar; hver almennr* (ɔ: algengr) *vinnumaðr kann að nota járnkarl meira eða minna, en ekki þekkir hann fyrir það ið almenna* (ɔ: algilda) *lögmál vogstangar-aflsins. And.*: sérstakr.

**alment** *a*, (egl. kl. af *almennr), venjulega*, oftast nær: *a. vill hver maðr heldr gera gott en ilt sér að meinfangalausu*, yfir höfuð, venjulega; *a. er jarðarhnettinum skift í 5 heimsalfur.*

* **almfura** *kv.*

λ **alminlegr, -lega,** = *almennilegr, -lega.*

○ **almóðir** *kv*, (egl. móðir allra og alls) jörðin.

**almr** *k*, **1.** nafn á trétegund *(ulmus).* ⊙ **2.** bogi (til að skjóta af).

**almsveigr** *k*, grein e. tág af almi.

**alm|tré** *kl*, tré, sem er almr.

(?) **alm|viðr** *k*, **1.** viðr úr almi. * **2.** = *almr 1.*, Milt, 132.

**almúgi** [-múji, -múi] *k*, **1.** allir ótignir menn, almenningr: *konungrinn ok almúginn*, ótignir þegnar (E. *commons), and.*: lendir menn; *allvinsœlir viðr almúgann*, alþýðuna. * **2.** alþýða(n), *and.*: lærðir menn, heldri menn, höfðingjar, osfr. — Sams.: * **almúga-barn.** *-**folk.** *-**frœðari**, OLfr, II, *2*, 100. *-**frœðsla.** *-**háttr**, tízka hjá almúganum. *-**kennari**, OLfr, I, 114. *-**kona.** *-**legr** *l*, *-**lega** *a*, Klopst. IV, 138. *-**maðr**: *þeir segja a-menn bera litla vitsmuni til að starfa að stjórnmálum*, Fjöl. I, 84. *-**mál**, orðfœri alþýðu, LFR, III, 238. *-**rit**, rit ætlað almúganum, Fjöl. *-**saga**, þjóðsaga, Fjöl. *-**skóli**, (nú:) alþýðuskóli, Árm. III, 97. *-**stétt**, = *-**stig**: *vera af a-stigum*, af almúgafolki kominn. *-**stjórn**, (nú) lýðstjórn, MT, I, 59.

† **almúgr** *k*, = *almúgi.*

† **almusa** *kv*, = *ölmusa.*

* **almyrkva** (-**myrkti** og -**myrkvaði**; -**myrkt** og -**myrkvað**) *ás*, gera alveg dlmt: *almyrkvist röðull | á augabragði*, JÓLj, 75; *þá er sólina að sjá almyrkvaða*, Úrs. 49.

* **almyrkvi** *k*, algerð myrkvun: *a. á sólu, a. á tungli; blettkorn á jörðunni . . . í almyrkva*, algerðu myrkri.

**almæli** *kl*, **1.** það sem allir segja, er á allra vörum: *það er a.*, = *það eru almœli*, = *það er í a.*, það er altalað; allir segja, að . . . **2.** málsháttr: *þótt a-t sannaðist, at móðurbrœðrum verði menn líkastir*, Ísl. II, 29.

**almæltr** *lh. lt*, alment sagðr: *það er a-t, að . . .*, altalað, að . . .; *spyrja(st) a-a tíðinda*, spyrja algengra frétta.

**almætti** *kl*, almáttr. — Sams.: * **almættis-boð.** *-**kraftr.** *-**orð.** *-**vald.** -**verk.**

* **al|nakinn** *l*, allsber.

† **al|naktr** *l*, = alnakinn.

† **alna-váð** *kv*, = *alna-voð.*

† **alna-vágr** *k*, = *alna-vogr.*

† **alna-voð** *kl*, (af: *ölun* = makríli + *voð* = nót, dráttarnet) nót til að veiða makríli (ölun) í.

† **alna-vogr** *k*, vogr, sem ölun (makríli) gengr í (svo að þar má veiða).

† **alnbogi** *k*, = ölnbogi.

† **al|nefndr** *lh. lt*, nefndr fullu nafni.

* **al|negldr** *lh. lt*, alveg negldr, JÞ, II, 396.

* **al|neytr** *l*, óyggjandi, LFR, XIII, 233.

* **al|numinn** *lm*, **1.** lærðr til fullnustu: *fátt er ungum a-ð*, GÍO, 103. **2.** alveg tekinn til bygðar.

**al|nýr** *l*, alveg nýr.

* **al|nýtr** *l,* alveg nýtr, LFR, XIII, 239.

* **al|nytsamr** *l,* ⊥ alment nytsamr, nytsamr almenningi, LFR, XI, 307.

* **al|nægð** *kv,* allsnægtir, JÞ, I, 86.

† **al|nöktr** *l,* allsnakinn.

* **al|ófœr** *l,* alveg ófœr.

† **alogaðr** *l,* alhugaðr.

† **alogi** *k,* alhugi.

† **aloglegr** *l,* alhuglegr.

* **al|óhœfr** *l,* alveg óhœfr.

* **al|ókunnugr** *l,* alveg ókunnugr.

* **al|orpið,** sjá: *alverpa.*

† **al|óskotbragðlegr** *l,* alls óliðlegr (til verka), Ljósv. 267.

* **alpa** *óás,* vanal. í þolm. **alpast (-aðist)** þramma, ganga áfram, eða rekast til, þjösnalega og hugsunarlaust; villast af rataskap: *hann a-aðist fram af bryggjunni,* hröklaðist af klaufaskap; *a. á e-ð,* hitta á e-ð fyrirhyggjulaust af tilviljun; *ég horfði' á hann í himininn alpa,* GTh. 73.

* **Alpafjöll** *kl. flt, en,* fjallgarðrinn mikli, er gengr í boga frá a. til v. fyrir norðan Ítalíu. *Sn.* Mundíafjöll. — Sams.: * **Alpafjalla-rós,** = *Alparós.*

△ **Alpa-klifrandi** *k,* Skír. '87, 7, = *Alpaklífr.*

△ **Alpaklífr (-klífs; -klífar)** *k,* maðr, sem klífr upp torfœrar leiðir í Alpafjöllum, JÓ.

* **Alpar** *k. flt,* Mundíafjöll, Alpafjöll.

* **Alpa-rós** *kv, (Rhododendrum),* e. k. jurtakyn af lyngættinni. Almenna A-in *(R. hirsutum)* er oft nefnd blátt áfram A.

* **Alpa-skytta** *kv,* skotmaðr, sem er á veiðum í Alpa-fjöllunum, GÞ[1], 10.

* **Alpa-vegr** *k,* vegr á Alpafjöllum e. yfir þau.

† **Alpia-fjall** =

† **Alpinar-fjall** *en,* = *Mundíafjöll.*

† **alr**[1] *kl(?),* elri(-tré, *alnus).* Að eins í sams. *Alrey* (ey í Noregi, nú *Aarø).*

**alr**[2] **(-s; -ir)** *k,* **I.** mjór stálteinn með oddi, til að stinga gat á með, eða grafa (á malm) með (sbr. *grafalr),* eða stílsetjara-áhald til að draga letrstíl með upp úr settri línu (við leiðréttingu á settu letri). **2.** teinn úr öðru hörðu efni, t. d. tré (sbr. *bragðalr).* — *leika á als oddi,* † titra, hristast: *skjalfa þótti húsið sem á als oddi léki;* * = leika við hvern sinn fingr (af gleði, kátínu). — *alr í vegg,* sagt um e-n, sem er aðgerðalaus, gagnslaus og þegjandi, GÍO, 133.

**al|ráðinn** *l,* **I.** fullráðinn, fast ákveðinn: *förin var þá a.,* það var fullráðið að fara förina; *a. ásetningr,* Klopst. 7. b. **2.** sem hefir fastráðið e-ð: *hann var a. að . . .,* hann hafði fullráðið, að . . .; *a. í að . . .,* sama, LFR, VIII, 243.

* **al|ráðr** *l,* sem öllu ræðr, Klopst. IV, 140.

† **alránn** *l,* öllu rændr.

**al|rauðr** *l,* alveg rauðr, alls rauðr.

† **ál|reip** *kl,* ólarreipi.

**al|reyndr** *lm,* fullsannaðr með almennri reynslu; sem margir hafa reynt.

† **alri** *kl,* elri(tré — *alnus).* — Sams.: ⊙ **alri-klubba,** elrikylfa. Í eiginnöfnum: **Alridalr, Alriskógar.**

* **al|ríki** *kl,* **I.** veldi, það er: öll þau ríki og lönd, er hafa einn þjóðhöfðingja yfir sér eða eitt og sama œðsta vald, þó ekki ríki í persónu-sambandi eintómu, heldr svo, að þau lönd og ríki, er alríkið mynda, hafa einhver sameigin mál, þótt hvort hafi öðru frábrugðið stjórnarfyrirkomulag að öðru leyti. Noregr og Svíþjóð (1814

til 1905) vóru ekki alríki; ekki heldr Holland og Luxembourg; hins vegar eru kgs.ríkið Ungarn og keisarad. Austrríki hlutar af alríki. Bretaveldi má kalla a., þó að England, Skotland og Írland séu nú eitt kgs.ríki með þingræðisstjórn, Indland einvaldsríki (keisaradœmi), sum lýðlöndin ósjálfstœð, önnur megi heita sjálfstœð þjóðveldi, sem konungr skipar forseta (landstjóra) í (Canada, Ástralía); alríkisvaldið stýrir utanríkismálum alls alríkisins og annast hervarnir þess. Venjul. leggja alríkishlutarnir fram fé til sameiginlegra mála, nema í Bretaveldi; þar er enginn hluti alríkisins, nema höfuðríkið, skyldr að leggja neitt til alríkisþarfa. — Í þessari merking er orðið oftast nær haft af ísl. rithöfundum. 2. bandaveldi sambandsríkja, sameining ýmissa ríkja: *Bandaríkin eru a., myndað af meir en 40 ríkjum* (sjaldh. í þessari merking). — Sams.: ***alríkis-dómstóll**. ***-gjöld**. ***-herra**. ***-lög**. ***-mál(efni)**. ***-stjórn**. ***-tekjur**. ***-vald**.

***alróma** *ób. l*, 1. alment og samhljóða: *það var a. álit þar um slóðir*. 2. almælt, altalað, í hvers manns munni: *það var a., að Guðmundr væri faðir að barninu*.

**al|roskinn** *l*, fullþroska: *a. at aldri*, Hms.; *fáir eru ungir að aldri, en a-nir að dygðum*, GÍO, 98.

**al|rotinn** *l*, alveg rotinn.

***al|rúinn** *lh*, sjá: *alrýja*.

***al|ryðga (-aði)** *óás*, verða allr ryðugr.

***al|rýja (-rý; -rúði; -rúið)** *ás*, rýja alveg.

***al|ræði** *kl*, einveldi, einvaldsstjórn (ótakmörkuð); einkum haft um vald, sem einum manni er stundum í hendr fengið í þjóðveldum á óeirðar-tímum *(dictatur)*. — *Sams.: **alræðis-maðr**, maðr, sem hefir alræði *(dictator)*. **-stjórn**. **-vald**.

**al|rœmdr** *l*, † 1. *kl*, orðfleygt, almælt, altalað. *2. alkunnr að illu: *a. þjófr, lygari; a-t níðingsverk; hann er a. um land alt; a. fyrir e-ð*, alkunnr að e-u (illu).

***al|rœmi** *kl*, 1. almennr orðrómr: *það er a., að ...*, almæli. 2. alment álit: *það er a., að hann sé hygginn og ráðhollr*, alment álit manna.

***alrœmis-frægð** *kv*, alróma frægð: *ávann Gambetta sér a.*, Skír. '83, 81.

**al|sagðr** *lh. lt*, sagðr af öllum e. alment: *hann er a. faðir að barninu*, alment talinn; *það er a-t, að hann ætli að kaupa jörðina*.

**al|sátt** *kv*, full sátt: *vera a-um sáttir; sættast a-um*, Grág.

**al|sáttr** *l*, alveg sáttr.

**al|saurga** *ás*, saurga alveg.

**al|sekr** *l*, egl. alveg sekr; í fornöld var sá a. kallaðr hér á landi, er dœmdr var til skóggangs (s. þ. o.), »skógarmaðr úalandi, úferjandi, úráðandi öll bjargráð«; fjörbaugsmaðr (s. þ. o.) var ekki a.

***al|setinn** *lm*, fullskipaðr: *hér er a. bekkrinn*.

***al|settr** *lm*, allr skipaðr, hvervetna skipaðr: *a. hvössum tönnum*, allr með hvössum tönnum, LFR, X, 120; *borð alsett*, albúið, G&A, II, 198; *a. smáhnúkum*, allr búinn smáhnúkum.

**al|siða** *ób. l*, † 1. almennr (um trú — [»siðr« = trú]): *en er kristni var a.*, var almenn orðin. *2. algengr (að sið), altíðkaðr: *þá var a., að gestir heilsuðu og kvöddu með kossi*, var almennr siðr.

**al|skaraðr** *lm*, alveg skaraðr *(skara 1)*.

* al|skepi *kl,* alt sem skapað er, T. og e. r, 16.

* al|skeri *k,* torfljár með sínu þverskafti á hvorum enda, sá er sker torfuna í einni ristu. *And.* tvískeri (torfljár með þverskafti á öðrum enda, sá er sker torfuna lausa fyrst öðrum megin og síðan hinum megin).

* al|skínandi *lm,* hvervetna skínandi: *Lít ég sveima hæða-hyl | herinn a.,* um himinloftið sé ég sveima stjörnuherinn, sem hvervetna skín, Njóla.

* al|skinn *kl,* haft um bókband: *bundin í a.,* bundin að öllu leyti í skinn, þ. e. samfelt skinn á hornum, hliðum (spjöldum) og kili; *í a-i,* bundin í a., Klp. III, 48. Sbr. velskt band (s. v. »*velskr*«).

al|skipa (-aði) *ás,* skipa alveg eða hvervetna að mönnum, **I.** (um skip) manna alveg: *skúta a-uð,* fullmönnuð; *langskip a-ð.* **2.** *bekkr, pallr a-ðr,* **a.** (í lagamáli): skipaðr fullri, lögmæltri, tölu dómenda, Grág. **b.** svo (full)skipaðr mönnum, að fleiri komast eigi fyrir eða að maðr er í hverju sæti, alsetinn, Eg.

* al|skipa *a,* öllum skipum: *eru menn rónir a. um öll nes,* ÆBP, 100.

al|skír *l,* alveg hreinn, ómengaðr, flekklaus: *a. mær,* óflekkuð mær; *a-t silfr,* ómengað, hreint silfr.

† al|skíra *ás,* alhreinsa.

al|skjaldaðr *lm,* alsettr, alskaraðr, skjöldum (um skip).

† al|skotinn *lm,* sem hvervetna hefir skotið axi: *rúgakr a.,* Þiðr.

* al|skrafað *lm. kl,* almælt, altalað: *það er a., að . . .*

* al|skreyta *ás,* skreyta hvervetna e. allan: *borðin voru alskreytt blómum.*

al|skrifa *ás,* **I.** skrifa svo, að ekki komist meira á. * **2.** lúka við að skrifa: *Ertu kominn langt með reikninginn?— Hann er alskrifaðr,* skrifaðr til enda.

* al|skrýða *ás,* **I.** skrýða fullum skrúða: *kennilýðr gekk . . . móti líkinu alskrýddr,* í fullum skrúða, S.t.s.Í, I, 42; *alskrýddr prestr.* EspÁ, II, 112. **2.** allr skrautbúinn, algróinn: *fjallshlíðin var alskrýdd blómgresi margvíslegu.*

al|skygn *l,* **I.** heilskygn, alveg sjáandi. * **2.** alveg gljáandi. * **3.** sem sér alt, altsjáandi: *þú, drottinn guð minn, a. ert,* Sb. 11.; *a-i guð,* VPost, 120, 273.

* al|skýja *ób. l,* alþakinn skýjum: *himininn var orðinn a.,* Rób. 50.

* al|skýjaðr *lm,* = *alskýja.*

† al|skyldi *l,* = *alskyldr.*

alskyldr *l,* **I.** alveg skuldbundinn. **2.** slíkr, að maðr er skyldr til: *a-t er mér að gera bón þína,* full skylda mín er . . .

al|skær *l,* alveg skær, allr skær, ÆTh, 66.

* al|sléttr *l,* alveg sléttr: *a-ar graslendur,* Grœnl. 26.

† al|slíkr *l,* alveg sá sami.

* al|slitinn *lm,* alveg slitinn.

al|smíða *ás,* smíða að fullu.

○ al|smiðr *k,* skapari: *a. verka,* Milt. 130; *a. þíns upphafs,* Milt. 403.

al|snauðr *l,* svo snauðr að hann er alveg öreigi.

* al|snjóa *óás,* snjóa svo alveg hvítni (ekki að eins gráni): *hér a-aði niðr í sjó í gær; það a-aði niðr í bygð* (ɔ: ekki að eins í fjöll).

* al|snjóa *ób. l,* alveg snjó þakinn: *það var a.,* jörðin var öll undir snjó, Ið. I, 211.

† al|snotr *l,* **I.** alvís, Hávam. **2.** mjög kœnn, ráðsnjall, úrræðagóðr, Þrkv.

× **alsolla**, rangmæli e. afbögun í st. f.: á als oddi: *leika a.*, Sch.

† **al|sóttr** *lm*, fullfarinn: *var skógrinn mjök a.*, var því nær (»mjök«) komið í gegn um skóginn, leiðin um sk. nær á enda.

**al|spakr** *l*, alvitr (3), sem veit ávalt hvað réttast er og bezt gegnir.

* **al|speki** *kv*, það að vera alspakr.

* **al|sprunginn** *lm*, sprunginn að öllu leyti: *blómið a-ið út.*

* **al staðar** *a*, hvervetna. — Sams.: * **alstaðar-nálægð** *kv*, sá eiginleiki (guðs) að vera *****-nálægr** *l*, hvervetna nálægr, Ldb. I, III, 6.

* **al|stirndr** *lm*, alsettr stjörnum: *ó þú gríma, njóla, nótt, | nótt um loft alstirnda*, Njóla; *a. himinn*, Vgl. 28.

† **al|stórmannlegr** *l*, stórmannlegr í öllu, að öllu leyti.

† **ál|strengr** *k*, (ál = ól) ólarstrengr, ólarreipi.

**al|stýfðr** *l*, † **1.** sé síðasta samstafa í vísuorði hending e. rímuð samstafa, var það kallað stýft; sé svo í hverju vísuorði erindis, er sá háttr nefndr *alstýft*. **2.** *alstýft*, sauðfjármark: eyrað stýft af niðr við hlust. *Sn.* hluststýft, afeyrt. Sjá *fjármark* (myndirnar).

**al|stýfingr** *k*, † **1.** dýr, sem eyrun eru stýfð af. *Sn.* afeyringr; sauðkind mörkuð því marki, Grág. * **2.** markið sjalft (alstýft): *a-ar eru fyrirboðnir, og skyldir þú ei gera þig grunsaman með að brúka þá*, Atli, 135.

† **alstýfinga-mark** *kl*, alstýft, alstýfingr (2).

○ **al stýrir** *k*, stjórnandi alls (guðskenning), Milt. 226.

**al|svartr** *l*, allr e. alveg svartr.

**al sveittr** *l*, allr sveittr.

† **al sveitugr** *l*, sama.

† **al sviðr** = † **al svinnr** *l*, = *alsnotr*.

**al|sykn** *l*, alveg saklaus, alveg borinn undan sök (sbr. *sykn*).

**al|sýkn** *l*, allr virkr, alvirkr (dagr). *And.:* nónheilagr.

* **al|sykna** **(-aði)** *ás*, dœma alveg syknan saka.

**al|sykna** *kv*, algerð fríun við alla refsing.

* **alsýra** *ás*, leysa sundr (jarn): *alsýrt jarn*, G. & A. II, 91.

* **al|sæla** *kv*, algerð, fullkomin sæla, fallsæla: *Hér hefi eg verið öld frá öld | með a-unnar lyklavöld*, GíTh, 67.

**al|sæll** *l*, algerlega sæll.

**al sætt** *kv*, = *alsátt*.

**al|sætti** *kl*, án *flt*, = *alsátt: það varð a. milli þeirra.*

* **altaðeina** *a*, =

* **alt-að-einu** *a*, **1.** alveg eins: *það fór a. og áðr*, alveg eins og áðr; (nálega sem ób. l.): *tveir vettlingar a.*, alveg líkir; *a. bók eins og mín; mig gildir a.*, mér er alveg sama. **2.** engu að síðr, þrátt fyrir það, samt sem áðr: *vaxi bolgan a., verðr að gefa fœrleiknum 2 lóð af . . . saltpétri*, JHj.Dýr. 6; *og munum vér hætta til a.*

* **al|talað** *lm. kl*, almælt, alsagt: *það var a*, alment sagt, Skír. X, 14.

* **al|taminn** *lm*, taminn að fullu: *a. foli.*

* **al|tamr** *l*, **1.** sem maðr hefir tamið sér, iðkað: *mér er það a-t*, ég er leikinn í því. **2.** alltíðkanlegr, algengr: *ég held það sé a-t að heyra það.*

† **altara** *kl*, = *altari*. — Sams.: **altara-blæja. -klæði. -steinn.**

† **altari** *k*, =

**altari** *kl*, **1.** blótstallr sem fórnað er á. **2.** (í kristnum kirkjum) kvöldmáltíðar-borðið: * *ganga til altaris* e.

*vera til a-s,* ganga til guðs-borðs, meðtaka heil. kvöldmáltíð í kirkjunni; * *standa fyrir a.,* tóna fyrir a-inu. — Sams.: **altaris-blæja,** = *altaris-dúkr* e. *altaris-klæði.* **-bók,** kirkjusiða-bók (»handbók presta«). ***-borð,** flötrinn á altarinu að ofan. **-brík,** altaris-tafla. **-búnaðr,** alt, sem heyrir til búnaði altarisins (kertastikur, kaleikr, klæði osfr.). †**-burðr,** offr á altari lagt, N. †**-dagr,** ársdagr, afmælisdagr, altaris-vígslu. Sbr. *kirkjudagr.* **-dúkr,** dúkr, sem breiddr er á altarið. †**-embætti,** = *-þjónusta.* †**-fórn, 1.** slátrfórn á altari. **2.** alment offr, sem lagt er á altari (peningar). ***-ganga,** sú athöfn að vera til altaris, Skír. XI, 39. ***-göngu-folk,** það folk, sem gengr til altaris: *það verðr margt a. á Sunnudaginn,* það verðr margt folk til altaris á Sd. **-golf,** golfið framan við altarið. **-horn,** horn(ið) á altari(nu). †**-hús,** kapella, bœnhús; stúka, sem altari er í. ***-kerti,** kerti á altari, BH. ***-klútr,** klútr, sem breiddr er yfir kaleikinn; þá er prestr tekr kaleikinn, heldr hann a.-num utan um hann, BH. **-klæði,** klæði, sem fest er á altarið að framan og til hliða, til að klæða það. **-líkneski,** líkneski á (e. yfir) altari (í kaþolskri kirkju). **-messa,** guðsþjónusta(n) fyrir altari(nu). ***-plata,** = *-stika.* †**-skrá,** = *-bók.* †**-staðr,** sá staðr, þar sem altari hafði staðið á, Eg. †**-steinn,** steinn, greyptr niðr í altaris-borðið; á honum stóð brauðið (og vinið), en undir var holt rúm, er helgir dómar vóru geymdir í. **-stika,** kertis-stika til að standa á altari. ***-stjaki,** = *-stika.* ***-tafla,** altaris-brík, brík upp af altarinu með mynd e. myndum, áðr stundum skorin, nú nær ávalt máluð. **-þjónusta,** sá hluti guðsþjónustunnar, sem fer fram fyrir altarinu.

* **alt-eins** *a,* alveg eins, alveg jafnt: *A. og blómstrið eina,* alveg á sama hátt; *a. góðr,* alveg jafn-góðr; *ég geri það a. fyrir því,* alt-að-einu fyrir því.

* **al|tekinn** *l,* alveg gagntekinn (af e-m sjúkdómi): *a. af köldusótt; heimrinn var a. af gullsótt,* Ið. II, 1.

⊤ **altélegr,** ⊤ **altérlegr,** AF, = *altillegr.*

* **alténd,** = *altjend.*

* **al|tendra** *ás,* tendra hvervetna, JÞ. II, 354.

† **altera** *kl,* = *altari.*

⊤ **altérlegr** *l,* = *altillegr.*

† **al|tíð** *kv,* **1.** sá dagr árs, er árlegar sálumessur skyldi halda fyrir framliðnum manni *(anniversarium).* **2.** sálumessurnar sjalfar, er þann dag voru sungnar eða lesnar. *Sn.:* ártíð, jafnlengd. — † Sams.: **altíðar-dagr. -hald. altíða-bók,** bók, er í voru skráðir altíða-dagar þeirra er árlega skyldi sálumessur fyrir syngja. **-hald. -kaup,** borgun fyrir a-hald. **-kerti,** vaxkerti, er á logaði við a-hald.

* **al|tíðka (-aði)** *ás,* tíðka alment: *viðarkolagerð má heita hætt síðan farið var að a. Torfa-ljáina;* lm. *a-ðr,* höfð sem *l.*

* **altíðkanlegr** *l,* altíðkaðr, alvanalegr.

* **al tíðr** *l,* alvanalegr, altíðkanlegr, LFR, V, 266.

**altilegr** og * **altillegr** *l,* (fyrir: *altíðlegr,* af *tíðr,* = ljúfr, kær, sbr. *hvártveggi þeirra . . . var tíðr alþýðu,* Post. 172.); vingjarnlegr, viðmótsþýðr; blátt áfram, látlaus: *a. og glaðlyndr,* þýðr og glaðl.; *viðfeldinn og a.,* Þús. I, 61.; *stýllinn . . . viðhafnarlaus, óflókinn og a.,* blátt áfram, látlaus.

* **al|tízka** *kv,* almenn tízka.

* **altízku-blær** *k*, svipr almennrar tízku, útlit e. einkenni þess sem alvanalegt er, MillFr. 137.

* **alt-jafnt** *a*, = *altjent*, Ósv. 28, 70.

**al|tjalda (-aði)** *ás*, tjalda alveg, hengja tjöldum: *skáli altjaldaðr*.

* **alt jemt** *a*, (= altjamt = altjafnt) ávalt, jafnan, ævinlega.

* **alt jend** *a*, = *altjemt*.

* **alt|jent** *a*, = *altjemt*.

* **alt|sigrandi** *lm*, sem sigrar alt, Stoll.

* **alt|sjáandi** *lm*, sem alt sér: *guðs a. auga*.

* **alt|vitandi** *lm*, alvís, Stoll.

* **al|týndr** *lm*, alglataðr, Klopst. I, 21.

* **al|tyrfi** *kl*, það að hey er altyrft sköruðu torfi. *And.* lykkjutyrfi, LFR, VI, 68.

* **altœkr** *l*, sem tekr yfir alt, fortakslaus, skilyrðislaus: *Orðin . . . eru svo altæk (absolute), að engin sprœna verðr undanskilin*, Þjóð. *'81*, 71 b.

**alúð** *kv*, (f. alhugð), **1.** allr áhugi: *leggja a. á e-ð* e. *við e-ð*, leggja alla stund á; *stunda nám sitt með a.*, áhuga, kostgæfni; *Bj. spyrr tíðinda heldr tómlega af engri a.*, heldr tómlega og lét sér lítt ant um, BHít. * **2.** vinsemd í viðmóti, einlægni: *hann sýndi mér jafnan mikla a.*, var mér jafnan vingjarnlegr. † **3.** ást, vinsemd: *sakir gæzku . . . ok alúðar, er guð hafði á Abraham*, ástar; *gaf mér hringinn með mikilli a.*, vinsemd; *veita e-m, taka við e-m með a*, vinsemd, gestrisni. — Sams.: * **alúðar-bréf**, ástúðlegt, einlægt br. ***-fullr**, fullr alúðar. ***-fylgi**, einlægt, áhugasamt fylgi. ***-greiði**, MT, II, 122. ***-kveðja**, hjartanleg kv., vinarkveðja, hlý kveðja. † **-maðr**, einlægr vinr. * **-mikill** (við e-ð), ástundunarsamr. ***-viðtökur** *kv. flt*, hlýjar viðtökur, gestrisnar viðt. **-vinr**, einlægr vinr. ***-þökk**, einlæg, hlý, þökk.

* **alúðlegr** *l*, vingjarnlegr, hlýr.

† **alugaðr** *l*, = *alhugaðr*.

* **alullaðr** *l*, í allri ull: órúinn: *a. sauðr*, Klp. VIII, 178.

* § **álún** *kl*, jarðsalt af brennisteinssúrri leirjörð og brennisteinssúru lútsalti. — * Sams.: **álún-jörð**, kísilsúr leirjörð með bikkendum efnum í og brennisteinskís. — **álúns-vatn**, vatn, sem álún hefir verið leyst sundr í, Klp. I, 124.

* § **álúna (-aði)** *ás*, láta verða fyrir áhrifum álúns: *á. skinn, álúnaðr dúkr*.

**álútr** *l*, með höfuð og kropp beygt fram á við. (Sbr. *niðrlútr* = sem hefir höfuðið, en ekki kroppinn, beygt niðr á við).

* **alvakandi** *lm*, glaðvakandi, alveg vakandi.

* **alvakna (-aði)** *óás*, vakna til fulls.

**alvaldr**[1] *k*, (fyrir *all-valdr)*, konungr, stjórnandi, þjóð-höfðingi.

* **alvaldr**[2] *l*, **1.** almáttugr: *guð a.*, almáttugr guð, guð allsvaldandi. **2.** sem ræðr öllu: *hann var a. í stjórn félagsins meðan hann lifði*.

* **alvaldr**[3] *k*, **1.** guð: *a., a. æ sé þér vörn*, JTh. ♂ **2.** alræðismaðr. — Sams.: **alvalds-ráð** *kl. flt*, alræði, Ið. VII, 9.

* **alvanaðr**[1] *lm*, alveg geltr. *And.* eineista (laungraðr).

* **alvanaðr**[2] *lm*, altíðkaðr, Vgl. 106.

* **al|vanalegr** *l*, alment tíðkaðr.

* **al|vandi** *k*, =

* **al|vani** *k*, almenn venja, Johns. 186.

* **al|vanr** *l*, **1.** þaulvanr, leikinn: *a. sjómaðr*, þaulvanr; *a. glímumaðr*, leikinn. **2.** kl. *alvant*, = altítt: *hér er a-t að kuli af landi með kvöldinu*.

† **alvápnaðr**, sjá: *alvopnaðr*.

**alvara** (ef. **alvöru**, án *flt.*), **1.** einlægr hugr, einlæg skoðun, fullr ásetningr: *segja e-ð í alvöru*, s. e-ð spauglaust, í einlægni; *honum er a. með þetta fyrirtæki*, hann er fullráðinn í þ. f.; *það er ekki a. hans*, hann meinar það ekki; * *skyldi hann gera alvöru úr að rigna?* skyldi verða nokkuð af rigningu? * *nú fer að hvessa fyrir alvöru*, að marki, svo að um munar; *öllu gamni fylgir nokkur a.* *And.*: gaman, glens, látalæti, fyrirsláttr, hégómi. **2.** e-ð, sem er mjög ísjárvert eða geigvænlegt, mjög íhugunarvert: *hann talaði til hans af mikilli alvöru*, mjög eftirtektarverðum orðum; *a. dauðans hvílir yfir oss á þessari stund*, geigvæni dauðans. † **3.** stöðugr vani: *var þat mjök a. veðurfalls at liggja í landnorðri.* † **4.** alúð, velvild, kærleiki: *hvorugir lögðu fulla a-u til annarra*, alúð, einlægni; *elskuleg a. til e-s*, ástúðleg velvild; *er öll hans a. til Ólafs konungs*, allr kærleikr hans stendr til Ó. k. — Sams.: **alvöru-**, sjá stafrófsröð.

**alvarlegr** *l*, **1.** sem felr í sér, er sprottinn af, hefir til að bera, alvöru (1. e. 2.): *a. ásetningr*, einlægr; *alvarleg áminning*, íhugunarverð; *a-g rigning*, rign. að marki; *a. stormr*, geigvænlegr; *a-g stund*, stund þrungin a-u (2); *a, a-a talað*, talað í alvöru (*and.* í gamni e. spaugi). † **2.** ástúðlegr: *a-g vinátta.* † **3.** *a, a-a*, fullkomlega: *syndi sik a-a hreinan.* † **4.** *a*, alúðlega, hlýlega: *fagna a-a*, Grett.

† **al|vasklegr** *l*, algerlega hreystilegr, hugrekkislegr.

† **alvátr** *l*, alvotr.

**al|vaxinn** *lm*, fullvaxinn.

* **al|vefja** *ás*, vefja algerlega; *lh. þt.*: *alvafinn*, allr vafinn.

* **alveldi** *kl*, **1.** veldi, sem tekr yfir alt, JÞ. I, 198. **2.** fullveldi *(sovereignty)*, TB, VII, 169. **3.** ⊥ lögbundin, en ekki þingbundin einvaldssjórn, Fróði, *'85*, 367. **4.** alveg ótakmörkuð einvaldsstjórn.

* **alveldis|stjórn** *kv*, = *alveldi* (4).

* **al venja** *kv*, = *alvani*.

* **alvenjulegr** *l*, = *alvanalegr*.

⊤ **alvepni** *kl*, = *alvæpni*.

† **alverki** *l*, **alverkja** *ób. l*, altekinn af verk, kennandi verkjar um allan skrokkinn.

* **al|verpa** (**-varp**, ***-verpti**; **-orpið**, ***-verpt**) *s*, verpa (eggjum) að fullu (það e. það ár): *lundinn hefir alorpið, þá er 6 vikur eru af sumri*, lokið varpi, er hættr að verpa, Sch.

* **alviðra** *kv*, mildr blær úr öllum (ýmsum) áttum, BH.

* **alviðrulegr** *l*, mjúklátlegr, vinalegr.

**alvirkr** *l*, alsýkn (dagr), um dag, sem vinna má öll verk á allan daginn, er hvorki helgidagr né nónheilagr né heilagr frá miðaftni.

**alvís** *l*, † **1.** vitaðr með fullri vissu; kl. et. *alvíst* höfð sem *a*, með fullri vissu. * **2.** sem veit alt: *guð er a. og veit alt í einu*, Ldb. I, III, 4.

△ **alvísis dómr** *k*, dómr alvizkunnar, JÞ. II, 317.

* **al|vista** *ób. l*, alvisnaðr, almáttlaus í kroppnum eftir slag, BH. *And.* halfvista.

* **alvista** *kv*, alvisnun, LFR, IX, 189.

* **alvita** *ób. l*, með öllu ráði, með allan (öllum) mjalla, Þjóð. IX, 141.

**al vitr** *l*, † **1.** fyllilega vitr: *hvárki þú né . . . má a. vera, nema hann skili þat . . .*, Post.; *alvitrastr*, Sturl. * **2.**

sem veit alt, alvís (alg.). 3. (í guðfr.) alspakr, sem veit jafnan hvað réttast er og bezt hentar: *guð er a. og hefir ætlið þann bezta tilgang . . . og velr líka jafnan beztu meðul til að koma honum fram*, Ldb. I, III, 5; Salmb. 8, 4 (sbr. 2).

*** alvizka** *kv*, sá eiginleiki að vita alt; alspeki, alger vísdómr: *alvizkan hún er svo viss, | er alda stýrir knörnum, | að ei þarf kasta útbyrðis | endurleystum börnum*, Njóla.

○ **al|voldugr** *l*, = almáttugr.

**alvopnaðr** *l*, sem er með öllum vopnum, í fullri herneskju, með alvæpni.

**al|votr** *l*, allr votr.

*** al|vængjaðr** *l*, með fullvöxnum vængjum, LFR, XI, 280.

† **al|vænn** *l*, að öllu leyti fríðr.

**alvæpni** *kl*, allr vopnabúnaðr, vopn og herklæði: *hafa a.; með a.*

† **alværð** *kv*, gestrisni.

† **alværlega** *a*, með gestrisni, gestrisnislega.

*** alvöru|bragð** *kl*, alvörusvipr.

*** alvöru|bragr** *k*, alvörumót, alvörusnið.

*** alvöru|fullr** *l*, fullr alvöru.

*** alvöru|gefinn** *l*, alvarlegr, gefinn fyrir alvöru.

*** alvöru|gefni** *kv*, það að vera alvörugefinn.

*** alvöru|laus** *l*, sem engin alvara er í e. fylgir: *a-t spaug*, Johns. 165.

† **alvöru|legr** *l*, = *alvarlegr*.

*** alvöru|leysi** *kl*, skortr alvöru; skeytingarleysi, Skír. 1856, 41.

*** alvöru|lítill** *l*, sem lítil alvara er í. *Sn.* alvörusmár. *And.* alvörumikill.

*** alvöru|maðr** *k*, alvörugefinn maðr.

*** alvöru|mikill** *l*, mjög alvarlegr. *And.* alvörulítill, alvörusmár.

*** alvöru|mót** *kl*, alvörubragð, alvörusvipr; alvöruvottr: *sjá a. á e-m e. e-u.*

† **alvöru|samlegr** *l*, = *alvarlegr*.

*** alvöru|sjón** *kv*, alvarleg sjón.

*** alvöru|smár** *l*, = *alvörulítill*.

*** alvöru|snauðr** *l*, sneyddr alvöru, alvörulaus.

*** alvöru|snið** *kl*, alvörumót.

*** alvöru|stund** *kv*, alvarleg stund.

*** alvöru|svipr** *k*, alvarlegt yfirbragð, alvörubragð; alvörumót, alvörusnið; alvöruvottr.

*** alvöru|tal** *kl*, alvarlegt tal: *þeir áttu langt a. saman*, töluðu lengi saman í mikilli alvöru; *heldr þú það í a-i?* heldr þú það, spauglaust sagt?

*** alvöru|vottr** *k*, vottr til alvöru; vottr um alvöru: *það er ekki nokkur a. í því sem hann segir*, vottar ekki fyrir neinni alvöru; *þetta er ekki mikill a.*, ekki vottr um mikla alvöru, ekki mikill vottr um, að (honum) sé alvara.

*** alvöru|þrunginn** *l*, þrunginn, fullr, gagntekinn af, alvöru.

**álygi** *kv*, það sem (e. það að) logið er á e-u.

† **á-lykkja** *kv*, lykkjan í fremri helming bókstafsins **a**; fornu stafirnir ǫ og ę eru **e** og **o** með á-lykkju, SnE, II. 52.

**álykt** *kv*, egl. það sem gerir lykt e. endi á e-u; **1.** úrslit; † **a.** fullnaðarákvörðun; † **b.** dómr, úrskurðr; † **c.** greiðsla skuldar? EJO. ***2.** endalok, lyktir. — Sams.: **ályktar-áminning**, síðasta ám., fullnaðar-ám. †**-dómr**, fullnaðar-dómr. ***-eiðr**, eiðr, sem úrslitum ræðr, Tiro, 255. **-orð**, niðrlags-orð (ræðu). †**-stefna**, síðasta stefna, fullnaðar-st. ***-umræða**, 3. (síðasta) umræða (hvers) máls á þingi (svo nefnd einlægt á ráðgjafarþingunum, t. d. al-

þingi fram að 1875, stéttaþingunum dönsku osfr.), FFH, 1842:85; Alþt. 1843—73 *passim*. †-**vitni**, vitnisburðr, er úrslitum ræðr, Gþl. 476, N. — **álykta-þing**, = *fylkisþing(?), leið(arþing)(?)*, N.

* **álykta (-aði)** *ás*, **1.** ráða, draga, e-ð af e-u: *af því, hve magr uppáhaldsreiðhestrinn hans var, á-aði ég, að hann mundi vera orðinn heylítill.* **2.** ákveða: *þá var á-að að senda menn* ..., samþykt, fastráðið; *hann á-aði að eiga ekki meira við það*, ákvað, réð með sér, ásetti sér, fastréð.

**ályktun** *kv*, **1.** (fullnaðar)-úrskurðr: *á. mín skal af því sú, | að þið systurnar, hún og þú, | seljist í sama bandi*, JÞ. * **2.** það að álykta (1.) e. það sem ályktað er: *það er röng á.*, það er skakt ályktað (1.). * **3.** samþykt: *sú á. var gerð á þingi, að* ... — Sams.: * **ályktunar-form**, form ályktunar. *-**fræði**, ⊥ **1.** hugsunarfræði, StbReg. XXXII. **2.** sá hluti hugsunarfræðinnar, sem hljóðar um ályktanir (2).

* **al|yrkr** *l*, = *alvirkr*.

* **alþá**, *?*, óvissa(?), óvíst(?), »AM«, Sch.

* **al|þáinn**, *lh*, alþiðnaðr, StÓ, 131.

* **al|þakinn** *lh.* af *alþekja;* einnig haft sem *l.* krökr: *þar er a-ið af fugli*, LFR, II, 176.

⊤ **al|þaktr** *lm*, = *alþakinn*, Milt. 36.

* **al|þekja (-þakti; -þakinn)** *ás*, þekja alveg: *þeir alþöktu heyið með torfi; hann alþakti húsið á einum degi*, lagði alt þakið á; *a. fiskstakk með seglum*, þekja allan fiskstakkinn.

* **al|þektr** *lm*, alkunnr.

* **al|þer|ra (-ði)** *ás*, þurka að fullu.

* **al|þesslegr** *l*, alveg líklegr fyrir það, líkl. til þess.

* **al|þéttr** *l*, alveg þéttr: *tunnan er a.*, alveg vatnsheld.

* **alþíða (-þíddi)** *ás*, leysa, bræða, alveg ís e. frosna hluti: *alþítt af glugganum frostið*, JÓLj², 65.

† **alþildr** *lh* af

**al|þilja (-†þildi, *-þiljaði; †-þildr e. -þilinn, *-þiljaðr)** *ás*, þilja alveg; (lh. *alþiljaðr*, Sturl. í gml. útg.; í skinnhdr. stendr: *alþilðr)*.

* **alþing (-is)** *kl*, stytt nefnifalls og þolfalls mynd (hin föllin óbr.) í stað eldri (og enn jafnframt tíðkuðu) myndarinnar:

**alþingi** *kl*, **1.** nafn á löggjafarþingi Íslands, er stofnað var um 930. Eftir að Noregs-konungar náðu Íslandi undir sitt vald, 1262—1264, fór þinginu smáhnignandi, og loks varð það ekki annað en yfirdómr (œðsta dómsvald var komið í hendr konungs), og 1800 var það af numið með öllu. * **2.** nafn á ráðgjafarþingi Íslands í Reykjavík, er Kristján konungr 8. stofnaði, stóð 1843 til 1873. * **3.** nafn á löggjafarþingi Íslands í sérmálum sínum samkv. stjórnarskrá Ísl. 4. Janúar 1874; kom fyrsta sinn saman 1875. Reglulegt a. er háð annaðhvert ár. Svo var og um a. (2); en a. (1) var háð árlega. * **4.** stundum (sjaldan) notað um löggjafarþing annara ríkja, t. d. OLfr. II, *3*, 342. — Sams.: * **alþingis-ályktun**, þingsályktun. *-**ár**, **a.** það ár, er þing er háð, þingár. **b.** ár, sem e-r er þingmaðr eða sitr á þingi: *-ár hans urðu aldrei nema 5.* *-**bók**, = *lögþingisbók* (s.þ.o.), gerðabók alþingis (lögþingisins — s. þ. o.) frá 1631(?). -**dómr**, **1.** dómr skipaðr á alþingi. **2.** dómr upp kveðinn (dœmdr) á alþingi. *-**fé**, fé (til þingkostnaðar), sem alþingi er einrátt yfir. *-**ferð**, ferð þingmanns til þings eða

af þingi, þingferð. ***-forseti**, forseti alþingis (2); forseti í efri e. neðri deild alþingis (3) e. sameinuðu þingi (s.þ.o.) ***-frumvarp**, frv. borið upp á alþingi. ***-fundr**, fundr alþingis, þingfundr. **-för**, = *-ferð*. ***-gerðabók**, bók, sem í er skráð yfirlit þess sem gerist á þinginu, e. k. dagbók alþingis, nú egl. þrjár bækr: gerðabók efri deildar alþingis, neðri deildar, og sameinaðs þings. **-helgun**, setning alþingis forna, Ldn.; OLfr. I, 205. ***-hús**, hús það í Reykjavík, er reist er fyrir alþingi (1881). ***-kosning**, kosning alþingismanns e. alþ.manna. ***-kostnaðr**, gjöld þau er alþingi hefir í för með sér. ***-laus**, sem er án alþingis: *Ísland getr ekki verið a-t*, ÞrR, 94. †**-lof**, leyfi alþingis, Grág. ***-lög** *kl. flt*, lög er alþ. hefir samþykt (áðr en þau eru staðfest og verða landslög). ***-maðr**, maðr, sem er þjóðfulltrúi á alþingi: *þjóðkjörinn a.*, a-m. kosinn af kjósendum; *konungkjörinn a.*, a-m. kvaddr til þingsetu af konungi. ***-manna-tal**, skrá yfir þá menn sem eru e. hafa verið alþingismenn. **-mál**, † **a.** þingsköp alþingis ins forna. * **b.** málefni, sem alþingi hefir til meðferðar; mál, sem rétt er að alþingi fjalli um. ***-menska**, það að vera alþingismaðr; framkoma alþingismanns, þingstarf hans: *segja af sér a-u*, Fr. *'78*, 8; *a-a hans var aldrei mikils virði*. **-nefna, a.** það að tilnefna e. réttr til að nefna menn til að sitja í lögréttu og í dómi á alþingi forna. **b.** tilnefning alþingismanna (af konungs hendi) á alþingi (2), FfH, *'42*, 74. ***-nefnd**, nefnd alþingismanna kosin af alþingi (nú af annarihvorri þingdeild e. sameinuðu alþ.). *a* **-ráð**, bandaþing Bandaríkjanna í N.-Am. e. efri málstofa þess, OLfr. II, *3*, 342. **-reið**, reið til alþingis, þingreið. ***-ræða**, ræða haldin á alþingi. ***-samþykt**, samþykt, er gerð var á alþingi (eftir að Ísland gekk konungi á hönd) og hafði lagagildi. †**-sátt**, sátt, er gerð var á alþingi. **-sáttarhald**, það að halda alþingissátt eða það, hvernig hún er haldin. †**-sekt**, sektardómr á alþingi forna. ***-seta**, það að eiga sæti á alþ., TN, II, 14. ***-skjal**, þingskjal, skjal sem lagt er fram á þingi (og birt í Alþ.tíðindunum). ***-skrifari, a.** alþingismaðr, sem kosinn er af þingdeild e. sam. þingi, til að annast skrásetning þess er gerist á þingi; þeir eru 2 í hvorri deild og 2 í sam. þingi; annar annast gerðabókina, en hinn málabókina e. mála-skrána, en báðir telja atkvæði. **b.** utanþingsmaðr (ekki þingmaðr), er hefir á hendi skriftir fyrir þingið; skrifa sumir upp ræður þingmanna, aðrir annast störf á skrifstofu alþingis (hreinritun gerðabóka, bréf og tilkynningar, hreinritun laga osfr.). ***-skrifstofa**, skrifstofa alþingis (sbr. *-skrifari* **b**). ***-slit**, þingslit (s. þ. o.). ***-staðr**, sá staðr þar sem alþingi er e. var haldið. ***-sumar**, sumar það ár, er alþingi er háð. ***-sæti**, sæti (seturéttr) á alþingi: *a. er autt*, óskipað, FfH, *'42*, 67. ***-tími**, tíminn meðan alþ. stendr yfir, þingtími. ***-tollr**, sérstakr skattr, er lagðr var á, þá er ráðgj. alþingi var stofnað, til að bera kostnaðinn af alþingi (síðar afnuminn). ***-úrskurðr**, úrskurðr alþingis, LFR, XIV, 91. ***-vitni**, vitni e. vitnisburðr á alþingi, LFR, XIV, 91, 92.

† **alþingis** *a*, öldungis, N.

**al|þjóð** *kv*, † **1.** alþýða, almenningr. * **2.** allir menn: *það er á a-ar vitorði*,

allra manna vitorði. — Sams.: ***al-þjóðar-gagn**, almennings-gagn. ***-mál**, mál, sem alla þjóðina varðar. — **alþjóða-félag**, félag, sem tekr til allra (e. flestallra) þjóða e. manna af öllum þjóðum *(international)*. ***-friðr**, friðr meðal allra þjóða. **-fundr**, fundr manna frá öllum þjóðum. ***-lög**, lögmál, sem gildir milli (flest)allra þjóða, þjóða-réttr. ***-mót**, = *-fundr*. ***-póst-samband**, samband e. félagsskapr, sem öll ríki og lönd, þau er hafa skipulegar póstferðir, hafa komið á sín á meðal *(union postale internationale)* um sameiginlegt burðargjald o. fl. ***-regla, a.** regla, sem allar þjóðir fylgja e. viðrkenna. **b.** regla (siðferðisl. félag), sem menn af mörgum þjóðum eru í eða hefir útbreiðslu meðal margra (flestra) þjóða: *Góðtemplarareglan er a-r.* ***-réttr**, = *-lög*. ***-samband, a.** samband e. félagsskapr allra þjóða í einhverjum tilgangi (t. d. póstsambandið). **b.** félagsskapr manna e. samtök félaga meðal allra þjóða: *Karl Marx kom jafnaðarvinum í það a., sem nefnist Internationale*, Skír. '87, 14. **c.** nafn á alþjóðafélagi lögjafnaðarmanna: *erindrekar ... A-sins (Internationale)*, Skír. '79, 55. ***-samtök**, *kl. flt*, samtök milli (flest)allra þjóða. ***-skrifstofa**, skrifstofa, sem alþjóða-félagsskapr e. alþjóðasamband heldr í sínar þarfir: *til a-unnar í Bern*, Alþ.tíð. 1909, A, 1191 (fjárl. 13. gr. D, VII). ***-stofnun**, stofnun, er margar e. allar þjóðir eiga þátt í, t. d. friðardómrinn í Haag. ***-sýning**, sýning muna (listaverka, mannvirkja, afurða osfr.), sem allar þjóðir eiga kost á að taka þátt í. ***-þing**, þing (fundr, mót), sem fulltrúar allra þjóða mæta á eða eru kvaddir til, t. d. friðarþingin í Haag.

***alþjóðlegr** *l*, **1.** ríkis- (sjh.): *á a-an kostnað*, TN. II, 96; PM.Ág. 22. **2.** sem geðjast alþýðu, er við alþýðu skap e. hœfi. **3.** sem varðar allan almenning e. þjóðina: *a-t fyrirtœki*.

† **al|þjokkr** *l*, = *alþykkr*.

***al|þorna** *óás*, verða alveg þurr.

***al|þráðr** *lm*, alment þráðr.

***al|þreyðr** *lm*, = *alþráðr*, LFR, X, 127.

***al|þroska** *ób. l*, fullvaxinn, sem náð hefir fullum þroska, Hom. Od. V, 5.

***al|þroskaðr** *lm*, alþroska.

***al|þurka** *ás*, þurka til fulls.

***al|þurr** *l*, alveg þurr: *a. mýri*, LFR, II, 38.

***al|þýða (-þýddi)** *ás*, þýða alveg: *a. bók á 3 vikum*.

**alþýða** *kv*, † **1.** alþjóð (2.), allir menn; öll þjóðin: *alþýðu upprisudagr*, dómsdagr; *bauð a-u ríkis síns*, öllum mönnum í sínu ríki. † **2.** allr þorri manna: *fest ok játat af allri a-u*. **3.** almúgi, *andst.* þeim er á einhvern hátt (að valdi, atgervi osfr.) bera af öðrum mönnum: *ánauð ok úfrelsi gekk yfir folk alt, bæði ríka* [ɔ: volduga] *menn ok a-u; vera við a-u skap*, geðjast alþýðu; *a. manna*, allr þorri manna. — Sams.: sjá í stafrófsröð.

† **al|þýðast** *pms*, þýðast (e-n), laðast að e-m: *a. til e-s*

† **alþýði** *kl*, = *alþýða*, N.

† **alþýðis-folk** *kl*, = *alþýðufolk*. Bps.

**alþýðlegr** *l*, † **1.** menskr: *a. maðr*, menskr maðr. **2.** algengr, almennr: *a-t mál*, sundrlaust mál *(and.* skáldskapr); *a-g rœða*, algengt mál. **3.** vingjarnlegr, mjúkr, við alþýðu; sem er við alþýðu skap. **4.** sem er við alþýðu hœfi: *a-t rit*. **5.** *a.*, *a-a:* við al-

þýðu hœfi: *þessi bók er a-a rituð*, ljóslega, svo að alþýða geti skilið, eða svo að alþýðu getist að.

* **alþýðu-barn** *kl*, barn af alþýðu-stétt. ***-bók**, bók ætluð eða hent alþýðu. ***-bragr**, bragr, mót, snið, svipr alþýðu: *það er enginn a. á þessu*. †**-drykkja**, drykkju-boð, sem alþýða tekr þátt í. ***-folk**, folk af alþýðu-stétt, LFR, II, viii, 13, 238. ***-frœðsla**, uppfrœðsla alþýðu: *bæta a-una*, veita alþýðu betri frœðslu. ***-fulltrúi**, Árm. IV, 40. †**-gröftr**, legstaðr alþýðumanna: *jarðaðr með leikmönnum, þar sem a. var*, Mar. †**-hagr**, ríkið *(res publica)*, Sýnisb. 174, 345. ***-háskóli**, nafn á skólum, sem komu fyrst upp í Danmörk fyrir áhrif Grundtvigs um miðja 19. öld; þar er alþýðumönnum veitt frœðsla í móðurmáli, ættjarðar-sögu, oftast í alm. mannkynssögu og ýmsum fleiri námsgreinum; mest er kenslan munnleg (fremr en bókleg), með frásögn, upplestri, rœðum; aðaltilgangurinn að menta og að styrkja ættjarðarástina. Nú eru a-ar algengir um öll norðrlönd og jafnvel víðar. *a*-**hringr**, tiltekinn hluti alþýðu: *upplagið var of lítið fyrir þann a*, LFR, XII, iv. ***-hylli**, traust og velvild, sem e-r nýtr af alþýðu: *hann hafði mikla a. þau ár*. ***-kennari**, **1.** barnakennari. **2.** kennari við alþýðuskóla (2). ***-kennara-skóli**, skóli fyrir barnakennara(efni), Fjk. '*86*, 67. ***-kensla**, barnakensla; unglingakensla, Ið. VI, 223. ***-kona**, kona af alþýðustétt: *höfundrinn er sjalfmentuð a.* †**-leið**, alfaravegr, almanna-leið. ***-líf**, líf, lifnaðarháttr, alþýðu. ***-lof**, almennings-lof. ***-lýðr**, -folk, almenningr. ***-maðr**, maðr af alþýðu-stétt, almúgamaðr: *óbreyttr a.*, maðr, sem að mentun og kjörum er í engu frábreyttr alþýðu. **-mál**, † **1.** almannarómr. * **2.** mál(fœri) alþýðu. ***-mentun**, frœðsla, mentun e. mentunar-ástand alþýðu. ***-mót**, = *-bragr*. ***-piltr**, p. af alþýðu-stétt. †**-réttr**, réttr ríkisins, þjóðfélagsins. ***-rit**, rit ætlað alþýðu e. hentugt henni. ***-rómr**, = *almannarómr*, LFR, III, 164; VPost. II, 64. ***-skald**, **1.** skald af alþýðu-stétt, t. d. Bólu-Hjalmar, Sig. Breiðfjörð, e. Burns með Skotum. **2.** maðr, sem talinn er skald af alþýðu, en er að eins rímari e. leirskald. ***-skaldskapr**, **1.** þjóðsögur, ævintýr, þulur og þvíuml. **2.** vísur, kvæði og þvíuml. frá miðöldunum, t. d. Ólafr Liljurós, gátur rímaðar og þvíuml., er enginn veit höfund að. **-skap**, (e. öllu heldr í tveim orðum: alþýðu skap), geð alþýðu: *hann er ekki við a.*, almenningi geðjast ekki að honum, kann ekki, fellr ekki, við hann. ***-skóli**, **a.** barnaskóli. **b.** skóli fyrir eldri unglinga, ætlaðr alþýðumönnum til frekari almennrar mentunar heldr en barnaskólar veita (sjaldh.). ***-snið**, = *-bragr*. ***-stjórn**, lýðvalds-stjórn. *a*-**stjórnun**, lýðvalds-stjórn, LFR, I, 114. ***-stúlka**, st. af alþýðustétt. †**-tal**, tímareikningr alþýðu. *Sn.* almanna-tal. *And.* rímtal. ***-vald**, lýðvald. **-vápn**, sjá: *-vopn*. †**-vegr**, = *-leið*. ***-veldi**, lýðveldi. †**-virðing**, (réttara í tveim orðum). †**-vitni**, (rétt. í 2 orð.), vitnisburðr alþýðu. †**-vopn**, algengt vopn, er hver maðr notar. †**-þys**, almennr ys og þys.

**alþykkr** *l*, allr þykkr: *veðr var a-l*, sá hvergi heiðan himin.

* **álægja** *ób. l*, sem samrœðisfýsn er í (um meri, sem er »í látum«). Sbr.

blæsma (um á), yxna (um kú), breima (um kött), ræða (um gyltu).

**al|œstr** *l*, alveg (upp) œstr.

**álög** *kl. flt*, = *álag (10 b)*.

**álögur** *kv. flt*, sjá: *álaga*. — (NB. *á-lögur* = *álög (10 b)* er röng mynd).

**ama (-aði)** *s*, **1.** m. þgf. gera e-m ó-þægindi, mein, sorg: *eigi skulu þér a. Ruth*, meinast við R.; *hvað a-r þér nú?* hvað er nú þér til óþœginda? e. hvað hryggir þig nú? ***2.** *ópers.*, *það amar upp*, það styttir upp, léttir (rigningu), Sch. **3.** *pls*, **a.** *amast við e-n (* e-m)*, hafa horn í síðu e-s e. e-m, sýna e-m óvinsemd eða áreitni, til að losna við hann e. bœgja h-m frá sér: † *ömuðust lítt við hana*, sýndu h-i litla áreitni; *amast við bygð hans*; * *ég skal ekki a. við þér*. † **b.** hirða um, eiga við, gefa sig við: *ek skal eigi a. undan víkja*, hirða um, gera mér far um að víkja undan.

† **áma**[1] *kv*, tröllkona, Selk. 15.

* **áma**[2] *kv*, **1.** vesalingr, fáráðr (um e-n, sem maðr aumkar): *hann á bágt, áman, að vera úti í þessu (illviðri)*, veslingr, Sch. — Sbr. *kerlingar-áma*.

* **áma**[3] *kv*, stórt kerald: *ég vildi' þú værir orðin á. | og í þig komið síað skyr*, ÓIndr.

* **áma**[4] *kv*, heimakoma *(erysipelas)*. — Sams.: **ámu-sótt**, heimakoma, Sturl.

* **ama|frí** *l*, amalaus, JÞ, II, 531.

† ⊤ **ámága** N, = *almaga* = *ámálga (1)*.

† ⊤ **ámágan** N, *kv*, kæra.

† ⊤ **ámágalaus** N, *l*, óátalinn.

* ⊤ **amakoma** *kv*, ámusótt, heimakoma, LFR, IX, 220, 222.

* **ama|laus** *l*, mœðulaus, mótgangs-laus, GÍO.

* **amalegr** *l*, **1.** ógeðfeldr, mótdrœgr: *þetta er ekki a-t*, það er ekki margt að þessu. **2.** styggr í lund: *hann er a.*, það liggr illa á honum, hann er önugr eða úrillr í skapi.

† § **amalera** *ás*, glera, setja (ógagn-sæja) glerhúð á (e-ð).

**ámálga (-aði)** *ás*, † **1.** krefja e-s hóg-látlega. α **2.** skilgreina, kveða skýrt á um: *hversu miklar fésektir og refs-ingar vera skyldu á frœndsemis og mægða spjöllum, hórdómi og frillu-lífi, var ei svo skilmerkilega né fylli-lega á-að í vorum íslenzkum lögum*, Stóridómr. ***3.** ítreka tilmæli, minna á fyrri ummæli: *ég talaði þá um það og á-aði það oft síðar*, innti að því oft síðar.

† **ámalgaðalaus** *l*, =

† **ámálgalaus** *l*, óátalinn.

* **amasamr** *l*, **1.** styggr í lund, sjúk-lega viðkvæmr fyrir öllu, sem að er e. ógeðfelt er. **2.** meinþæginn, sem amast við öðrum.

* **amasemd** *kv*, Milt. 231, =

* **amasemi** *kv*, það að vera amasamr (1, 2.).

○ **ama|skúr** *k*, **e.** *kv*, sorgar skúr, tár: *a. vætir brœðra brár*, Skír. VIII, 108.

† § **amathysti** *k*, halfdýr gimsteinn svo nefndr *(amethystos)*.

**ámátlegr** *l*, tröllslegr, herfilegr, ógr-legr og hrikalegr: *á-g sjón*, herfileg; *á-t öskr*, hrikalegt, herfilegt.

† **ámátr** *l*, = *ámátlegr*.

* **ám|átt** *kv*, hrikaleg, herfileg, sjón: *voðaleg á. er þetta*, skelfileg ósjón.

† **ám|áttugr** *l*, = *ámátlegr*.

* **ambaga (-bögu; -bögur)** *kv*, **1.** röng mynd eða beyging á orði, rangmæli. Sem dœmi upp á ambögur má nefna: hneta f. hnot, hjörti f. hirti, lýsa e-u yfir f. lýsa yfir e-u, kljúfa (f. klífa = klifra) tvítugan hamarinn, mér (f. mig)

langar til, ég dreymi f. mig dreymir o. m. fl. þvíl. **2.** (fág.) maðr, sem er bögumæltr e. afbagar alt, sem hann fer með; sú merk. kemr fram í samsetn. hjá Páli skálda: ... *rækarls rassambagan,* | *sem orð óskælt* | *aldrei fær mælt,* Bragi I, *1,* 63. *ð* * **3.** amlóði, klaufi, BH. — (Sbr. »*afbaga*«). — * Sams.: **ambögu-legr** *l,* klunnalegr, amlóðalegr. **-skapr,** amlóðaháttr, klunnaskapr.

† **amban, ambana = ambun, ambuna** N, = *ömbun, ömbuna* = * *umbun,* * *umbuna.*

**ambátt (-ar; -ir)** *kv,* ófrjals kona, kona, sem er seld og keypt eða hernumin og höfð til þjónustu; sama um kvenmann sem *præll* um karlmann. (Samstofna við *embætti* = þjónusta, *embættismaðr* egl. = þjónn, *embætta* = þjóna, sbr. *embætta kýrnar* = þjóna kúnum, *Ꝥ amt* og *Ꝥ amtmaðr): præll eða a.,* Grág.; og af því að a-ir voru einatt hafðar fyrir frillur, þá er a. stundum haft í sömu merking sem frilla: *konungs a.,* konungs frilla. — Sams.: **ambáttar-barn. -dóttir. -legr** *l,* líkr ambátt. **-mót** *kl,* ambáttarsvipr. **-sonr.** † **ambátta-fang,** viðvaningsleg e. ómyndarleg átök e. sviftingar, Svarfd. 12. (15.) k.

**amboð** *kl.* (oftast í flt.), (jarðyrkju-) verkfœri (svo sem orf, rekur, hrífur, forkar, pálar osfr.). — Sams.: **amboðaskemma,** skemma, sem amboð eru geymd í, BH. ***-viðr,** viðr, sem er efni í amboð, OLfr. 158 (inng.).

* **ambr,** án flt. *kl,* **1.** raf (E. *amber).* **2.** fituefni, sem finst samrunnið olíu í hauskúpu búrhvalsins *(physeter macrocephalus),* en skilst frá og storknar, er dýrið deyr; fituefni þetta er á lat. nefnt *sperma ceti,* þ. e. sæði hvalsins, af því að menn hugðu áðr, að það væri sæðið úr karlhvalnum. Sbr. *hvalambr.*

* **ambraðr** *l,* úldnaðr: *a. hvalr,* Sch.

*a* § **ambróslegr** *l,* líkr guðafœðu: *a-g aldin,* Milt. 93.

† **ambætti** *kl,* N, = *embætti.*

**á meðal** *sto,* sjá: *meðal.*

**á meðan** *to.* og *a,* sjá: *meðan.*

† § **amendas|not (-notar; -netr)** *kv,* = *alamandr.*

*r* **amerískr** *l,* (amerískr f. amerikskr, eins og: grískr f. grikskr), sem tilheyrir Ameríku, er kendr við A., kynjaðr frá A., osfr., JÓ.

† § **ametta** *kv,* innri fatnaðr af prestsbúningi.

⊙ **ám|gerðr** *kv,* tröllkona, Selk.vís. 10. er.

**ami** *k,* **1.** storkun, stríð, mótgerð, mótgangr: *brögnum varð til ama fátt,* KJLj, 152; *hann gerir mér margt til ama.* **2.** geðstygð: *það er e-r a. í honum. Sn.* ömun.

**ami** *ób. l,* sem hefir ama af (með ef.): *alls ami verðr sá (er) öllum amar,* sá sem gerir öllum ama, hefir sjalfr ama af öllu, GÍO, 30.

† § **amia** *kv,* unnusta, kærasta (egl. vina).

**á milli, á millum** *sto,* sjá: *milli, millum.*

**á|minna** *ás,* **1.** minna á, ámálga e-ð við e-n, svo að hann muni það: *ég áminti hann um að koma við hjá þér.* **2.** veita e-m átölur, egl. minna e-n á skyldu sína: *hann áminti hann alvarlega fyrir þessa yfirsjón,* vítti.

* ⊤ **áminstr** *lm,* sjá í stafrófsröð.

**áminnilegr** *l,* † **1.** áminnandi, sem áminnir: *á-g rödd,* Thom. **2.** sem ekki gleymist, sem maðr man eftir: *hann*

*fékk á-a refsingu fyrir.* **3. -lega** *a,* ákaft: *að kalla á-a og sárgrætilega í neyðinni,* HE, ?, 33.

**áminning** *kv,* † **1.** minning: *góðrar áminningar,* sællar minningar. **2.** það sem minnir á e-ð ókomið, aðvörun, forboði: *var þó mörg á. áðr þessa lund fór; þetta slys hefði þó átt að vera honum á.,* varnaðr. **3.** það að minna(st) á: *vér mintum hann á, hvað tímanum liði, en sú á. varð árangrslaus; áðr menn urðu til á-ar við hann um þetta mál,* til að minna hann á þetta mál, minnast á þ. m. við hann. **4.** fortölur, átölur: *heilsusamlegar á-ar; veita e-m á-u,* víta, átelja e-n. † **5.** innblástr, hvöt: *fjandans á.,* Fms. VIII, 54. — Sams.: * **áminningar-bréf,** bréf með áminningu (4), LFR, IV, 31. †**-maðr,** maðr, sem áminnir. **-orð,** orð til áminningar. ***-rœða,** r. til áminningar (4), refsirœða. †**-vís|a,** minningarvísa: *yrkja á-ur um þau tíðindi.* †**-vitni,** vitnisburðr til áminningar: *á. guðlegra ritninga.*

* ⊤ **áminstr** *lm,* sem minst hefir verið á: *að fiskimenn legðu . . . lítinn skerf í á-an sjóð,* Ísaf. *'84:* 42b.

* **amla (-aði)** *óás,* **1.** rölta seint og sigakeppslega. **2.** *ás,* rogast með (a. e-m): *einum mátti Ásmundur | a. af mararskíði,* LBl. Fr. VI, 80. **3.** þrælka: *a. fyrir heimili sínu.*

* **amlóðast (-aðist)** *óás,* fara að, koma fram, eins og amlóði.

**Amlóði** *en, k,* nafn, er kemr fyrir í kenningu í SnE, sami maðr, er Saxo Grammaticus nefnir Amlethus, en úr honum hefir Shakspere gert Hamleth. — Af því nafni er dregið:

* **amlóði** *k,* fákœnn klaufi, rati; einfeldningr; halfviti: *skelfilegr a. er hann; þú ert mesti a.* — Sams.: * **amlóðaháttr,** aðferð, bragr, snið, atferli amlóða. * **-legr** *l,* líkr amlóða. * **-skapr,** einkunn e. atferli amlóða, vesalmannlegr klaufaskapr.

† **amlóðr (-s)** *k,* = *amlóði,* Háttal. Lofts ríka, 32.

**amma** (ef. **ömmu,** flt. **ömmur)** *kv,* föður móðir e. móður móðir. Sbr. *afi.* — Sams.: * **ömmu-bróðir.** ***-systir.**

† § **ammandal,** = *alamandr.*

*α* **ammór** *k,* = *afmor, amor,* ástaguðinn.

**ámót** *kl. flt,* (nú oftar: ármót), samruni tveggja áa; staðr, þar sem tvær ár mœtast.

* **ámóta** *ób. l.* og *a,* áþekkr, svipaðr, álíka: *hjalpar-taugin á að vera rétt á. og reipið,* Nacht. 55.; *þeir eru á. að aldri,* áþekkir; *hvortveggja er á. vel ger,* álíka.

**á móti** *sto,* sjá: *móti.*

**á móts við** *sto,* sjá: *mót.*

§ **ampli** *k,* † **1.** ker til að geyma í olíu, vatn e. annan lög: *lítil ker með vatn, þat er a. heitir,* Post. * **2.** ljósker með glerhjalmi, sem fellr niðr á kerstéttina, en þar innan í er ljósfœrið; helzt haft í anddyrum, e. einhverju horni í stofu.

† § **ampull** *k,* =

† § **ampulla** *kv,* =

† § **ampulli** *k,* =

† § **ampullr** *k,* = *ampli* (sbr. *ömpull).*

† **ámr** *l,* ryðrauðr, dökkr.

**amra (-aði)** *óás,* † **1.** veina. * **2.** nauða (um e-ð): *ég hefi nokkra stund a-að um þvílíkt,* nauðað um, þrátalað um, HE, III, 159.

**amstr** *kl,* † **1.** heystakkr, sáta. * **2.** ómak, erfiði. * **3.** vastr, umstang.

* **amstrast (-aðist)** *óás,* **1.** hafa, gera sér

ómak: *a. í e-u,* gera sér ómak fyrir e-u eða með e-ð. **2.** vastrast í, vasast í.

ꝗ **amt** (flt. **ömt**) *kl,* **1.** umboðsstjórnarumdœmi í Danmörku (18) og Noregi (20). **2.** á Íslandi 4 umboðsstjórnarumdœmi: 1. Suðr-amtið. 2. Vestr-amtið. 3. Norðr-amtið. 4. Austr-amtið. — Nú eru ömtin lögð niðr eftir að endrskoðaða stjórnarskráin 1903 komst í gildi.

ꝗ **amt|maðr** *k,* sá embættismaðr, er skipaðr er (hér á landi: var) yfir amt (s. þ. o.). Hér á landi var amtmaðr milliliðr milli sýslumanna í sínu amti og yfirstjórnar landsins.

ꝗ **amtmanns-embætti** *kl,* embætti amtmanns. **-setr,** aðsetrsstaðr amtmanns. **-skrifari,** skrifari amtmanns.

ꝗ **amts|ráð** [amts-, amms-] *kl,* e. k. nefnd, er samkv. tilsk. 4/5 '72 skyldi ásamt amtmanni stýra ýmsum málum, er áðr höfðu legið undir amtmann einan. Í því sátu fyrst, auk amtmanns, 2 menn kosnir af öllum sýslunefndum amtsins; síðar var það skipað einum fulltrúa úr hverri sýslu amtsins. Amtsráðin vóru þá gerð 4, Norðuramt og Austuramt urðu þá 2 ömt undir einum amtmanni. Eftir afnám amtmanna-embættanna var skipaðr 1 sýslumaðr í hverju amti til að vera formaðr ráðsins, en síðar vóru þau afnumin með öllu.

ꝗ **amtsráðs-fundr** *k,* fundr í amtsráðinu. **-maðr,** fulltrúi í amtsráði.

† **ámu|maðkr** *k,* = *ánamaðkr.*

* **ámuna** *a,* ámóta, viðlíka: *á. lengi,* ámóta lengi.

† **á|munr** *l,* áþekkr: *ámun augu,* áþekk, lík, augu.

* **ámunr** *k,* mismunr.

† **ámuns|aurar** *k. flt,* umframborgun, þokkabót.

**ámu|sótt** *kv,* heimakoma.

* **ámynt** *kl. l,* áþekt, ámóta, álíkt, Sírak, VI, 35 (Wais.).

* **á|mæla** *ás,* hallmæla: *á. e-m fyrir e-ð.*

**ámælandi** *k (lm),* maðr, sem ámælir (öðrum).

**ámæli** *kl,* **1.** last, hnjóðr: *hafa á. af e-u,* vera lagt e-ð til lýta. † **2.** tilkall, krafa.

* **ámælislaus** *l,* ólastaðr: *hann er á. af því,* h-m er ekki lagt það til lýta. — **ámælislaust** *a,* ekki vítavert, Harð.; Ölk.; 3 ritg. 90.

**ámælis-orð** *kl,* lítilsvirðandi orð. †**-samr** *l,* í *kl.: á-t mun þér verða,* margr mun leggja þér til ámælis. †**-skor,** *kv,* ?: *átta bera á.,* SnE, I, 532 (Svb.E. útg. 108). **-verðr** *l,* sem verðskuldar ámæli.

† **an**[1] *to,* = (heldr) *en,* (á eftir yfirstigi lýsiorða).

* **an**[2] *kl,* flan, gan: *hvaða an er í (á) honum?* hvað er hann að ana?

**án**[1] *sto,* með ef., † þgf. eða † þolf., fyrir utan: *ég má ekki án þess vera,* ekki vera fyrir utan það, mig má ekki vanta það; † *án hans ráði,* án hans ráðs; † *án alla flærð,* án allrar flærðar. Stundum er orðið, sem án stýrir, felt úr máli (undirskilið): *það er betra að hafa en án* [ɔ: þess] *að vera;* með nafnh.: *án* [ɔ: þess] *við löst at lifa.*

**Án**[2] *en,* karlmanns-nafn, t. d. Án bogsveigir, Án hrísmagi, en séríl. var sœnskr fornkonungr með því nafni; hann dó örvasa í elli. Af hans nafni er: *ána-sótt* (sjá hér á eftir). — *Án bogsveigir* (FasN, II) var amlóðalegr; af hans nafni er dregið: *áni*[2], *ána-*

*legr*, *ánalæti*, *ánaskapr*, sjá hér á eftir.

* **án**[3] *k*, erill, ónæði (Sch.), andstreymi, mæða (BH): *hann á illan án*, mikinn erfiðleik, BH.; *í veraldar án*, í veraldar erli (úr gl. kvæði), Sch.; *ekki vildi ég hafa hans án*, hans örðugu ástæður, Sch.

* **ana (-aði)** *óás*, þjóta fram beint af augum athugalaust. *Sn.*: flana, gana: *Veröld ganar galinn veg,* | *áfram anar* | *í bráðan bana* | *blind mjög*, sr. Jón Reykjalín.

* **ána-dauði** *k*, »kerlingar-dauði, þegar maðr kulnar út af sem skar«, Sch., ellidauði. [Sbr. *Án*[2] (Án konungr) og *ána-sótt*].

**ánafna (-aði)** *ás*, * **1.** gefa e-m e-ð þannig, að hlutrinn verði eign gjafþega að tilteknum tíma liðnum eða við dauða gefanda: *Þórðr ánafnaði Sigga bróðursyni sínum gráa folaldið, kvaðst mundu ala það upp og temja það, en þá skyldi Siggi eignast hestinn. Hann ánafnaði mér pípuna sína eftir sinn dag*, arfleiddi mig að henni, gaf mér hana sem dánargjöf að sér látnum. † **2.** *ánafnaðr*, nafnkunnr.

* **ána|gangr** *k*, flónsleg læti: *þetta er mikill á.*, GÍO, 407.

* **ánalegr** *l*, líkr ána, andhælislegr, sem er eins og áni hefði gert, flónslegr, heimskulegr. (Sbr. *áni*[1]).

* **ána|maðkr** *k*, e. k. ormr e. maðkr *(lumbricus)* [etv. fyrir agnamaðkr, á norsku *agnmakk*].

* **ána|skapr** *k*, fíflsháttr, flónslegt atferli, flónsháttr. (Sbr. *áni*[1]).

**ána|sótt** *kv*, þjáningarlaus ellisjúkdómr, ellihrörleikr. (Sbr. *Án*[2] og *ána-dauði*).

**á|nauð**[1] *kv*, **1.** þvingun, þrælkun, áþján. † **2.** í flt. *-ir*, þungar álögur. — Sams.: * **ánauðar-andi**, þrælkunar-a., Johns. VII. bls. ***-einkunn**, þræld.-eink., Skír. XVII, 60. **-ok**, þrældómsok. **-vist**, þrælkun, líf í ánauð.

* **á|nauð**[2] *kl*, það að nauða á e-m, þrálátt bænastagl, þrábeiðni: *ég hefi engan stundlegan frið fyrir á-inu úr (í) honum.*

† **ánauðga (-aði)** *ás*, **1.** gera að þræli: *á. e-m.* **2.** hafa fyrir þræl, halda í þrældómi.

* **ánauðgun** *kv*, það að ánauðga, Klp. IX, 4.

† **ánauðr** *k*, = *ánauð 1.*

* **ánauðuglegr** *l*, sem er í ánauð, LFR, XII, 63.

**ánauðugr** *l*, sem er í ánauð.

**and-** *fsk*, táknar mótsetning e. gagnstæði; *and-* = gagn- = mót-. Á undan *v* e. *u* fær *a* oftast hljóðvarp og verðr að *ö*, *öndvegi*, *öndugi* f. *and-vegi*. Þó breytist *a* ekki í *andvirði*, *andviðri*, *andvígr*, *andyrði*. Nokkur helztu orð, sem byrja á þessu forskeyti, verða talin hér í stafrófsröðinni; en ýmis eru fleiri til, og mörg fl. má mynda.

**anda-**, sjá: *andi* og *önd*.

**anda (-aði)** *s*, **1. a.** (egl.) draga andann (að sér og frá sér): *a. að sér illu lofti*, draga að sér ilt loft. **b.** anda frá sér, blása hægt: *a. á ljósið*, blása hægt á lj.; *andar hægt á vestan*, blæs hægr andvari af vestanátt; *hvaðan kennir þef þenna?* | *Þórðr andar nú handan*, Sturl. Ó egl. blása móti, vera andstæðr: *það má ekki a. að honum*, mæla ið minsta móti, finna ið minsta að: *a. á móti e-m*, sama, Hj. í n. 56; **2.** *pls*, *andast*, deyja; *lm*,: *andaðr*, dáinn.

† ᛘ **anda-kristr** *k*, = *anti-kristr*.

*** andanlegr** *l,* sem anda má að sér: *a-t loft,* súrefnisloft, Klp. II, 120.

**andar-,** sjá: *önd*[1] og [2].

*** andbert** *l. kl,* í orðt. *það er andbert* (í húsi), (það er svo kalt að) andinn sést, Sch.

**† andblásinn** *lm,* vindblásinn, blásinn upp af lofti (vindi).

*** andblástr** *k,* mótspyrna: *vekja a. gegn e-m,* vekja mótspyrnu.

**T andboð** *kl,* = *amboð.*

**† andbrotsmaðr** *k,* maðr, sem brýzt á móti e-m, fjandmaðr, mótstöðumaðr.

*** andbýlingr** *k,* maðr sem býr andspænis öðrum (við stræti): *Andbýlingarnir* er í ísl. þýð. nefndr sjónleikr Hostrups: *Genboerne.*

*** and|byr (-byrjar)** *k,* mótbyr (óegl. andstreymi, mótgangr).

**anddyr** *kv. flt,* =

**and|dyri** *kl,* fordyri, forstofa, önd. — Sams.: *** anddyris-aurstokkr,** LFR, VI, 149. ***-biti,** LFR, VI, 149.

**† and|fang** *kl,* (egl. móttaka); **I.** flt. *andföng,* viðtökur, fagnaðr. **2.** árekstr tveggja skipa, er siglast á.

*** and|fjaðrað** *kl (lm),* nafn á fjármarki: hangfjöðr og standfjöðr sama megin á eyra þannig, að fjaðrirnar snúa oddum sundr; *and.:* oddfjaðrað, er oddar vita saman (sjá mynd s. v. *fjármark); a. aftan; a. framan.* (Sbr. *gagnfjaðrað,* sin standfjöðr hvoru megin á sama eyra; og *gagnhangfjaðrað,* sin hangfjöðr hvoru megin á sama eyra), Mskr. S-Ms 1879 (Efð 1880), 3. bls.

*** and|fugl** *k,* fugl af anda kyni, Sch.

*** andfúll** *l,* sem hefir fúlan, þefillan, andardrátt. *Sn.:* andrammr.

*** andfýla** *kv,* fúll, þefillr, andardráttr. *Sn.:* andremma.

*** andfœlulaust** *a,* án andfœlna, Arm. I, 154.

**andfœlur** *kv. flt,* halfgert hræðsluóráð í því er maðr vaknar (af vondum draumi): *vakna með a-um.*

**andfœtingr** *k,* † **I.** mest haft í flt., menn, sem menn trúðu að fœtrnir sneru öfugt á: *antipodes . . . er nökkurir menn kalla a-a; þeim horfa fœtrnir ok ristrnar á bak aftr og hafa 8 tær á hvárum fœti,* Stj. **2.** þeir menn, er svo búa andspænis hvorir á sinni hlið jarðar, að fótum horfa saman: *á sólina koma flestir nytjum ok þó ero rœntir aðrir a-ar hennar ljósi, þá er aðrir hafa,* Hom. 121. *** 3.** tveir menn, sem sofa andfœtis í rekkju.

*** andfœtis** *a,* með fœtrna hvor við annars höfuð: *að sofa a.,* sofa tveir saman í rekkju, svo að annar hefir höfðalag þar sem hinn hefir fótalag. *Sn.:* tilfœtis.

*** andfœtlingr** *k,* = *andfœtingr (2).*

*** andglittis** *a,* andspænis, »Austfi(rzka)«, Sch. (Mér óþekt. JÓ.).

**○ and|heimr** *k,* heimr andanna, andaheimr, Vgl. 20.

*** andheitr** *l,* ákafr, heitr í anda: *a. kennimaðr,* eldhuga kennim.; *andheit bœnagerð.*

**† and|hlaup** *kl,* það að maðr missir andann, kafnar.

*** andhlið** *kl,* hlið(in) andspænis, LFR, IX, 64; XIII, 260.

**† and|hvalr** *k,* andarnefja *(hyperoodon rostratus* v. *edentulus).*

*** andhverfr** *l,* neikvæðr, andrœnn, andverulegr, sjá: *andrœnn.*

*** andhæli** *kl,* **I.** það að hælar snúa fram, en tær aftr á fótum (þess konar vanskapnaðr), LFR, IX, 188. **2.** hvað eina, sem er öfugt, viðundrslegt, van-

skapnaðarlegt; vanskapnaðr: *skelfilegt a. er þetta!* 3. (um mann) amlóði, aulabárðr: *mikið a. ertu*, Sch.

* **andhælis** *a*, öfugt: *gengr oftlega mjög a. til*, VPost, I, 5,[12].

* **andhælislegr** *l*, öfugr, aulalegr, klaufalegr.

* **andhælisskapr** *k*, fjarstœða, öfugliki; klaufadómr, öfug aðferð eða háttr.

* **andhæris** *a*, öfugt við háralagið.

**andi** *k*, **1.** öndun, andardráttr: *a. fisksins*, SnE; *draga andann*, anda lofti að sér og frá; *lífs andi er með honum*, hann er með lífi; *gefa upp a-nn*, deyja. **2.** loftblær: *hœgr a. á sunnan*, hœgr sunnanblær; *hægir þú grimd* [sjávarins] *með a-a handar þinnar*, Hms. † **3.** (í hljóðfrœði) blástr *(aspiratio)* bókstafs-hljóðs: *linr, snarpr, andi (spiritus lenis, sp. asper)*. **4.** önd, sál: *guð skapaði líkamann og a-ann*, lík. og sálina; »*sálin var frímerkt fjandanum, | fjandinn tók því við andanum*«, ópr. vísa (JÓ.); *gjalda guði sinn anda*, deyja. **5.** hugr: *sjá e-ð í anda*, sjá í huga sér; *a. ágirndarinnar*, hugr. **6. a.** andleg gáfa, andl. hœfileiki, hugarkraftr, skilnings-þróttr: *hann er mikill andans maðr*, andlegr hœfileikamaðr; *í a-a og sannleika; af a-a og krafti*, andagift og kr.; *í a-a og krafti Elíass; spakleiks andi; ef guð hefir þér þann a-a gefit, at þú kunnir rétt at skilja;* (sbr. *fitons-andi*). * **b.** eðli: *andi málsins*. * **c.** efni, tilgangr e. þvíuml.: *a. laganna*, sanni skilningr; *and.:* bókstafr; *bókstafrinn deyðir, en a-nn lífgar*. * **d.** hugsunarháttr: *a-nn í skólanum*. **7.** ólíkamleg vera: *guð er a.; heilagr a.; illir a-ar; alfar og a-ar; a-ar framliðinna manna; trúa á a-a*. — Sams.: * **anda-birting**, vitrun anda (7), JÓ, Fr.u., titilbl. * **-birtingasögur**, ibid. **-gift** *kv*, innblástr, náðargáfa andans; anda-kraftr: *fullr af guðs a.*, innblæstri; *tala af a.*, andans krafti. △**-giftar-maðr**, hugvitsmaðr, frumsnillingr, TB, VII, 140, 165. ***-heimr**, heimr andanna (7). ***-kraftr**, andi (6); þróttr, máttr, andans, JÞ, II, 65. **-laus** *l*, † **1.** andardráttarlaus: *lifa a.* † **2.** líflaus: *a-ir hlutir*. * **3.** = *andlaus*[2]. †**-legr** *l*, = *andlegr; and.:* líkamlegr; veraldlegr. ***-leysi**, = *andleysi*. **-slóð**, vegr eða leið anda (7), Sch. ***-stefna**, stefna, sem mannsandinn tekr eða leitar í: *sérstakar skoðanir og a-ur*, Þjóð. (JÓ), *'86*, 93a. * **-trú**, trú á að menn geti átt mök við anda úr öðrum heimi *(spiritism)*, JÓ, Fr.u. passim.; Ág.B., Atr. passim.

* **andillr** *l*, sem ilt er að anda að sér: *loft . . . þungt og a-t*.

* **andkaldr** *l*, sem er kalt að anda að sér: *það er a-t úti; veðr var a-t*, svalt, kalt.

⊤ **and|kostr** *k*, = *annkostr*.

* **andkul** *kl*, andsvalr vindr, StgThL[3], 129.

† **andkæta** *kv*, munuð, lostasemi.

* **andköf** *kl. flt*, andarteppa um stundarsakir af geðshrœringu: *koma ekki upp orði fyrir ekka og a-um*.

* **andköst** *kl. flt*, hæg golu-köst, vindblæir: *a. sunnan holl og hlý*, Klp, VI, 88.

* **andlag** *kl*, **1.** viðfangsorð í setningu; orð, sem sagnorð stýrir. ⊥ **2.** það sem maðr leggr undir sig (líkamlega): *við vesalings konurnar erum dæmdar til þess að vera a. gerandans*, GFr.Ó, 68.

† **andlangr** *k*, nafn á einum himnanna, SnE.

**andlát** *kl*, **a.** dauði (manns, sem ekki er vopnum veginn e. af lífi tekinn —

*það* heitir *líflát): a. M. konungs.* **b.** dánar-stundin sjalf eða dánar-augnablikið: *var hann þá beint í a-i,* Fms. — Sams.: ***andláts-andvarp.** ***-augnablik.** ***-bœn.** **-dagr.** **-dœgr.** ***-fregn.** ***-játning,** j. á dauðastundinni. ***-kveðja.** ***-orð.** **-sorg,** sorg yfir andláti, Stj. **-tíð.** **-tími.**

† **andlaus**[1] *l,* (af: önd) líflaus: *a-ir hlutir,* dauðir hlutir.

**andlaus**[2] *l,* (af: andi), † **1.** sálarlaus. * **2.** sem skortir andríki: *a-t rím.*

**andlegr** *l,* † **1.** lifandi: *a. hlutr,* kvikr hlutr. **2.** er snertir andann (en ekki líkamann); *and.:* líkamlegr: *a. bróðir.* **3.** er snertir annað líf e. trúarbrögð, e. heimkynni andanna; *and.:* veraldlegr: *tala um a-g efni,* trúar-efni; *andleg stétt,* prestastétt.

* **andleysi** *kl,* skortr á anda, andagift eða andríki: *að a-ð eigi heima á of mörgum prédikunarstólum.*

**andlit** *kl,* † **1.** mynd. **2.** ásjóna, yfirborð framhöfuðsins eyrna milli, hárs og höku: *fríðr í andliti.* * **3.** sérst. orðatiltœki: *að taka sig saman í a-inu,* ráða ráði sínu, gera ráð sitt, hugsa sig um: *hann var ekki lengi að taka sig saman í a-inu,* hann var skjótr til ráðs, ekki lengi að hugsa sig um.

† **andliti** *kl,* = *andlit.*

† **andlits-björg** *kv,* blik á hjalmi, hjalmgríma. ***-blíða,** blíðusvipr á andliti. ***-blæja,** slœða eða blæja, til að hylja andlitið með. ***-bragð,** litarháttr og útlit hörundsins á andlitinu, yfirbragð andlits: *hann hefir ekki hraustlegt a.,* ekki hraustlegt útlit. ***-dráttr,** helzt í flt.: andlits-drættir, drættirnir í andlitinu, línur andlitsins. ***-fall,** lögun andlitsins. ***-far,** einkenni andlits; yfirbragð, svipr. † **-farinn** *lm,* (í st. f. andliti farinn), lagaðr í andl.: *vel a.,* vel skapaðr í andliti. **-fegrð,** fríðleiki andlits. ***-fettur** *kv. flt,* kiprur eða brettur í andlitinu. ***-friðr** *l.* ***-hjalmr,** andlits-litr, frábrugðinn því sem heilbrigðum manni er eðlilegt, LFR, XIII, 196. ***-lag,** form, sköpulag, andlits. ***-litr.** ***-lögun,** OLfr. II, *3,* 144. ***-mein,** meinsemd (ígerð) í andliti. ***-skapnaðr,** = *-lag, -lögun.* ***-skarpr** *l,* magr í andliti, skarpleitr, Ið. I, 27 (JÓ). †**-skepna** *kv,* = *-skapnaðr.* ***-skýla,** = *-blæja.* † **-sköp** *kl. flt,* = *-sköpulag.* ***-svipr,** yfirbragð, sá blær sem sálin varpar á eða yfir andlitið. †**-vænn** *l,* geðslegr, fríðr í andliti. † **-vöxtr,** = *-lag.*

△ **andlægr** *l,* hlutrœnn *(objectiv). And.:* hugrœnn.

* **andmáll** *l,* mótsagnafús, þrætugjarn.

† **andmálugr** *l,* andmáll.

† **andmarki** *k,* = *annmarki.*

○ **andmóðugr** *l,* JÞ, II, 520.

* **andmæla** *óás,* mæla á móti, OLfr. II, *2,* 79.

* **andmælandi** *k,* mótmælandi; sá sem heldr uppi máli gegn manni e. málefni: *a. minn,* sá er gegn mér talar; *andmælendr frumvarpsins,* þeir sem tala (töluðu) gegn frumvarpinu. — Í kapprœðum er málshefjandi oft nefndr *frummælandi,* en þeir *andmælendr,* er á móti honum mæla. — Þá er dispúterað er fyrir doktorsnafnbót, nefnir háskólinn til einn e. fleiri *andmælendr* (auk þess geta þeir sem til þess hafa rétt meðal áheyrenda andmælt).

**andmæli** *kl. flt,* mótmæli.

△ **andmælingr** (⊥?) *k,* = *andmælandi.*

*ν* **andnefni** *kl,* orð, sem er gagnstœðrar merkingar við e-t annað *(antonym): koma og fara, aftr og fram, sjúkleikr og heilbrigði eru a.,* JÓl.

† **andnes**, sjá: *annes.*

**andóf** *kl,* (fyr. *and-þóf),* **1.** sú athöfn, að halda bát upp í vindinn með árum og róa svo að eins, að ekki reki undan. **2.** = *andófsrúm: tveir vóru í a-i,* í a.-rúmi; *austrtrogið er í a-inu.* — Sams.: * **andófs-ár**, ár í andófs-rúmi. **-gola**, gola, sem ekki er meiri en svo, að létt er einum manni að andœfa. ***-maðr**, maðr, sem skipar andófs-rúm; maðr, sem andœfir, LFR, III, 225. ***-rúm**, rúmið milli andófs-þoftu (að henni meðtalinni) og næstu þoftu fyrir aftan. ***-þofta**, fremsta róðrarþofta í bát, LFR, III, 225.

**andorða** *ób. l,* sem verðr sundrorða: *þeir urðu a.,* þeim varð sundrorða; þeim bar á milli.

*a* **and|pípa** *kv,* barki, LFR, X, 221.

**andr (andrs)** *k,* = *andri.*

* **andra (-aði)** *óás,* egl. fara á skíðum; nú að eins haft í orðt.: *sá (hann, þeir) þykir mér a.,* sá þ. m. vera hraðfara (um þann sem ríðr hart).

* **andrá** *kv,* egl. andartak, haft einvörðung um tíma, s. s. augnablik: *í þessari a.,* á þessu augabragði; *í sömu a-nni,* í sömu svipan, á sama augabragði.

**and|rammr** *l,* andfúll, sem hefir þefillan andardrátt.

* **and|remma** *kv,* þefillr andardráttr.

* **Andrésar-kross** *k,* kross með skáhöllum álmum (╳); Andrés postuli átti að hafa verið krossfestr á slíkan kross.

* **Andrésar-messa** *kv,* 30. Nóv., Lesr. 34.

**andri** *k,* skíð (til að ganga e. renna á í snjó): *snæliga snuggir, kváðu Finnar, áttu andra fala,* það lítr út fyrir snjókomu, mæltu F.; þeir höfðu skíð að selja.

* **and|ríki** *kl,* andans kraftr, djúpsætt hugarflug: *mikið a. er þeim manni gefið.*

* **andríkr** *l,* **1.** (um mann) sem hefir mikið andríki: *a. ræðumaðr.* **2.** (um rit e. mælt mál) sem ber vott um mikið andríki: *a-k ræða, a-t kvæði.* *a* **3.** *a-t vín,* vínandaríkt vín, LFR, XIII, 225.

† **and|rjá** *kv,* uppþot, hávaði (sbr. *rjá).*

† **and|róði** *k,* =

**and|róðr** *k,* róðr móti vindi. *Sn.:* barningr; *eiga a.; hljóta a., hreppa a.; róa a.; taka a.; byr fá bíðendr, en bráðir a.,* orðskv.

* **Andrómedu-urt** *kv,* e. k. jurt *(Andromeda polyfolia).*

* **and|rúm** *kl,* **1.** rúm til að anda í: *það er ekki nægt a. í herberginu.* **2.** í samsetningum merkir a. öndun. — Sams.: **andrúms-loft**, gufuhvolfið; loftið sem vér öndum e. getum andað að oss: *hér er slæmt a. inni; gott, hreint, óhreint, a.* ***-pípa**, barki: *a. skorkvikinda,* LFR, X, 182.

*v* **andrœnn** *l,* **1.** (um stærðir) sem hefir þann eiginleika að minnka þá stærð, sem það er lagt saman við. (í öðrum vísindum) andstœðr, gagnstœðr; *and.:* frumrœnn; *sn.:* neikvæðr. — Í báðum merkingum er a. á útl. vísindamáli nefnt *negativ,* JÓ, Vskf. 60 og ff. Fleiri samnefni: frumrœnt og andrœnt segulafl t. d. er og nefnt *aðhverft* og *fráhverft* (Ág. Bj.); í stœrðfrœðinni *viðlæg* og *frádræg* stœrð (Ág. Bj.); um ljósmyndir *rétthverf* og *ranghverf* mynd (Ág. Bj.); um staðhefðir *jákvæð* og *neikvæð* (MillFr.). En allar þessar merkingar hefir *(frumrœnn* og) *andrœnn* í JÓ, Vskfr.

* **andsa (-aði)** *s*, = *anza.*

† **andsaka (-aði)** *ás*, víta, átelja.

† **andsakan** *kv*, = *andsökun.*

○ **andsetinn** *lm*, (andi, sitja), sem (illr) andi (djöfull) er í: *a. maðr*, djófulóðr m., Klopst. 9. b., l. 39. [Gott orð að taka upp í málið; t. d. *miðill er a.*, *að trú öndunga*].

* **andskjöl** *kl*, e-ð sem sett er upp á-veðrs við (opinn) glugga eða stromp, svo að betr dragi út loft e. reyk: *a. eitt ég upp á fór | við eldhússglugga' á Völlum*, Sch. *Sn.*: hjáskjól.

*α* **andskot** *kl*, mótspyrna: *hér fundu óréttindi a. og refsing*, Árm. IV, 58.

* **andskotast (-aðist)** *hs*, **1.** láta eins og andskotinn: *hann a-aðist fram og aftr um hlaðið, vitlaus í reiði.* **2.** *a. við e-n*, sýna e-m megn reiðilæti.

**andskoti** [annskoti] *k*, **1.** mótstöðu-maðr (nú fág.). **2.** djöfull(inn), Satan, fjandinn. Ef. *andskotans* oft haft sem lýsiorð, bölvaðr: *a-s ólán er þetta*, bölvað ólán; *a-s óveðr*, bölvað óveðr. -- Sams.: **andskota-flokkr**, óvina-flokkr. ***-gangr**, bannsettr ógangr, ólæti. ***-laus** *l*, sem enginn andskoti (djöfull) er í: *andleg sálma' er orðin bók | a-t rusl*, Bragi I, *1*, 44. ***-legr** *l*, fjandanum líkr, hábölvaðr: *hann er a. við konuna; það er a-t að fást við það.*

† **andspilli** *kl*, (and- = gagn- + spjall) samtal.

† **andspjall** *kl*, **1.** = *andspilli.* **2.** flt. *andspjöll*, svar, andsvör.

* **andspænis** *sto.* m. þgf. og *a*, á móti, gagnvart: *rétt a. pósthúsinu*, beint á móti p.; *réttr hjúsins a. húsbóndanum*, gagnvart; *hver er þessi maðr beint hér a.?* beint hér á móti.

* **andspænn** *l*, öndverðr, sem er beint á móti, LFR, X, 299.

* **andstaða** *kv*, mótstaða, mótspyrna, Milt. 117.

△ **and|stef** *kl*, viðkvæði, viðlag, stef, sem fleiri taka undir og syngja, þá er einn syngr erindið að öðru leyti *(chorus)*, t. d.: »villir hann, stillir hann« og »blíðan lagði byrinn undan björgunum fram« í kvæðinu um Ólaf Liljurós. [Á nýnorsku heitir þetta *anstø*]. — Svar, sem söfnuðr svarar presti með, er hann tónar, má og vel nefna a.

† **andstefja (-aði)** *s*, taka undir syng-jandi e. tónandi annaðhvort með stefi e. svari *(responsorium)*, þá er annar hefir sungið e. tónað e-ð: *einn segir salm, en aðrir . . . andstefja*, Hms. II, 473. — [Gott orð, vert endrupptöku].

† **and|stefn|a (-di)** *s*, = *andstefja.*

△ **andstefna** *kv*, mótsögn, andstœð stefna: *setning þessi er í a-u við aðra meginsetning*, AÓ, Afr. 111; *hér kemst þarfleikinn í a-u við arðsemi*, sst. 151.

* **and|straumr** *k*, mótstraumr.

**andstreymi** *kl*, ***1.** andstraumr, mót-straumr. **2.** mótgangr, örðugleiki.

* **andstreymis** *a*, móti, gegn, straumi: *a. fram með landi.*

**andstreymr** *l*, andstœðr, örðugr: *kvað Svein . . . a-an . . . þeim*, and-stœðan; *varð a-t um eftirmálin*, tor-sótt; *a-m örlög*, þung, mótdrœg.

**andstygð** *kv*, **1.** viðrstygð, óbeit, við-bjóðr (tilfinningin): *e-m er a. af (* að) e-u*, e-r hefir viðbjóð á e-u. **2.** það sem andstyggilegt er.

* **andstygðar-tilfinning** *kv*, það að finna til andstygðar, MillFr. 184.

**andstyggilegr** *l*, viðbjóðslegr, viðr-styggilegr.

† **andstyggr** *l*, = *andstyggilegr.*

* **andstœða** *kv*, **1.** andstœð afstaða;

þar af: mótspyrna: *í a-u við Fjölnismenn,* (JÓ. í aths. við) GTh. 157. **2.** mótsögn tveggja hugsana *(antinomia* Kants), TB, VI, 61, 81.

***andstœði** *kl,* **1.** mótspyrna, Vísnab. 224. **2.** gagnstœði; mótsetning (við e-ð).

***andstœðingr** *k,* mótstöðumaðr. Séríl. haft um mótstöðumenn stjórnar *(opposition).*

***andstœðinga-blað** *kl,* blað mótstöðumanna (stjórnar). ***-flokkr** *k,* flokkr mótstöðumanna (eink. stjórnarinnar). ***-foringi** *k,* ***-forsprakki** *k,* fyrirliði andstœðinga-flokks. ***-höfðingi** *k,* = *-foringi.* ***-lið** *kl,* lið andstœðinga. ***-pólitík** § *kv,* pólitík andstœðinga-flokks. ***-sigr. *-stefna.**

***andstœðis-skoðun** *kv,* gagnstœð sk.: *af a-um þeim er fram koma í lífinu,* þeim gagnstœðu skoðunum, MillFr. 96.

***andstœðr** *l,* **1.** gagnstœðr: *þegar hér er vetr, þá er þessu a-tt farið í Afríku, því að þá er þar sumar.* **2.** andvígr, mótdrœgr: *flest blöðin voru a-ð honum,* andvíg; *vindr var a.,* óhagstœðr, blés á móti.

***andstöðu-vindr** ⊥ *k,* (ætti heldr að heita: *and-staðvindr),* staðvindr hátt í lofti, sem gengr andstœtt staðvindinum, sem er nær jörðu *(antipassat).* [A. ætti að réttu lagi að merkja: andviðri]. Björl. 38.

***andsvalr** *l,* svalr að anda að sér, e. sem andar svalt e. andar svala: *hann er a. úti* e. *það er a-t úti,* það er óhlýtt e. nokkur kæla úti (ekki eins sterkt að orði kveðið eins og ef sagt væri *kalt).*

**and|svar** e. **annsvar** *kl,* **1.** svar upp á ávarp, spurning, beiðni, áskorun e. aðra málaleitun: *víkja til hans um a.,* beina málaleitun til hans; *veita greið andsvör,* svara greiðlega; *dvergmálinn veitir hljóðinu andsvör,* Alex. ***2.** ábyrgð, það að maðr á að andsvara til e-s: *upp á mitt a.* (D. ansvar). — Sams.: **andsvara-bréf** *kl,* svarbréf, Skír. '81, 124.

**and|svara (-aði)** *s,* † **1.** svara: *þá a-r konungrinn,* svarar k. † **2.** taka undir við prest í kirkju = *andstefja.* † **3.** svara til, ábyrgjast, bera ábyrgð á: *sem ek vil a. fyrir guði.*

† **andsvara|maðr** *k,* verjandi í máli.

*a* **andsvift** *kv,* handfang, hanki, handarhald, BH.

***andsvölun** *kv,* (önd, svölun) hugsvölun.

† **andsyftir** *k,* andköf.

**andsœlis** *a,* **1.** gagnstœtt sólargangi. *And.:* réttsœlis. ***2.** öfugt við það sem vera á. ***3.** móti sól, í sólarbirtu, BH. *And.:* forsœlis.

† **andsökun** *kv,* ásökun, ávítur, Hms.

***and|tigna (-aði)** [antiggna] *ás,* smá, fyrirlíta, (einkum í orðum) svívirða: *a. e-n.*

**and|vaka (-vöku)** *kv,* **1.** svefnleysi: *Svei þér, a-n arga; leggja á sig andvökur,* unna sér ekki svefns. † **2.** árvekni, andvari, varúð. — Sams.: ***andvöku-nótt. *-samt** *l. kl,* gjarnt til, hætt við, andvöku. ***-stund,** stund, sem maðr getr ekki sofið, svefnleysis-stund.

***andvaka** *ób. l,* =

† **andvaki** *l,* svefnlaus, sem getr ekki sofið.

***andvana** *ób. l,* (önd), líflaus, framliðinn: *a. lík,* Pass. *4,* 23; *barnið fæddist a.,* án lífs. — Sams.: ***andvana-borinn. *-burðr. *-fœddr. *-fœðing.**

† **andvani** *l,* skortandi (e-ð), með ef.:

*lífs a.*, andvana: *a. heilsu*, heisulaus; *alls a.*, allslaus.

† **andvanr** *l*, = *andvani.*

**andvara-**, sjá: *andvari.*

† **andvarða (-aði)** *ás*, afhenda, selja i hendr: *a. e-m e-ð.*

**andvari** *k*, **I.** það að hafa vara á sér; varúð: *með ugg og a-a*, með ótta og varúð; *utan a-a ok áhyggju*, án varúðar og áhyggju; *hafðu a-a á ef þú skyldir heyra þá koma*, hafðu nákvæma eftirtekt á; *ég sofnaði, en hafði a-a á mér*, hafði svo mikinn athyglis-hug, að ég svaf laust. † **2.** e. k. fiskr, gedda *(esox lucius)*. **3.** en. dvergs, þess er átti hringinn Andvara-naut. * **4.** hœgr vindblær. — Sams.: * **andvara-boð** *kl, flt*, boð til að gera vart við e-ð: *a. á undan sendi*, JÞ. II, 141. †**-gestr**, viðsjáll, óvelkominn, gestr. *And.:* aufúsu-gestr. **-laus** *l*, **I** sem ekki uggir að sér, er ekki var um sig: *vera alveg a.*, eiga sér einskis misjafns von, grunlaus, ugglaus, grandalaus. * **2.** skeytingarlaus. ***-leysi** *kl*, varúðarleysi, og einkum i guðfrœðismáli: skeytingarleysi: *léttúð og a.* ***-samr** *l*, gaumgæfinn, áhyggjusamr (2) um e-ð.

**andvarp** *kl*, það að varpa öndinni, stuna.

**andvarpa (-aði)** *óás*, varpa (mœðilega) öndinni, stynja: *a. þunglega*, stynja þungan.

† **andvarpan** *kv*, sjá: *andvörpun.*

† **andvarplegr** *l*, sem andvörpum er samfara: *a-g iðrun.*

† **andvegi** *kl*, = *öndvegi.*

† **andverði** *kl*, = *andvirði.*

**andverðr** *l*, (sjaldh.) = *öndverðr.*

△ **andverulegr** *l*, (JÓ, Jafnr. 10) = *andrœnn* (sem er betra orð).

**andviðri** *kl*, mótviðri, mótvindr.

* **andviðris** *a*, **I.** (um stefnu) móti, gegnt, vindi: *ég varð að standa a. meðan ég flutti rœðuna.* **2.** (um hreyfing móti, gegn, vindi: *eimbátarnir geysast a. sem forviðris*, AÓ, Af. 58.

**andvígr** *l*, † **I.** jafnsnjallr til vígs: *hann var eigi meir en a. einum þeirra brœðra*, var ekki fœr að mœta meir en einum þeirra; *sagði Grettir sik fleiri mönnum a-an en einum*, kvaðst fœr um að mœta fleiri en einum (i senn). **2.** mótstœðr, andstœðr: *hann var jafnan a. sambandi ríkis og kirkju*, andstœðr; *þeir voru a-ir hvor öðrum í því máli; vera a. andskotanum*, Hms.

† **and|virða (-virði)** *ás*, ávinna, vinna inn: *a. sér e-t*, vinna sér e-ð inn.

**andvirði** *kl*, **I.** verð, borgun. † **2.** laun, endurgjald: *a. ofdrykkjunnar*, laun ofdrykkjunnar.

† **andvirki** *kl*, **I.** vinna, verk (helzt við jarðyrkju). **2.** afrakstr jarðar, uppskera (af heyi, korni osfr.). **3.** jarðyrkjuáhöld e. verkfœri, amboð. **4.** hús e. þvíl. mannvirki.

† **andvitni** *kl*, vitnisburðr gagnstœðr því er áðr hefir vottað verið (í Noregi): *ok koma eigi a. á móti*, ef eigi kemr fram gagnvætti: *þat er a. er menn bera gegn því sem áðr er borit, vætti i gegn kvið eða kviðr í gegn vætti, svá at eigi má hvártveggja rétt vera*, Grág. Slíkt vætti mátti eigi bera að fornum íslenzkum lögum, en varðaði útlegð ef borið var, því að það var talið falsvitni.

* **andvægi** *kl*, þungi, sem vegr á móti (e-u öðru), mótvægi.

† **andyrði** *kl. flt*, mótmæli.

* **andþrengsli** *kl. flt*, andþyngsli, brjóst-

erfiði; (sjúkdómr, á útlenzku nefndr *Asthma*), NFR, I, 42.

† **andþveiti** *kl*, = *öngþveiti*, BH.

* **andþyngsli** *kl. flt*, = *andþrengsli*.

**and|œfa (-œfði, -œft)** *óás*, **1.** róa (í fremsta rúmi) móti vindi e. straum, svo að bátinn hreki ekki á bak aftr, halda við. **2.** *ás*, (með þgf.) *a. e-m*, þœfa í móinn gegn e-m, veita e-m þétta mótspyrnu.

**andœp|a (-ti, -t)** † **1.** (mótmæla) svara: *ekki er þess getið, at Þórðr a-ti þessari vísu*, Sturl. * **2.** mótmæla á háværan hátt (egl. gera óp á móti): *þeir a-tu h-m allir*. * **3.** œpa mœðilega: *a-ti skald* | *upp úr móðu*, BTh.L.

⊙ **andær** *l*, andstœðr, sem róa verðr á móti, Agla.

† **andæra** *kv*, mótspyrna, mótgangr.

† **andæris** *a*, erfiðlega.

⊙ **andærlegr** *l*, örðugr, þrálátr.

† **á|nefna** *ás*, tilnefna, tiltaka. *ánefnt*, *lh. kl*, haft sem *a.*, ákveðið, beint: *tölum vér þetta ... á-t til brœðra yðra*.

**ánetja (-aði)** *ás*, festa, flœkja, í neti; (oft einnig) flœkja e-n í e-u: *fjandinn hefir yðr á-at*; — *á. sig* og *á-ast*, verða ánetjaðr.

† **á|neyða** *ás*, setja í ánauð.

† **ang** *kl*, sœtr ilmr, angan.

**anga (-aði)** *óás*, gefa frá sér sœtan ilm: *a-andi blóm*.

**angan** *kv*, ilmr, = *ang*.

* **angan|blóm** *kl*, ilmblóm.

* **angan|laus** *l*, ilmlaus.

**anganreifr** *l*, fullr ilms: *a-ir* | *Arabavindar*, LFR, XI, 281.

○ **angan|rós** *kv*, ilmrós.

○ **angansœtr** *l*, ilmsœtr, KJL.

**angi**[1] *k*, ilmr.

**angi**[2] *k*, † **1.** broddr: *þetta mál hefir anga*, er viðsjárvert við að eiga. * **2.** mjó, lin taug e. þráðr, sem er áfast við e-ð annað. * **2.** grein eða hvað eina mjótt, sem er áfast e-u (stœrra): *baða út öllum öngum*, þenja út alla anga (t. d. hendr og fœtr). * **4.** um e-ð, sem er lítið, sér í lagi börn: *nei, sko, hvað litli anginn getr!* — *krakka-anginn skuli gera þetta!* — *hann er mesti óþægðar-angi*. *α* **5.** gufa: *dregr að sér frjóvgandi a-a eðr dampa úr loftinu*, LFR, I, 198. — Sams.: * **angalýja** *kv*, mjó, veik (skyldleika-)taug.

*α* **angilja** *kv*, eyruggi, BH.

*α* **angilju-bein** *kl*, neðra kjalkabein (á þorski), BH.

**angist** *kv*, áköf hræðsla, skelfing, mikill ótti. — Sams.: **angistar-ár** *kl*. *-**fullr** *l*. *-**laust** *a*, án angistar, Klp. II, 103. -**neyð** *kv*. *-**óp** *kl*. *-**stuna** *kv*. *-**sveiti** *k*. *-**sviti** *k*. -**tími** *k*. *-**vein** *kl*.

† **angist|ast (-aðist)** *þms*, bera kvíðafullan ótta, vera angistarfullr.

**angr**[1] *k*, fjörðr, vík, vogr; kemr nær að eins fyrir í staðanöfnum, oftast sem síðari liðr: *Harðangr*, *Stafangr*, *Brimangr*, *Eiðangr*, ofl.; einnig (sjaldnar) út af fyrir sig: *Angr*, DN, Fms, FsN.; í Friðþjófs-sögu er staðarnafnið A. notað til orðaleiks: *í Angri var ek upp fœddr*.

† **angr**[2] **(angrs)** án flt. *k*, sorg, harmr (egl. mein, tjón, e-ð sem þrengir að manni): *þann a.*, Bær.; *upp á minn a. ok skaða*, Stj.

**angr**[3] **(angrs)** án flt. *kl*, **1.** = *angr*[2]. * **3.** (í guðfr.ritum) iðrun: *bera a. fyrir syndir sínar*, iðrast synda sinna.

**angra (-aði)** *ás*, **1.** þrengja að (e-m), ama (e-m), gera mein e. tjón, **a.** með þlf., e-n a-ar e-ð: *a-aði hann þá mœði*, þjáði hann mœði, Sturl.; *mýbitið a-aði mig svo í Nýja-Íslandi, að ég hafði*

*engan frið á mér;* † **b.** með *þgf.*, e-m a-r e-ð: *hvárt sem mér a-r reykr eða bruni*, Njá. **2.** baka (e-m) sorg, valda harmi e. trega, hryggja, **a.** með þlf.: *hann a-ði at* . . ., það olli h-m harmi; *þú a-ðir mig áðan* | *með orðum þínum, Sigrún*, hrygðir mig, BTh. † **b.** m. þgf., Grip. 34. † **3.** harma, syrgja: *eigi a-ði hann þeirra dauða*, harmaði eigi, Klm. **4.** iðrast: *einn stórbrotamaðr, sem* (þlf.) *af hjarta a-ar sínar illgerðir*, iðrast illgerða sinna, VPost. 84. — *Þms.* **angrast,** verða sorgbitinn: *a. af e-u;* † *a. við e-n*, styggjast, reiðast, óvingast við e-n; *a. við e-ð*, styggjast við e-ð; verða sorgbitinn við e-ð.

**angraðr** *lh*, **1.** styggr, reiðr. **2.** sorgbitinn.

**angráðr** *l*, = *angraðr 2; gera sér a-tt um e-t*, taka sér e-ð nærri, Gísl.

**angran,** ***angrun** *kv*, harmr, sorg; *iðrun.

***angrbitinn** *l*, sorgbitinn, LFR, III, 267.

***angr|blíða** *kv*, sorgblíða, mild sorg. — Sams.: ***angrblíðu-bros** *kl.*

***angrblíðr** *l*, sorgblíðr.

***angr|boði** *k*, **1.** (sbr. *boða*) e-ð sem boðar ilt: *a. ógnarstorms*, LFR, XIII, 288 (Klopst. 1. b.). **2.** (sbr. *boði*, brotsjór) ósjór mótlætis: *Breiðfirðingur allan aldur* | *a-a þoldi megn*, þoldi afl ósjóa (áfalla) mótlætisins, Ból.-Hj.

**angrfullr** *l*, harmþrunginn, Leif. 191; *a-ll kvakar öndin mín* | *upp á þig, Jesú góði*, Iðr.sp. 15, 17.

**angr|gapi** *k*, léttúðugr maðr; flón.

○ **angr|kaf** *kl*, sorgþungi, harmabyrði: *ekkjustands angurköf*, JÞ. II, 339.

***angrkvalinn** *lm*, kvalinn af angri, KJL[1], 179.

***angr|kvein** *kl*, sorgarkvein, harmakvein, Iðr.sp. (Sch.).

† **angrlaus** *l*, sorglaus, sorgvana.

† **angrlegr** *l*, sorglegr.

† **angrleikr** *k*, harmr, sorg.

**angrljóð** *kl*, helzt í flt., sorgarljóð, HHund. II, 46 (51); LFR, XIII, 305.

† **angrljóðasamr** *l*, sem veldr angrljóðum: *vera mank yðr sem öðrum* | *a-söm þjóðum*, Hauksb. 338.

○ **angrljómi** *k*, sorgarljómi, KJL, 158.

† **angrlyndi** *kl*, sorgbitinn hugr.

† **angr|mœðast (-mœddist)** *þms*, mœðast af hugarangri.

† **angr|mœði** *kv*, hugaróró, hugsýki.

† **angrsama (-aði)** *ás*, gera sáran viðkomu: *hárklæði . . . angrsamat . . . af snarpleika*, Thom.

† **angrsamlegr** *l*, sem veldr angri.

**angrsamr** *l*, † **1.** sem veldr meini e. harmi: *a-söm fluga; a-söm áhyggja.* **2.** viðkvæmr, gjarn á að taka sér nærri. **3.** *e-m er a-t*, e-r er sorgbitinn.

**angrsemd** *kv*, =

**angrsemi** *kv*, hugsýki, sorgbitinn hugr.

***angrs-tregi** *k*, sorgfull iðrun: *með a-a eigum vér* | *oss til drottins að snúa*, Iðr.sp. 15.

***angrstund** *kv*, harmastund, JÞ. II, 479.

***angrtregi** *k*, = *angrs-tregi*, Vísnab. 84.

***angrvær** *l*, **1.** hugsjúkr, sorgbitinn: *út úr öllu þessu var hún oftlega mjög a.*, PoS. 50. **2.** sorgblandinn: *ástarblítt og a-t löngunar-kvak*, Sak. 31.

***angrværð** *kv*, = *angrsemi*, StÓ, 202.

† **angrværi** *kv*, = *angrværð.*

† **ang|rœði** *kl*, illfýsi, tilhneiging til að gera öðrum ilt.

***angr|þreyttr** *l*, sorgþreyttr: *hjörtun a-u*, KJL, 90.

***áni**[1] *k*, flón, kjáni.

***áni**[2] *l*, skortandi: *alls á*, sem alt skortir.

**áníðast (-níddist),** † **1.** *plm,* niðrníðast, ganga úr sér: *at eigi á-ist hús.* ***2.** *þms, á. e-n,* níðast á e-m, ɔ: misnota meinleysi e. góðsemd e-s sér til hags.

***áníðsla** *kv,* það að áníðast e-n, níðast á e-m, veita e-m yfirgang af því að maðr veit að hann er svo meinlaus að þola það.

**áning** *kv,* það að æja (hestum sínum), hvíld.

***ankaðr** *lm,* gallaðr, sjúkr: *a. sauðr,* BH.

***ankalaus** *l,* annmarkalaus, gallalaus, hraustr, BH.

† **ankannafullr** *l,* annmarkafullr, gallaðr.

† **ankannalaust** *a,* átölulaust, óátalið.

***ankannalegr** *l,* ólögulegr, öfugr, ánalegr, fáránlegr.

***ankannaskapr** *k,* það sem er ankannalegt.

***anker** [ánkjer] *kl,* tunnulagað ílát, sem að lögum á að taka 39 potta, en tekr venjulega 40; kvartél.

***anki** *k,* **1.** ágalli, lýti, ókostr, BH. **2.** óbeit: *hafa a-a á e-m,* Sírak, 37. k.

***ankringislegr** *l,* skoplegr, fáránlegr (um látœði).

***ankringislæti** *kl. flt,* ankringisleg læti, Sch.

**anmarki,** sjá: *andmarki.*

**anna (-aði)** *ás,* m. þgf., vera fœr um, hafa tíma til, komast til: *ég a. því ekki,* kemst ekki yfir að gera það, e. er ekki fœr um það (maðr til þess). — Án þgf.: *geldingar svá holdir, at þeir anni á degi ofan í Odda,* anni að ganga, orki að ganga, ofan í Odda.— Þlm., sjá: *annast,* þms.

***annað slagið** sjá: *slag.*

***annað veifið,** sjá: *veif.*

***annála (-aði)** *ás,* (egl. skrá e-ð í annál), taka til e-s, lúka frægðarorði á e-ð: *hann annálaði það jafnan, hve . . .,* tók jafnan til þess; *þeir a-uðu afl hans og þol,* luku lofsorði á; *annálaðr glímumaðr,* frægr.

**annáll** *k,* rit í árbókar-formi, sem getr helztu viðburða hvert ár í tímaröð, venjul. þurr upptalning viðburðanna. — Sams.: ***annáls-verðr** *l,* verðr þess að á lofti sé haldið, merkilegr, einstakr eða fágætr með afburðum í sinni röð. **annála-bœklingr,** lítið kver með annálum. **-menn** *k. flt,* höfundar annála, EspÁ, II, 33.

† **annanig** *a,* annan veg (sbr. þannig f. þann veg), á annan hátt.

**annar(r), önnur, ann|að (-at)** *l, fn, raðt.,* **1.** *raðtala:* milli fyrsta og þriðja í töluröð: *Jóladagr fyrsti ok a. dagr Jóla; fyrsti, a. ok þriðji; a. fyrsti dagr Martii mánaðar,* næst-fyrsti; † *annan vetr en Austrvegs-vitringar komu,* næsta vetr eftir að A. komu; † *annat ár,* næsta ár; † *annat sumar eftir,* næsta sumar; † *á annarri nótt, er ek hafða barnit fœtt,* nóttina næstu eftir. — *halfr a.,* einn og (einn) halfr; *við annan mann,* ásamt einum manni; *hann komst af við annan mann,* hann ... og einn maðr með (ásamt) honum. **2.** (eftir y.) næstr, sem gengr næst öðrum að e-u leyti: *a. mestr maðr í Danmörk,* gekk næst mesta manni í D.; *vitrastr lögmanna a. en Skafti,* næst Skafta, að Skafta frá skildum (undan teknum). **3.** *óákv. fn,* ánnar (einn) af tveimr: *gullkross á öðrum, en ari af gulli á öðrum, . . .* öðrum — hinum; *tveir menn, hét annar . . .; annað augað; a. fótrinn* (um mann e. fugl; en: *einn fótrinn* um ferfœtt dýr). **4.** *l,* e-r e. e-ð sömu tegundar e. kyns sem

sá eða það sem um er rœtt, en þó ekki sá sami (eða það sama): *lék á golfinu við aðrar meyjar; jafnt sekr sem aðrir menn; gera lönd sín helgari en aðrar jarðir.* **5.** öðruvís lagaðr, ólikr: *hafa annan átrúnað; það fór á annan veg en ætlað var; önnur var þá ævi; hann hefir til annars unnið af mér; öl er a. maðr,* ölvaðr maðr er ólikr sjálfum sér, ólíkr því sem hann er utan víns. **6.** hinn: *at hönd ... sé fyrir innan ..., en annarr líkami hans fyrir utan,* hitt af líkamanum; *þá er eigi sagt hversu öðrum* [ɔ: hinum] *var skipat.* **7. a.** *hvor — annan; hver — annan; hvorir — aðra; hverir — aðra,* hvor (um sig) . . . hinn (ef tveir eru), hvorir . . . hina (ef 2 flokkar eru), sérhver ... hina (ef margir eru): *veitti hvárr öðrum mörg sár; mæltu hvárir vel fyrir öðrum; sagði (þau tíðendi) hverr öðrum,* maðr manni. **b.** *hverr at öðrum,* hver á eftir öðrum; † *hvert vandræði kom á bak öðru,* hvert rak annað; † *gekk annarr at öðrum at biðja hann,* hver eftir annan, hver á fœtr öðrum, ɔ: einn fyrst, svo annar, svo sá þriðji osfr.; *hverja nótt sem aðra,* allar nœtr; † *annat var orð Finns harðara en annat,* hvert síðara orð harðara inum fyrri, ɔ: sífelt hörðnuðu orð F.; *eina luti ok aðra,* ýmsa hluti; *einir ok aðrir,* ýmsir; *eitt og annað, hitt og annað,* hitt og þetta, ýmislegt; † *nefna ýmsa ok aðra,* n. hina og þessa; † *þágu þessir riddarar veizlur ýmsir at öðrum; ýmsir eiga högg í annars garð* (málsháttr), hvor leitar á hinn (hvorir á hina) á víxl, hvorum veitir betr á víxl eða þvíuml. **8.** *annar* = (sér)hver eða (ein)hver annar: *svara honum ekki fremr en öðrum hundi* (í því liggr að maðrinn sé hundr og alveg á borð við aðra hunda); *ekki meiri karlmenska en þar sé konur aðrar,* ekki fremr en þar væri óvöldum konum að mœta. **9.** *ann|að (-at)* er oft haft sem kl. nafnorð: *ef eigi bæri annat til,* ef eigi væri neinn annar hlutr; *þetta* (þlf.) *sem annat,* þetta sem aðra hluti. **10.** *ef. a-s,* sjá: *annars* a. (í stafrófsröð). — Sams.: sjá í stafrófsröð.

**annar(r)a-brœðra** *ób. n., k.* og *kv,* =

**annara-brœðri** *k,* fjórmenningr (að skyldleik). Sbr. *næsta-brœðra, þriðja-brœðra.*

† **annarr-hvárr** = *annar-hvor.*

**annar(r)-hver(r)** *óákv. fn,* hver annar á víxl í röðinni, t. d. 1., 3., 5., 7. osfr., allar oddatölurnar eru önnur-hver tala í töluröðinni; eins að sínu leyti er um jöfnu tölurnar 2., 4., 6., 8. osfr. í röð, að þær eru önnur-hver tala. Þegar byrjað er á e-i tölu, hlaupið yfir eina, en þá tekin in næsta, og svo koll af kolli — það er önnur-hver tala. *Reglulegt alþingi er háð annað-hvert ár,* þ. e. þau ár, sem enda á oddatölu. *Það er ekki meira en annar-hver maðr, sem gætir þessa,* ekki meira en helmingr manna; *dragast á ísinn at öðru-hverju,* við og við, annað veifið; *hann kemr hér öðru-hverju,* við og við.

**annar-hvor** *óákv. fn,* annar af tveimr; *drepit annan-hvárn þeirra sona Skalla-gríms, ok bezt ef báðir væri;* í flt. *aðrir-hvorir,* annar af tveim flokkum; *gerðu nú annað-hvort,* eitt af tvennu. Sem atvo.: *a-t vera eða fara.* — And. báðir, bæði — og. [Varast verðr að blanda saman *annar-hver* og *annar-*

*-hvor*, því að orðin eru gagn-ólíkrar merkingar. — Þar sem í Sturl. (Oxf.) stendr: *at sjá út . . . at öðru-hváru*, horfa út við og við, þá er það rangt og á að vera: *öðru-hverju*, Sturl. Oxf. I, 63[25]; rétt í útg. Kål. I, 87].

**annarlegr** *l*, † **1.** annar e. næst-fyrstr í tímaröð, Flat. I, 421; Bps. II, 149. **2.** sem heyrir öðrum til; gagnstœðr, ólíkr; frábitinn, frásneiddr; ókunnr, ókunnuglegr; laus (við): *a. freistninni*, laus við freistnina; *a. af e-u*, laus við e-ð; *a-ir af allri hræsni*, lausir við alla hr.; *þú skalt eigi hafa a-a guði fyrir mér*, eigi aðra guði, annara (þjóða) guði. **3.** ólíkt (því sem maðr býst við, e. ólíkt eðli manns): *fulltíða manni, sem eftir heilan mannsaldr kemr aftr á æskustöðvarnar, sem hann hefir ekki séð síðan hann var barn, finst alt svo annarlegt*, breytt, ókunnuglegt; *þú ert e-ð svo a. í dag*, svo ólíkr því sem þú átt að þér.

**annars** *a*, **1.** á annan hátt, öðruvís: *varast þú að tala annars við Jakob en vinsamlega*, 1. Mós. *31*, 24; *bygði skipit fyrir 16 lestir, ok ei a.*, eigi öðruvís, DN. **2.** ella, að öðrum kosti: *stendr a. ríki þitt í hættu.* **3.** að öðru leyti: *at öllu a.*, að öðru leyti í öllu, Grág.; *okkr semr aldrei um trúmálin, en a. erum við samrýndir og góðir vinir.*

* **annars-háttar** *l*, annars-konar: *þetta a. aðferð heldr en ég hefi vanist.*

* **annars-konar** *l*, (egl. annarar tegundar) annars-háttar. *And.:* sams-konar, samkynja.

**annars-kostar** *a*, að öðrum kosti, annars, ella.

* **annars-kyns** *l*, = *annars-konar.*

† **annarslegr** *l*, = *annarlegr.*

**annars-staðar** *a*, =

**annarstaðar** *a*, á öðrum stað eða stöðum.

**annars-vegar** *a*, **1.** öðrum megin, á aðra hlið, frá annari hlið: *a. var skógrinn, en hins-vegar sjórinn; mér er vandfarið í þessari deilu, er a. er bróðir minn, en hins-vegar vinir mínir margir.* * **2.** á annan hátt, e. að öðrum kosti: *með þessu móti getr þú komið málinu fram, a. verðr þér það ókleift.*

**annar-tveggi** (ef. **annars-tveggja**; n. flt. **aðrir-tveggju**) *óákv. fn*, annar af tveimr. [Bæði *annar* og *tveggi* beygjast; síðara orðið beygist sem *l.* með ákv. greininum].

**annar-tveggja** *óákv. fn*, = *annar-tveggi.* [*Annar* beygist, en *tveggja*, sem er ef., beygist ekki].

**annast (-aðist)** *þms*, (egl. þm. af *anna)*, sjá um (e-ð); sjá fyrir (e-u); gæta (e-s); ala önn fyrir: *annast mál*, sjá um mál; *a. vegu alla*, gæta allra vega (að enginn fari um þá án þess að vart verði við); *þeir B. ok St. skyldi a. Ketil brúsa*, egl. sjá um K. ɔ: eiga við hann (í orrustu); *a. sjalfr sik (sjalfan sig)*, sjá fyrir sér sjalfr; *a. ómaga*, fœra fram ómaga; *a. ómegð*, sjá fyrir (fœra fram) ómegð; *a. um e-ð*, vinna að og sjá um; *a. um bú*, veita búi forstöðu; *a. um matreiðu*, standa fyrir m.

⊤ **annboð** *kl*, N, = *amboð.*

⊤ **annboði** *k*, N, = *amboð.*

**annes** *kl*, nes (yzt við fjörð), sem gengr út til hafs.

* **annexía** *kv*, útkirkja. *And.:* aðalkirkja.

† **ann|friðr** *k*, voranna-tíminn (í Nor-

egi) í Apríl og Maí; þá mátti ekki reka nein mál, N.

† **annkostr** *k*, ásetningr, ásett ráð (að eins í talsh.): *fyrir annkost*, af ásettu ráði.

† **annkvista (-aði)** *ás*, annast um, sjá fyrir.

† **annlaust** *a.* (egl. *kl. l.*), án fyrirhafnar.

*x* **annlit** *kl*, = *andlit.*

**annmarki** *k*, **1.** galli, lýti, ókostr: *töldu á hváru-tveggju sýna annmarka*, kváðu bersýnilega vera sitt að hvoru; *það eru ýmsir a-ar á því*, torveldleikar, sem gera það óráðlegt; *leyna a-a á e-u*, ókosti. † **2.** yfirsjón: *iðrun a-a*, iðrun yfirsjóna. † **3.** mótgangr: *huggun í a-a*, í mótlæti. † **4.** veikleiki: *flestar skepnur hafa með náttúru verki nökkura hjalp mót sínum a-a: næfr hylr tré, fjöðr fuglinn* osfr. — Sams.: * **annmarka-gripr** *k*, gallagripr. **-laus** *l.* **-laust** *a.*

**ann|nes** *kl*, = *annes.*

* **ann|nögl** *kv*, = *annögl.*

**annr** *l*, sjá: *ant.*

* **annríki** *kl*, mikið starf e. mörg störf, sem fyrir hendi er að vinna; mergð anna, sem kalla að: *hann hefir mikið a.*, mikið að gera; *ég á* (e. *er) í miklu a.*, mikil störf kalla að mér, ég hefi mikið að gera.

**annríkr** *l*, annsamr: *a. tími; a-asti tíminn; a-k vika.* Kl. *annríkt: eiga a.*, vera í önnum, hafa mikið að gera (í svipinn), vera í annríki.

† **annsamlegr** *l*, erfiðr: *a-t starf*, fyrirhafnarsamt verk.

**annsamr** *l*, = *annríkr: e-m er a-t, e-r á a-t*, hefir mikið að gera.

**annsemd** *kv*, **1.** umönnun: *bera a. fyrir e-u*, hafa fyrirhöfn fyrir e-u; *fá a. af e-u:* bera áhyggju fyrir e-u. **2.** annríki.

*x* **annskoti** *k*, = *andskoti.*

*x* **annsvar** *kl*, = *andsvar.*

† **annvirki** *kl*, = *andvirki*, s. þ. o.

* **annögl (-naglar, -neglr)** *kv*, ♂ **1.** *a. er ið hvíta hvel, sem er ofan-til við neglrnar*, LFR, IX, 192. **2.** flís eða taug af húðinni eða skinninu, sem losnar upp rétt fyrir ofan nögl og snýr oddinum fram.

† **ánótt** *l. kl*, mikið af Ánum (orðaleikr), FAN, II, 431.

**ans, ansa**, sjá: *anz, anza.*

§ **ansíósa** *kv*, egl. lítil síldartegund í Miðjarðarhafi; menn kryddsalta hana; leggja hana einnig í olíu *(sardeller)*. Sú síldtegund, sem vér neytum og nefnum a-u, er blaðsíld (»norskar a-ur«).

* **ánslegr** *l*, = *ánalegr.*

**ant** *kl. l*, *e-m er a.*, **1. a.** án sto.: *mörgum er a. heim*, áhugi á að komast heim; *hvat er nú a. mínum eingasyni?* hvað er nú áhugamál míns einkasonar? *er hánum annast at byrgja bæði augu*, hugsar mest um að . . .; *hann lét sér ekkert a.*, það var enginn ákafi í honum. **b.** annríkt, annsamt: *sagði sér a. um daga*, kvaðst eiga annríkt á daginn. † **2.** *a. til e-s*, áhugamál um e-ð: *all-a. til at deyja*, mikill hugr á að deyja; *með engu móti má Ólafi k. vera annara til at þat verði framgengt*, Ó. getr ekki verið meiri áhugi á. **3.** † **a.** *a. er um e-t*, liggr á e-u; *ekki er a. um þat*, ekki ríðr svo mjög á því. * **b.** *e-m er a. um e-ð*, e-m þykir e-ð miklu máli skifta; *mér er a. um að bréfið komist með skilum*, þykir mikið undir komið . . .; *hann lætr sér a. um það*, er mikið áhuga-

mál; *honum er eins a. um stúlkuna eins og hún væri dóttir hans,* ann henni eins mikið, er eins umhugað um hana.

† **Anta-Kristr** *en,* = *Anti-Kristr.*

† **antefna** *kv,* e. k. söngr eða tón, helzt við texta úr biblíunni.

† **antemna** *kv,* antefna (E. *anthem;* ML. *antiphona).*

† **antifóna** *kv,* e. k. svarsöngr eða tónað svar í (kaþólskri) kirkju (sbr. *andstefja).*

* **antigna (-aði)** *ás,* **I.** lasta (= *and-tigna),* VF. ⊥ **2.** lofa, hafa í hávegum, NL. (Sch.).

**Anti-Kristr** *en. k,* egl. andstæðingr Krists; fals-Kristr, er fornkirkjumenn trúðu, að Djöfullinn mundi í heiminn senda skömmu fyrir heimsendi; eftir harða viðreign átti hann að bíða ósigr fyrir Kristi.

† ℗ **antvarða (-aði)** *ás,* afhenda, N.

* **antvistast (-aðist)** *ás,* annast um, sjá um, geyma, NL (Sch).

**ánýja (-aði)** *ás,* endrnýja, gera (e-ð) á ný; endrtaka.

**á|nyt** *kv,* (= *ærnyt)* málnyt úr einni á.

* **anz** *kl,* svar.

**anza (-aði)** *s,* **I.** andsvara, svara: *anzaði fá,* svaraði fáu; *a. e-u* og *a. til e-s,* svara e-u, svara upp á e-ð. † **2.** sinna, skeyta um: *konungr a-aði því ekki,* sinti því ekki; *a. sínum guði,* skeyta um; *a. um ógnir,* hirða um.

* **ánægð** *kv,* það að vera ánægðr (í svipinn): *á-in varð svo mikil yfir þessu, að . . .*

**ánægðr,** sjá næsta orð á eftir.

**á|nægja** *ás,* með þgf., † **I.** gera ánægðan, gera svo að e-m nægi: *láta sér e-t vel á.,* telja sig vel haldinn af e-u; *eftir því sem oss á-ir,* sem vér látum oss lynda. * **2.** gleðja: *söngvar á-ðu eyrum hans,* skemtu, Klopst. I, 12. — * **2.** *lh. plm.* **ánægðr** haft sem *l,* **a.** sáttr við sitt hlutskifti, sem lætr sér e-ð lynda: *hann var á. (gerði sig á-an) með það,* sætti sig við það, lét sér það lynda. **b.** glaðr, sem unir (e-u) vel: *hann var svo á. yfir þessu,* þetta gladdi hann svo; *hann var mjög á. í Firði,* undi vel hag sínum.

* **ánægja** *kv,* gleði, yndi: *mér er engin á. að (í) því,* það er mér engin gleði; *á. er móðir iðninnar,* það að una vel hag sínum (láta sér nægja sitt hlutskifti) er móðir iðninnar; *að vinna eitthvað þarft var hans mesta á.,* yndi. — Sams.: * **ánægju-bros** *kl,* bros, er lýsir ánægju. ***-efni** *kl,* tilefni til ánægju. ***-fullr** *l,* = *-ríkr,* Kv. II, 34; Campe 49; LFR, V, 36. ***-legr** *l,* **I.** sem ánægja er að = *-fullr.* **2.** sem virðist ánægðr að útliti: *á. á svipinn.* ***-lítill** *l,* **I.** sem hefir litla ánægju: *á. maðr,* Campe 136. **2.** sem lítil ánægja er að: *það er á-ð að hlusta á þetta.* ***-ríkr** *l,* sem er mikið -efni. ***-samlegr** *l,* = ***-samr** *l,* ánægjulegr (1.). ***-semd** *kv,* að eins í flt. *-ir,* skemtanir, gleðistundir. ***-semi** *kv,* það að njóta ánægju; það að gera sig ánægðan með. ***-stund** *kv,* stund, er maðr nýtr ánægju. ***-svipr** *k,* svipr, er lýsir ánægju, G&A, 83.

**apa (-aði)** *ás,* **I.** † **a.** *ám,* tæla, lokka: *margan hefir auðr a-t,* margan hefir gullið gint. **b.** *plm,* ginnast, lokkast: *a-st at óheillum,* ginnast til óheilla; *hann a-ðist til þess,* gintist. **2.** spotta: *enginn skyldi a. þetta ráð,* LFR, VI, 47. * **3.** sérst. orðtæki: *a. e-n upp,* hafa orð upp eftir manni, þegar hann talar þau, í því skyni að hæðast að þeim sem rangmælum; *a. e-n upp á*

*e-u* og *a. e-n á e-u; hann a-r mig (upp) á öllu, sem ég segi,* = hann apar alt upp, sem ég segi, = apar mig upp fyrir alt sem ég segi; *a. út úr*, snúa út úr til athlœgis: *hann a-r út úr því sem sagt er; a. út úr fyrir e-m.* * 4. *a. eftir*, líkja eftir (eins og api): *börn a. alt eftir þeim sem fullorðnir eru*, stæla eftir; *a. eftir útlendingum*, líkja eftir útl. (nl. í því sem ekki er eftirbreytni vert).

**apaldr (apalds og apaldrs; flt. apaldrar)** *k*, **1.** eplatré. **2.** aldintré (sbr. *eik*). * 3. stórt tré (eik) alm.: *hann ber sem a. af öðrum*, AF; *hann var sem a. | á útskaga settr*, Ól.Indr. (grafletr yfir Hermann í Firði). — Sams.: † **apaldrsgarðr** *k*, eplagarðr, aldingarðr. †**-klubba** *kv*, = †**-kylfa** *kv*, kylfa úr apaldri (sbr. *eikikylfa*). †**-tré** *kl*, [egl. ofmæli, því að *apaldr* er tré], = *apaldr*.

* **apalgengr** *l*, (um skeiðhest, sem er) hastr og ójafn í gangi (eins og hann gangi á apalgrýti).

**apalgrár** *l*, steingrár með (dökkum e. ljósum) smádílum.

* **apalgrýti** *kl*, smáhnullunga-grjót (steinarnir að stœrð sem epli? — apal(d)grjót?), BH.

* **apalgrýttr** *l*, þakinn apalgrýti (smáhnullungum).

**api** *k*, **1.** dýr, er (líkast er og skyldast manninum núlifandi dýra og) svo nefnist (L. *simia*). **2.** heimskingi, fífl. † 3. jötunsheiti. — Sams.: * **apaháttr** *k*, eðli e. háttr apa, NF, I, 65. ***-kyn** *kl*, alt það dýrakyn, er til apa telst. ***-köttr** *k*, **1.** smá-api (með hala, lifir í trjám). **2.** maðr, sem lætr eins og api; maðr, sem er góðr að herma eftir. ***-legr** *l*, líkr apa eða öpum. ***-læti** *kl. flt*, læti lík sem apar hafa. ***-mál** *kl*, málfœri apa (e. k. málfœri, er sumir fullyrða, að apar hafi). **-mynd** *kv*, apa líki, apa lögun. ***-skapr** *k*, það að vera (hegða sér) eins og api. ***-spil** *kl*, **1.** uppgerðar-læti: *það er ekki nema a.* **2.** flónslæti, heimskulegt uppátœki: *mikið a. er að vera að þessu.* ***-tegund** *kl*, einhver af þeim (yfir 230) tegundum, sem öpum er skift í: *a-ir þær er líkastar eru mönnum*, Skuld, I, 168.

**apinja** *kv*, = *apynja.*

**apli** *k*, † **1.** uxi, SnE. * **2.** fóstr dýrs (óborið eða ófullburða), BH, helzt fóstr, sem ekki er fullmyndað; þar af: afskræmi, óskapnaðr. — Sams.: * **apla-fóstr** *kl*, óskapnaðr: *ímyndunin skapar | a.*, Klopst. 9. bók. ***-kalfr** *k*, **1.** ófullb. kalfs-fóstr, þ. e. afskræmi, óskapnaðr: *Heimsku-gyðjan hefir sjalf | hér til varið starfi | og alið þennan apla-kalf | undan gömlum tarfi*, JÞ. **2.** fífl, heimskingi: *mikill a. er maðrinn!* ***-legr** *l*, heimskulegr.

† **apnast** *plm*, = *aflnast.*

§ **apótek** *kl*, lyfjabúð: *a-ið íslenzka er eilífur hunds-rassinn*, SP.L.

§ **apótekari** *k*, lyfsali: *þá a-nn andaðist Björn | öllum varð mjög þungt um*, SP.L.

† **appel|la** ꝗ **(-aði)** *ás*, =

ꝗ **appel|lera (-aði)** *ás*, † **1.** stefna: *appella e-n til páfa*, stefna e-m fyrir páfa. **2.** áfrýja (2), skjóta máli (til œðra dóms): * *a. e-u.*

ꝗ **appelsína** *kv*, [þýzkt orð], sínepli (s. þ. o.). — Sams.: ꝗ **appelsínu-tré**, sínepla-tré.

† **apr (öpr, aprt)** *l*, **1.** harðr, snarpr, hvass: *sterkastr ok aprastr við at eiga; in aprasta hríð*, snarpasta áhlaup e. viðreign. **2.** kuldalegr: *enda voru*

*all-öpr tilbrigðin*, all-nöpr. 3. hryggr: *því föru vér aprir*, hnuggnir.

**aprlegr** *l*, kuldalegr (um veðráttu).

§ **apríkósa** *kv*, steinávöxtr með því nafni (vex á trénu *prunus Armeniaca)*.

* **Apríl** *k*, nafn á 4. mánuði almanaks-ársins: *hlaupa A.*, fara erindisleysu 1. Apríl. Sá er siðr víða um heim, að ginna e-n 1. Apríl til að fara e-ð (með því að skrökva e-u í hann) og er það kallað að láta hann »hlaupa Apríl«. Sú tízka er ævagömul. — Sams.: **Apríls-dagr**, dagr í Apríl: *æskuhrygð er eins og mjöll á Apríls-degi*, Stgr.Th. **-glópr**, maðr, sem gintr hefir verið til að »hlaupa Apríl«. **-hlaup**, það að hlaupa Apríl, G-Hr. **Ψ-narri** = *-glópr*. **-veðrátta**, óstöðug veðrátta.

* **Apríl-mánuðr** *k*, = *Apríl*.

* **apsalegr** *l*, sjá: *afsalegr*.

**apt-**, sjá: *aft-*.

**apynja** *kv*, kvenapi.

* **ar** (ef. **ars**, flt. **ör**) *kl*, ögn, mor í sólgeisla: *ár er stafur einn í rúnum lýða, | ar er sólargeisla-morið tíða*, Þorl. 280. — Sams.: **ara-grúi** *k*, óendanlegr, ótölulegr, fjöldi.

**ár**[1] *kl*, upphaf (tíðar): *ár var alda*, það var upphaf tímans; † *um morguninn í ár*, * *í morguns-árið*, þá er byrjar að morgna.

**ár**[2] *a*, † **1.** fyrrum. **2.** tímanlega: *ár um morguninn*, árla, snemma; *ár og síð*, snemma og seint; *ár og síð og alla tíð | eg man blíðu pína*, JÓLj.

**ár**[3] (ef. **árar**, flt. **árar**) *kv*, áhald það sem bátum (skipum) er róið með: *bátrinn er þungr undir árum*, þungt að róa honum; *vera á árum e-s*, vera á framfœri e. undir forsjá e-s; *taka djúpt í árinni*, gera (of) mikið úr (e-u); *ljósta árum í sjó*, hefja róðr; *koma ár sinni (vel) fyrir borð*, sjá (vel) um hag sinn, búa (vel) um til að koma fram vilja sínum; † *draga árar um e-t*, leggja kapp á e-ð; * *róa öllum árum að e-u*, kosta alls kapps um e-ð; * *hafa úti allar árar til e-s*, gera alt sem maðr getr til e-s; *halda upp [uppi] árum*, lyfta árum úr sjó til að gera hlé á róðri; * *liggja á árum*, halda uppi árum; *falla við árar*, taka löng áratog, róa bakföllum; *árinni ber við illr rœðari*, sá sem er klaufi, kennir verkfœrinu um; * *leggja árar í bát*, gefast upp, hætta alveg, við e-ð. — [Þgf. et. *áru* f. *ár* er í einu hdr. Eyrb., Lpz-útg. 60. bls., og: *að koma áru sinni vel fyrir borð*, VPost. 136]. — Sams.: * **árar-blað** *kl*, flati endi árarinnar, sem dýft er í sjóinn, þá er róið er. **Ψ-drag** *kl*, = **-dráttr** *k*, = *-tog*. **-hlummr** e. **-hlumr** *k*, handfangið




*Ár.* h = hlumr; st = stokkr; s-s = skautar; l = leggr; b = blað.

á árinni, sem um er haldið, þá er róið er. ***-leggr** *k*, sá hluti árar, sem er milli blaðs og stokks. ***-skauti** *k*, þunn fjöl úr eik eða öðrum harðviði, negld á árina þar sem hún mœðir á keipnum; þá er róið er við keip og hömlu, eru árar skautaðar að neðan og framan að eins, en sé róið við keipsnef og keipnagla (e. keipsnef að framan og aftan), þá er árin skautuð á alla fjóra vegu; á sívölum árum er fóðrað með þykku leðri utan um árina, þar sem á henni mœðir, og heitir leðrskauti; á ferstrendum árarstokki er gjarðajárn stundum haft í skauta.

***-stjórn**, það að stýra (e. að stýrt er) með ár (í stað stýris). ***-stokkr** *k*, inn gildi ferstrendi (sívali) hluti árarinnar, sem skautarnir eru negldir á. **-stubbi** *k*, stúfr (brot) af ár. ***-tog** *kl*, það að draga árina eitt sinn að sér meðan blaðið er í sjónum; það skeið sem bátr rennr meðan árarnar eru dregnar eitt skifti i sjónum. **-tré** *kl*, efniviðr i ár. — **ára-burðr** *k*, hreyfing áranna, þá er róið er: *vera undir á-i e-s*, vera í skjóli (umsjá) e-s; *koma, ráðast, undir á-ð e-s*, koma sér í skjól e-s. ⁋**-drag** *kl*, = **-dráttr** *k*, = *-tog*. ***-frítt** *kl. l*, nœgilega breitt fyrir árar, ef róa skal: *sundið er svo mjótt, að það er ekki á.*, að árum verðr ekki við komið til róðrar. **-gangr** *k*, **1.** hraðr áraburðr. **2.** = **-glamm** *kl*, hávaði sá er til áranna heyrist þá er róið er. **-lag** *kl*, réttr áraburðr: *að kunna, læra, a-ið*, kunna, læra, að bera rétt árina til róðrar; *hratt, seint, á.*, áraburðr; *hann hefir ekki á-ið*, hann er ekki samtaka í róðrinum þeim sem hann rœr með (ber árina hraðara e. seinna en þeir). ***-laus** *l*, sem vantar árar: *það er uggvænt, hvar á-l. lendir*, hvar áralaus maðr nær lendingu, GÍO, 374. ***-rúm** *kl*, nœgt svigrúm fyrir árar, þá er róið er: *ósinn er svo mjór, að þar er ekki á.* (sbr. *-frítt*), Sch. ***-stjórn**, (miðr rétt), = *árar-stjórn*, LFR, II, 177. ***-tog**, flt. af *árar-tog*.

**ár**[4] *kl*, **1.** tólf almanaks-mánaða tímabilið frá 1. Jan. til 31. Des. — [Um miðja 10. öld var árið talið 12 mánuðir þrítugnættir (tungl-mánuðir, orðið »mánuðr« dregið af »máni«) og var árlega bœtt við 4 dögum, svo að það varð 364 dagar. En svo segir Ísl.b. í 4. kap. að »þá merktu þeir af sólargangi, at sumar munaði aftr til várs«, og kom því Þorsteinn Surtr upp með það (um 960), að hafa árið 12 mánuði, en skjóta inn viku 6. hvert ár (»sumarauki«). Eftir að kristni var lögtekin (ár 1000) var sumaraukinn samrœmdr júlíanska tímatalinu og um 1700 gregorska tímatalinu]: *í ár*, þetta ár (sem er að líða), á þessu ári; † *annat ár*, árið eftir; *að ári*, næsta ár (árið, sem kemr); *ár eftir ár*, hvert árið eftir annað; * *ár fram af ári*, Skír. XVIII, 13, 36 = * *ár frá ári*, ár eftir ár; * *ár út og ár inn*, alt árið og hvert eftir annað, LFR, VII, 144; *hafa mörg ár á baki*, hafa lifað mörg ár, Sch.; *árum saman*, ár eftir ár, mörg ár, í samfellu. **2.** eins árs lengd, þótt ekki sé miðað við Nýjár: *innan árs*, áðr en liðið er til jafnlengdar næsta ár; *hann bjó 3 ár á Bakka*, þrjú fardaga-ár (s. þ. o.); *betri er húsbruni en hvalreki á fyrsta ári*, fyrsta búskapar-ári; *hann tolldi þar ekki nema árið*, árs-lengd. **3.** frjósemd, góðæri: *þá var ár mikit; nú er ár í landi; fekk mikit ár ok margfaldan ávöxt; hlaða mörg skip af korni ok flytja svá ár í Danmörk; at þessu efni verðr at taka ár sem gengr*, Sturl. = * *taka svo ár sem gár*, Árm. III, 131, ɔ: taka því sem kostr er á, því sem að höndum ber hvert sinn; *engum er ár í annars óförum*, engum er arðr, bót, í . . ., GÍO, 93; *þá var ár um öll lönd; blóta til árs*, til árgœzku, velsældar. *And.*: árgalli, óáran, harðæri. **4.** nafn á rúnastafnum ᛅ (= á). — Sams.: ***árs-afgjald** *kl*, eins árs eftirgjald (t. d. eftir jörð). ***-afli** *k*, það sem maðr aflar á einu ári. ***-ágóði**

*k*, ágóði (eins e. hvers) árs, JÓVskfr. passim. ***-arðr** *k*, = *-ágóði*, sst. **-bót** *kv*, breyting árs[4] (3) til batnaðar. ***-brestr** *k*, skortr, misbrestr á ári[4] (3), Skír. IX, 109. ***-breyting** *kv*, BGLv. 51, 1. d., 2. 7, árleg breyting. †**-dagr** *k*, dagrinn þá er ár er liðið frá e-u (sbr. *jafnlengd 2)*. ***-eyrir** *k*, árstillag, árgjald (félagsmanna), LFR, XIV, 2. *ν*-**fjórðungr** *k*, **1.** þrír mánuðir, 1/4 árs, JÓ, G-Hr. *ν* **2.** það af blaði (tímariti), sem kemr út á ársfjórðungi (1). *ν*-**fjórðungs-gjald** *kl*, tillag, sem goldið er 3. hvern mánuð, JÓ, Stjórnarskrá og Aukalög I. O. G. T. *ν*-**fjórðungs-rit** *kl*, tímarit, sem kemr út fjórum sinnum á ári. ***-forði** *k*, forði til eins árs. **-frestr** *k*, frestr um eitt ár. ***-fulga** *kv*, = *-meðlag*. ***-fundr** *k*, árl. fundr, Skír. VI, 87; IX, 80 (sbr. *aðalfundr)*. ***-fyrning** *kv*, **1.** fyrning (slit, það sem e-ð gengr úr sér) á (einu) ári: *á þeim verkfærum má ætla sem svarar* 1/10 *verðsins fyrir á-u.* **2.** oftast í flt. **a.** afrakstr (eins) árs (t. d. af heyi) óeyddr: *haustið 1880 átti Sigurðr á Ketilsstöðum 6 ára fyrningar af heyjum*, óeyddar 6 ára leifar. **b.** fyrningar nægar til að endast ár; óeyddr forði til eins árs. ***-fæði** *kl*, fæði til eins árs. ***-færsla** *kv*, færsla, afstöðubreyting, sem verðr á einu ári, BG,Lv. II, 3. **-gamall** *l*, eins árs að aldri. ***-gjald** *kl*, **1.** gjald, sem maðr á að greiða árlega, árstillag. **2.** gjald, sem maðr á að fá greitt árlega: *ekkjan fær á. af brauðinu.* [Fátítt; venjul. *árgjald*]. ***-gróði** *k*, **1.** árságóði, það sem manni græðist á einu ári. **2.** ársuppskera, það sem gróið hefir hjá manni á einu ári, árs-afli: *á. skal vera árs-fæði*, GÍO, 38. ***-hjú** *kl*, hjú vistað til eins árs. ***-hringr** *k*, alt árið frá upphafi til enda, Tiro 252. ***-kostnaðr** *k*, kostnaðr (við e-ð), sá er eitt ár hefir í för með sér. ***-leiga** *kv*, leiga fyrir eins árs afnot, Johns. 258. ***-lok** *kl*, lok, endir, ársins. ***-maðr** *k*, maðr, sem ráðinn er til eins árs. ***-mata** *kv*, nesti, matforði, til eins árs, EspÁ, IV, 52. ***-meðlag** *kl*, meðgjöf með ómaga um eitt ár, ársfulga, TN, I, 136. ***-próf** *kl*, aðalpróf í skólum, það er haldið er á hverju ári. ***-reikningr** *k*, reikningr yfir viðskifti e-ar persónu að lögum (stofnunar e. félags e. einstaklings) um 1 ár. ***-rit** *kl*, rit, er kemr út einu sinni á ári: *á. er t. d. »Ármann á Alþingi«*, Skír. VII, 97; *Ársrit presta í Þórsnessþingi.* ***-slit** *kl*, = *-fyrning 1.: höf. hefir reiknað á-in (skipanna)*, fyrningu, FjÞ, 41. ***-spá** *kv*, spá (um veðrlag) fyrir heilt ár, Björl. 3. ***-tal** *kl*, það tal e. sú tala, er táknar e-t ár, venjul. miðað við Krists-burð. *a*-**tala** *kv*, = *-tal*, N.JH, 112; EspÁ, III, 27. ***-tekjur** *kv. flt*, tekjur á einu ári; tekjur af e-u um e. fyrir eitt ár: *á. hans voru 2400 kr.; af á-m af jarðeign skal gjalda skatt.* ***-tíð** *kv*, (e-t) tímabil árs(ins): *gott veðr á þessari á.*, um þetta leyti árs. ***-tíða-mót** *kl. flt*, tímamót, er árstíðir skiftast á, t. d. sumarmál, haustnætr, vetrnætr. ***-tíða-skifti** *kl. flt*, umskifti árstíða, = *-tíða-mót*, Klp. II, 3. ***-tillag** *kl*, árlegt tillag e. framlag. ***-tími** *k*, **1.** = *árstíð.* **2.** eins árs bil: *hann dvaldi hér eitthvað á-a*, eitt ár. ***-verk** *kl*, verk, sem heilt ár þarf til að vinna, e. verk, sem unnið hefir verið á einu ári. ***-vinna** *kv*, = *verk.* ***-vist** *kv*, **1.** eins árs dvöl. **2.** heimilisfesta hjús, sem ráðið er árlangt, LFR, XIV,

196. — * **ára-bil** *kl*, nokkurra ára tímabil. ***-fjöldi** *k*, mergð, tala, ára. ***-lag** *kl*, tiltekin tala ára: *byggja e-m jörð að á-i*, um svo e. svo mörg ár, FjÞ, 41. ***-mót** *kl. flt*, tímamót er eitt ár endar og annað byrjar, EspÁ, II, 109. ***-skeið** *kl*, árabil: *alllangt á.*, tímabil allmargra ára. ***-skifti** *kl. flt*, *δ* **1.** áramót. **2.** mismunr, umskifti, á árum: *sumarafli er engan veginn viss hér, það eru mikil á. að því*, áramunr. **-tal** *kl*, † **1.** tímatal, reikningr eftir árum miðaðr við e-n viðburð, Hkr. (form.). **2.** tala, fjöldi, ára(nna): *átt-ræðr að á-i.* ***-tals-bygging** *kv*, bygging á jörð um tiltekið áratal eða árabil, t. d. 20 ára bygging, FFH, 1842, 133. **-tala** *kv*, † **1.** = *áratal 1.* **2.** = *áratal 2.* *α* **3.** = *árstal*, EspÁ, II, 97. ***-tugr** *k*, tíu ár, Skír. VII, 1. ***-vöxtr** *k*, árlegr vöxtr: *mig furðaði á melsins jöfnum á-i*, LFR, I, 39.

**ár[r]**⁵ *l*, tímanlegr, snemmr: *að árum degi*, snemma dags.

**ár[r]**⁶ (ef. **árs** [† **árar**], þgf. **ár** [† **æri**], flt. nf. **árar** [† **ærir**], þlf. **ára** [† **áru**], † **1.** sendiboði, sendill; þjónn: *sendi Atli áru sína.* † **2.** engill (guðs): *guð gerir anda áru sína; engla sveitir, þat eru ærir ok höfuðærir.* **3.** engill djöfulsins, púki, drísildjöfull: *Satan með sínum árum;* † *ærir fjándans* = englar fj.; *skal ei hræðast alf né ár, | útburði, tröll né sultar-fár*, MJoch. Útil. [Sbr. *ári*, k.]. — S a m s.: * **ára-gangr** *k*, djöflagangr, Vísnab. 153. * **-her**, LFR, XIII, 284. * **-læti** *kl. flt*, djöflalæti, ljótr ágangr.

* **ára** (**-aði**) *óp. s*, láta í ári, vera svo e. svo (um árferði): *eftir því sem árar*, lætr í ári, Johns. 145; *nú árar vel til lands og sjávar*, nú er góðæri, nú er góðr afrakstr atvinnuvega manna; *það árar nú ekki til þess*, það lítr nú ekki líklega út með það (um e-ð, sem hugsað er um að framkvæma).

* **Araba|land** *kl*, Arabía, Rabítaland.

* **Arabi** *k*, Rabíti, íbúi Rabítalands (Arabíu).

**Arabía** † *kl*, * *kv*, Rabítaland (fornt), Arabaland.

† **Arabía-gull** *kl*, gull frá Arabíu.

† **Arabía-hestr** *k*, hestr frá A.; rabítr (fornt).

*φ* **arabiska** *kv*, = *arabska.*

*φ* **arabiskr** *l*, = *arabskr.*

* **arabska** *kv*, Rabíta-tunga, mál Rabíta eða Araba, rabízka.

* **arabskr** *l*, af Araba-kyni, sem heyrir til eða snertir Arabíu.

**ár|angr** (**-rs**, án *flt*), † **1.** árferði, að því er lýtr að afrakstri jarðar, og einnig etv. árs-afrakstr jarðar. * **2.** ávöxtr (gerða, athafna, ráða), afleiðing e. því um líkt: *lifa á árangri vinnu sinnar*, afrakstri; *J. hvatti bændr til að fara betr með áburðinn og höfðu* (báru) *þær áminningar hans góðan á.* *α* **3.** afkoma, hagr, ástand: *það er vesall á. fyrir þeim manni* [»aldrei haft um gott ástand«], Sch. — S a m s.: * **árangrs-laus** *l*, sem engan árangr (2) ber. ***-leysi** *kl*. ***-lítill** *l*, sem ber lítinn árangr (2). ***-mikill** *l*.

**árás** *kv*, áhlaup, atrás, það að ráðast á: *gera á. á e-n; veita e-m á.*

**árátta** *kv*, ósjálfráð, sjúkleg, tilhneiging: *hann hefir þá á-u til að storka öðrum . . .*, þá óstjórnlegu tilhneigingu; *það er sú á. á honum, að hann getr aldrei óljúgandi verið*, sá skapadómr yfir honum.

* **árbiti** *k*, morgunmatr, PP. Sms. 233.

* **árbítr** *k*, árbiti, morgunverðr, Alm. f. h. 44; PoS, 102.

* **árblær** *k*, morgunblær, Milt. 109.

* **árbók** *kv*, **1.** bók, sem skýrir frá viðburðum þeim er verða á hverju ári: *Íslands árbækr í söguformi*, EspÁ, titilbl. **2.** bók, sem gefin er út árlega, ársrit: *Á. ins ísl. Fornleifafélags*, ÁF, titilbl.

† **arborinn** *l*, *λ*, = *arfborinn*, *N*.

* **árborinn** *l*, snemma borinn, LFR, XV, 279; borinn (fæddr eða risinn) snemma dags: *in á-a morgungyðja [ἠριγένεια]*, Hom. Od., Eg., passim.

† **árbót** *kv*, bati árferðis.

* **ár|brestr** *k*, óáran, uppskerubrestr, harðæri: *þar var á. og harðæri*, Skír. IX, 9.

**árbúinn** *l*, snemma tilbúinn. *And.* síðbúinn, Hom. Od., V, 7.

† **árbýll** *l*, er hefir gnótt í búi.

† **arbyst** *kv*, lásbogi. *And.* handbogi. Sjá: *armbrist*.

* **arða** *kv*, e-ð smátt, hart viðkomu, fast á yfirborði; *arða á hörundi*, bris, varta, líkþorn e. þvíl.; *arða í pappír, lérefti* eða þvíl., hörð ögn, sem gerir ójöfnu á yfirborði; *örður á hjarni*, smásteinar e. smánybbur, sem standa upp úr; *örður á ísi*, smáójöfnur eða nybbur.

**árdagr** *k*, **1.** flt. **árdagar**, fornöld, upphaf tímans: *í árdaga*, í upphafi tímans, endr fyrir löngu. * **2.** morguns-ár, morgunn, JG, Db, 36.; annars mest haft í — Sams.: * **árdags-ljómi** *k*, ljómi morguns-ársins. ***-roði** *k*, morgunroði, Ól.Sig. 15. ***-skin** *kl*. ***-ský**, Klopst. III, 113. ***-sól**, morgunsól. ***-stund** *k*, stund snemma morguns.

† **arðar|leiga** *kv*, † **arðar|máli** *k*, sjá: *örð*, kv.

* **arðberandi** *lm*, sem ber arð (2), gefr ágóða af sér eða ávöxt.

* **arðbær** *l*, = arðberandi: *a. skuldabréf; a-t fyrirtæki*.

*ν* **árdegi** *kl*, dagrinn fram að hádegi (JÓ): *við töfðum þar alt á-ð*, allan daginn fram til hádegis. *And.* síðdegi. — Sams.: * **árdegis-stund**, JÓ.Lj.[2] 149.

**árdegis** *a*, **1.** snemma dags. *ν* **2.** fyrir hádegi (JÓ). *And.* síðdegis.

† **arðga (-aði)** *ás*, sjá: *örðga*.

† **arðigr** *l*, sjá: *örðugr*.

* **arðfé** *kl*, höfuðstóll. *And.* eyðslufé.

* **arðhœgr** *l*, sem auðfenginn er arðr af, hœgt er að hafa arð af: *a. jarðarpartr*, Klp. I, 147.

* **arðlaus** *l*, sem engan arð (ágóða) gefr af sér, VPost. 210.

* **arðleysi** *kl*, það að vera arðlaus.

* **arðlítill** *l*, sem gefr lítinn arð.

* **arðmikill** *l*, sem gefr mikinn arð.

**arðr** (ef. **arðrs**, [sjaldan, nema í sams.] **arðs**) *k*, **1.** eins konar plógr, sem forfeðr vorir notuðu bæði í Noregi og hér, líkl. minni og e-ð öðruvís en plógr: *lét hann þrælana draga arðrinn*, Landn.; *eykr fyrir plógi eðr arðri; höggva má maðr sér til plógs eðr arðs* (sic), NGL, II, 115. * **2.** (ávalt í ef. *arðs*; ⊤ *arðar*, Snót[1], 90) ágóði, ávinningr, afrakstr: *a. er mismunrinn á framleiðslukostnaði einhvers hlutar og söluverði hans*, JÓ, Vskf. 114; *það þætti góðr a. í öðrum löndum*, Fjöln. I, 67. — Sams.: † **arðs-geldingr** *k*, (geltr) uxi, sem beitt er fyrir arðr. ***-von** *kv*, von um arð (ágóða).

† **arðrfar** (flt. **arðrför**) *kl*, far, skurðr, í jarðvegi eftir arðr.

† **arðrfor** *kv*, = *arðrfar*.

† **arðrgangr** *k*, skerinn á arðri. *Sn.* ristill (sbr. *arðrjarn*).

† **arðrjarn** *kl*, jarn á arðri: *a. þat er ristill heitir*, Stj. 386.

* **arðrnaut** *kl*, arðruxi, arðsgeldingr, LFR, XII, 79.

**arðr|uxi** (flt. † **-yxn** og **-uxar**) *k*, uxi, sem beitt er fyrir arðr eða plóg.

* **arðr|yxni** *kl. flt*, arðruxar, LFR, VIII, 41.

* **arðsamlegr** *l*, líklegr til arðs, Fjöln. I, 13.

* **arðsamr** *l*, sem gefr arð af sér; sem gefr góðan (mikinn) arð: *a. atvinnuvegr*, gróðavænlegr.

* **arðsemd** *kv*, sá eiginleiki að vera arðsamr.

* **arðsemi** *kv*, arðsemd.

* **arðskafi** *k*, viðrnefni, sem kemr fyrir í Hyndluljóðum: *Grímr a.*

* **arðstofn** *k*, höfuðstóll, JÓ.

* **arðsæll** *l*, sem vanr er að gefa góðan arð af sér, JÞ, I, 230.

* **arðvon** *kv*, = *arðs-von*, Klp. I, 61.

* **arðvænlegr** *l*, líklegr til að gefa arð af sér, verða arðsamr: *a-t fyrirtæki*.

○ **ár|dýrð** *kv*, morgunroði, Milt. III.

○ **ár|dögg** *kv*, morgundögg.

* **á|refti** *kl. so*, raftviðr á hús, Skír. VII, 89.

**áreið** *kv*, † **1.** áhlaup riddaraliðs. * **2.** skoðunarferð dómara og tilkvaddra meððómsmanna (eða skoðunarmanna) til vettvangs (staðar, þess er þræta er um, e. þar sem e-ð hefir fram farið), einkum tíðkanlegt í landaþrætumálum eða við ákvörðun landamerkja: *hann uppástendr að dómarans á. og dómr álítist ipso jure nullus* [að sjalfsögðu ógildr að lögum], *þar hann alleina með einum dómsmanni hafi sökina afgert*, Lþb. 1773, Nr. 24. — Sams.: * **áreiðar-gerð** *kv*, = *-þing*. * **-dómr** *k*, dómr áreiðarmanna. * **-maðr** *k*, maðr, sem kvaddr er til að gera áreið. * **-þing** *kl*, sjalf álitsgerðin á staðnum, er áreið er á gerð: *lögmenn eiga á á-um að skoða prætulandsins ásigkomulag*, Lþb. 1791, No. 14.

* **áreiðanlega** *a*, vissulega, með fullri vissu, örugt.

* **áreiðanlegleiki, -leikr** *k*, = *áreiðanleikr*.

* **áreiðanlegr** *l*, öruggr, viss, sem reiða má sig á.

* **áreiðanleiki, -leikr** *k*, sá eiginleiki að vera (e. að e-ð er) áreiðanlegt: *treysta áreiðanleik þessara ályktana*, að þeim skeiki eigi; *ég þekki ekki áreiðanleik mannsins*, veit eigi, hversu áreiðanlegr hann er.

* **áreiðilegr** *l*, = *áreiðanlegr*.

* **áreiðileiki, -leikr** *k*, = *áreiðanleikr*.

* **áreiðing** *kv*, hnipping, árekstr? »*Bessi og Krossi mynda mál | meður áreiðingum. | Enginn hefir séð þá sál, | sem þeir eru að þing' um*«, Sch.

* **áreita** (**-reitti**) *ás, a* **1.** freista: *sagt er, at eigi skulir þú á. dróttin guð þinn*, freista drottins, OG, Lúk, *4*, 12. **2.** erta, styggja, gera að fyrra bragði á hluta: *þeir vóru að á. karlinn*, bekkjast til við (í orði eða verki), hrekkja (í verki); *hann þóttist áreittr í blaðinu*, þótti gert á sinn hlut; *hversdagslega hægr, en bitr frá sér, ef hann er áreittr.* [┬ *áreitaði* (í þát.): *ó hvað ég hefi, aum mannkind, | áreitað þig með margri synd*, (úr gml. sálmi)].

* **áreiting** *kv*, það að áreita (2).

† **áreitingr** *k*, viðlit, tiltök(?); *engi á.*, Finnb. 34. k.

**áreitinn** *l*, † **1.** sem sælist eftir (e-u). * **2.** gefinn fyrir að áreita (2).

* **áreitni** *kv*, **1.** það að vera áreitinn

(2). **2.** það að vera áreittr: *hefna sín fyrir á.*, fyrir það að maðr hefir verið áreittr.

* **árekstr** *k*, það að rekast á; það að reka sig á: *ið illa meiðir með árekstrum*, BG, Njóla; *árekstrar eru nauðsynlegir til að læra af*, Fjk. '87, 133 b. (sbr. »aldrei lærir œskan gang, | ef aldrei fær að detta«).

* **árensli** *kl*, það að e-ð rennr á e-ð: *á. vatns*, LFR, II, 38.

* **árétta** (**árétti**; ⊤ **áréttaði**) *ás*, **1.** reka í árétti (1). **2.** styrkja, ganga betr frá (e-u), svo að í góðu standi sé: *hann taldi verkið of hátt borgað og árétti rök sín með því að bjóðast til að vinna það fyrir þriðjungi minna.* **3.** *óás*, herða á, bœta við: *hann skammaði Sv. eins og hund og árétti með því að gefa honum á kjaftinn.*

* **árétti** *kl*, **1.** fleygr, rekinn framan í enda á skafti, svo að hausinn (t. d. á hamri, exi) fari ekki fram af, eða fleygr rekinn í mjórri enda trénagla, svo að hann dragist ekki út. **2.** ofanálag, ábœtir: *þegar til á-s var lagðr fram hákarl og hvalrengi* [eftir annan mat], ÆBP, 73.

* **árétting** *kv*, það að árétta (1, 2, 3).

† **áreyðr** (ef. **áreyðar** og **áreyðrar**, þgf. og þolf. **áreyði**; nf. flt. **áreyðar**) *kv*, e. k. silungr *(salmo alpinus)*, er gengr í ár e. lifir í ám.

* **áreynsla** *kv*, það að reyna á sig, raun: *líkamleg á.*, fyrirhöfn, sem reynir á krafta e. þol líkamans: *andleg á.*, það sem reynir á sálarkraftana e. þolið. — Sams.: * **áreynslu-laust** *a*, án áreynslu. ***-verk** *kl*, verk, sem reynir á mann.

* **arfa** (ef. **örfu**) *kv*, kvenerfingi.

* **arfafé** *kl*, erfðafé, EspÁ, III, 79.

† **arfagarðr** *k*, húsagarðr, sem maðr hefir erft, N.

* **arfagóz** *kl*, erfðagóz, Vísnab. 68.

* **arfa|hluti**, **-hlutr** *k*, það sem manni hefir hlotnast í arf (í sinn hlut), VPost. II, 166.

* **arfalaus** *l*, sem enginn er erfingi (arfi) að: *a-t fé*, BH.

* **árfar** *kl*, ársumferð: **1.** árgangr (af blaði e. tímariti): *nýtt á. . . . hefst með Nýjári 1885*, Fjk. '84, 77. **2.** árferði: *þá var á. gott um land alt.*

* **arfaréttr** *k*, erfðabalkr; arftökuréttr, Tiro 27.

*a* **arfaskifti** *kl. flt*, = *arfskifti*, BH. — Sams.: *a* **arfaskifta-þrætur**, sami.

**arfaþáttr** *k*, erfðabalkr, sá balkr e. þáttr laga, er kveðr á um arftökurétt, Grág.

**arfborinn** *l*, rétt borinn til arfs; sem ekki þarf að »leiða til arfs«; † skilgetinn, N: *sá er a., er kominn er til alls réttar*, er bæði á arf að taka og vígsbœtr. [Í norskum handritum er stundum úr þessu orðið: *arborinn*, s. þ. o.]. Í norsk. handr. haft í líkri merking og *ættborinn, eðli borinn*, »skilgetinn til arfs«.

* **arfbær** *l*, réttbær til að taka arf, Klp. I, 98.

† **arfdeild** *kv*, N, arfskifti.

* **árfenginn** *l*, **1.** snemma fenginn. **2.** fenginn þetta ár, BH.

† **árferð** *kv*, **1.** ásigkomulag árstíðar (að veðráttu og búskapar-horfum): *góð á.* **2.** góðæri: *á. mun af taka um alla Danmörk.*

* **árferði** *kl*, = *árferð 1.* — Sams.: * **árferðis-harðr** *l*, harðr að árferði.

* **arffenginn** *lm*, fenginn að arfi, arftekinn: *arffengnir mannkostir*, OLfr. II, 2, 70.

***arfgengi** *kl*, **1.** arftökuréttr: *forðast konungsnafnið, er benti á a.*, Maur. 4. **2.** það sem gengr í arf (í ættir), kynfylgja: *a. og siðafræði* (»Arvelighed og moral«).

**arfgengr** *l*, † **1.** arfborinn, réttborinn til arfs. ***2.** sem gengr eða gengið hefir að erfðum: *goða-stjórnin var a.*, skyldi ganga í erfðir; *a-ar lærdómssetningar*, l. sem gengið hafa að erfðum, arffengnar.

***arfhylling** *kv*, sú athöfn, að erfðakonungi er unninn hollustueiðr: *lögmenn, sýslumenn, lögréttumenn með tilnefndum bændum voru saman komnir á Öxárárþingi til að fullkomna að boði konungs arfhyllingar eið*, Lþb. 1662. — Sams.: **arfhyllingar-eiðr** *k*, hollustu-eiðr við erfða-konung.

**arfi**[1] *k*, **1.** erfingi. † **2.** aðalerfingi, Gul. 115. ○ **3.** sonr: *þar sat hervæddur Ólafs a.* | *alvanur hörðu pennastarfi*, KJLj. 341.

**arfi**[2] *k*, nafn á illgresistegund *(alcine media* e. *stellaria media)*. — Sams.: ***arfa-nám** *kl*, upprœting arfa, Gkv.B. 23. ***-sæll** *l*, sem arfa er gjarnt að spretta í: *a. jarðvegr*, Sch. **-sáta** *kv*, sáta hlaðin úr arfa, Njá.

*α* **arfi**[3] *k*, tóbakstegund, Lþb. 1769, nr. 33.

† **arfingi** *k*, = *erfingi.*

**arfkaup** *kl*, ***1.** kaup á arfsvon. † **2.** verð það er greitt er fyrir arfsvon.

***arflaus** *l*, sem engan arf fær: *gera e-n a-an*, svifta e-n arfi (erfðarétti).

***arflausn** *k*, fjárgreiðsla til útarfa í þeim notum, að maðr arfleiðir annan (t.d. ættleiðir óskilg. börn sín): *Ketill prestr . . . ættleiddi börn sín; . . . en XXX hundruð lagði (hann) Erlendi bróður sínum í a.*, EspÁ II, 39.

***arflegr** *l*, = *arfgengr 2: til arflegrar leigu.*

**arf|leiða** *ás*, leiða til arfs, ættleiða; gera e-n, sem ekki er til arfs borinn, að erfingja sínum.

**arfleiðing** *kv*, það að arfleiða.

***arfleiðingr** *k*, arfleiddr maðr, BH. [Gott orð].

***arfleiðsla** *kv*, arfleiðing. — Sams.: ***arfleiðslu-bréf** *kl*, skjal til sönnunar því, að maðr arfleiði e-n. ***-gerð** *kv*, sú gerð, að arfleiða e-n. ***-mál** *kl*, mál um arfleiðslu. ***-skrá** *kv*, = *-bréf.* ***-vottr** *k*, vottr að arfleiðslu.

***arfleifandi** *k*, sá er lætr arf eftir sig.

***arfleifð** *kv*, arfr, sem e-r leifir eftir sig, e. arfr, sem e-m hefir leifðr verið.

***arfmissir** *k*, missir arfs: *hótunin um arfmissi*, Dægst. 16.

***arfr** *k*, **1.** eignir, er maðr lætr eftir sig við andlát sitt og annar maðr eignast við fráfall hans annaðhvort fyrir ætternis sakir eða samkv. löglegri gerð (erfðaskrá): *manni tæmist a.*, hlotnast a. við fráfall manns; † *arfr er dáinn*, arfr hefir tæmst; *alinn* [fæddr] *til arfs; skilgetinn til arfs;* † *gera mann til arfs*, ættleiða mann; *skifta arfi; eiga hlut í arfi* (sbr. arfahluti); *arf ber undir e-n*, e-m hlotnast a.; *færa sig til arfs*, sanna erfðarétt sinn; *ganga til arfs*, taka við arfi; *standa e-m fyrir arfi*, véfengja erfðarétt e-s; *fara úr arfi*, ganga frá, afneita, hafna, arfi; *færa e-n úr arfi*, neyða e-n til að fara úr arfi. † **2.** erfðaréttr, réttr til arfs: *vera fyrri í arfi*, hafa erfðarétt á undan (e-m öðrum). † **3.** föðurleifð, fasteign, sú er aðalerfingi fær að erfð. † **4.** naut, uxi, SnE. — Sams.: **arfs-fráganga** *kv*, það að ganga úr (frá) arfi. *α*-**ganga** *kv*, óvenjul. eða

óreglulegr erfðaréttr *(successio anomala)*, Tiro 103. ***-jöfnuðr** *k*, það að jafna eignum milli erfingja (»leggja út« hverjum sitt í arf — *collatio bonorum)*, Tiro 103. ***-réttr** *k*, erfðaréttr, réttr til arfs, LFR, IV, 125. **-skifti** *kl. flt*, = *arfskifti*. ***-sókn** *kv*, Tiro 100, sjá: *arfsókn*. ***-tilkall** *kl*, krafa til arfs. ***-von** *kv*, von á arfi.

**arfrán** *kl*, það að ræna, eða vera rændr, arfi.

† **arfræning** *kv*, = *arfrán*.

**arfræningr** *k*, sá sem er rændr arfi.

**arfsal** *kl*, próventugjöf; sá samningr, að e-r gefr öðrum eigur sínar allar eftir sinn dag, gegn því að sá sjái fyrir honum til dauðadags. (Sjá: V. Finsen í AfnO, 1849, 306. bls.). [Sakir þess að nú má enginn arfleiða neinn, ef hann á lífserfingja, að meiru en 1/4 eigna sinna, þá er *nú* sá siðr, ef slíkir menn vilja gerast arfsalsmenn, að þeir gefa allar eigur sínar í lifanda lífi, þeim sem tekr þá til framfœris]. — Sams.: **arfsals-maðr** *k*, sá sem hefir selt öðrum arf eftir sig, gegn því að sá ali önn fyrir h-m. **-máldagi** *k*, máldagi eða samningr um arfsal. **-ómagi** *k*, sá maðr, sem e-r hefir tekið arfsali e. arftaki. *Sn.:* arftaks-ómagi.

**arfskifti** *kl*, arfdeild, það að skifta arfi. — Sams.: ***arfskiftis-seðill** *k*, skirteini, sem skiftaráðandi fær erfingja í hendr fyrir því, hverjir munir honum hafi verið skiftir (»lagðir út«) í arf sinn. *Sn.:* ⚘ lóðseðill.

† **arfskot** *kl*, sú athöfn, er maðr fargar eign sinni öðrum í hönd, til þess að hún lendi eigi hjá erfingja sínum.

**arfsókn** *kv*, það að sœkja arf sinn úr annars hendi.

† **arfstóll** *k*, sæti, er að erfðum hefir gengið.

**arfsvifting** *kv*, það að gera en arflausan e. svifta e-n meiru e. minnu af arfi. Sbr. *arfskot*.

△ **arfsviftingr** *k*, maðr, sem gerðr hefir verið arflaus, JÓ.

**arfsvik** *kl*. svik, er frammi eru höfð, til að svíkja arf af öðrum eða draga sér of mikið af arfinum.

* **arfsögn** *kv*, = *erfisögn*.

**arftak** *kl*, † **1.** það að taka við arfsalsmanni (s. þ. o.). **2.** arftaka. — Sams.: **arftaks-ómagi** *k*, sá ómagi, sem arfsali eða arftaki er tekinn.

**arftaka** *kv*, það að taka arf eftir e-n. — Sams.: † **arftöku-karl** *k*, = *arfsalsmaðr*. **-maðr** *k*, sá er arf tekr, erfingi, arftaki. ***-réttr** *k*, réttr til erfða.

† **arf|taka (-tók, -tekið)** *ás*, að taka að erfðum.

† **arftakari** *k*, =

**arftaki** *k*, sá er arf á að taka, arfi, erfingi.

**arftekinn** *lm*, tekinn að erfðum: *a-n réttindi*, Skír. VII, 15; Fms. XI, 306.

† **arftekja** *kv*, = *arftaka*.

† **arftekju|land** *kl*, land að erfðum fengið.

† **arftœki** *kl*, = *arftaka*.

† **arftœkr** *l*, = *arfgengr (1.)*, Agla; † *verða a. e-s*, fá e-ð að arfi, Hms.

† **arfuni** *k*, erfingi.

† **arfvon** *kv*, = *arfsvon*.

**arfþegi** *k*, = *arftaki*.

* **árfœrðr** *l*, sem ártal er tilgreint við, JÞ, II, 656.

* **arg** *kl*, **1.** garg, óhljóð, hávær kjaftagangr. **2.** ánauð (kl.), ónæðis-erill: *aldrei hljóta' af argi frið*, fá aldrei frið fyrir erli þeirra er erindi þykjast við mann hafa, JÓLj.[1], 50.

*** arga (-aði)** *ás*, **1.** hafa óhljóð í frammi, garga. **2.** siga: *a. hundunum á e-n;* óel. *a. e-m á stað*, siga e-m á stað, reka e-n á stað með ákafa-orðum, Sch. 3. nauða á e-m með gargi: *það væri ekki mót von þótt hann gleymdi einhverju, þegar allir a(-ast) svona í honum í einu.*

† **arga|fas** *kl*, fautalegt tilræði, sem maðr stillir sig þó sjalfr um, svo að ekki verðr af: *ef maðr hleypr að manni ok heldr hann sér sjalfr* [ɔ: stillir sig sjalfr] *ok verðr eigi skírskotat, þat er a.*

*** ár|gagn** *kl*, gagn af árgœzku(?): *illir menn á-i spilla*, GÍO, 177.

**árgali** *k*, sá er árla gelr, þ. e. hani.

† **árgalli** *k*, óáran. *And.*: árbót.

† **árgalla|laus** *l.*

*** árganga** *kv*, árleg ganga: *á. jarðarinnar*, Úrs. 142.

**árgangr** *k*, † **1.** eins árs skeið: *í þessum árgangi*, á þessu ári; *um tvá árganga*, um tveggja ára bil. *** 2.** (sjaldh.) árferði: *á. var hér sem í meðalári*, Skír. V, 79; Vísnab. 96. 3. það af blaði e. tímariti, sem út á að koma eða út kemr á einu ári: *það stendr á 271. dálki í 2. árgangi Skuldar.*

† **arga|skattr** *k*, svívirðingarskattr.

*** árgeisli** *k*, geisli morgunsólar, Milt. 109; JÓLj², 171, 172.

† **arg|hola** *kv*, (egl. blauðhola ɔ: kunta), hóra, skœkja.

*** árgjald** *kl* = *ársgjald* (s. v. *ár⁴*).

⊙ **árgjarn** *l*, þráandi góða uppskeru.

*** árglaðr** *l*, glaðr að morgni dags: *á-ir fuglar*, Blk.

**argr** *l*, (sama orð sem *ragr*, að eins stafavíxl). **1.** ragr, hugblauðr, huglaus: *a. er sá sem engu verst*, Málsh. **2.** kvenkyns, blauðr (2). 3. óstjórnlega vergjörn (um konu) e. kvensamr (um karlmann). 4. illr, svívirðilegr: *engi stafkarl argari ok djarfari*, Ævint.; *argasta klám*, svívirðilegasta; *eignast muntu argan þræl,* | *sem ekki' er skóþvengs virði*, Hallgr. Pét.

*** árgróði** *k*, alt sem á jörðu vex: gras, ávextir osfr.: *á. lætr nú af að vaxa*, Atli 194. — Sams.: **árgróða-bekkr** *k*, frjókista, vermireitr, Lacch. 101.

*** argsamr** *l*, ónæðissamr, sem hefir arg og ónæði í för með sér: *hér er argsamt*, hávært aðkall og ónæði; *a-ra verka armœða*, Klp. II, 178.

† **argskapr** *k*, samræðis-athœfi karlmanns við karlmann.

**árguð** *kl*, guð góðrar uppskeru (Freyr), SnE.

*** argvítugr** *l*, meinillr, hábölvaðr, ærulaus, ódrengilegr; frámunalegr: *a. níðingr, a-g skœkja, a. rógr; a-g vitleysa.*

*** árgyðja** *kv*, frjósemdargyðja (Ceres), LFR, VI, 198.

**árgœzka** *kv*, góðæri. — Sams.: *** árgœzku-ár**, ár þegar góðæri er, vel lætr í ári, 1. Mós. xli, 34.

† **Árheimar** *k. flt, en*, nafn á bœ við á.

*** árhringr** *k*, hringr á tré, sem sýnir árlegan vöxt þess.

† **Árhúsar** *k. flt, en*, bœjarnafn, N.

**ari** *k*, **1.** örn. **2. Ari**, karlmannsnafn. — Sams.: **ara-hreiðr** *kl*, arnar-hreiðr.

*** ári** *k*, = *ár(r)⁶ (3)*, skrambi, skratti, púki, fjandi osfr.: *á-nn hafi (eigi, taki) það*, fjandinn hafi það; *á-ans (ekki sinn) læti*, bölvuð læti, fjandans læti. — Sams.: *** ára-dómr** *k*, fjandadómr, skrattadómr (ɔ: mikil mergð): *á. af silfri*, rœkarls-mikið af silfri. ***-korn** *kl*, skratta-korn: *ára-kornið ég læt meira*, fjandinn hafi það hœtið, sem ég læt

meira; *ára-korninu sem það munar*, skrattinn taki þá ögn sem það munar; *á-inu hann gerir það*, fjárinn hafi sem hann gerir það. ***-legr** *l*, og ***-lega** *a*, skrattalegr (-lega): *þetta gekk á-a*, fór fjandi illa.

† **árida** *kv*, áburðr, sem borinn er á (e-ð), smyrsl.

* **áridamikill** *l*, **1.** ákafr, Sch. **2.** fyrirferðarmikill.

* **áridandi** *lm*, sem mikið ríðr á, mikið er undir komið.

† **arin|dómr** *k*, palladómr: *hafa polinmœði við a-a alþýðunnar*, Leifar 13.

**arin|eldr** *k*, eldr á arni.

† **arin|elja** *kv*, frilla manns, sem hann hefir á heimili sínu (sbr. *elja*).

† **arin|gjald** *kl*, skattr (til konungs) af hverjum arni, N.

⊙ **aringreypr** *l*, sem er umhverfis arninn; um bekki, sem standa umhverfis arinn, og um hjalma, sem hengdir eru upp umhverfis arinn.

**arin|hella** *kv*, **1.** hella fyrir framan arinn. ***2.** hella frammi fyrir bœjardyrum.

* **arin|hilla** *kv*, hilla uppi yfir arni, þar sem arinn er á enskan hátt (inn í vegginn); þar er hilla e. sylla yfir (úr steini) og eru ýmisl. munir settir á hana, oftast til prýði (E. *chimney-piece*).

⊙ **arin|kjóll** *k*, [sjá: *kjóll* = skip], hús, Yngl.tal.

**arinn**[1] *lh*. af *erja*.

**arinn**[2] *k*, † **1.** upphækkun, hár pallr: *í miðju húsinu var a. víðr, en uppi á arninum var sæng mikil*, Klm.; á skipi (um lyftingardyra-umbúnað?), SnE. **2.** eldstœði: *eldr var á arni*, Ljósv.; *fara eldi ok arni*, flytja sig búferlum (taka með sér eld og arin). — Sams.: **arins-horn** *kl*, † **1.** hvert horn á sjalfum arninum: *at a-um fjórum*. **2.** horn(ið) í húsinu við arninn: *drekka at a-i*, sitja að drykkju í horninu við arninn (e. við hornið á arninum?), Hkr. †**-jarn** *kl*, skörungr (til að skara eld með). ***-stöðvar** *kv. flt*, eldstœði, EÓ, 93.

† **arinnefja** *kv*, kona, sem sífelt er með nefið svo að segja í öskustónni (sbr. *kolkjafta*).

* **arinstöð** *kv*, heimkynni, aðsetr, TB, VII, 143.

* **ariskr** *l*, er snertir Aría-þjóð(ir) e. Aría-tungu.

* **áritaðr** *lm*, sem ritaðr er á (e-ð), JÓ*r*.

△ **áritning** *kv*, nafn og heimili ritað á bréf e. sending (E. *address*), JÓ. — △ Sams.: **áritningar-bréf** *kl*, tilvísunarbréf með böggli. **-breyting** *kv*, breyting áritningar (utanáskriftar). **-spjald** *kl*, **1.** spjald með prentaðri áritning (*visitkort*). **2.** spjald undir (prentaða eða skrifaða) áritningu.

△ **áritningr** *k*, sá sem áritning tilgreinir (*adressat*); viðtakandi (bréfs eða sendingar), JÓ.

* **áritun** *kv*, e-ð, sem ritað er á e-ð, JÓ*r* 1885.

**arka (-aði)** *óás*, reika, ganga, lalla: *þat a-r at auðnu*, fer sem verða vill.

† **arka (örku)** *kv*, kista (= *örk*), að eins í sams. *örku-fótr* (s. þ. o.).

**arka(r)-**, sjá: *örk*.

† **ár|kjörr** *k*, elri-kjarr, N.

**árla** *a*, [samdr. fyrir *árlega* =) snemma, tímanlega: *á. um morguninn, á. morguns*, snemma morguns.

* **árlangr** *l*, sem tekr yfir heilt ár: *eftir á-a sjúkdómslegu*, eftir að hafa legið eitt ár sjúkr; *árlöng dvöl*, dvöl í heilt ár. — Þar af

**árlangt** *(kl. l. =) a,* um (i) heilt ár: *dvaldi þar á.*, eitt ár; *skal halfa landskuld upp bera hvárr þeirra á.,* eitt ár (um ókominn tíma).

**árlega** *a,* † **I.** snemma (= *árla),* SE. **2.** á hverju ári.

**árlegr** *l,* † **I.** snemmr, tímanlegr, SE. **2.** er verðr á hverju ári.

† **árlengis** *a,* = *árlangt.*

* **árleysa** *kv,* uppskerubrestr, óáran, Skír. IX, 3.

**árliga, árligr,** = *árlega, árlegr.*

○ **ár|ljómi** *k,* morgunljómi.

† **arma** (ef. **örmu)** *kv,* neyð, eymd. *Sn.:* auma. *Dróttinn sá örmu á mannkyni,* aumkaðist yfir. Sbr. *sjá aumur á* (s. v. *auma)* og *armvitugr.*

**ár|maðr** *k,* umboðsmaðr konnngs (i Danmörk og í Noregi í fornöld) eða erkibyskups e. byskups; þeir voru ótignir menn og lítt virtir e. þokkaðir af alþýðu; þeir sáu um búgarða konungs og (síðar?) um tekju-heimtur. Sbr. lénsmenn, umboðsmenn, sýslumenn. Þó gera Gþl. mun á ármönnum og sýslumönnum. — Í Bps. I, 5 er dvergr eða alfr kallaðr ármaðr Koðráns, þ. e. maðr, sem gerði margt fyrir hann. — Sams.: † **ármanns-réttr** *k,* réttr ármanns þ. e. bœtr fyrir að gera ármanni óskunda. † **-starf** *kl,* hlutverk eða sýsla ármanns. *Sn.:* ármenning. — **Ármanns-fell** er en. á Íslandi, þótt ármenn væru þar annars ekki til (nema nafnið eitt).

* **armaleysingi** *k,* maðr, sem er fœddr handleggjalaus, Klp. VII, 42.

* **armband** *kl,* =

**armbaugr** *k,* = *armhringr.*

† **armbrist** *kv,* = *arbyst.*

† **ármenning** *kv,* ármanns-starf.

† **armfylking** *kv,* fylkingar-armr.

* **armhattr** *k,* hattr, er menn báru á armi í samkvæmum, dýrindishattr, MT, I, 125.

* **armhringr** *k,* hringr til að bera um arminn (ölnliðinn) til skrauts, Genes. (Gbr.) xxiv, 30.

**armingi** *k,* **I.** aumingi. § **2.** öreigi, fátœklingr.

**armingjaskapr** *k,* **I.** aumingjaskapr, Klopst. 10. b. § **2.** örbirgð.

**armleggr** *k,* † **I.** efri leggr armsins, upphandleggr. Í Anecd. 4. er *a.* andstœtt *handleggr* (þ. e. framhandleggr). **2.** armrinn allr = handleggr. Grett. 67. k. hefir bæði orðin í sömu merking; *útréttu þinn armlegg, sonr, og sláðu Filisteann,* MoK.

* **armleggja-mjór** *l,* handleggja-mjór, sem hefir mjóa armleggi, OLfr. II, *3,* 421.

**armlegr** *l,* **I.** aumlegr. **2.** hryllilegr, ámátlegr.

* **armlög** *kl. flt,* faðmlög.

§ **armóðr** *k,* fátœkt. — Sams.: * **armóðsbasl,** basl í fátœkt. ***-kvein,** kvein í (undan) fátœkt, JÞ, I, 253.

**armr**[1] *k,* **I.** handleggrinn frá öxl til ölnliðar: *sofa á a-i e-m* e. *e-i; spenna örmum,* faðma; † *koma á arm e-m,* (um konu) giftast e-m. **2.** vængr e. angi (þ. e. yzti hluti) e-s: *armar krossins, armar úthafsins; annar armr fylkingar; a-ar tangar, rár; a. borgar* (þ. e. kastala eða víggirðingar). * **3.** orðtak: *sofa upp í arminn,* höfðagafls megin í rekkju; *and.:* til fóta. — Sams.: * **arms-lengd** *kv,* lengd sem frá öxl til handar: *ekki arms-lengd frá mér,* svo að ég náði til hans. ○ **armalög** *kl. flt,* = *armlög,* JTh, 145.

**armr**[2] *l,* **I.** aumr: *armar sálir.* **2.** illr, bölvaðr, lánlaus: *bað hann fara*

*manna armastan*, bað h-m mestu óheilla, bölbœna; *in arma kerlingin*, illa. 3. óheill, óheillavænlegr: *ilt ráð ok armt*. § 4. fátœkr.

⊙ **armsíma** *kl*, armband [*armsími k*, H&T.].

† **armskapaðr** *l*, vanskapaðr, N.

* **arm|spöng** (ef. **-spangar**) *kv*, armbaugr, armhringr, Numeri, xxxj, 50.

△ **armstóll** *k*, = *bríka-stóll*, JÓ, (E. *armchair*).

* **armstyrkr** *l*, handleggjasterkr, Norðl. *'79*, 77.

† **armvitki** *kv*, miskunnsemi.

† **armvitugr** *l*, miskunnsamr: *M. sá örmu á héranum, því at hann var a.*, Hms. I, 568.

* **arm|vöðvi** *k*, vöðvi á (upp)handleggnum: *armvöðvar (anconei)*, LFR, X, 217.

**armœða** *kv*, mótlæti, mœða, mótgangr, erfiðleikar. — Sams.: * **armœðufullr** *l*, LFR, IV, 174. * **-kjör** *kl. flt*, erfið og mœðusöm kjör. * **-legr** *l*, sem ber armœðu-svip; sem hefir armœðu í för með sér. * **-líf** *kl*. * **-svipr** *k*.

**ar|mœðast** (**-mœddist**) *pms*, **1**. verða fyrir armœðu, sæta armœðu. * **2**. telja harmatölur sínar yfir e-u: *hún var að a. yfir (út af) því*.

* **arna** *a*, þarna; að eins í sambandinu: *sá arna*, þessi, sá þarna; *líta á myndina þá a.*, Björl. 81.; *sá arna* er stundum dregið saman í *svarna: Betra' er að fara stilt á stað; | stoðar ei reiðin svarna. | Hann hefði betur halsbrotnað | helvítið að tarna*, Björn Skúlason.

⊙ **árna**[1] (**-aði**) *óás*, ganga, reika, fara.

**árna**[2] (**-aði**) *ás*, † **1**. m. þlf., ávinna, koma til leiðar: *hún spurði, hvat hann árnar*, hvað hann ávinnr; *á. vel*, ávinna mikið; *þykir vel árnast hafa*, vel hafa samist, góð kaup gerð verið. † **2**. m. ef., útvega (e-m e-ð): *á. Gizuri kvánfangsins*, afla G. kv., styðja G. til kv.; † *á. e-m leiðréttu*, koma e-m til aftrhvarfs. † **3**. m. ef., biðja e-s, gerast meðalgangari um e-ð: *á. e-s af guði; á. e-s við guð*. **4**. með *ef*. (og þeim í þgf., sem beðið er til handa): *á. e-m góðs (ills, lífs)*, óska, biðja e-m góðs eða ills eða lífs.

**árnaðr** (**-ar**) *k*, fyrirbœn, milliganga: *fyrir árnað Jesú Krists*. — Sams.: * **árnaðar-dýrlingr** *k*, dýrlingr, sem menn heita á til meðalgöngu, dýrka til meðalgöngu: *á. landsins*, OLfr. II, *2*, 59. **-maðr** *k*, meðalgöngumaðr: *hann er vor á. hjá föðurnum*. **-orð** *kl*, bœnarorð meðalgöngumanns.

**árnan** *kv*, = *árnun, árnaðr*.

**árn|andi** *k*, (egl. *lh*.), flt. **-endr**, = *árnaðarmaðr*.

**arnar-**, sjá: *örn*.

* **arnfleygr** *l*, fleygr sem örn: *andi a.*, KJLj. 187; *a. hugr*, JH.

† **arnhljóð** *kl*, raddhljóð arnar: *a. gellr*, Norr. Skr. 245.

* **arnhöfðóttr** *l*, (um svarta skepnu) sem hefir hvít hár í höfði.

* **arni** *l*, sá þarna, þessi (myndað af *arna* a.): *óþokkinn sá arni*. Sdr. *svarni*.

† **arning** *kv*, plœging.

* **arnstokkr** *k*, hlóðir: *Gunnarsson kjöt kann | að kokka við sinn a-kk*, StÓ, 111.

† **arn|súgr** *k*, súgr af arnarflugi: *dró a-g í flugnum*, SnE.

**árnun** *kv*, † **1**. fyrirbœn (engla og helgra manna), árnaðr. * **2**. ósk: *kveð ég yðr svo með á. alls góðs*, Einar Ásm. í sendibr. '77.

† **árnæmi** *kl*, [= úrnæmi?], afsláttr, afföll(?), N.

* **áróðr** (ef. **áróðrar**) **1.** róðr gegn straumi, eink. það að róa aftr á mið, þá er bátinn hefir borið af. **2.** ógl. ásókn (eftir e-u). **3.** undirróðr.

* **áróðri** *ób. l*, áskynja: *verða á. um e-ð*, BH.

* **árofi** *k*, [af *ár* og *of(?)* — í hdr. ritað: *árovi* e. *arovi*], fulltíða maðr(?): *þá skal hann fram færa óðalsvitni sín, arova þrjá, þá er tvítugir vóru, þá er faðir þeirra varð dauðr* [*ok þar óðalbornir í því fylki*], NGL, I, 87; Gþl. 298, N.

* **Arons-vöndr** *k*, **1.** töfra-rún til að verja ósjó e. brimi, Per. Run. 171. **2.** jurt *(Erysimum)* af krossblóma-ætt.

**árr** *l*, = *ár*[5].

**árr** *k*, = *ár*[6].

**árrisull** *l*, sem rís snemma úr rekkju.

* **ár|roði** *k*, morgunroði.

† **ars** *k*, = *rass*.

† **arsgörn** *kv*, rassgörn.

⊙ **ársáinn** *l*, sem snemma er sáð (í).

† **ársali**[1] *k*, rekkjutjöld (so.).

* **ár|sali**[2] (e. **árs|ali?**) *k*, *so*, ársafurðir (e. ársforði?) [ár + selja; e. ár + ala?], AF.

† **ársalr** *k*, = *ársali*[1].

† **ársamr** *l*, frjósamr; e. árgœsku-: *á. vetr*, árgœzku-vetr.

* **árskekkja** *kv*, »sjónarmunr sá á afstöðum himintunglanna, sem árganga jarðarinnar ætti að geta valdið«, Úrs. 142.

† **árskyld** *kv*, árlegt eftirgjald, N.

* **ársæld** *kv*, sú heppni að njóta góðæris, góðrar uppskeru osfr.: *ríkið naut friðar og á-ar*, Horst. 66.

† **ársæli** *kv*, = *ársæld*.

† **ársæll** *l*, sem nýtr ársældar: *mun ok þat ríki vera ársælt; Eiríkr inn á-i.*

* **Ársæll** *en*, karlmannsnafn.

○ **ársöngr** *k*, söngr snemma morguns: *á. hananna*, JÞ, I, 347.

§ * **art** *kv*, **1.** rækt: *því var sáð í vor, en það er engin a. í því.* **2.** ógl. rækt ɔ: (gott) hugarþel; náttúrufar: *það er mikil a. í honum, svo illa sem hann er upp alinn* (sbr. artar-góðr, artarlaus); *sumir hafa soddan art,* | *þeir selja ekki' á meðan spart* | *kjassmælin og kossa*, það upplag, þá náttúru. α **3.** tegund: *af ýmsri a.*, ýmissi tegund. — Sams.: **artar-góðr** *l*, **1.** ræktarsamr: *a. við foreldra sína.* **2.** upplagsgóðr: *barnið er a-gott*, gott upplag í því. **-illr** *l*, illr að upplagi. **-laus**, ræktarlaus. **-legr** *l*, ræktarsamr. **-leysi** *kl*, ræktarleysi.

§ * **arta**[1] (**-aði**) *ás*, **1.** *a. upp á*, leggja rækt við: *það er ekki a-andi upp á hann*, ekki þess vert að leggja rækt við hann. **2.** *plm*, *artast:* **a.** þrífast: *kartöflur a. ekki í þessum jarðvegi.* **b.** um menn: *hann var fóstraðr upp á góðu heimili, en artaðist illa, þegar hann eltist*, kom fram í honum ilt upplag.

**arta**[2] *kv*, fuglsheiti *(anas querquedula)*.

**ártal** *kl*, **1.** tímareikningr (eftir árum), Vafþr.; *Caesar leiddi það á. í lög*, það tímatal, Av. VI, 135. * **2.** tala sú er táknar röð árs (t. d. fyrir eða eftir Krists-burð): *ofbjóða* (nemendum) *með nöfnum og ártölum*, Rgl. 12/7 '77, 9. gr. — Sams.: * **ártals-laus** *l*, sem ekkert ártal (2) er á. *-**skrá** *kv*, skrá um tiltekið árabil, Av. VI, 150. *-**vísa** *kv*, vísa, þar sem ákveðnir bókstafir tákna ártal, LFR, VIII, 258.

⊙ **ártali** *k*, máni(nn), tunglið (af því að menn töldu þá árin eftir tunglum).

† **ártekja** *kv*, árleg eftirtekja (afgjald) af fasteign, N.

**ártíð** *kv*, **1.** = *altíð*. **2.** (sá dagr árs, sem er) dánardagr (e-s). — Sams.: † **ártíðar-bók** *kv*, bók, sem ártíða-dagar eru á skráðir. **-dagr** *k*, = *ártíð (2)*. **-skrá** *kv*, = *-bók*. **ártíða-dagr** *k. flt*, = *ártíðardagr*. **-hald** *kl*, = *altíðahald*. † **-kerti** *kl*, = *altíða-kerti*. †**-silfr** *kl*, peningar er greiddir voru fyrir -hald. **-skrá** *kv*, skrá yfir yfir dánardaga.

* **ártíðisdagr** *k*, dánardagr, sem árlega var heilagr haldinn, Barúk, *1*, 14.

†Ψ **artíkulera (-aði)** *ás*, **1.** telja upp lið fyrir lið: *a-r upp, í hverju hann væri lýttr*, telr upp í liðum. **2.** bera fram skilmerkilega, skilmerkja (hljóð): *artikulerat orð*, Stjórn.

§ * **artíkuli** *k*, grein, málsgrein: *71. artikuli í 2. kapítula 5. bókar Norsku laga ræðir um erfðarétt frillubarns.* (Sbr. Rípa-artíkular. Stríðs-artíkular).

† **áruni** *k*, áhlaup, árás.

**árvakr** *l*, **1.** sem vaknar snemma á morgnana. **2.** sem hefir sívakandi auga á (því sem hann á að annast eða gæta).

* **árvekni** *kv*, [af *l* vakinn, t. d. vakinn og sofinn], það að vera árvakr (1. og 2.).

* **árvindr** *k*, árlegr staðvindr, LFR, III, 129.

† **árvænlegr** *l*, =

† **árvænn** *l*, vænlegr til góðs árferðis.

* **árvættr** *kv*. verndargoð eða heillavættr ársins, ÆTH, 57.

* **áræða (-ræddi)** *ás*, voga, þora, hafa hug til: *á. að tala; hann áræddi það ekki.*

† **áræðamikill** *l*, djarfr; hugrakkr.

**áræði** *kl*, † **1.** árás: *veita e-m á.*, ráðast á e-n. **2.** hugrekki, hugdirfð. — Sams.: **áræðis-fullr** *l*, djarfr, hugrakkr, áræðinn. ***-fátt** *l. kl,: e-m verðr á.*, e-m fellst hugr. **-góðr** *l*, áræðinn. ***-laus** *l*, sem skortir hugdirfð, Sch. ***-leysi** *kl*, skortr á áræði, Sch. **-lítill** *l*, deigr, ódjarfr, huglítill. † **-mikill** *l*, áræðinn. **-raun** *kv*, hugrekkis-raun, dirfsku-vottr. ***-samr** *l*, áræðinn, BH. **-skortr** *k*, brestr hugrekkis. **-snar** *l*, hugrakkr og fljótr til.

† **áræðilegr** *l*, **1.** [af *ráða* = geta upp á] líklegr, sennilegr (svo t. d. FsN, III, 165, misskilið hjá Frz.). **2.** árennilegr, Fms. VIII, 64.

**áræðinn** *l*, sem þorir (e. gjarn er til) að ráðast á, hugaðr, vogaðr, hugrakkr, ódeigr.

**Ás[s]**¹ (ef. **Áss** og † **Ásar**; þgf. **Ás** og † **Æsi**; nf. flt. **Æsir**; þlf. flt. **Ásu)** *k*, **1.** sérhvert inna fornu heiðnu goða Norðrlanda; stundum: hvert inna eldri goða (þá andstœtt: Vanir). **2.** goð (að eins í sams., svo sem *Sólaráss* = sólguð; sbr. *Svínafells-áss* (í Njá.), Svínafells-vættr).

**ás[s]**² (ef. **áss**, þgf. **ási** (og **ás**); nf. flt. **ásar**, þlf. flt. **ása)** *k*, **1.** bjalki aflangr: *voru tveir að vega salt á vænum ási*, á digrum e. sterkum bjalka. Stundum e. oftast um aðal-bjalkann í endilöngum mœni húss (sbr. *mœniás);* stundum um önnur langbönd (sbr. *brún-ás*, langásinn á veggbrúninni, sá er hvílir á stoðunum; *lang-ás*, langband fram með brú). Sérstaklega: **a.** þverás út frá siglu, sá er neðri rönd segls er fest við: *svá at sea* [= *sjá*] *má ás á borði* (sbr. *beiti-ás)*. * **b.** mundangr á vog. * **c.** möndull, sem e-ð veltr eða leikr á: *leika á ási.* * **d.** þorn í sylgju eða hringju. **2. a.** hryggr, sem gengr út frá e. fram með fjalli, hæð (nokk-

uð mikil) á landi (út frá fjalli); »langt klettabelti, sem stendr upp úr jarðveginum fyrir ofan og neðan«, Sch. **b.** **Ás** og **Ásar** (flt.), nafn á ýmsum bóndabœjum, bæði á Ísl. og í Noregi; upphaflega hefir verið sagt: *undir Ási* (kaupbr. fyr. Stóru-Breiðuvík í Borgarfirði austr, dags. 24/8 1672 »undir Ási i Fellum«. Bréfið í eigu frú Guðr. Jónsd. á Kolfreyjustað); síðar *að Ási;* nú: *á Ási*, AF, *í Ási*, NL. ***3.** sá strengr (á línu eða lóð), sem önglarnir eru festir við, AF.



A = belgr. b = uppistaða. c = kraki.
d = ás. e = taumr. f = öngull.

**ás**[3] (ef. **áss**, flt. **ásar**; þgf. et. **ás**[**i**]) *k*, **1.** ás (þ. e. einn) í kotru(tafli): *ásar allir*, ás á hvorum tening (ef upp koma í einu, og er þá leikið um 4×1 reit). ***2.** ás (í spilum), það spil (í hverjum lit), sem að eins er ein mynd á (♦ ♠ ♥ eða ♣).

***asa** (**-aði**) *óás*, flana í fljótræði: *það er ekki vert að a. að því*, hrapa að því.

***ása**[1] (**-aði**) *ás*, þenja út á ási: *á (út) segl*, binda ásenda í skaut segls og stinga honum þvers út af borðstokk, til að þenja seglflötinn sem bezt við vindi (sbr. *beggja skauta byr*, s. v. *skaut).*

***ása**[2] (**-aði**) *ás*, **1.** *á. út bitir úr borði* (í lomber); sé bitir í borði, þá er hætt er, tekr forhöndin spilin, gefr eitt og eitt (öll spilin upp, ef þarf), en snýr spilunum upp í loft; hvert sinn er e-r fær ás, hirðir hann bit úr borði. Svo tekr sá næsti við að gefa og er svo haldið fram unz allar bitir eru gengnar út. **2.** óel.: *á. sig út*, lúka öllum sínum erindum í ýmsum áttum: *honum veitir ekki af heilum degi til að á. sig út* (útása sig) *áðr en hann fer.*

***ása-bönd** *kl. flt*, ? »tæniæ lineis per longitudinem rei percurrentibus«, Sch. — Sbr. *ásband.*

**ásaka** (**-aði**) *ás*, bera sakir á (e-n): *á. e-n um (fyrir) e-ð*, gefa e-m e-ð að sök, átelja e-n (ámæla e-m) fyrir e-ð *hann ásakaði sig fyrir að hafa eigi athugað þetta*, átaldi sjalfan sig, nagaði (reif) sig í handarbökin.

† **ásakan** *kv*, = *ásökun.*

† **ásakari** *k*, **1.** ákærandi. **2.** óvinr: *á. kristinna manna*, Djöfullinn.

† **asalabía** *kl?* e. *kv?*, dýr nokkurt, líkl. safali, Bær. 19.

**ásáld** *kl*, =

***ásáldr** (ef. **-rs**) *kl*, **1.** mjöll, snjódrífa. **2.** útálát (mjöl) út á graut, AF.

**ásalli** *k*, hvað eina, sem sallað er á e-ð: **1.** útálát (mjöl eða hveiti) út á graut. **2.** brigzl og önnur þungyrði, sem á mann eru borin: *þarna fékk hann á-ann!* skamma-gusu yfir sig.

**ásamt**, **I.** *a*, **1.** saman: *við vorum á. sex vetr*, vorum saman. **2.** *koma á.*, koma (vel) saman: † *þau komu vel á.*, þeim kom vel saman, (um hjón) samfarir þeirra voru góðar; *svá sem þeim kemr á.*, Jónsb.; nú ávalt með þgf. ***II.** *sto.* m. þgf.: með: *hann kom þar á. mér og fleirum*, eins og bæði ég og fleiri, e. samferða mér og fleirum; *Halldór samdi þá bók á. Magnúsi*, í samverki með M.

**ásanna** (**-aði**) *ás*, sanna á; með þgf. *á. e-m e-ð*, sanna e-ð á e-n: *öngar sakir eg get fengið | ásannaðar þess-*

*um manni,* Vísnab. 243.; *það mun á-ast,* reynslan mun sanna það; *láta e-ð á-ast,* láta raun gefa vitni um.

**ásáttr** *l,* sampykkr (e-u): *þeir urðu á-ir um,* þeim kom saman um; * *ég er á með að . . .,* til með, að . . .

**ásauð|r (-ar)** *k,* † **1.** ær (um einstaklinga). **2.** *so,* ærpeningr. — Sams.: * **ásauðar-bú,** LFR, VII, 88. ***-kúgildi (-kvígildi).** ***-lamb,** gimbr, gimbrlamb.

* **ásband** *kl,* ? »á. á skipi«, Sch.

⊙ **ásbrú** *kv,* brú Ása, Bifröst, regnboginn.

† **ás|drengr** *k,* stuttr ás, hafðr fyrir stoð, e. stuttr ás, er stendr lóðrétt, N.

* **áseil|ast (-dist)** *pms,* m. *þlf,* sýna yfirgang. [Almennara ⊤ *ásælast*].

* **áseilinn** *l,* [alm. ⊤ *ásælinn*], yfirgangssamr, sem vill draga annara hlut undir sig.

* **áseilni** *kv,* [⊤ *ásælni*], yfirgangr. — Sams.: * **áseilnis-laus,** Skír. XI, 47.

**ásendi** *k,* endi(nn) á ási.

† **áseta** *kv,* **1.** það að sitja á: *þess stóls, er María helgaði sinni á-u;* sæti: *veita sitt bak ok síður til á-u þessum helga guðsmanni.* **2.** ábúð. — Sams.: **asetu-garðr** *k,* ábýlisjörð, N.

* **á|setja** *óás: á. sér,* festa með sér fyrirætlun: *hann ásetti sér, að hætta ekki fyrri en . . .,* réð með sér.

**ásetning** *kv,* það að setja á (sig): † **1.** *stólunnar á.,* það að setja stóluna á sig. ***2.** það að setja fénað á hey, Þjóð. X, 3; Fjöl. III, 2, 10.

* **ásetningr** *k,* **1.** = *ásetning (2).* **2.** áform (sbr. tilgangr), fyrirætlun. **3.** tilkall, krafa(?): *þoldi Rafn ei alla ásetninga byskups,* EspÁ, II, 96. **4.** setningr, SkA, I, 142.

* **ásettr** *lm,* fyrirhugaðr: *það var á. vilji hans, að svo skyldi fara,* fyrirhugaðr vilji; *gera e-ð af á-u ráði,* með ráðnum huga, vissvitandi.

* **ásfiski** *kl,* aðstreymi af mergð fiska, VF? (BH).

**Ás|garðr** *k, en,* **1.** bústaðr goðanna (norrœnu). **2.** nafn á bœ, sem stendr undir ási (4 slík bœjarnöfn eru á Íslandi).

**Ásgrindr** *kv. flt,* grindr þær er girða um Ásgarð (1).

* **asi** *k,* fljótræðislegr hraði, hraði í framgöngu: *það var mikill a. á honum; þeir komu inn með miklum asa.*

**Asía** *kl.* og *kv,* nafn australfunnar: † *alt A.; A. in minni.* — Sams.: **Asíu-kynjaðr** *l,* kynjaðr úr A., Skír. *'85,* 50.

*a* **Asiá** *kv,* = *Asía: Cyrum nefna milding má, | margra' er gætti láða, | Persíá' allri' og Asíá | átti fyrir að ráða.*

† **Asíaland** *kl,* = *Asía,* Hms.

* **ásigkominn** *lm,* sem er í því e. því ástandi, svo eða svo til reika: *þeir voru illa á-nir, er vér fundum þá,* illa til reika.

* **ásigkomulag** *kl,* ástand, hagr, lag: *hagr bankans var í góðu á-i,* ástandi, lagi; *húsið var í lélegu á-i,* ástandi; *eðli og á. hnattarins.*

**ásigling** *kv,* það að sigla á e-ð; árekstr skips (e. skipa) á siglingu.

**ásjá**[1] (ef. **-sjár** [† **ásjá**]) *kv,* † **1.** líki, útlit, mynd: *í manns á.,* í manns líki (manns mynd). **2.** tilsjón, eftirlit, hjalp: *biðja e-n á-r († á.),* aðstoðar; † *með spekiráðum ok á.,* tilsjón.

* **ásjá**[2] *s,* **1.** egl. *á sér sjá,* í talsh. *láta ásjá: hann er farinn að láta á.,* það er farið að sjá á honum (t. d. ellimörk, þreytu-merki, slit osfr.); *þessi húfa hefir endst lengi, en nú er hún farin að láta á.* **2.** *láta á.* og

*ásjást*, sýna merki í verki: *láttu nú á., að þér þyki vænt um hann.*

*** ásjáandi**, **I.** *lm*, horfandi á: *á. öllum sínum postulum*, svo að þeir horfðu á; *að öllum á.*, í allra augsýn. **II.** *k*, áhorfandi.

**ásjálegr** *l*, sélegr, vænn álitum.

*** ásjáleiki** *k*, vænlegt útlit e. ásýnd, BH.

† **ásjámál** *kl*, álitamál, mál vert íhugunar.

† **ásján** *kv*, líki, mynd.

**ásjána** *kv*, andlit. — Sams.: *a* **ásjánulitr** *k*, litr, sem menn bera í andlit sér, LFR, III, 51.

† **ásjó** *kv*, = *ásjá*.

**ásjón** (ef. **-ar**) og **ásýn** (ef. **-ar**) *kv*, † **I.** álit: *af rangri á.*, skökku áliti. † **2.** mynd, líki: *í á. brauðs ok víns*, líki. † **3.** persóna, útlit: *eigi er virðandi á. manna í dómum.* † **4.** yfirskin: *undir þeirri á. sem hann vildi spássera.* † **5.** skoðun, eftirlit. ***5.** augsýn: *í allra á.*, allra augsýn.

† **ásjónar** *a*, (egl. ef. af *ásjón)*, sjónhendis, beint af augum, Clb.

**ásjóna** *kv*, † **I.** mynd, líki: *í á-u eins sveins*, í sveins líki. **2.** andlit. † **3.** svipr, yfirbragð, útlit. † **4.** yfirvarp, yfirskin.

**aska** (ef. **ösku**) *kv*, dustkendar leifar líkama, sem brendr hefir verið. — Sams.: *** ösku-bylr** *k*, bylr þá er mjöllin fýkr sem aska (sbr. *blindösku-bylr)*. **-dagr** *k*, Miðvikudagrinn fyrsti í 7 vikna föstu (daginn eftir Sprengikvöld). † **-dreifðr** *l*, drifinn ösku. **-dyngja** *kv*, dyngja af (lausri) ösku. **-fall** *kl*, það er svo nefnt, er ösku rignir úr lofti (við eldgos). † **-fölr** *l*. *** -grár** *l*. **-haugr** *k*, (safn)haugr af ösku. (Á bœjum er allr óþverri borinn á öskuhauginn). †**-Óðinsdagr** *k*, = *-dagr*. ***-poki** *k*, örlítill poki fullr af ösku; slíka poka hengja stulkur á pilta (konur á karla) á Öskudaginn, og þykir sneypa að bera öskupoka. Karlar leitast aftr við að láta konur bera stein þann dag. ***-rok** *kl*, stormrok á sjó. ***-rjúka** (**-rýk, -rauk, -rokið**) *óás*, (um sjóinn) rjúka eins og aska. ***-salt** *kl*, nú oft nefnt *sódi* (soda). **-stó** *kv*, egl. eldstœðið milli hlóðarsteina, þar sem askan safnast fyrir. Í þjóðsögum er oft talað um *að leggjast í öskustó*, og þótti litilmensku vottr (sbr. »leggjast í eldaskála« í sögunum).

**aska-**, sjá *askr*.

*** á|skapa** (**-aði**) *ás*, skapa e-m forlög; helzt í orðt. *e-m er e-ð áskapað*, e-m eru þau örlög sköpuð, sá skapadómr er á e-n lagðr.

*** ask|botn** *k*, botn í aski: *neðst við a. undu þér | með asklok fyrir himin*, StgrTh.Lj.

*** áskelling** *kv*, ávítunarorð, skammyrði.

† **áskeyti** *kl*, = *áskot*.

*** ask|gjörð** (**-gjarðar, -gjarðir**) *kv*, gjörð á aski (úr gjarðviði).

*** á|skilja** *ás*, **I.** gera að skilyrði: *hann gaf hreppnum 1000 kr. og áskildi, að* 1/10 *hluti vaxta væri árlega lagðr við höfuðstólinn.* **2.** *á. sér*, geyma sér (rétt til): *hann seldi B. jörðina, en hafði áskilið sér forkaupsrétt á henni, ef hún yrði seld á næstu 10 árum.*

**áskilnað|r** (**-ar**) *k*, † **I.** sundrgreining, mismunr. † **2.** ágreiningr, þræta. *** 3.** skildagi, skilyrði. — Sams.: † **áskilnaðar-grein** *kv*, ágreinings-atriði.

**asklimar** *kv. flt*, limar eða greinar á aski (eskitré).

* **ask|lok** *kl*, lok á aski. Sjá: *askbotn*.

† **ask|maðr** *k*, *(askr* = skip), víkingr.

† **áskoran** *kv*, = *áskorun*.

* **áskorða (-aði)** *ás*, ákveða: Lþb. 1686, nr. 4.; Frankl. 36.

**áskorun** *kv*, alvarleg tilmæli (sbr. *skora á): verða við á.*, sinna tilmælum.

† **áskot** *kl. flt*, skothríð á (e-ð).

* **áskotnast (-aðist)** *pms.* m. þgf., lenda í eigu e-s (af heppni eða tilviljun): *honum á-aðist talsvert á þann hátt.*

**askr (-s, -ar)** *k*, **1.** viðartegund svo nefnd *(fraxinus).* ⊙**2.** spjót. † **3.** lítið skip. **4.** tréílát, úr mjög bjúgum stöfum og með trégjörðum og loki, notað á Íslandi langt fram eftir 19. öld fyrir skál undir spónamat (grautaraskr, skyr-a., mjolkr-a.), tók venjul. (3—)4 merkr. Var lágr og víðr, útskorinn á (hliðum og) loki (sbr. *kani): bókvitið verðr ekki látið í askana* ɔ: sá einn lærdómr kemr að haldi, sem lýtr að framleiðslu matar og drykkjar. † **5.** (í Noregi) mál, er tók 4 bolla e. 16 justur. — Sams.: * **aska-sleikir** *k*, sá er sleikir innan aska; nafn (í þjóðsögnum) á einum af *Jólasveinunum* (s. þ. o.). **-smiðr** *k*, † **1.** skipasmiðr. * **2.** maðr, sem smíðar aska (4). †**-spillir** *k*, skipaspillir (viðrnefni, Vgl.).

† **ask|rakki** *k*, líkl. s. s. mörðr *(mustela).* [Sbr. *mel|rakki*, refr, ɔ: sá er býr í melum; askrakki ɔ: sá er býr í aski, tré].

† **áskramlegr** *l*, = *afskrámlegr*.

† **askran** *kv*, ógn, skelfing, N.

* **áskrifandi** *k*, **1.** sá er fyrir fram skrifar nafn sitt sem kaupanda á boðsbréf að bók e. riti: *á boðsbréfin fekk hann 2000 áskrifendr.* **2.** fastr kaupandi tímarits eða blaðs: *»Reykjavík« hefir um mörg ár haft yfir 1000 á-endr í bænum.* **3.** sá sem ritar nafn sitt á boðsbréf (til hlutafélags-stofnunar, til samsætishalds, til samskota, e. önnur þvíl. skuldbindingar-skjöl).

* **áskrift** *kv*, **1.** mál, sem letrað er á e-ð, t. d. yfir dyrum eða gluggum á húsum, á minnismerki, gripi (t. d. drykkjarhorn, bikara, dósir). *Sn.* áletrun. **2.** það að gerast áskrifandi: *á-in er miðuð við 1 árgang frá Nýári til ársloka; á-in er skuldbinding um að kaupa öll bindin; á-in tekr að eins til eins bindis.* — Sams.: * **áskriftarblað** *kl*, blað, sem áskrifendr rita nöfn sín á. * **-bréf** *kl*, sama; boðsbréf. ***-gjald** *kl*, gjald það sem áskrifandi á að greiða (eitt sinn, eða á tilteknum tímamótum). ***-tími** *k*, tími, sá er áskrift gildir fyrir (t. d. ársfjórðungr, missiri, ár).

⊙ **áskunnr** *l*, af Ása kyni.

† **áskunnugr** *l*, = *áskunnr*.

**á|skurðr** *k*, **1.** e-ð, sem skorið er á tré e. stein. * **2.** það að skera á holdi manns (til lækningar).

**ask|viðr (-viðar)** = *askr 1.*

**áskygðr** *lm*, (um lit) sem skuggi fellr á: *hreistrið er öskulitað áskygt dökkrauðum litum*, LFR, XIII, 60.

**áskýja (-aði)** *ás*, draga ský á (loft): *ei hafði stórum á-að vináttu þeirra*, eigi dregið skugga á, EspÁ, IV, 50.

**áskynja** *ób. l*, var (við); m. ef. *verða e-s á.*, komast á snoðir um e-ð.

† **áskynjandi** *lm*, = *áskynja*.

⊙ **áslákr** *k*, hani.

† **áslátta** *kv*, áfall, tjón, þjáning.

* **ásláttǀr (-ar)** *k*, **1.** ágjöf á sjó(?): *sitja fyrir áslætti*, Sch. **2.** e-ð til að slá á með (hamar, öxi, steinn e. þvl.): *ég skyldi reyna að negla þetta, ef ég hefði nokkurn áslátt.*

* **áslenda** *ób. l,* (um hest) sem hefir langa lend, lendlangr, VF, Sch.

⊙ **Ásliðar** *k. flt,* fylgisveinar Ása.

* **á|slœðingr** *k,* lauslegr orðrómr, kvittr, BH.

* **á|slög** *kl. flt,* slagir, þá er beitt er e. slagað: *sigla í á-um,* slaga, Sch.

**ás|megin** *kl,* þróttr sem Ásum er gefinn: *færast í á.,* beita heljar-afli; *e-m vex á.,* e-m eykst tröllaukið afl.

**ás|móðr** *k,* ofrhugr: *sá hann þá Þór í ásmóði.* (Sbr. *jötunmóðr).*

* **ás|mund|r (-ar)** *k,* jarnkleppr, eins og hann kemr ótilhafðr úr ofninum, BH. — Sams.: * **ásmunda(r)-jarn** *kl,* LFR, II, 131.

*a* **ásmælgi** *kv,* fjölort þvogl(?): *menn fóru jafnnær frá kenning hans sökum hans á.,* EspÁ, IV, 23.

**asna (ösnu; ösnur)** *kv,* kvendýr af asna kyni. — Sams.: * **ösnu-folald** *kl,* ungi ösnu. ***-fyl** *kl,* óborið fóstr ösnu. **†-legr** *l,: ösnulegr steinn (ὀνικὸς λίθος),* AM 655, efri mylnu-steinn, Matt. xviij, 6. ***-mjolk** *kv.*

* **asna (-aði)** *ás,* m. þgf., fara með (e-ð) eins og asni (flón): *hann a-aði því frá sér,* fleygði því (lét það) frá sér eins og heimskingi.

* **asnast (-aðist)** *pms,* gana fram (eða út í e-ð) í óviti, eins og asni: *hann a-aðist til að gera það,* gerði það í heimsku sinni; *a. út í gönur,* fara í heimsku út í vitleysu, ófœru, FjÞ, 74.

**asni** *k,* **1.** dýr svo nefnt *(asinus;* E. *ass): þú hefir eigi vit til heldr en uxi eða a.,* Barl. **2.** óel. um mann, sem er heimskr (eins og a.), flón, heimskingi: *bölvaðr a-inn! mikill a. ert þú!* — Sams.: * **Asna-balkr** *k,* nafn á kvæði eftir séra Jón Magnússon í Laufási. **-bein** *kl,* egl. bein úr asna; óegl. erki--asni (sbr. *beinasni): a-ið þitt!* erki--asninn þinn! ***-eyra** *kl,* eyra á (af) asna: *Mídas kongr hefir a-u.* ***-fótr** *k,* e. k. samloku-skel m. fiski (tegund af *breiðskeljum),* LFR, XIII, 82. ***-haus** *k,* **1.** haus á (af) asna; **2.** óegl. erkiheimskingi. ***-húð** *kv,* húð af asna, LFR, X, 99. **-höfuð** *kl,* = *-haus 1.* ***-kalfr** *k,* óegl. erki-heimskingi. **-kjalki** *k,* kjalki úr (í) asnahaus. ***-legr** *l;* ***-lega** *a,* heimskulegr, -lega. ***-mjolk** *kv,* = *ösnumjolk,* LFR, XI, 220. ***-rekr** *k,* maðr sem rekr asna, Sch. ***-skapr** *k,* afkáraleg heimska. ***-spor** *kl,* heimskuspor. ***-stertr** *k,* stertr á (af) asna; óegl. beinasni. **-svipa** *kv,* svipa til að keyra asna með.

**ásókn** *kv,* **1.** atsókn, árás. † **2.** sókn máls fyrir dómi. * **3.** eftirsókn (einkum áköf, oft nær ósjálfráð): *það er mikil á. í Bjarna eftir þessari stulku; hér er mikil á. af gripum í engjarnar; hafa þeir svo mikla á. eða aðdráttarkraft hverr til annars,* LFR, IX, 104.

† **ásóknarmaðr** *k,* sœkjandi máls fyrir dómi.

* **áspræna** *kv,* spræna á (e-n e. e-ð): *þeir veittu strákunum talsverða á-u með slökkvidælunum.*

**Áss, áss,** sjá: *Ás, ás.*

* **assa** (ef. **össu**) *kv,* kvenörn.

† **assali** *k,* = *ársali, ársalr,* N.

**ásstubbi** *k,* stubbi af ási.

**ást** (ef. **-ar**; flt. **-ir**) *kv,* **1.** elska, kærleikr; **a.** alment: *heit kann verða höfðingja ástin,* ástin til höfðingja síns; *hafði mikla ást á sveininum,* unni mjög sv. **b.** um ást milli karls og konu: *sé við meyjar ást ok manns konu,* sjá þú við ást til meyjar e. til (annars) manns konu; *fella á. til* (e-s e. e-ar); *fella á. við; leggja á. við*

(e-n e. e-a); *hafa á. á* (e-m); *e-m leikr á. á* (e-u); *halda á. við* (e-n); *á. þeirra berr í sundr*, kólnar, hverfr. — Flt. *ástir* er eingöngu haft um ást milli karls og konu (hjóna) (sjá þó og 2.): *tókust með þeim góðar ástir; geta ástir konu*, ná ást konu. **c.** (gælu-orð): *hér er nú ástin mín*, elskan mín, uppáhaldið mitt, Sturl. **2.** (bæði í et. og flt.) hvítr blettr e. hvítir blettir í nögl(-um) manns. — Sams.: **ástar-ákefð** *kv*. **-andi** *k*, kærleiks-andi. †**-angr** *kl*, ástarharmr, ástasorg. ***-arðr** *k*, ávöxtr ástar, JÞ, II, 481. ***-armr** *k*, ástríkr armr, JÞ, II, 22. ***-ástríða** *kv*, óstjórnleg ástar-þrá. ***-atlot** *kl. flt*, blíðubrögð. **-auga** *kl*, auga, sem ást skín út úr: *líta konu á-um, renna á-um til konu*. **-band** *kl*, tengsl, er binda ástir við (e-ð): *vil ek gefa honum belti til á-s*, til að festa ástir okkar; *hvert ár, sem ég ól aldur minn | í öðru landi, | óf að þér nýju arfann þinn | með á-i*, JÓ. (ópr. kv.). ***-barmr** *k*, ástríkr barmr, JÞ, II, 161. ***-barn** *kl*, barn, sem getið er í ástum (helzt um óskilgetið). ***-blíða**, Milt. 240. ***-bliðr** *l*, ÆTh, 65; JÓLj¹, 6. ***-blóm** *kl*, blóm ástarinnar, KJLj, 159. ***-boð** *kl*, tilboð ástar. †**-boðorð** *kl*, kærleiksboðorð: *ero þau á. tvau æst allra boþorþa*. †**-bragð** *kl*, vottr ástar. ○**-brími** *k*, ástareldr. ***-bros** *kl*, Milt. 251. **-bruni** *k*, brennheit ást. ***-brögð** *kl. flt*, brögð, sem beitt er í ástamálum: *á. karla og kvenna*, Grœnl. 44; EÓ, 205. ***-bœn** *kv*, ástrík bœn, Vísnab. 25. ***-draumr** *k*, ástar-leiðsla, það ástand er ástfanginn maðr gengr sem í draumi. ***-dropi** *k*, = *ást 2*. **-drykkr** *k*, töfradrykkr, er vekr ást. **-eldr** *k*, brennandi ást. †**-embætti** *kl*, kærleiks-þjónusta (sálubót?). ***-eyra** *kl*, ástríkt eyra, JÞ, II, 76. †**-félag** *kl*, kærleiksríkt samfélag. ***-fjör** *kl*, lífsfjör, sem ást veldr e. glœðir. **-fullr** *l*, ***1.** kærleiksríkr, LFR, VI, 248; Klopst. V, 190. † **2.** ástfanginn. **-fundr** *k*, fundr þeirra, sem kært er á milli; *fundr elskenda. **-fýst** *kv*, fýst til ásta. ○**-gerð**, kærleiksverk, Vísnab. 277. †**-gerningr** *k*, sama. ***-girnd** *kv*, Milt. 141. ***-gjarn** *l*, kærleiksgjarn, JÞ, II, 303. †**-gjöf** *kv*, náðargjöf (guðs). △**-gos** *kl*, ósjalfráðr orðastraumr ástfangins manns, Fróði, V, 122 [ljótt orð]. †**-grein** *kv*, tegund ástar. ***-guð** *k*, Amor, Eros, LFR, VIII, 250. **-gyðja** *kv*, Venus, Afrodite, Freyja, Alex., LFR, VIII, 248. ○**-haf** *kl*, haf ástarinnar. †**-hald** *kl*, auðsýning ástar. **-harmr** *k*, harmr af ást. ○**-heitr** *l*, heitr af ást. †**-hirting** *kv*, hirting af ást gerð. **-hiti** *k*, heit ást. *Sn.:* -brími, -eldr, -ylr. ***-hót** *kl. flt*, **1.** auðsýning ástar í verki, Pass. 12. **2.** ástaratlot. ○**-hróðr** *k*, hrósandi ástarorð. †**-hugi** *k*, ástúð. **-hugr** *k*, ástarþrá: *leggja* (e. *renna* e. *fá) á. til e-s, leggja á. á e-n*, fá ást á; *á-ar oftast saman rata*, ÍO, 38. †**-hygli** *kv*, ástúðlegt hugarfar. ***-hönd** *kv*, hönd, sem stjórnast af ást. †**-ilmr** *k*, sœtleikr ástar. ᵛ**-kend** *kv*, það að kenna ástar, ástar-tilfinning. ○**-knútr** *k*, -band, JÞ, I, 69. ***-koss** *k*. **-kveðja** *kv*, ástsamleg kv. **-kveikja** *kv*, það sem kveikir ást. ***-kvæði** *kl*. ○**-kær** *l*, ástkær, Iðr.sp. 8. **-laus** *l*. ***-leiðsla** *kv*, leiðsla, sem ástfanginn maðr gengr í, = *ástardraumr*. **-leysi** *kl*, vöntun ástar, skortr á ást. ***-ljóð** *kl*, ástarkvæði. ○**-ljúfr** *l*, ástljúfr, Milt. 236. †**-lof** *kl*, lof um ást. **-logi** *k*, = *-eldr, -bruni*. ***-læti** *kl. flt*, auðsýning ástar, Vísnab. 267. **-mark**

*kl,* merki ástar. ***-mildi** *kv,* ástúðleg mildi. ○**-mund** *kv,* ástarhönd, Vísnab. 76. ○**-ómr** *k,* ástríkr ómr. **-orð** *kl,* **1.** orð, sem láta ást í ljós: *mæla á-um til e-s.* **2.** orð af ást sprottið: *lát blessað á-ið þitt | upp vekja hjartað mitt,* Iðr.sp. 13. **-óvit** *kl,* fásinna e. óvit ástsjúks manns. †**-pallr** *k,* ? *(»step of love«,* Cl.). †**-reiði** *kv,* reiði sprottin af ást. ***-rómr** *k,* rómr ástarinnar, JÓLj[1], 5. ○**-rós** *kv,* = *ástarblóm.* ***-rödd** *kv,* = *ástarrómr,* JÓLj[1], 5. **-samband** *kl.* †**-sigr** *k.* †**-snæðingr** *k,* matr veittr í kærleiks skyni *(esca caritatis).* ○**-svími** *k.* ***-sæla** *kv,* sæluástand ástfanginna persóna eða ástfanginnar persónu. **-sœtleikr** *k.* ***-tal** *kl,* tal um ást, KJ. 249. ***-tár** *kl.* ***-tilfinning** *kv.* ***-tölur** *kv. flt,* ummæli, frásögn, um ást sína. (Sbr. harmatölur, raunatölur). ○**-vakinn** *l,* vakinn af ást. †**-várkunn** *kv,* vorkunn sprottin af ást. ○**-varmr** *l,* ásthlýr. †**-vekva** *kv,* ástarvökvi. †**-vél** *kv,* list e. bragð til að ávinna sér ást e. njóta ástar: *svá sem Ovidius segir í bók á-a* (ɔ: *de arte amandi).* †**-verk** *kl,* kærleiksverk. †**-vilji** *k,* ástríkr vilji. ***-víma** *kv,* það ástand, er maðr er ástdrukkinn. Sbr. ástarsvími. **-vængr** *k,: ég flý til þín | á ástarvængjum,* JÓLj. (óþr.). ***-ylr** *k,* hlýindi ástarinnar: *hennar band og á-l | ekki fjandinn sjalfur slítur,* SBr. Vígl.r. ***-þakklæti** *kl,* innilegt þakklæti, Sch. ***-þel** *kl,* = *-hugr.* †**-þjónusta** *kv,* = *-embætti.* **-þokki** *k,* ástarhugr. ***-þrá** *kv,* ástarhugr, löngun ástarinnar. **-þýða** *kv,* þýðleikr ástarinnar: *hlýðinn sonr með á-u,* Guðm.dr. 74. er. ***-þýðr** *l,* ástúðlegr. **-þökk** *kv,* ástar-þakklæti. **-œði** *kl,* óstjórnleg ástarástríða. ***-ævintýr(i)** *kl,* **1.** ævintýr um ást. **2.** ævintýr, sem maðr (kona) í ratar í ástafari. — **ásta-brögð** *kl. flt,* brellur í ástamálum: *útfarin í alls konar á-um,* þaulleikin í . . . ***-dís** *kv,* ástargyðja(n Afrodite, Freyja). ***-far** *kl,* **1.** það að eiga í ástamálum: *hver sem þekti all hans á.* **2.** ástamál. **3.** nokkuð áþekt um atferli konu, eins og »kvennafar« um karlmanns. **-fundr** *k,* fundr elskenda. ***-guð** *k,* = *ástarguð,* ÆTh. 43. ***-kvæði** *kl,* kvæði um ástir. **-laus** *l,* sem er án allra ásta. ***-maðr** *k,* m. gefinn fyrir ástir. ***-mál** *kl,* oftast í flt., mál, er varða ástir eða ástafar. ***-sorg** *kv,* sorg út af ástum. ○**-spillir** *k,* sá er spillir ástum. ***-sæla** *kv,* = *ástarsæla.* †**-vili** *k,* ástarþrá. ***-þrautir** *kv. flt,* torveldleikar á vegi ástar(innar).

**ástaða** *kv,* † **1.** krafa í máli: *lögleg á.* ***2.** það að standa á beit: *á. fjár á jörð í vetrarbeit,* Sch. — Sams.: ***ástöðu-veðr** *kl,* veðr (fyrir fé) til að standa á beit, LFR, V, 95.

***ástaddr** *l,* á sig kominn; sem hagar svo eða svo til: *svo á. sem ég var | svaf þó ei allar nætur,* Skuld II, 391 (Þorst. Tól); *þar sem svo er ástatt,* hagar til; *nú er illa á-tt fyrir honum,* stendr illa á.

† **ástafr** *k,* landamerkja-staur, N.

***ástand** *kl,* ásigkomulag, hagr, það hversu á stendr: *það er aumt á. þar á heimilinu,* næsta bágborinn hagr; *setja anda sinn í óeðlilegt á.,* ásigkomulag.

***ástandr** *k,* veðr, sem stendr upp á: *á. með ofsa-brimi,* álands-vindr eða álands-stormr; *það er beinn á. á gluggana,* vindrinn stendr beint á gluggana, AF.

* **ástblandinn** *l,* blandaðr ást: *á. kvíði,* Klopst. III, 92.

* **ástblíða** *kv,* ástúðleg blíða.

* **ástblíðr** *l,* blíðr af ást: *þau sóru ástar-eiða | sem ástblítt hjarta heitast má,* JÓ,Hfn.

**ástblindr** *l,* blindr af ást.

**ástbundinn** *l,* ástfanginn: *á. af e-m* (e. *e-i).* [g. o.]

* **ástdrukkinn** *l,* drukkinn af ást.

* **ást|dœmi** *kl,* dœmi ástar, LFR, III, 278.

○ **ástefldr** *lm,* efldr (styrktr) af ást.

*a* **ástefna** *kv,* stefna (á e-ð), JÞ, I, 46.

*a* **ástefnu-mið** *kl,* mið, sem á er stefnt, Sch.

† **ástemma** *kv,* stíflun ár.

* **ásteyting** *kv,* **1.** egl. og upphafl. árekstr (sbr. skip steytir á skeri). **2.** hneykslun: *þetta var mönnum til á-ar,* til hneykslunar.

* **ásteytingar-steinn** *k,* hneykslunarhella, hneykslunar-efni, Árm. III, 104.

* **ástfagr** *l,* fagr svo að ást vekr: *á-a, ylhýra, bjarta | inndœla stulkan mín,* JÓLj.[1], 13.

* **ástfanginn** *l,* = *ástbundinn: á. af* (× *í) stulku.*

△ **ástfarir** *kv, flt,* = *ásta/far.*

* **ástfastr** *l,* tryggr í ást(um).

† **ástfenginn** *lm,* bundinn ástum: *á. við Maríu.*

* **ástfesta (-festi, -fest)** *ás,* taka ástfóstri við: *hann á-i svo skræðuna, að hann trúði næstum á hana.*

* **ástfjörugr** *l,* fullr af ástarfjöri.

○ **ástfleygr** *l,* sem flýgr á vængjum ástarinnar.

**ástfolginn** *lm,* heitt elskaðr.

**ástfóstr (-rs)** *kl,* egl. fóstr, sem barni er veitt af ástríki: *taka á-i við e-n, leggja á. við e-n,* festa föðurlega (e. móðurlega) ást á e-m (einkum barni eða ungling); † *fæða e-n á-i,* ala en upp með föðurlegri ást og umhyggju.

† **ástfrændkona** *kv,* elskuð frændkona, HomU.

* **ástfylgi** *kl,* meðhald af ást, LFR, IV, 246.

**ástgjöf** *kv,* gjöf af ást gefin: *á. heilags anda,* SnE.; *guð hefir upplýst oss með sínum á-um,* VPost. 280.

† **ástgoði** *k,* eftirlætisgoð, dálætisbarn.

* **ástheitr** *l,* varmr af ást.

* **ásthlýr** *l,* ástúðlega hlýlegr.

**ásthollr** *l,* hollr, blíðr, e-m fyrir ástar sakir.

* **ásthreinn** *l,* sem er af hreinni ást, Skír. XIII, 103.

* **ásthylli** *kv,* ástsemd, Klopst. V, 203,

* **ásthýr** *l,* ástúðlega hýr: *augun þín, á-u, blíðu,* JÓLj.[1], 13; 99.

† **á|stig** *kl,* það að stiga á: *slétt stræti til á-s,* slétt að ganga á; *ganga með á-i,* stiga þungt til jarðar.

* **ástigs** *a,* í talsh.: *það er (nú komið) vel á.,* komið vel á veg, vel áleiðis.

○ **ástkoss** *k,* = *ástar-koss: munngát á-a,* Verð. 63.

△ **ástkveikinn** *l,* sem vekr, kveikir ást, JÓ.

† **ástkynni** *kl,* ástúðlegr velfagnaðr.

○ **ástkyntr** *lm,* logandi af ást: *á-t augu,* Milt. 125.

* **ástkær** *l,* elskaðr heitt, sem unnað er hugástum.

**ástlaus** *l,* sem er án ástar: *ó þér in á-a þjóð,* VPost. 84.; *auml er á-t fé,* GÍO, 81.

**ástlauslega** *a,* án ástar.

† **ástleiki** *k,* ást(úð).

**ástleysi** *kl,* skortr ástar: *hafa á. af e-m. And.:* ástríki.

○ **ástlingr** *k*, hugljúfi, ástgoði, Klopst. III, 99. [Sbr. sv. älskling].

* **ástljúfr** *l*, **1.** ástúðlega ljúfr. **2.** heitt elskaðr.

○ **ástlogi** *k*, ástareldr, ástarlogi.

**ástmaðr** *k*, ástfolginn vinr, Stj.; VPost. 153 og 158.

⊤ **ástmann** *k*, = *ástmaðr*, Vísnab. 99.

○ **ástmenjar** *kv. flt*, menjar um ást: *Ó, að til á-a son | alið þér fagran ég hefði*, KJLj, 147.

* **ástmenni** *kl*, = *ástmaðr*, Skír. VIII, 107.

* **ástmey**, * **ástmeyja** *kv*, unnusta, kona, sem maðr ann, JÓLj.[1], 15, 16, 17.

○ **ástmildr** *l*, mildr og ástríkr: *á-d móðir*, Klopst. IV, 146.

* **ást|mær** *kv*, = *ástmey(ja)*.

* **ást|mögr** *k*, ástfolginn sonr, Skír. *'83*, 80; JÞorl. I, 61.

* **ástnæmr** *l*, sem dregr ást að sér, elskuverðr, Vísnab. 39.

* **á|stofna (-aði)** *ás*, **1.** m. þlf., áforma, stofna til: *svo var á-ð*, svo var fyrirhugað, til stofnað; *á. þénanlegri aðferð*, fyrirhuga hagkvæmari aðferð, LFR, I, 163.

* **ástofnun** *kv*, það að ástofna, LFR, II, 260.

⊙ **ást|ráð** *kl*, kærleiks-ráð.

* **Ástráðr** *en*, karlmannsnafn.

* **Ástralía** *kv*, eyja-alfan, Nýja Holland og eyjar þær er með því teljast til þeirrar alfu.

* **ástralskr** *l*, sem heyrir til, er frá, eða er eiginlegr, Ástralíu.

* **ástríða (-stríddi)** *ás*, ásækja: *sálina á-a syndir og lestir*, Gerh. Nijb.

* **ástríða** *kv*, sterk fýsn eða tilhneiging ósjalfráð: *meiri drykkjumaðr en svo, að nokkur von væri til, að sú á. mundi læknast*, KJLj., VII. — Sams.: * **ástríðu-laus** *l*, sem eigi hefir neinar sterkar ósjalfráðar eðlishvatir, OLfr. II, *3*, 111. ***-leysi** *kl*, það að vera ástríðulaus. ***-maðr** *k*, maðr með ríkum eðlishvötum. ***-mikill** *l*, sem hefir miklar ástríður. ***-ríkr** *l*, sem hefir megna(r) ástríðu(r): *á-t blóð*.

† **á|stríðari** *k*, mótstöðumaðr.

† **á|stríddr** *lm*, freistaðr, Mar.

**ást|ríki** *kl*, mikil ást: *hafa á. af e-m*, vera mjög elskaðr af e-m.

⊤ **ástríkni** *kv*, = *ástríki: ei leynir augnaráðið á. þeirra*, OLfr. II, *3*, 147.

**ástríkr** *l*, sem ber mikla ást í brjósti (til annara): *hann var á. sonr foreldrum sínum; á. faðir; † á. til e-s*, á. e-m.

* **ástrækinn** *l*, sem rækir ástarskyldur sínar, JÞ, II, 141.

* **ástrækni** *kv*, það að vera ástrækinn.

* **ástsamlegr** *l*; **-lega** *a*; ástúðlegr: *þakkaði ástsamlega fyrir sig*.

**ástsamr** *l*, ástúðlegr.

**ástsemd** *kv*, ástúð. — Sams.: * **ástsemdar-bréf**, *kl*, ástúðlegt bréf, EspÁ, I, 22. **-frændsemi** *kv*. **-ráð** *kl*, ástúðlegt ráð. **-verk** *kl*, **-vinátta** *kv*.

**ástsemi** *kv*, = *ástsemd*.

* **ástsjúkr** *l*, sjúkr af ást: *þitt augað mæra, | þitt ástar-tal | á-an særa | til bana hal*, KJLj. 249.

○ **ástsnauðr** *l*, sneyddr ást.

**ástsæld** *kv*, það að vera

**ástsæll** *l*, alment elskaðr, sem getr sér hvers manns ást eða velvild.

† **ásttryggr** *l*, tryggr í ástum.

**ástúð** *kv*, (f. ásthúð, f. ásthugð), ástarhugr, ástsemd, kærleiki. — Sams.: **ástúðar-frændsemi** *kv*, ástúðleg frænds. ***-vinátta** *kv*. **-vinr** *k*.

⊤ **ástúðlegleiki** *k*, = *ástúð*.

**ástúðlegr** *l*, sem sýnir ástúð.

* á|stuðningr *k*, það að styðja á, eða styðja sig á, Milt. 208.

**ástúðugr** *l*, ástúðlegr; í kl.: *á-t er með þeim*, þeir (þau) unnast vel.

† **ástugr** *l*, ástúðlegr.

**á|stund** *kv*, eftirsókn, viðleitni, rækt (sem lögð er við e-ð).

**á|stunda (-aði)** *ás*, leitast við, gera sér far um.

**á|stundun** *kv*, † **1.** athugun, eftirtekt: *á. himintungla.* † **2.** tilgangr: *á. hyggjunnar.* **3.** viðleitni, kostgæfni, iðni, eftirsókn, ástund, GÍO, 305. — Sams.: * **ástundunar-samr** *l.* ***-semi** *kv.*

* **ástunga** *kv*, það að stinga á (meini), Gjskr. 43.

*a* **ástverðugr** *l*, verðr ástar, Klopst. 138, 166.

* **ástverk** *kl*, kærleiksverk, Visnab. 63.

* **ástvilji** *k*, ástrík velvild, LFR, IV, 243.

**ástvina** *kv*, kona sem manni er ástúðlega kær, Thom., Mar., MillFr., III.

**ástvinátta** *kv*, ástúðleg vinátta.

**ástvinr** *k*, ástúðlegr vinr.

**ástþokki** *k*, = *ástar-þokki.*

* **ástþýðr** *l*, ástúðlega þýðr: *á. faðir*, gl. salmab.

* **ástæða** *kv*, *a* **1.** bústofn: *á-n hans er einspena kýr*, Sch. **2.** grundvöllr, tilefni, röksemd: *það álit er bygt á góðum ástæðum*, góðum grundvelli e. rökum; *það var engin á. til að taka upp á því*, ekkert tilefni; *hann færði margar gildar ástæður fyrir máli sínu, en sú á. þótti einna bezt, að . . .*, röksemdir. **3.** *flt.*, atvik, það hvernig á stendr: *eftir á-um í hvert sinn*, atvikum, Fjöl. IV, *1*, 10.; *það virtist haganlegast eftir ástæðum*, eftir því sem til hagaði. **4.** *flt.*, hagr, efni, efnahagr: *hann hefir góðar á-ur*, góðan efnahag, Sch.; *aukaútsvari skal jafna niðr á hreppsbúa eftir efnum og á-um*, fjármagni og hag (t. d. hve þungt heimili er o. s. frv.). — Sams.: * **á-stæðu-laus** *l*, **1.** tilefnislaus: *á. reiði.* **2.** röksemdalaus: *á. sleggjudómr.* ***-laust** *(kl. l.) a*, **1.** tilefnislaust. **2.** röksemdalaust: *tómar fullyrðingar, talaðar út í loftið, alveg á.* ***-leysi** *kl*, skortr á röksemdum, MillFr. 40.

* **ástæði** *kl*, bústofn, efnahagr: *svo og svo margar kýr og ær eru á-ð á bænum*, bústofninn, Sch.; *um á-ð tala ég ekki*, Ið. II, 132.

* **ástöðu|veðr** *kl*, sjá: *ástaða.*

* **á|sveigr** *l*, **1.** svipaðr: *á-t e-u*, svipað e-u (um orð), Sch. **2.** hlutdrægr: *hann gerði mér á-t*, hann var hlutdrægr móti mér, BH.

* **á|svelging** *kv*, það að manni svelgist á, LFR, IX, og X, bls. 4.

* **á|svellr** *l*, torveldr, óárennilegr, EspÁ, X, 8.

**ásýn** *kv*, (= *ásjón*), † **1.** álit, skoðun: *með úráði af rangri á.* † **2.** mynd, líki: *í á. brauðs ok víns.* **3.** það að horft er á: *í allra á.*, að öllum ásjáandi: *kasta burt frá sinni á.*, sínu augliti. **4.** útlit: *hversu var hann á-um?*, í útliti; *minni á-ar*, m. á að sjá, m. fyrir sjónum. † **5.** yfirskin: *undir þeirri á.*, undir því yfirskini.

† **á|sýna** *ás*, = *auðsýna.*

**ásýnd** *kv*, **1.** = *ásýn 3.* † **2.** = *ásýn 5.* **3.** = *ásýn 4.* **4.** andlit. † **5.** yfirborð (jarðar). — Sams.: * **ásýndar-svipr**, útlit, OLfr. II, *3*, 180.

**ásýndar** (egl. ef.) *a*, á að sjá, að útliti.

† **ásýnilegr** *l*, ásjálegr.

**ásýnis** *a*, á að sjá, að útliti.

**Ásynja** *kv*, einhver af konum Ása.

† **ásýnn** *l,* sýnilegr: *þat er á-t,* auðsætt; *ef eigi verðr á-t,* (um högg) ef eigi sér á.

* **á|sækja (-sótti)** *ás,* sækja að, ofsækja, áreita.

* **ásæk|jandi** (flt. **-jendr**) *k,* maðr sem ásækir, veitir atsókn.

* **ásækinn** *l,* sem sækir fast á e-ð e. eftir e-u: *Blesi var á. í tún og hey.*

**ásækni** *kv,* sá eiginleiki að vera ásækinn.

* **ásælast,** * **ásælinn,** * **ásælni,** sjá: *áseilast, áseilinn, áseilni.*

* **ásökun** *kv,* áburðr sakar.

† **at** *sto, ób. mo, fn, to, tv.-a,* sjá: *að.*

**at** *kl,* það að etja: *odda at,* viðreign spjóta, orrusta. Síðari hluti samsetninga: *hesta-at, hana-at, nauta-at.*

**-at** og **-a** *vsk,* eigi; að eins skeytt aftan við sagnir, og varla nema í frh., th. og bh., tæpl. í nh.: *veit-a maðr,* maðr veit eigi; *mun-k-a* eða *mun-k-at-ek,* (egl. mun-ég-eigi-ég) ég mun eigi; *hafði-g-a-k,* ég hafði eigi; *skríði-at,* skríði eigi; *skal-at* e. *skal-a,* skal eigi; *skulo-t* (f. skulo-at), skulu eigi, osfr.

**át** *kl,* **1.** athöfnin að éta: *at öldri ok áti,* þá er menn sitja að drykkju og mat; *það er mikið sífelt át í þeim manni,* mikið hvað sá maðr getr sífelt étið. Um aðferðina að éta: *kenna lömbum átið.* **2.** matr, séríl. átmatr. *(And.:* spónamatr, vökvun): *át ok drykkr.* Nú sjaldh.; þó »át = átmatr«, Sch. * **3.** samsætis-borðhald, matarveizla.

† **ata**[1] **(-aði)** *ás,* etja(?), hressa(?): *þau vil, er fúnat hafa af sællífis krásum, ati nú harðr drykkr til saðrar* [= sannrar] *heilsu.*

**ata**[2] **(-aði)** *ás,* (egl. smyrja?) festa saur á, óhreinka: *líkþrá N. skal a-st á þik ok þína ætt,* festast á þér; *ata sig (út),* saurga sig.

**áta** *kv,* **1.** át, það að éta: † *á. ins bannaða eplis;* nú að eins haft í talsh.: *góðr átu,* bragðgóðr, góðr að éta. **2.** æti, fæða fyrir dýr (ekki menn): *hvalr í átu,* hvalr í æti (t. d. í síldartorfu). * **3.** krabbamein. — Sams.: * **átu-bleikja** *kv,* nafn á einni silungstegund í Þingvallavatni, öðru nafni: *blá-sila,* Sch. ***-kendr** *l,* sem á skylt við átumein: *á-d kaun,* LFR, XV, 79. * **-maðkr** *k,* maðkr, sem étr tré, Árm. I, 126. ***-mein** *kl,* **1.** meinsemd, sem étr burt hold og bein, krabbamein. **2.** óegl. sá eða það sem gereyðir eða gerspillir öllu: *á. heiðarlegs athæfis,* VPost. II, 180. ***-steinn** *k,* lyfsteinn sem brennir, vítis-steinn *(lapis septicus v. causticus v. infernalis),* LFR, IX, 104. ***-sýra** *kv,* sýra, sem étr sig inn í líkami (hold, malm osfr.). †**-þýfi** *kl,* matvæla-þjófnaðr, Grág.

**átak** *kl,* **1.** það að taka á, snerta; einkanl. taka sterklega á: *eftir þess helga manns á-i,* snerting; *svá á-s sem skinn,* svo á að þreifa sem . . .; *þetta var mikið á.,* mikil aflraun. **2.** flt. *átök,* ryskingar, áflog: *átök og sviflingar.* † **3.** læknis-handtök. — Sams.: * **átaksfrekr** *l,* sterkr: *þá er hann* [ɔ: vindrinn] . . . *máttmeiri eða átaksfrekari,* Björl.

† **átaka** *kv,* snerting, áþreifing.

* **átakanlegr** *l;* **-lega** *a;* **1.** áþreifanlegr, ótvíræðr: *reynslan hefir gert þeim þau* [sannindi] *átakanleg,* MillFr.; *hrekja þessi ummæli sem átakanlegast,* sami. **2.** áhrifamikill, sem hrífr tilfinningarnar: *eitt á-t tár eða orð; lýsir á-a, hvaða þrautir hann varð að þola.*

**átala** *kv*, ávítun, aðfinsla; varla haft nema í flt.: *veita e-m átölur*, finna að við, ávíta, e-n. — Sams.: **átölu-laus** *l*, óátalinn; *á. hefð*, langvint eignarhald, sem eigi hefir verið véfengt, »1690«; *á-t eignarhald*, Horst. 354.; *á-t* (sem a.), óátalið, Tiro 106. ***-lítill** *l*, lítt átalinn. ***-samr** *l*, gefinn fyrir að átelja, Sírak, XVIII, 16.

† **atall (ötul, atalt)** *l*, grimmr, ofsalegr: *ötul augu*, hvöss, grimmileg; *folk a-t ok ilt*, grimt ok ilt; *ötul ok ámátleg*, illileg og herfileg. [Nú hefir orðið breytt mynd og merkingu, sjá: *ötull*].

† **átan** *kl*, ætilegr hlutr, fœða. *And.*: óátan.

† **atatata** *ko*, táknar tilfinning hrollkulda. *Sn.:* hutututu.

**atbeini** *k*, aðstoð, hjalp: *vera í a-a með e-m um e-ð*, hjalpa e-m (til e-s): *þú skalt hafa minn a-a til þess*, mína hjalp.

† **atblástrar-maðr**, sjá: *aðblástr.*

† **atbúnaðr** *k*, sjá: *aðbúnaðr 1.*

**atburð|r (-ar)** *k*, **1. a.** alm.: e-ð, sem ber við e gerist, viðburðr: *sögðu frá þeim a-um, er þar höfðu orðið*, viðburðum. **b.** tildrög, nánari atvik, það hversu e-ð gerðist: *a. þeirra tíðinda; segja a. til e-s*, atvik að e-u; *með hverjum a-um það hafði orðið.* **c.** hending, tilviljun: *af a-i, fyrir a-ð*, af hendingu, af tilviljun. † **2.** árás, atsókn. † **3.** limaburðr, látæði: *in fríðasta jungfrú ok vel at atburðum; með a-ð* [ɔ: bendingu] *kallaði hann mig til sín.* ***4.** = *aðburðr: jörð gefr arð eftir a-um*, eftir vinnu, PoS, 144. — Sams.: **atburða-laus** *l*, **1.** viðburðasnauðr, tíðindalaus. ***2.** sem ekkert hefst að, framkvæmdalaus: *oft verðr a. ofrliði borinn*, GÍO, 268. ***-lítill**, athafnalítill, EspÁ, IV, 72. ***-ríkr** *l*, viðburðaríkr: *a. æviferill.* ***-málari** *k*, sá er málar söguviðburði, ÆTh. 5.

† **atdráttr** *k*, háðyrði, spottyrði (sbr. * að draga að e-m, = spotta e-n). — (Sjá að öðru leyti: *aðdráttr).*

† **ateggjun** *kv*, = *áeggjun.*

**átekja** *kv*, † **1.** undirtekt; það hversu maðr tekr á e-u máli, tekr í það. **2.** snerting, viðkoma: *mjúkt á-u*, viðkomu.

**átekning** *kv*, **1.** snerting. **2.** skynjunarvit líkaml. snertingar-tilfinningar, Hms.; *ilman og á.*, Vísnab. 223.

* **átelja (-taldi)** *ás*, víta (mann e. atferli); **a.** ávíta e-n, veita e-m átölur: *hann átaldi mig harðlega fyrir vangá mína.* **b.** ámæla, lasta: *átaldi hann mjög þessa ráðstöfun og heimildarlausa fjáreyðslu ráðherrans*, vítti, fann harðlega að, fyrirdœmdi.

† **átfár** *l*, matfár, matlítill.

† **atfelli** *kl*, tilfelli (L. *accidens): a. parta* (máls) *eru tolf*, Gr.A, III, 12 k., § 8.

† **atferð** *kv*, **1.** árás. **2.** framtakssemi, dugnaðr. Sjá annars: *aðferð.* — Sams.: † **atferðar-bót** *kv*, bót á hegðun. †**-góðr** *l*, sem hegðar sér vel. †**-leysi** *kl*, framtaksleysi, aðgerðaleysi. †**-maðr** *k*, framtakssamr maðr, dugnaðarmaðr.

† **atferðast (-aðist)** *óás*, vera á stjái.

† **atferði** *kl*, = *atferli 1.*

† **atferðlegr** *l*, líklegr til framtakssemi.

**atferli** *kl*, **1.** framferði, athæfi, gerðir. breytni. † **2.** aðferð: *slík a. hafa öll um lýsingar sem áðr er tínt; eru mörg a. jafn-rétt til þess.* **3.** athafnir: *a. héraðsmanna*, Grett. † **5.** áfelli, plága.

† **atflutning** *kv*, = *aðflutningr.*

**átfrekr** *l*, matgráðugr.

† **atfréttarmaðr** *k*, sá sem spyr eftir e-u: *a. e-s.*

† **atfundull** *l*, aðfyndinn, aðfinningasamr.

* **atfygli** *kl*, veiðifugl, LFR, XIII, 20.

**atfylgi** *kl*, aðstoð, liðveizla.

† **at|fylgja**[1] **(-fylgdi)** *ás*, m. þgf., styðla til, framkvæma, Stj. 526. [*at fylgja*, útg.; á að vera eitt orð].

† **atfylgja**[2] *kv*, = *atfylgi.*

† **atfyndilegr** *l*, aðfinningarverðr.

† **atfyndli** *kv*, aðfyndni.

† **atfœrast** *þms*, aðhafast.

† **atfœrsla** *kv*, framkvæmd, athæfi.

† **atfœrslumaðr** *k*, framkvæmdamaðr.

**atföng** *kl. flt*, **1.** sjá: *aðfang.* **2.** ?: *ekki var bóndi minn | afrýjuverðr, | er einhleyping | a. sóttu*, Fjörg.

*a* **átföng** *kl. flt*, matvæli, Cat.

**atför** *kv*, † **1.** = *aðför.* **2.** heimsókn til árásar, = *atferð 1.*: *veita e-m a.*; *gera a. at e-m.* * **3.** flt. *atfarir*, fylgi, atorka, atburðir: *hafa góðar a-ir eftir e-u*, leita með dugnaði við að fá e-ð, koma e-u til vegar. Borgfirzka (Sch.). — Sams.: † **atfarar-dómr** *k*, dómr, sem veitir dómhafa rétt til aðfarar. †**-þing** *kl*, þing, þar sem atfarardómr er upp kveðinn. * **atfara-her** *k*, árásar-her, Skír. 79, 99. **-laust** *a*, án atfarar (2). ***-lið** *kl*, = *atfara-her*, Skír. 79, 98.

**atganga** *kv*, **1.** atsókn: *greiða, veita, e-m atgöngu*, ráðast á, sœkja að. **2.** hjalp. — Sbr. *aðganga.* — Sams.: † **atgöngu-mikill** *l*, óspakr, ofsafenginn.

**atgangr** *k*, **1.** = *aðgangr 1.* **2.** viðreign (einkum í fangbrögðum): *varð þeirra a. bæði harðr og langr.* **3.** = *atganga 2.* — Sbr. *aðgangr.*

**atgeir** *k*, e. k. vopn, öxi með stuttu spjóti fram úr; með því mátti bæði höggva og leggja: *Högni hjó í sundr spjótskaftið með atgeirinum, en rekr a-inn í gegn um hann*, Njá. 119.

† **atgerð** *kv*, (sbr. *aðgerð*). **1.** atgervi. **2.** hefnd?: *þolum hvárki a-ir né hegningar*, Hms. **3.** = *aðgerð 2.* — Sams.: † **atgerðar-maðr** *k*, atgervismaðr. †**-mikill** *l*, framtakssamr. †**-vinr** *k*, vinr, sem í raun reynist. **atgerða-laus, -lítill, -mikill,** = *aðgerða-.*

**atgervi** *kv.* og *kl*, **1.** (upphafl.) manndóms e. karlmensku eiginleikar, einkum líkamlegir, efldir við ástundun og iðkun: *fríðleik, vöxt, afl ok alla a.* **2.** (síðar) miklir og góðir andlegir eiginleikar: *at lærdómi, vitrleik ok a.*, Páls b. s.; *af guðs góðgift ok sjalfs síns a. göfgastr maðr á Íslandi.* **3.** (nú) allir eiginleikar, er mann mega prýða, jafnt andl. og líkaml. — Sams.: † **atgervi-maðr,** = **atgervis-maðr** *k*, maðr gœddr góðu (miklu) atgervi. ***-lítill** *l.* ***-mikill** *l.*

† **atgeyminn** *l*, aðgætinn, gaumgæfinn.

† **atgeymsla** *kv*, aðgætni, gaumgæfni.

† **átgirni** *kv*, matgræðgi.

* **athafna (-aði)** *ás*, að eins í talsh. *athafna sig*, lúka athöfn sinni (um e-ð líkamlegt, sem maðr er persónulega sjalfr að gera). Sbr. útása sig; tygja sig til, o. þvíl.

† **athafnarmaðr** *k*, = *framtaksmaðr, atferðarmaðr.*

† **athefi** *kl*, (upphafl. myndin, af: hafa) = *athæfi.*

† **athjúkun** *kv*, = *aðhjúkrun.*

**athlátr** [athl. og atthl.] *k*, = *aðhlátr.*

† **athlaup** *kl*, = *áhlaup.*

**athlœgi** [athl. og atthl.] *kl*, † **1.** = *athlátr.* **2.** sá e. það sem hlegið er að: *verða að a.*; *vera hafðr að a.*; *það er a. að heyra annað eins*, athlátrs-efni.

**athlœgilegr** [athl. og atthl.] *l,* = *aðhlægilegr.*

**athuga (-aði)** *ás,* **1.** gefa gaum að, taka eftir, veita eftirtekt: *ég a-aði það ekki,* tók ekki eftir því, gætti þess ekki; *a. sik,* gæta sín, Sturl.; *a. þig! oddr er líka á ör minni,* GÍO, 39. ***2.** hugleiða: *vér skulum nú a., hvað af því leiðir.* ***3.** rannsaka (e-ð) með því að veita (því) eftirtekt: *a. gang himintungla; halastjarna, sú er hafði verið nákvæmlega athuguð 1682.*

† **athugaðsamr** *l,* = *athugasamr.*

† **athugall** *l,* = *athugull.*

† **athugan** *l,* = *athugun.*

**athugi** *k,* **1.** eftirtekt, aðgætni, gaumgæfni. †**2.** guðrækileg gaumgæfni, fjalgleiki (♀ andakt). — Sams.: ***athuga-gjarn** *l,: a. og orðvar sért | einkum þegar þú reiður ert.* ***-grein** *kv,* (stutt) grein um e-ð, sem athugavert er við e-ð; rituð (prentuð) athugasemd. **-laus** *l,* eftirtektarlaus, óaðgætinn. †**-lega** *a,* með athygli. **-leysi** *kl,* það að athuga ekki. **-lítill** *l,* ógætinn, hugsunarlaus. **-maðr** *k,* eftirtektarsamr, gætinn, maðr. ***-mikill** *l,* gaumgæfinn. †**-samlegr** *l,* **1.** athugull. **2.** eftirtektarverðr: *a-t dœmi.* **-samr** *l,* athugull. ***-semd** *kv,* mál, talað eða ritað, sem tekr fram e-ð, sem athugavert er: *gera a. við e-ð,* taka fram e-ð athugavert; *gefa út rit með a-um,* athugagreinum. **-verðr** *l,* **1.** markverðr, eftirtektarverðr. ***2.** viðsjárverðr.

† **athuglega** *a,* = *athugalega.*

***athugun** *kv,* **1.** það að athuga e-ð í þeim tilgangi að rannsaka það: *bygt á . . . reynslu, athugunum og tilraunum; a. himintunglanna.* **2.** (fág.) eftirtekt, umhugsun. — Sams.: ***athugunar-íþrótt** *kv,* sú list að gera athuganir, Úrs. 33. ***-svið** *kl,* svæði, það sem maðr hefir til að gera athuganir á. ***athugana-galli** *k,* galli á athugunum.

**athvarf** *kl,* †**1.** það að víkja til e-s (og gefa sig á tal við hann); athygli, sem maðr sýnir e-m (fyrir kurteisi sakir e. velvildar): *gera a. til e-s,* gefa sig á tal við e-n, sýna e-m kurteisi e. velvild; *gera at a-i til e-s,* taka e-n tali. †**2.** athlœgi, undr: *hafðr at a-i,* að undri. ***3.** staðr, skjól e. hœli, til að hverfa að: *eiga hvergi a.,* hvergi höfði sínu að að halla; *leita a-s til e-s,* leita skjóls og hœlis hjá e-m; *ég á alt af a. hjá honum, er mig prýtr,* má ávalt leita til hans, hann skýtr ávalt skjólshúsi yfir mig. ***4.** griðastaðr (í öðru ríki fyrir útlæga menn). ***5.** hjalp, hjalparmaðr: *leita a-s,* leita hjalpar og aðstoðar: *hann er eina a. mitt,* eini hjalparmaðr sem ég get leitað til. — Sams.: ***athvarfs-hús** *kl,* hœli, hœlishús: *a. handa verkmönnum.* ***-laus** *l,* hœlislaus, hjalparlaus. ***-réttr** *k,* **1.** réttr ríkis til að veita friðland og lagavernd mönnum, sem dœmdir eru eða lögsóttir í öðru ríki fyrir (stjórnmála eða önnur) afbrot. **2.** réttr slíkra manna til að njóta friðlands og lagaverndar, Skír. IX, 18. ***-staðr** *k,* **1.** staðr þar sem maðr á athvarf. **2.** griðastaðr (t. d. í heiðni í hofum; síðar, í kristni, í kirkjum).

**athyggja** *kv,* = *athugi.*

**athygli** *kv.* og *kl,* = *athugi;* sér í 1. eftirtekt. — Sams.: ***athyglis-leysi.**

**athæfi** án flt, *kl,* egl. það sem e-r hefst að, gerir. **1.** atferli, framferði, hegðun, háttalag, siðr, háttr: *a. kristinna manna,* siðr kr. m.; *a. konunga,* hátterni konunga; nú einatt í illri

merking, ilt framferði, háttalag: *afneitar þú djöflinum og öllu hans a.?* (í skírnar-formálanum).

† **athæfilegr** *l*, sem við á, hæfilegr.

**athöfn** *kv*, **1.** gerð, verk, það sem maðr aðhefst; starf, iðja: *fengin var þeim önnur a.*, annað starf; *sjalf athöfnin ber það með sér*, sjalft verkið. * **2.** (í illri merking) athæfi, háttalag: *hver sem vissi um allar hans a-ir þar*, alt sem hann hafðist þar að. **3.** siðr, háttr: *líklegt at þú fylgir þar eftir þinni a.*, eftir þínu háttalagi, eftir því sem þér er títt. **4.** viðhafnarstarf (einkum eftir formála): *skírnar-athöfnin; húsið var vígt með hátíðlegri a.; siða a.*, Kgs. * **5. a.** mjaltir. **b.** mála-verk, t. a. m. fara í fjós, SL. (Sch). — Sams.: **athafnar-laus** *l*, sem ekki hefst að, iðjulaus, framkvæmdalaus. ***-leysi** *kl*. †**-maðr** *k*, **1.** framtakssamr m., dugnaðarmaðr. ϱ **2.** maðr, sem er til athlœgis, Sturl. — * **athafna-frelsi** *kl*, frelsi til athafna, MillFr. *Sn.:* hegðanfrelsi. ***-lítill** *l*, framkvæmdalítill. ***-mikill** *l*. ***-tími** *k*, mjaltatími, tími til málaverka, SKF. (Sch.).

**átján** *tlo*, átta ins annars tugar: *vera einn af á.*, (sjaldan í virðulegri merking) einn af þeim (flokki, sem um er talað); stundum: einn af mörgum [líkl. komið úr sœnsku: *en af de aderton*, þ. e. einn úr sœnska vísinda-félaginu *(akademi)*, því að í því eru jafnan 18 menn].

**átjándi** *rtlo*, næstr í tölurӧð eftir þann seytjánda, en undan þeim nítjánda.

† **átján|sessa** *kv*, skip með 18 þoftum e. 18 árum á hvort borð.

† **atkeri** *kl*, = *akkeri*.

† **atkoma** = *aðkoma 2.*

† **atkominn** = *aðkominn*.

**atkvæði** [atkv., attkv.] *kl*, af: kveða að ɔ: mæla, tala. † **1.** framburðr, hljóð, SnE. * **2.** samstafa. † **3.** orðtak, það hversu komist er að orði: *fegra a. er Tristram en T.*, hljómfegra orðtak er T. en T. **4.** ummæli: *leiða e-t a-um*, fara orðum um; *a. verðr öllu að fylgja*, málsh. (Sch.); **a.** séríl. (laga-)formáli: *þeim a-um, er Helgi hafði í stefnu við þik*, þeim formála; *sœkja . . . sem þjófssök fyrir utan a.*, án þess að nefna það þjófnað. **b.** formáli við álög: *svá mikil a. fylgdu þessum álögum; úhœgt at gera við a-um*, (hér s. s.) álögum. † **5.** (umtals)efni: *þat er prífalt a., mannvit, siðgœði ok hœverska*, Kgs. 91. † **6.** boð, úrskurðr: *beið hann þinna atkvœða*, þíns úrskurðar; *var þat byskups a.*, úrskurðr, dómr. * **7.** úrskurðr hvers einstaks um tillögu e. kosning: *sú tillaga, er fyrst var upp borin, fékk 16 a., en 5 a. vóru greidd á móti; þá var nefnd kosin og fékk A. 15 a., B. 6, en D. 3; greiða a. um e-ð*, segja sinn vilja um e-ð; *greiða e-m a.*, kjósa e-n. — Sams.: * **atkvæðis-bær** *l*, flt. **a-bærir** og **a-a-bærir**, bær um að greiða atkvæði (7). ***-endi** *k*, endi samstöfu. ***-kúla** *kv*, flt. **(atkvæða-) kúlur**, kúla til að greiða með (heimullegt) atkvæði. * **-miði** (flt. **atkvæða-miðar**) *k*, miði til að rita atkvæði sitt á. ***-orð** *kl*, atkvæði, það er maðr greiðir, LLF-skrá 8. ***-réttr** *k*, réttr til að greiða atkvæði (7). ***-seðill** (flt. **atkvæða-seðlar**) *k*, = *-miði*. *a*-**uppsaga** *kv*, upplestr atkvæða, FFH, *1842*, 72. — **atkvæða-bréf** *kl*, kjörmiði (sem kosið er á í nefndir), FFH, *1842*, 78. ***-fjöldi** *k*, fjöldi atkvæða (7). ***-góðr** *l*, sem leggr gott til mála, LFR,

V, 9. ***-greiðsla** *kv*, athöfnin að greiða atkvæði (8). ***-kassi** *k*, kassi, sem kúlurnar eru látnar í við atkvæðagreiðslu. **-laus** *l*, † **1.** sem engin álög eru á. * **2.** sem ekkert kveðr að, hefir ekkert að segja, lætr ekkert til sín taka. **-maðr** *k*, m., sem mikið kveðr að. ***-mál** *kl*, mikils varðandi mál, FjÞ, 48. **-mikill** *l*, sem mikið mark er á tekið. ***-munr** *k*, mismunr á tölu (gagnstœðra) atkvæða (7). *a*-**réttr** *k*, = *atkvæðis-réttr*, Klp. VI, 60. ***-skrá** *kv*, **1.** skrá yfir þá sem atkvæði hafa greitt, e. yfir atkvæði, sem greidd hafa verið. **2.** (á Alþingi) skrá yfir tillögur, breytingatill. og viðaukatillögur, sem atkvæði á um að greiða, í þeirri röð, sem þær eiga að koma til atkvæða. ***-smali** *k*, maðr, sem gerir alt sitt til að safna (smala) mönnum til að greiða atkvæði með e-u máli eða manni. ***-vél** *kv*, vél (fundin fyrst, nothæf, á Íslandi 1909) til að marka og sýna atkvæði, sem greidd eru, án þess að það sjáist, hversu hver maðr hefir greitt atkvæði.

λ **atla (-aði)** [attla] *s*, = *ætla*, Bret. 144.

**atlaga (ef. atlögu)** *kv*, egl. það að leggja að (e-u). † **1. a.** það að leggja skipi sínu að e-m lendingarstað (t. d. bryggju e. hafnarvegg), Fms. IX, 430. **b.** lendingarstaðr: *taka sér a-u*, N. **2.** árás (á sjó), það að leggja skipi sínu að e. fram á móti óvina-skipi e. skipum: *veita, greiða, a-u.* **3.** (fágætara) árás á óvinaher á landi. — Sams.: † **atlögu-flokkr** *k*, nafn á kvæði um sjóorrustu, Sturl. **-skip** *kl*, skip, er á hefir ráðist (e. ræðst) í sjó-orrustu.

* **Atlanzhaf** *kl*, úthafið mikla milli Evrópu og Afríku að austan og Ameríku að vestan.

§ **atlas (-s; -ar)** *k*, landkort; landabréf.

§ **atlask** *kl*, e. k. silkidúkr (með sérstökum vefnaði, gljár á rétthverfu, en gljálaus á ranghverfu).

† **atlát** *kl*, það að umbera, fyrirgefning.

† **atlátssamr** *l*, eftirlátssamr.

**atlátsemi** *kv*, eftirlátsemi, tillátsemi, Sch.

† **atlega** *kv*, skjól (fyrir sauðfé): *hagbeit á vetrum ok a-u fé sínu at selinu*, DI, V, 4.

* **átleysi** *kl*, matarlystarleysi skepnu, Klp. IX, 138.

* **atlíðandi** *k*, = *aðlíðandi.*

* **atlot** [atl. og attl.] *kl*, egl. það að lúta að; **1.** í eint. (sjaldh.): atlæti, viðbúð, framkoma: *a-ið, eftir því sem það er, skapar geðsmunina*, GÍO, 127. **2.** að eins í flt.: (vinar-, e. einkum) ástar-hót: *hún hafði um leið sýnt honum þau a., er hún ekki mundi hafa gert, ef hún hefði gætt sín*, PoS, 122. — Sams.: * **atlots-góðr**, JÞ. II, 404.

* **atlæti** [atl. og attl.] *kl*, egl. það að láta (vel e. illa) að, viðbúð, það sem maðr á við að búa í viðmóti og framkomu.

* **átmaðr** *k*, mathákr, átvagl, Sír. xxxvij, 32 [xxxviij, 4].

*a* **átmata** *kv*, = *átmatr.*

* **átmatr** *k*, **1.** matr, sem tyggja þarf og etinn er með hníf. *And.:* vökvun, spónamatr. **2.** (fág.) þurmeti, sem viðbitis er neytt með. *And.:* smjör, viðbiti, spónamatr.

* **átmeti** *kl*, (fág.) = *átmatr 2*, PoS, 36.

† **atmæli** *kl*, = *atyrði.*

§ **atóm** *kl*, ódeili (JÓ), hugsuð frumögn ósýnileg og ódeilileg; af þeim er ætlað að allir líkamir sé myndaðir,

og sé sérstök tegund a-a fyrir hvert frumefni.

† Ψ **atoma** *kv*, **1.** = *atóm.* **2.** brot úr eyrisþunga.

* **atorka** *kv*, dugnaðr, þrek, þróttr, framtakssemi. — Sams.: * **atorku-laus** *l.* ***-leysi** *kl*, Atli 91. ***-lítill** *l*, þróttlítill; framtakslítill. ***-maðr** *k*, dugnaðarmaðr, þrekm., framkvæmdam. ***-mikill** *l.* ***-samr** *l.* ***-semi** *kv*, Klp. I, 169.

† **átraðalaus** *l*, = *átroðningslaus.*

† **atrás** *kv*, = *árás, áhlaup.*

**atreið** *kv*, † **1.** reið til e-s marks e. staðar; þessi merking einkum tið í frásögum, um burtreiðar, í Strengleikum. **2.** árás riddaraliðs. *Sn.:* † áreið. * **3.** áhlaup, árás (alment, helzt í ólíkaml. merk.). — Sams.: † **atreiðar-ás** *k*, ás, sem reistr var upp og hafðr að marki til forna, er menn tömdu sig við burtreiðar, og skyldi hitta hann með burtreiðarstönginni.

† **atrekandi** *k*, kappsfull viðleitni. (Sbr. rekistefna).

**atrenna** *kv*, † **1.** snara, virgull, hengingar-ól. * **2.** áhlaup; skorpa (endrtekin tilraun): *tókst . . . eftir margar atrennur . . . að koma málinu . . . fyrir hæstarétt.* — Sams.: † **atrennu-lykkja** *kv*, lykkja, sem dregst saman (eins og snara). *Sn.:* hleypilykkja.

† **átreysta** *s*, sjá: *treysta*, LFR, I, 161.

* **átreystandi** *lm*, =

α **átreystanlegr** *l*, áreiðanlegr, ábyggilegr, LFR, II, XVI.

**atrið** *kl*, (egl. s. s. atreið) skyndileg, snögg, hreyfing: *hann hafði alt eitt atriðit*, hann gerði hvorttveggja í sömu svipan, Grett.; *Ari hljóp á hest sinn í einum svip og a-i*, B. á Sk. I, 174. — Sams.: † **atriðs-klauf** *kv*, e. k. skaldaleyfi, sem lýst er í SnE, I, 612 [*atrið* virðist í þeirri sams. merkja *setningu*].

* **atriðamikill** *l*, sem mikið er undir komið, áríðandi: *hver hlutr at er fyrir þetta land sá allra a-mesti*, LFR, XIII, 103.

* **atriði** *kl*, **1.** grein, efni, punktr (máls; sbr. *hversu hann skyldi breyta í þessum punkt*, Sturl.): *svara þessum þrem a-um kærunnar; ég var samþykkr honum í sumum a-um, en ekki öllum; þetta a. skiftir mestu máli.* **2.** atvik: *þegar eitthvert mikilvægt a. bar að höndum í lífinu.* **3.** deild, samfeldr atburðr (í þætti) í leikriti. Leikritum er oft skift í (t. d. 3 e. 5) þætti og hverjum þætti í atriði. — Sams.: * **atriðis-orð** *kl*, það eða þau orð, sem mest á ríðr e. við er miðað.

⊙ **Atriðr** *k*, *en*, ókent heiti Óðins.

† **átroð** *kl*, N, = † **átroði** *k*, N, =

* **átroðningr** *k*, **1.** ágangr af (annara) skepnum á land: *liggja undir á-i af skepnum nágranna síns.* **2.** gestnauð: *búa í þjóðbraut og hafa mikinn á. af gestum og gangandi*, ónæði af gestum og förumönnum. — Sams.: * **átroðnings-laus** *l*, frí við átroðning. ***-samr** *l.*

**atróðr** *k*, **1.** egl. það að róa að: † *taka þeir a. at váginum; greiða a.*, atlögu í sjóorrustum (til forna). * **2.** undirróðr, það að ýta undir að e-ð sé gert.

* **átrúandi** *k*, sá er trúir á: *á. Mahómets.*

**átrúnaðr** *k*, trú; **a.** trú á einhvern (guð): *forn á.*, forn trúarbrögð; *rangr á.*, villutrú. **b.** trú á e-ð, að það sé til, að það sé satt osfr.: *drauma á.* = *á. á drauma*, trú á því, að drauma sé að marka; *leggja engan á.* (= trúnað) *á e-ð*, trúa ekki að e-ð sé satt. — Sams.: * **átrúnaðar-goð** *kl*, maðr

sem maðr ber svo mikið traust til e. þykir svo vænt um, að maðr sér varla lýti á h-m. **-maðr** *k*, = *átrúandi*. ***-kerfi** *kl*, trúarbragða frœðikerfi.

† **atsamr** *l*, þrætugjarn.

*a* **átsamseta** *kv*, matveizla; ⊥ gildi (= félag), Klp. IV, 67.

† **atseta** *kv*, = † **atsetr** *kl*, = *aðsetr*.

† **atsetu-prestr** *k*, prestr, sem á heima á kirkjustaðnum.

*a* **átskál** *kv*, grunn skál, undir átmat, Sch.

† **atskelking** *kv*, dár, spott, spé.

† **atskjótaðr** *l*, viðbúinn, undirbúinn.

**atsókn** *kv*, **1.** árás, áhlaup: *veita harða a.*, hart áhlaup, harða atlögu. **2.** sjá: *aðsókn 2*. — Sams.: † **atsóknarmaðr** *k*, maðr sem veitir aðsókn.

† **atstaddr** *l*, (vel e. illa) staddr.

* **átsteinn** *k*, vítissteinn *(lapis infernalis)*.

† **atstuðning** *kv*, = † **atstuðningr** *k*, = † **atstöð** *kv*, = *aðstoð*.

**atsúgr** *k*, = *aðsúgr*.

**atsvif** *kl*, = *aðsvif*.

**átt** *kv*, **1.** stefna í sjóndeildar-hringnum; höfuðáttirnar eru fjórar: austr, suðr, vestr og norðr; milli þeirra miðvega er 4 meðaláttir, og eru þá alls komnar 8 áttir. Fornmenn töldu stundum 8 áttir: *meðan sól veltist um átta ættir* [= *áttir*], Skgs.; *þat eru þrjár stundir dags, er sól veltist um eina ætt* [= *átt*], sst. Enn má skifta áttum smærra. — *Úr öllum áttum*, hvaðanæva, alstaðar að; *í allar áttir*, hingað og þangað; **það kemr úr hörðustu átt*, þaðan sem sízt skyldi e. sízt mætti vænta (sbr. »höggr sá er hlífa skyldi«); **það nær engri á.*, það er mesta fjarstœða; *liggja undir annari á.*, sýnast annar en maðr er, TST, 227. † **2.** = *ætt 2*. — Sams.: † **áttar-**, sjá: *ættar-*. — * **átta-skekkja** *kv*, skekkja á áttum: *á. kompássins*, frávik kompásnálarstefnu (horn það er hún myndar við) segulskaut, misvísun kompáss. ***-skifti** *kl. flt*, umskifti á átt, þeirri sem vindr blæs úr: *þessi norðangarðr hefir nú staðið viku; hann fer nú að hafa á.*, það fer nú að skifta um átt. **-skipun** *kv*, skipulag e. deiling áttanna, Skgs. ***-viltr** *l*, sem finst áttir öfugar (eða skakkar) við það sem þær eru að réttu lagi: *mér finst ávalt suðr til sjávar, og því er ég sífelt á. í Reykjavík*. *ν*-**visun** *kv*, leiðbeining til að átta sig, JÓ, Skír. 1896—1902. ***-viti** *k*, kompás, BGLv. I, 6, 50, 51.

† **átt-**, sjá og: *ætt-*.

**átta**[1] *tlo*, nafn þeirrar heilu tölu, sem er milli sjö og níu, 8 = 4 × 2.

* **átta**[2] *kv*, spil merkt 8 dílum (tígli, hjarta, spaða eða laufi).

* **átta**[3] **(-aði)** *endrv. s*, að eins sagt *að á. sig*, finna áttirnar; ógl. rakna við sér, koma (e-u) fyrir sig: *hann áttaði sig ekki á því í fyrstu, hversu á því stóð; ég ruglaðist fyrst í stað, en á-aði mig fljótt.*

* **átta-blaða-brot** *kl*, það brot á bók, er örkin er þrisvar brotin, svo að örkin verðr 8 blöð (16 blaðsíður); algengasta brot á bókum.

* **átta-blaða-rós** *kv*, rós með 8 blöðum.

* **átta-blaða-stroka** *kv*, sá vinningr í alkorti (s.þ.o.), er vinnendr fá 8 slagi í röð án þess að hinir fái neinn.

**áttadagr** *k*, upphafl. *átti* (ɔ: áttundi) *dagr*, áttundi dagr Jóla, þ. e. núver. Nýjársdagr *(circumcisio domini)*, Hom.; LFR, XIV, 59; *Sunnudaginn milli Jóla og á-s*, VPost.

* **áttadags-vetr** *k*, vetrinn 1524—25 á Íslandi: *Sá vetr var kallaðr á., því hann kom á áttadag (1. Janúarius) og hélt við til sumars (miðt í April)*, Jón Egilsson: Byskupa-annáll, Safn, I, 64.

⊤ **áttahringr** *k*, = *áttæringr*.

† **áttandi** *rtl*, = *áttundi*.

**áttatigir** [áttatiir] *tn*, *k*. *flt*, = *áttatíu*: *á. einir vóru | eftir þá á skeiðinni*, SBrJómsv.

**áttatíu** *tlo*, átta tugir, 80.

* **áttatugasti** *rtl*, = *áttugandi, áttugasti*.

ν **áttblöðungr** *k*, bók í átta-blaða-broti. (Sbr. *fjórblöðungr, tolfblöðungr, tvíblöðungr)*.

† **at|tekinn** *l*, (vel eða illa) farinn, staddr.

† **at|tekt** *kv*, það hversu maðr er attekinn, ásigkominn.

*a* **át|tengr** *kv*. *flt*: *nokkur skorkvikindi hafa á. við munn sinn*, LFR, XIII, 65.

* **átteygðr** *l*, með 8 augum, LFR, X, 260.

**áttfeðmingr** *k*, það sem inniheldr 8 faðma (einkum að ummáli): *á. torfs*.

⊤ **áttfletingr** *k*, Fisch. 8, =

△ **áttflötungr** *k*, líkami, sem takmarkast af 8 flötum; *reglulegr á.* takmarkast af 8 jafnhliða þríhyrningum þannig:



Óreglul. á-ar geta verið með ýmsu móti.

* **áttfættr** *l*, sem hefir 8 fætr.

**átthagar** *k*. *flt*, sá staðr þar sem maðr er borinn og barnfæddr, upp alinn; ættarheimkynni: *í á-um sínum*, Ld.; *fýsir til á-a sinna*. — Sams.: * **átthaga-band** *kl*, lögbann, sem fyrrum lá sumstaðar á alþýðufolki, að það mætti eigi flytja sig burt úr átthögum sínum án leyfis, JÓ, Al. 40°.

* **átthliðaðr** *l*, sem hefir 8 hliðar: *á. turn*.

**átthyrndr** *l*, sem hefir 8 horn.

* **átthyrningr** *k*, átthyrndr flötr.

† **atti** *l*, þrætugjarn.

† **átti** *rtl*, áttundi; **átti-dagr** (ɔ: Jóla), = *áttadagr*.

**átti**, þát. af *eiga*.

* **Attika** *kv*, nafn á landsuðr-skaganum Grikklands ins forna.

† **áttján, áttjándi**, = *átján, átjándi*.

⊙ **áttkonr** *k*, ættmaðr, skyldmenni.

* **áttleysa** *kv*, það er kallað á., er léttr blær leikr á, en ekkert vindfar sést á lofti, svo að enga átt er í lofti að sjá.

**áttmælt** *l*. *kl*, bragarháttr með 8 vísuorðum, og er sérstök setning (mál) í hverju vísuorði, SnE, I, 614. (Sbr. sextánmælt).

* **attneskr** *l*, kendr við Attíku.

⊙ **áttniðr** *k*, ættingi.

*x* **attr** *a*, = *aftr*, JÓLj.[1], 194.

* **áttróinn** *l*, sem róið er 8 árum: *á-ð skip*, áttæringr.

⊙ **áttrunnr** *k*, ættingi.

* [**áttræði** *kl*], kemr að eins fyrir í sams.: * **áttræðis-aldr**, 80 ára aldr: *vera á á-i*, á 8. tug aldrs síns; *kominn á á.*, yfir sjötugt.

**áttræðr** *l*, **1.** 80 ára gamall; *half-á.*, 75 ára. † **2.** áttatíu faðma, alna, feta (á lengd e. breidd e. hæð). **3.** *kl*, í orðt. *vera um á-tt*, (um 80 ára gamall).

* **áttskildingr** *k*, peningr, er gilti 8 skildinga (s. þ. o.), jafn 16 aurum nú.

* **áttspelaðr** *l*, með 8 (hjól)spelum.

⊙ **áttstafr** *k*, ættingi.

**áttstrendr** *l*, átthliðaðr.

† **at-tú** = að þú; hengt aftan í sögn, þú ekki: *munt-at-tú*, þú munt ekki.

† **áttugandi** *rt*, = *áttatugasti*.

† **áttungr**[1] *k*, ættingi.

**áttungr**[2] *k*, **1.** einn 8. hluti: *á. mílu*.

2. ker e. kútr, sem tekr 1/8 tunnu (17 potta að lagarmáli, en 25 ℔ af smjöri). * 3. smá tunna, án ákveðins máls: *koma á eftir með kalt vatn í áttungi*, málsh. Sch. (Sbr. á dönsku: *bagefter kommer tyndt øl*). † 4. í Noregi e.k. skifting bygða í sumum hlutum lands. Eftir þeirri skifting fór útboð í þeim landshlutum. — Sams.: † **áttungs-bœndr** *k. flt*, bœndr í einum áttungi (4). †**-kirkja** *kv*, kirkja fyrir áttung (4), N.

**áttæringr** *k*, áttróið skip (m. 4 árum á hvort borð), (⊤ áttahringr).

**áttær(r)** *l*, áttróinn: *á-t skip*.

† **áttærtoga** *kl*, N. sjá: *ertog, ærtog, ørtog*.

† **at-tönn** *kv*, vígtönn.

* **átvagl** *kl*, mathákr, maðr sem étr mikið (og gráðugt).

† **atveggjaðr** *l*, (um hús) bygt svo, að bygt er við hlið annars húss, og sameiginn veggr undir báðum: *byggja a-t*, N.

**atveizla** *kv*, aðstoð, styrkr (sbr. veita e-m að málum, að e-u verki).

* **átveizla** *kv*, matveizla, veizla (hóf), þar sem gestum er veittr matr.

† **atvíg** *kl*, =

† **atvígi** *kl*, það að vega að e-m.

**atvik** *kl*, **I.** það hversu á stendr, ástœður, ⁋ kringumstœður: *eftir a-um*, eftir því sem á stendr (stóð); *a. lágu að því máli*, ástœður lágu svo að. **2.** viðburðr: *greina e-ð með a-um*, segja frá e-u með öllum nánari viðburðum; *þar kom fyrir dálítið a.*, þar gerðist dálítill viðburðr. * **3.** starf, viðvik (einkum sem maðr gerir fyrir annan): *hann gerði a. fyrir mig, sem mér kom vel*. † 4. ívilnun, tilslökun.

* **atvikast (-aðist)** *pms*, vilja til, bera við: *hvernig a-aðist það?* hvernig bar það til? *eins og það var a-að*, eins og það var til komið, á því stóð.

**atvinna** *kv*, † **I.** fœða, lífsnauðsynjar. * **2.** vinna, sem maðr vinnr sér og sínum til framfœris: *hafa góða (litla, mikla) a-u; leita sér a-u*, vinnu til að hafa ofan af fyrir sér. — Sams.: * **atvinnu-brestr** *k*, skortr á atvinnu. ***-brögð** *kl. flt*, atvinnugreinir: *a. eru þar margvísleg*. ***-frelsi** *kl*,: *leggja haft á a. manna*. ***-frjals** *l*, sem nýtr atvinnufrelsis: *í hverju a-u mannfélagi*. ***-grein** *kv*, tegund atvinnu, Árm. II, 127. ***-háttr** *k*, = *atvinnugrein*. ***-keppni** *kv*, samkeppni í atvinnu, MillFr. 96. ***-laus** *l*, sem vantar atvinnu. ***-leysi** *kl*. ***-lítill** *l*, sem hefir litla atv. ***-mál** *kl*, mál er snertir atvinnu (2). ***-missir** *k*. ***-rekstr** *k*. ***-rekandi** *k*, sá er rekr atvinnu. ***-skortr** *k*. ***-spjöll** *kl. flt*. ***-tjón** *kl*, tjón á atvinnu. ***-vegr** *k*, sá starfi, sem menn hafa sér til atvinnu; atvinnugrein: *verzlun er kaupmannsins a.; sjómenska er minn a.*

**atvist** *kv*, nærvera, viðvera og hluttaka: *a. að vígi*, það að vera við og taka þátt í vígi; *veita a. að e-u*, taka þátt í e-u, BáSk. I, 294 (sbr. I, 260). [nú fátítt]. — Sams.: † **atvistar-bœtr** *kv. flt*, bœtr, sem atvistarmaðr á að greiða. †**-maðr** *k*, maðr, sem verið hefir við staddr víg (og tekið þann þátt í, að hann má krefja ábyrgðar). †**-sök** *kv*, sök á hendr atvistarmanni.

† **atvistu-maðr** *kv*, = *atvistarmaðr*.

* **átylla** *kv*, egl. eitthvað til að tylla e-u (t. d. tánni) á. **a.** flugufótr, tilhœfa: *það er engin á. fyrir því*, ekkert hœft í því. **b.** tilefni, ástœða: *hér er engin á. til málshöfðunar*, ekkert minsta tilefni: *það finst engin á. fyrir því*, Lþb. 1786, 36. bls. — Sams.: **átyllu-laus** *l*,

sem skortir alla átyllu, TN, I, 77: *það er á-t,* Johns. 125. ***-laust** *a,* án átyllu, TN, II, 26.

**at|yrða (-yrti)** *ás,* tala illum orðum til e-s, ávíta með þungum orðum.

**atyrði** *kl. flt,* skammyrði, illyrði (sem við e-n eru höfð). — Sams.: * **atyrða-samr** *l,* gefinn fyrir að atyrða.

* **atyrðing** *kv,* það að atyrða.

**auð-** *fsk,* sett framan við lh. lt. og l. og þýðir: auðveldlega. Það má setja framan við *lh. lt.* af hverri *ás.,* þar sem ella mætti hafa »auðveldlega«, og fyrir framan kl. lm. lt. sumra óás., þar sem hugsunin leyfir (»auðsofið«, »auðhlaupið að því« osfr.). Einnig má setja það framan við ýmis *l.* — *Samsetningar með lh. lt. eru ekki teknar hér upp, nema nokkrar fátíðar, eða þar sem e-ð er sérlegt við merkinguna.*

† **auða** *kv,* (eyða =) auðn, eyði.

⊙ **auðar-** (gná, lundr, nift, þöll osfr.), sjá: *auðr.*

**auðbeðið** *lh.* m. ef.: *e-s er a.,* e-ð er auðveldlega, fúslega, veitt, er um er beðið.

* **Auðbergishús** *en,* staðarnafn á Hallandi, EspÁ, I, 95.

* **auðbræðanlegr** *l,: a-t járn,* G&A, II, 109.

† **auðbœnn** *l,* bóngóðr, bónþægr.

† **auðfengr** *l,* = auðfenginn.

* **auðfrœði** *kv,* frœðigreinin um verðmæti e. viðskiftagildi hlutanna. *Sn.:* viðskiftafrœði, verðmætisfrœði.

* **auðfrœðilegr** *l,* sem kendr er e. miðaðr við viðskiftafrœði.

* **auðfrœðingr** *k,* viðskiftafrœðingr.

* **auðfrœðislegr** *l,* = *auðfrœðilegr.*

* **auðfrœðis-tunga** *kv,* mál eða orðtak viðskiftafrœðinga, AÓ,Af. 168.

† **auðfyndr** *l,* auðfundinn.

**auðga (-aði)** *ás,* gera auðugan: *sjávarúthaldið a-r ekki alla; auðgast (= a. sig),* verða auðugr, grœða: *a. á e-u.*

* **auðgefinn**[1] *lm,* **1.** auðveldr: *það er auðgefið að verða á undan þeim.* **2.** auðsær, auðvitaðr: *það er a-ið, að þeir munu fyrst leita hingað.*

* **auðgefinn**[2] *l,* auðsæll, EspÁ, X, 34.

**auðgengr** *l,* auðgenginn.

**auðger** *l,* sem auðvelt er að gera.

* **auðgun** *kv,* það að auðga, gera auðugan e. auðugri.

† **auðgætlegr** *l,* auðfenginn; lítilmótlegr; vanstyrkr.

† **auðgætr** *l,* auðfenginn, auðfundinn.

† **auðherbergi** *kl,* auðuglegt og skrautlegt herbergi.

○ **auðhirzla** *kv,* fjárhirzla, Milt. 92.

† **auðhóf** *kl,* = † **auðhœfi** *kl. flt,* = *auðœfi.*

**auðið,** sjá: *auðinn.*

* **auðingi** *k,* auðmaðr (í mansöng einnar Fortúnatus-rímu. Sch.).

**auðinn** *lh* (af úreltri sögn: auða, eyð, jóð, jóðum, auðit; samstofna við orðin: auðna = hamingja, og auðr); lh. *auðinn* finst á örfám stöðum í fornu máli, bæði í ljóðum: *auðins fjár,* SE, og í sundrlausu máli: *láta auðins bíða,* Al.; *hvárt hyggit ér manni nokkuru at auðnara at hann fái leyst þessa knúta,* s. st. — Annars ávalt að eins *kl,* **auðit, auðið** (bæði í fornu máli og nýju): *e-m verðr e-s a-ið,* það liggr fyrir e-m, e. e-r verðr e-s megnugr, ber gæfu (auðnu) til e-s; *þeim varð barna a-ð,* þau eignuðust börn; *þeim varð þess eigi a-ð,* tókst það ekki, auðnaðist það ekki; *hafi þeir gagn er a-ð er; þeim er ekki a-ð að gera þetta,* þeir megna ekki; † *lítt a-t til ástafunda; koma mun til mín feigðin, ef mér verðr*

*þess a-t*, ef það á fyrir mér að liggja, Njála.

* **auð|kenna** *ás*, marka, merkja, svo að þekkjanlegr sé frá öðru, gera þekkjanlegan: *hann auðkenndi öll hrossin með því að klippa M á lendina á þeim; það sem auðkennir þessa sótt frá öðrum, er . . .*, gerir þekkjanlega, aðgreinir, skilur. — * **auðkendr** *lm*, **1.** merktr. **2.** auðþektr.

**auðkenni** *kl*, einkenni, mark, e-ð sem gerir e-ð auðþekkjanlegt.

**auðkennilegr** *l*, sem auðvelt er að þekkja, frábrugðinn öðru(m), einkennilegr.

**auðkenning** *kv*, það að auðkenna; kennimerki: *a. sóttarinnar frá öðrum*, einkenning, LFR, XV, 14. — Sams.: * **auðkenningar-merki** *kl*, kennimerki. ***-nafn** *kl*, kenningarnafn, Klp. I, 20. ***-teikn** *kl*, = *-merki*, LFR, IV, 244. *a*-**vizka** *kv*, sú list að greina sjúkdóma *(diagnostik)*, LFR, IV, 65.

* **auðkleifr** *l*, auðveldr: *a-t verk*, auðunnið. Sbr. *klífa*.

* **auðkleyfr** *l*, ⊥ **1.** auðkleifur. **2.** sem auðvelt er að kljúfa: *a. viðr*, Hom. Od. *5*, 5.

† **auðkomall** *l*, = † **auðkumall** *l*, viðkvæmr.

† **auðkvisa** *kv*, = *aukvisi*.

† **auðkvæðr** *l*, eftirlátsamr, auðtalinn til e-s.

**auðkýfingr** *k*, stórauðugr maðr.

† **auðkymli** *kv*, viðkvæmni, veikleiki.

⊙ **auðlagðr** *l*, auðugr.

**auðlátinn** *lm*, † **1.** viðmótsþýðr. * **2.** sem auðveldlega verðr látinn: *peningar eru ekki a-ir í þessi gjöld, því að þeir eru ekki til.*

**auðlegð** *kv*, gnótt auðs, auðœfi.

† **auðlegr** *l*, **1.** eyðilegr. **2.** farsællegr.

* **auðleikið** *lm. kl*, lathœgt, auðvelt: *það er a. að komast upp á klettinn.*

△ **auðleikni** *kv*, auðveldleiki, greiðfœri: *það er . . . ekki a., heldr örðugleikar, sem skapa dugandi menn*, Auðnv. 46.

* **auðlærðr** *lm*, sem auðvelt er að læra: *a-ð er ill danska*, auðvelt að læra það sem ilt e. ljótt er.

* **auðlæs** *l*, auðveldr að lesa: *a. eftirvænting á allra svip*, Skír. *78*, 418.

**auðmaðr** *k*, auðugr maðr. — Sams.: * **auðmanna-stjórn** *kv*, það fyrirkomulag, þar sem auðmenn hafa stjórn á hendi. ***-veldi** *kl*, sama: *a. (»plutokrati«) nefnist það, er valdið er lagt í hönd auðmanna*, JÓJafnr. 6.

⊙ **auðmildingr** *k*, örlátr maðr.

**auðmjúklegr** *l*, með auðmýktar-blæ.

**auðmjúkr** *l*, † **1.** auðsveipinn, viðráðanlegr. **2.** bljúgr, mjúklátr.

* **auðmýking** *kv*, það að auðmýkja, e. það að vera auðmýktr.

**auðmýkja** *ás*, † **1.** mýkja, sveigja eftir vilja sínum. **2.** gera auðmjúkan; *a. sig*, brjóta odd af oflæti sínu.

**auðmýkt** *kv*, það að vera auðmjúkr, gera sig mjúkan, bljúgan, auðsveipan.

**auðn**[1] *kv*, **1.** eyðimörk: *a. Sínaí*. **2.** óbygt land(svæði): *bygðust þá margar a-ir víða*, vóru reist mörg nýbýli í óbygðum landsvæðum. **3.** jörð, sem hefir verið bygð, en fallið í eyði: *sá bœr hét á Hrappsstöðum; þar er nú a.*, þar er nú eigi bygð lengr; *liggja í auðn*. † **4.** eyðing: *a. borgarinnar*, Leifar 70 (sbr. Lúk. *19*, 44.); *verja líf sitt ok gefa sik ekki upp til auðnar*, tortímingar. † **5.** gersamleg örbirgð, gjaldþrot, Grág. Kb. 70[19] I, 62. — Sams.: † **auðnar-glutr** *kl*, eyðsla, sóun, svo að til auðnar horfir. **†-hús** *kl*,

hús á óbygðum stað; hús, sem engin bygð er í. †**-hönd** *kv*, eyðslu-hönd, Æv. 85B. †**-maðr** *k*, eyðandi, spillir. †**-óðal** *kl*, óðal, sem horfir til auðnar. †**-sel** *kl*, sel, sem stendr autt og ónotað. †**-staðr** *k*, eyði-staðr.

**auðn**[2] *kl*, óbygt land(svæði), N.

***auðna**[1] **(-aði)** *óás*, ópers., að upp tekr (snjó e. klaka): *það a-ar fljótt, ef svona rignir*, tekr fljótt upp snjó.

† **auðna**[2] **(-aði)** *óás*, og **auðnast (-aðist)** *pms*, verða auðið (sjá: *auðinn): † ef guð vill þess auðni; † ef honum auðnaði eigi aftr at koma; † nú fari minn hagr sem a-ar; mér a-ast það varla; ef þeim a-aðist að . . .*

**auðna**[3] *kv*, auðn: *horfir til a-u*, horfir til auðnar (að eyðast muni).

**auðna**[4] *kv*, **1.** örlög: *ræðr a. lífi*, Málsh., Orkn.; *a. mun því ráða; láta arka at a-u*, fara sem örlög vilja (eða: sem auðið verðr — *a-u* þá þgf. et. kl. af *auðinn)*. **2.** hamingja, heill, lán: *blanda úgiftu við a-u; bera a-u til e-s*, bera gæfu til. — Sams.: ***auðnu-bann** *kl*, hindrun hamingju, Vísnab. 92. ***-brunnr** *k*, uppspretta gæfu, JÞ, II, 497. ***-byr** *k*, hamingju byr, Vísnab. 163. ***-kjör** *kl. flt*, farsælleg kjör, JÞ, 1, 54. ***-lag** *kl*, hamingjusamlegt lag, ástand. **-laus** *l*, hamingjulaus. ***-leysi** *kl.* hamingjuleysi, ólán. ***-leysingi** *k*, óláns-maðr. *Sn.:* lánleysingi. ***-maðr** *k*, lánsmaðr, gæfumaðr. ○**-mikill** *l*. ○**-rán** *kl*, sviftir hamingju: *Ilt er að hreppa a.*, KJL, 194. ○**-ríkr** *l*, auðnumikill, Klopst. 7, 266. ***-samr** *l*, lánsamr, farsæll: *enginn er með vilja vondr, né ófús a.*, GÍO, 90. **-samlega** *a*, hamingjusamlega, giftusamlega. ○**-seinn** *l*, hamingjutregr, StÓ, 18. ***-stund** *kv*, heillastund, JÞ, II, 478.

***auðnu-tittlingr** *k*, e. k. spörfuglategund, svo nefnd *(fringilla linaria)*.

***auðnægtir** *kv. flt*, gnóttir auðœfa: *a. verða eigi ávalt að þrifum*, Málsh.

† **auðnæmilegr** *l*, = † **auðnæmlegr** *l*, er virðist vera auðlærðr.

**auðnæmr** *l*, auðlærðr: *auðnæmast þó ið vonda er*, Pass. *22*, 10.

**auðr**[1] (ef. **auðs** og (í skaldsk.) **auðar**, án flt.), *k*, **1.** mikil eign, miklar eignir: *eiga auð fjár*, stórmikið af fé, eignum. ***2.** fémæti, viðskiftilegr hlutr: *það er auðr, sem keypt verðr og selt*, JÓ, Vsk. 18. **3.** örlög: *fá auðar*, deyja. **4.** hamingja: *haga til auðar*, miða til hamingju. — Sams.: ***auðs-hyggja** *kv*, ágirnd, auragirnd. ***-uppspretta** *kv*, það sem maðr getr gert sér auð úr: *þessum manni er hæfileiki hans og kunnátta a.*, JÓ, Vskfr. 14. — ⊙ **auðar-gná, -lundr, -nift, -þöll**, konu-, karl-, kenning.

**Auðr**[2] *kv*, *en*, nafn konu.

**auðr**[3] *l*, **1.** tómr, sem ekkert er í e. á: *autt borð*, tómt borð; † *auð borð* (á skipi), varnarlaus; *auð hús, herbergi*, tóm; *koma að auðu landi*, óbygðu; † *með auðar hendr*, tómhentr, sem engar gjafir hefir með sér; * *sitja a-um höndum*, tómhentr, aðgerðalaus; † *a. at yndi*, sviftr yndi. ***2.** snjólaus, íslaus: *auð jörð; það er orðið autt*, snjór er allr tekinn upp, þiðnaðr; *fjörðrinn hafði verið lagðr, en var nú orðinn a.*, ísinn hafði leyst.

† **auðráð** *kl. flt*, auðœfi.

**auðráðinn** *lm*, **1.** sem auðvelt er að ráða e. skilja: *a-in gáta*, sem létt er að ráða; *það er a-in bót á því*, auðvelt að gera við því, bœta úr því; *það er a-ið*, auðsætt. † **2.** sem auðvelt er að ráða við, = stýra (um skip).

† **auðráðr** *l*, ráðþæginn, leiðitamr.

⊙ **auðrann** *kl,* auðugt hús.

**auðræði** *kl,* † **1.** mikil efni, auðœfi. * **2.** = *auðveldi²*.

* **auðsafn** *kl,* **1.** það að safna auði. **2** auðr, sem maðr hefir safnað saman.

* **auðsafnaðr** *k,* sama.

⊙ **auðsalir** *k. flt,* salir, sem mikil auðœfi eru í.

**auðsénn** *l,* auðséðr, auðsær.

* **auðsjáanlegr** *l,* auðsær.

⊙ **auðskeftr** *lm,* sem auðvelt er að skefta (setja skaft á): *[eigi eru] auðskeft almanna-spjör,* eigi auðvelt að gera sköft að hvers manns spjótum (gera svo öllum líki), Agla.

* **auðskiftanlegr** *l,* sem auðvelt er að skifta, Klp. I, 164.

* **auðskilinn** *lm,* sem auðvelt er að skilja (hafa skilning á).

* **auðskiljanlegr** *l,* auðskilinn.

* **auðskiljanleikr** *k,* ljósleiki, það að létt er að skilja.

† **auðskillegr** *l,* auðskiljanlegr.

* **auðskilni** *kv,* auðskiljanleikr, LFR, X, 305.

† **auðskreiðr** *l,* örskreiðr.

† **auðskœðr** *l,* sem létt er að skaða.

**auðsóttlegr** *l,* sem auðvelt er að sœkja (að): *a-g borg.*

**auðsóttr** *lm,* **1.** auðsóttlegr: *a-tt vígi.* **2.** sem auðvelt er að ná til sín: *þar er ekki a-tt vatn að vetrarlagi.* **3.** sem auðvelt er að sœkja (til): *það er ekki a. sjór þar sakir lendingarleysis.* **4.** auðfenginn: *það var a-tt mál,* létt að fá það veitt (sem fram á var farið). † **5.** eftirlátsamr: *a. til bœna,* bónþœgr.

⊙ **auðstafr** *k,* auðkýfingr.

* **auðsveipilega** *a,* hlýðnislega, LFR, XIII, 169.

* **auðsveipinn** *l,* hlýðinn, þægr.

* **auðsveiplegr** *l,* sama.

* **auðsveipni** *kv,* fúsleiki til hlýðni.

**auðsveipr** *l,* = *auðsveipinn.*

**auð|sýna** *ás,* **1.** láta í ljósi: *a. hlýðni,* sýna hlýðni; † *a. þá er stolit hafa,* birta. **2.** láta í té, veita: *a. e-m velgerð,* gera vel til.

**auðsýnilegr** *l,* auðsær, bersýnilegr.

**auðsýning** *kv,* **1.** það að auðsýna (1., 2.). † **2.** skýring.

**auðsýnn** *l,* = *auðsýnilegr.*

* **auðsæla** *kv,* sú hamingja að eiga mikinn auð: *ágjarn sýtir, | þótt a-u hafi, | og þykist œ volaðr vera,* Málsh.

* **auðsæld** *kv,* **1.** gróðasemi; það að manni verðr flest til gróða, það að vera auðsæll. **2.** auðsæla.

* **auðsældar-bragr** *k,* útlit, er ber vott um auðsæld: *þar var enginn a. á búskap að sjá,* GTh. XVI.

**auðsælegr** *l,* = *auðsýnilegr.*

* **auðsæll** *l,* **1.** sem auðr berst að; sem flest verðr að gróða. **2.** auðugr.

* **auðsællega** *a,* ⊥ auðfrœðilega, Andv. VIII, 134.

**auðsær** *l,* **1.** auðsýnilegr, auðséðr. † **2.** auðráðinn: *a. er draumr þinn.*

* **auðtrúa, auðtrúi** *l,* trúgjarn.

* **auðtrúanlegr** *l,* mjög trúlegr, Milt. 345.

† **auðtrúinn** *l,* = *auðtrúa.*

* **auðtrúleikr** *k,* ⊥ trúgirni, ÆBP, 26.

† **auðtryggi** *kv,* = *auðtryggni.*

* **auðtrygginn** *l,* trúgjarn. *And.:* tortrygginn.

* **auðtryggni** *kv,* trúgirni.

† **auðtryggr** *l,* talhlýðinn, trúgjarn. *And.:* tortryggr.

† **auðufenginn** *lm,* = *auðfenginn. And.:* torugætr, torgætr, torfenginn.

† **auðugleikr** *k,* auðlegð.

**auðugr¹** *l,* sem á mikinn auð.

† **auðugr²** *l,* = *auðr.*

* **auðvald** *kl,* vald auðmanna eða auðsins.

† **auð|ván** *kv,* sjá: *auðvon.*

**auð|velda (-veldi)** *ás,* **1.** gera auðvelt: *hann a-i mér það eins og hann gat,* létti mér það. **2.** telja auðvelt. *And.:* telja tormerki á.

**auðvelda-verk** *kl,* hœgðarleikr.

† **auðveldi**[1] *kl,* auðveldleiki.

* **auðveldi**[2] *kl,* veldi auðmanna; stjórnarfyrirkomulag það að valdið er lagt í auðmanna hendr *(plutokrati).* — Sams.: * **auðveldis-maðr** *k,* **1.** maðr sem hefir auðveldi í höndum. **2.** maðr sem heldr fram auðveldi. ***-stjórn** *kv,* stjórn auðmanna e. auðveldismanna.

**auð|veldlegr** [-veldlegr, -vel-legr] *l,* **1.** sem lítr út fyrir að vera auðveldr. **2.** sem enga mótspyrnu virðist munu sýna e. sýnir. **3.** auðveldr. **-lega** *a,* hœglega, léttilega: *taka a. á e-u,* tala svo um e-ð sem væri það auðvelt.

* **auðveldleiki** [-veldleiki, -vel-leiki] *k,* það að vera auðveldr eða auðvelt.

**auðveldr** *l,* **1.** fyrirhafnarlaus, vandalaus. **2.** eftirlátssamr. — * **auðvelt** *a,* (egl. kl. et. *l.*), auðveldlega: *núna má það auðvelt á | ellefu vikum gera,* JÓLj.[1], 163.

† **auðvellilegr** *l,* =

**auð|vellegr** [-vel-legr] *l,* = *auðveldlegr.*

⊤ **auðvirða, auðvirðilegr** osfr., sjá: *auvirða, auvirðilegr* osfr.

† **auðvíst** *l. kl,* auðsjáanlega víst.

**auðvitaðr** *lm,* auðráðinn, auðséðr: *það er auðvitað(r hlutr),* bersýnilegt, auðvelt að vita.

**auðvon** *kv,* auðs von, von á auði.

* **auðvænt** *lm. kl,* stórlíklegt: *a. er að svo muni fara,* Klp. IV, 80.

* **auðþekkjanlegr** [auðþ. og auþþekkjanlegr] *l,* LFR, VIII, 54, =

**auðþektr** [auðþ. og auþþektr] *lm,* sem létt er að þekkja: *a. er asninn á eyrunum,* Málsh.

† **auðþreiflegr** *l,* [etv. misritun fyrir]

† **auðþriflegr** *l,* (líkl. ⊤ fyrir auþriflegr), ekki þriflegr, veikgerðr.

**auðœfi** *kl. flt,* gnótt eigna eða auðs.

† **aufi** [auvi] *ko,* sjá: *auvi, aví.*

† **aufúsa** *kv,* (einnig ritað: *afusa, afuusa, avusa, avfusa, aufussa,* og í ísl. hdr. oftast: *öfusa, öfussa, ofusa),* **1.** fagnaðr, ánœgja; (þessi merking helzt í sams.). **2.** löngun, áhugi: *á því er mér mikil öfusa, at Magnús fóstri minn fengi sóma.* **2.** þökk, þakklæti: *kunna e-m a-u fyrir,* þakka e-m fyrir. — Sams.: **aufúsu-gestr** *k,* velkominn gestr. † **-laus** *l,* vanþakklátr. † **-orð** *kl. flt,* þakkar-orð. †**-svipr** *k,* fagnaðarsvipr, vingjarnlegr svipr.

**auga** *kl,* **I.** (í egl. skiln.) líffœri sjónarinnar; haft í óteljandi málsháttum og orðtœkjum: *a. fyrir a. og tönn fyrir tönn,* Móses; *betr sjá augu en a.,* fleiri sjá betr en einn; stundum haft: *betr sér a. en a.,* eitt a. en annað, einn sér öðrum betr, einn sér það sem annar sér ekki; *eigi leyna a-u, ef ann kona manni; fýsir eyra ilt að heyra og a. að sjá; glögt er gests auga(ð); hætt er einu auganu,* þeim er vandfarið með augað, sem ekki hefir nema eitt; *mörg eru dags augu,* margr kann að sjá það sem í björtu gerist; *náið er nef augum,* þá er öðru hætt, ef hitt bíðr tjón *(tunc tua res agitur, paries cum proximus ardet); oft verðr slíkt á sæ, kvað selr, var skotinn í a.; sínum augum lítr hver á silfrið,* misjafnir verða manna dómar; † *a-u yður standa lengra fram,* þér hyggið hærra; *blundskakka (* blim-*

*skakka) a-um,* stara eins og glópr, bjáni; *depla a-um,* leggja augun aftr og lúka þeim upp; *draga a-ð í pung,* leggja aftr annað augað; *ganga í a-u,* virðast fagr e. girnilegr: *gekk hann konum mjög í a-u,* konum leizt mjög vel á hann; *gefa auga,* **1.** gefa gætr að: *ég gaf þeim a. við og við,* hafði gát á þeim; **2.** *gefa e-u gott a.,* hafa góðan augastað á e-u, lítast vel á e-ð; *gefa e-u(m) ilt a.,* hafa illan augastað, illan bifr, á e-u(m), líta til e-s með illum hug; *gjóta a-um (til e-s),* renna augum til e-s snögglega (og flóttalega); *hafa a. á e-u(m),* **a.** gefa gætr að e-u(m); **b.** hafa augastað á e-u(m), girnast e-ð, lítast á e-ð til e-s; *hafa ekki stórt a. á e-m,* ekki mikið álit á e-m, SP,Hrólfr; *hafa ilt a. á e-u,* lítast illa á e-ð; *hafa eitt auga í hnakkanum,* gefa öllu gaum, sjá alt, sem gerist í kring um mann; *hafa fékróka í augum,* hafa hrukkur út frá augnakrókum (haft um féglöggva menn); *hafa kvennakróka í a-um* (sagt um kvenholla menn); *hafa stýrur í a-um,* half-verkja í augun (af svefnleysi); *hafa ægishjalm í a-um,* hafa hvast augnaráð, svo mikilúðlegt, að aðrir lúta því ósjalfrátt; hafa e. k. töfrakraft í augnaráðinu; *horfast í a-u,* horfa hvor í annars augu; *hvessa a-u á e-n* e. *e-ð,* horfa hvasslega, fastlega, framan í e-n (eða á e-ð); *kasta hýru a. til e-s,* líta hýrlega til e-s, líta girndar-auga til e-s; *koma a. á e-ð,* ná að sjá e-ð, sem maðr skyggnist eftir; *leiða (e-ð e. e-n) augum,* sjá, horfa á, virða fyrir sér; *líta, renna a. e. a-um til e-s,* horfa, líta, til e-s (sbr. líta, renna, ástar-a-um, girndar-a., vinar-a-um, vonar-a-um, öfundar-a. e. a-um til e-s; e. líta e-n ástar-a-um, girndar-a., osfr.); *líta e-n réttu a.,* að eins haft með neitun: *hann gat aldrei litið mig réttu a. upp frá því,* gat aldrei litið mig óvildarlaust; *lygna (aftr) a-um,* loka a-unum lauslega; *mjótt á milli a-na(nna), e-m er mj. á m. a.,* e-r er nízkr, fésinkr; † *segja e-m e-t í augu upp,* * *upp í opin augun,* upp í opið geðið, segja e-ð að e-m viðverandi beint framan í hann; *skjóta a-um í skjalg,* gefa hornauga, renna óhýru auga út undan sér til e-s; *skotra a-um,* líta snöggvast hornauga (til e-s); *súrnar í a-um,* vatn rennr í augu, verkjar í a-u, af reyk; *tekinn til augna,* sagt um mann, er virðist sem hold hafi grenst á og hörundslitr fölnað e. orðið bláleitr umhverfis augun, en þau eins og sokkið við e. orðið berari; *unna e-m sem a-um í höfði sér,* Njála; *e-m vex e-ð í* † *a-u (* augum),* e-m miklast e-ð, þykir e-ð mikið (meira en það er); * *vera e-m þyrnir í a-um,* vera e-m ógeðfeldr, vera svo að e-r hefir óbeit á manni; † *þora ekki fyrir a-u sín,* þora ekki fyrir nokkurn mun, fyrir sitt eigiðborið líf; * *þyrla ryki, í a-u e-m e. í a-un á e-m,* reyna að villa e-m sjónir með lævísum orðum. **II.** (óel.) **1.** hola, sem sjá má í gegn um, t. d. *auga á kvörn, a. á exi, nál* osfr.; * *a. á ofni og eldavél,* opið, sem ketillinn er látinn í, en annars er lokað með hringum og loki; * *að fá í a-ð,* að fá eldsneyti, sem logar vel, svo sem spýtur og þess h., Skft. (Sch.). **2.** hola, sem vatn sezt i: *a-u djúp eðr fen;* smávakir á ísi (á votlendi), þar sem vatn vætlar upp um. **3.** depill á teningi (verpli), eða á Domino-töflu.

† **4.** ?: *er tregr at sverja, því at hann sér at þetta mál hefir auga, sem þeim báðum mun af leiða inn mesta ótíla,* Bp. II, 52. — Sams.: * **auga-blik** *kl,* = *augna-blik.* †**-bora** (flt. **augna-borur**) *kv,* augahola, *flt.* augna-h-ur. **-brá** (flt. **augna-brár**) *kv,* **1.** augnalok = *brá 1.: heit og stirðnuð bráin,* Nanna II, 21. **2.** augnahár: *svartr á brún og brá,* Bragi II, *4,* 36. **-bragð** *kl,* † **1.** = *augastaðr 2, a: hafa a. á e-u.* † **2.** sjón, sem vekr athlátr: *hafa (verða) at a-i,* að athlœgi. **3.** tíminn meðan maðr deplar einu sinni augunum, svipstund, augnablik: *á a-i,* alt í einu, í einni svipan. †**-bragðlegr** *l,* **1.** sem stendr yfir að eins augnablik. **2.** sem verðr þegar á augabragði. ***-brún** (flt. [†**-brýnn**] **-brýr,** [sjald.] **-brúnir**) *kv,* boginn yfir auganu; stundum sér í lagi hárin á þeim boga (brúnahárin). ***-fullr** *l,* dauða-drukkinn, blindfullr, rogafullr, blindþreifandi fullr: *a. féll á grund | og fór í þúsund mola,* KJL. 264. †**-gjöf** *kv,* það að manni er gefið auga (sitt). ***-hola** (flt. **augna-holur**) *kv,* = *auga-toft.* ***-hvarmr** (flt. **augna-hvarmar**) *k,* rōnd augnaloksins (sem augnahárin eru á). **-karl** (flt. **augna-karlar**) *k,* gat það e. op á þjóbeininu, sem lærhnútan gengr upp í gegn um: *ganga úr a-a körlunum,* ganga úr liði á lærinu, skúfslitna. ***-krókr** *k,* hornið e. krókrinn á auga-opinu (innra eða ytra, nær e. firr nefinu). ***-leið** *kv,* sjónhending(?): *það gefr a.,* það lítr svo út, Skft. (Sch.). †**-sjáldr** *kl,* = *sjáaldr, sjáldr.* ***-sjón-hending** *kv,* = ***-sjónhendings-kast** *kl,* hendingskast, svipstund: *í einu a-i.* **-staðr** *k,* † **1.** augahola. **2.** egl. það sem á er horft: *hafa a. á e-u,* lítast vel á e-ð, hafa athygli sína á e-u (með þeirri hugsun, að það sé vel fallið til e-s). **-steinn** *k,* **1.** eplið e. kúlan í augnatoftinni. **2.** lítill hnykill, hnoða, NL. (Sch. s .v. *bikill*). ***-steinsbugr** *k,* regnbogahinnan í auganu *(Iris),* BH. ***-toft** *kv,* umgerð augans í höfðinu, holið, sem augað hvílir í. Flt. *augna-toftir.* — † **augna-bending** *kv,* bending gefin með augunum. ***-bil** *kl,* augnabliks stund. ***-blik** *kl,* það að depla einu sinni augunum, tíminn meðan augum er deplað eitt skifti, augabragð (3). ***-bolga** *kv,* bolga i augum *(opthalmia).* ***-brár** flt. af *auga-brá.* **-bragð** *kl,* = *auga-bragð.* †**-fagr** *l,* fagreygr, fagreygðr. ○**-fífl** *kl. flt,* heimsk augu. ○**-flóð** *kl,* táraflóð, Iðr. 12. ***-fró** *kv,* e. k. jurt *(euphrasia),* Fl.Ísl. †**-fullr** *l,* alsettr augum (t. d. um votlendi). ***-fræ** *kl,* e. k. jurt *(lychnis Alpina).* **-gaman** *kl,* yndi fyrir augun: *hafa a. að e-u,* ánœgju af að horfa á e-ð. ***-gler** *kl,* það glerið í kíki, sem veit að auganu, Úrs. 160. ***-gras** *kl,* = *augnafró,* OHj. ***-gróm** *kl,* blettr á auganu(?), eða öllu heldr: ögn (gróm), sem sezt á auga: *það er ekkert a.,* ekkert smárœði, sem ekki sést. ***-hár** *kl,* hár á augnalokunum (hvörmunum). * ⊤**-himna,** LFR, XIII, 12, = ***-hinna** *kv,* hinnan á augasteininum. ***-hlíf** *kv,* ljóshlíf, lampahjalmr, lampaskyggni; annars líka hvað annað, er hlífir augunum. ***-hrœsni** *kv,* hrœsni fyrir annars augum, er annar sér til. ***-hvarfl** *kl,* það að augun hvarfla til og frá, Milt. 251. ***-hvarmar** flt. af *auga-hvarmr.* ***-hvíta** *kv,* það hvíta í auganu, eða á augasteininum. **-kast** *kl,* það að kasta (renna) augum; líka: svo stuttr tími sem þarf til að renna augum: *í einu a-i,* á augabragði, svipstundu. ***-kaun**

*kl*, ?, Sch. ***-kláði** *k*, kláði í augum, BH. ***-krá** *kv*, = *augnakrókr*, StÓ, 112. ***-krím** *kl*, BH, = ***-kríma** *kv*, grátt vagl (grávagl) á auga *(glaucoma)*, LFR, VIII, 11. ***-krókar** flt. af *auga-krókr*. ***-kækr** *k*, kækr, sem e-r hefir með augun: *spreytingslegr a.*, Lþb. 1748, nr. 23. **†-lag** *kl*, tillit. ***-lok** *kl*, hreyfanlega húðin fyrir ofan augað, sem dregst niðr, er auganu er deplað e. lokað. ***-lækning** *kv*. ***-læknir** *k*. **○-mál** *kl*, það mál, sem augun tala, Milt. 240. ***-matr** *k*, **1.** það sem augunum er yndi að. **2.** það sem maðr fær að eins að sjá, en ekki njóta. **-mein** *kl*, augnasjúkdómr. **Ψ-mið** *kl*, tilgangr. **†-mjörkvi** *k*, dimma fyrir augum, = **†-myrkvi**. **-ráð** *kl*, **1.** svipr augnanna, það sem augun láta í ljós. *α* **2.** augnaveiki, BáSk. I, 124. ***-raun** *kv*, **a.** það sem reynir á augun, augnaþraut. **b.** það sem mönnum verðr starsýnt á: *fríðar yngismeyjar eru a. yngismanna*, Málsh.; *þessi fríði maðr varð . . . stulkum a.*, Vgl. 232. *α*-**renning** *kv*, það að renna augunum, augnatillit. **†-sjáldr** *kl*, sjáaldr. ***-sjúkdómr** *k*, augnveiki. ***-skemtun** *kv*, = *-gaman*, OLfr. II, *2*, 267. **†-skot** *kl*, = *-kast*, *-tillit*. ***-slím** *kl*, e. k. augnasjúkdómr, augnavæta *(glaucoma)*. **-staðr** *k*, **† 1.** hol augnatoftin, staðr augans í höfðinu. *** 2.** = *augastaðr*, Skír. X, 19. **-steinar** flt. af *augasteinn*. ***-steinsbugr** *k*, = *augasteinsbugr*, BH. ***-stirðr** *l*, sem stirt er um hreyfing augna, EspÁ, IV, 35. **-sveinn** *k*, maðr, sem leiðir blindan mann, Stj. 46; EÓ, 152. ***-tál** *kl*, það sem tælir augun, LFR, XIII, 304. **-tár** *kl*, tár (í e. af augum). ***-tepra** *kv*, það að maðr er plíreygðr, titringr á augunum, = *-tina*. ***-tillit** *kl*, **1.** augnaráð: *sé eg oft sem áður fyr* | *þitt a. strangt*, JÓLj[1], 185. *α* **2.** hliðsjón, tillit: *með a-i til þess*, með tilliti til. **3.** tilgangr: *það var gert í því a-i að . . .*, í þeim tilgangi. ***-tina** *kv*, = ***-tinun** *kv*, titringr á augum, = *-tepra*. ***-titr** *kl*, sama. ***-toft** *kv*, = *auga-toft*, flt. réttust: augna-toftir: *holar a-ir*, KJLj. 45. ***-tönn** *kv*, (réttara væri í et.: auga-tönn), tönnin í manni í efra gómi beint niðr undan auganu (milli a-tanna eru 4 framtennr), horntönn (sbr. vígtönn í hrándýri). ***-var** *kl*, = *-krím*. ***-vatn** *kl*, vatn (lyf) til að bera á augun. ***-veiki** *kv*, = *-sjúkdómr*, augnveiki. **-verkr** *k*: verkr í augum. ***-vik** *kl*, = *-krókr*. ***-voði** *k*, egl. háski fyrir augun; háski sem manni stendr af að horfa á e-ð. *fögur ásýnd, auðæfi, metorð, það er vor a.*, VPost. II, 183. ***-væta** *kv*, = *-slím*, BH. ***-þjónusta** *kv*, sviksamleg þjónusta, sem að eins er unnin meðan húsbóndinn sér til: *þrælsótti og a. eru vanalegir förunautar*. ***-þraut** *kv*, það sem reynir á augun: *það er a, að lesa svona smátt letr*. ***-þreyta** *kv*, þreyta í augum, Kvöldv. I, 248. **†-þungi** *k*, þyngsl yfir augum, torveldleiki á að halda opnum augunum.

**† augbrá** *kv*, = *auga-brá (2)*.

**† augdapr** *l*, dapr til augna, augndapr.

*** augdepra** *kv*, = *augndepra*, LFR, IX, 191.

**auglit** *kl*, sjón, augsjón: *fyrir a-i alls lýðs*, að öllum lýð ásjáandi; *fyrir guðs a-i*, frammi fyrir guði; *þeir stóðu a-í til a-is*, svo að hvor horfði framan í annan.

**augljós[1]** *kl*, að eins haft í orðtækinu: *koma í augljós*, koma fram svo að sjáist; *það kom þá í a.*, það varð þá

bert; *en er þeir komu í a.*, en er þeir sáust.

**augljós**² *l*, auðsær, auðséðr: *það er a-t, að . . .*, bersýnilegt, auðséð; ber; *það er nú orðið a-t*, það er nú orðið bert, komið í ljós. — * **augljóslega** *a*, bersýnilega; ljóslega.

* **auglýsa (-lýsti)** *ás*, **1.** gera bert, sýna: *með því a-ti hann, hvern mann hann hafði að geyma*, sýndi, hvert innrœti hans var. **2.** birta, kunngera.

* **auglýsing** *kv*, birting: *festa, hengja, líma, upp a-u*, festa upp blað eða skjal, sem birtir e-ð; *festa á kirkjuhurð a-u um safnaðarfund; á þinginu var lesin a. um . . .; birta a. í dagblaði eða tímariti; a. guðs náðar*, birting. — Sams.: * **auglýsingar-kostnaðr** *k*, kostn. við auglýsingu. *-**skuld** *kv*, skuld fyrir augl. *-**verð** *kl*, verð á augl. — * **auglýsinga-blað** *kl*, **a.** blað, sem (ekki) flytr (annað en) auglýsingar. **b.** *gott, lélegt, slœmt a.*, gott (lél., sl.) blað til að birta í auglýsingar. *-**mál** *kl*, mál (stœrð) auglýsinga. *-**merki** *kl*, = *-**mynd** *kv*, merki, mynd, sem nota má í auglýsingum. *-**pláz** *kl*, = *-rúm*. *-**ráðsmaðr** *k*, sá er umráð hefir yfir öllu auglýsingarúmi blaðs e. tímarits og semr um þær. *-**reikningr** *k*, reikn. yfir augl. *-**rúm** *kl*, rúm, sem auglýsingar (mega) fylla. *-**skrifstofa** *kv*, **a.** ein skrifstofa blaðs, sú er tekr við auglýsingum og annast þær (og augl.-reikninga). **b.** skrifstofa, sem tekr við auglýsingum og annast birting þeirra í hvaða blaði eða tímariti, sem vera vill, í hverju landi sem er. *-**skuld** *kv*, skuld fyrir augl. *-**smali** *k*, maðr, sem hefir það starf á hendi að safna augl. fyrir e-t blað eða tímarit. *-**umboðsmaðr** *k*, **a.** = a.-ráðsmaðr (blaðs e. tímar.). **b.** maðr, sem tekr að sér að annast birting auglýsinga í hvaða blaði í heimi, sem vera vill (sbr. *-skrifstofa b)*. *-**umgerð** *kv*, umgerð, sem sett er utan um auglýsing í blaði, til að vekja athygli á henni. *-**verð** *kl*, verð á auglýsingum: *a. blaðs hlýtr að hækka eftir því sem það nær meiri útbreiðslu.*

* **augn-** (í st. f. *augna-)* er nú fyrri hluti ýmissa samsettra orða, svo sem: *-**dapr** *l*. *-**depra** *kv*. *-**deyfa** *kv*, nærsýni *(amblyopia)*, LFR, IX. *-**gler** *kl*, = *augna-gler*, Úrs. 161. *-**kríma** *kv*, þur augnabolga *(xerophthalmia)*, LFR, IX, 191 (sbr. þó: *augna-krím)*. *-**kveisa** *kv*, = *augnaverkr (rheumatismus oculorum)*, LFR, XV, 41. *-**roði** *k*, sst. *-**skær** *l*, skæreygr, sem hefir skær augu, StÓ, 90. *-**stola** *ób. l*, augum stolinn (sbr. *vitstola)*, LFR, XI, 280, *-**stór** *l*, stóreygr (= »eygðr mjök« í Þorf. Karls. í GhM, 422). *-**stýrur** *kv*, *flt*, stýrur í augum. *-**veiki** *kv*, = *augnaveiki*, LFR, IX, 191. *-**þurð** *kv*, þur augnabolga *(sklerophthalmia)*, LFR, IX.

† **aug|sjá**¹ **(-sé; -sá; -sénn e. -séðr)** *ás*. sjá með eignum augum: *at augsjánda öllum herinum*, Klm.

* **augsjá**² *kv*, augsjón; eink. í talsh.: *í allra a.*, í allra augsýn.

* **augsjáanlegr** *l*, bersýnilegr: *a. voði.*

**augsjón** *kv*, = *augsýn.*

† **augsúr** *l*, = *súreygr.*

**augsýn** *kv*, sjón, sjónir; *í allra a.*, að öllum ásjáandi; *undir eins og þeir komu í a.*, sáust.

**augsýna (-sýndi)** *ás*, sýna, birta: *augsýndi hann í því, að hann var drengr góðr*, sýndi það í því, að . . .; *augsýndist þá, hvað undir bjó*, kom í ljós.

**augsýnilegr** *l*, bersýnilegr.

**augsýnn** *l*, sama: *a-t tjón*, bersýnilegt.
† **augusteinn** *k*, = *augasteinn*.
**auk I.** *a*, **I.** umfram, aukreitis: *100 manna ok a. kappar hans; ok konungr þat er a. er.* [*auk* er leif af glötuðu orði: *aukr*, og kemr það fram í orðt. *at auk*, * *að auki*, um fram.] ***2.** í talsh. *auk heldr*, hvað þá heldr, meira að segja, (með neitun á undan) því síðr: *ég skal a. h. gefa þér það*, meira að segja; *hún vill ekki sjá hann, a. h. tala við hann*, því síðr. †**3.** = og; einnig: *auk nær aftni;* (í þessari merk. oft ritað *ok*, en að framb. hafi verið *auk* sést á hendingum: [*ok* =] *auk at jöfri fræknum; hitt var* [*ok* =] *auk at eykir); svá mun ek a. bleza þá konu*, mun ég einnig. ***II.** *sto*. m. ef., fyrir utan, að ótöldum: *þrír menn a. heimilisfolks*, fyrir utan; *hann átti 11 börn í hjónabandi a. ómerkinga*, að ótöldum ómerkingum; *auk þess sem* (e. *að*) ..., fyrir utan það sem ...
**auka**¹ **(eyk; jók; aukið)** *ás*, **I.** m. þolf., bœta við e-ð (láta e-ð vaxa) að stœrð e. fjölda: *auka ætt sína, kyn sitt*, fjölga ætt sinni, kyni sinu; *jók Níall ekki hjón sín*, Níall bœtti ekki við sig hjúum; *auka nafn e-s*, gefa e-m viðrnefni, auknefni; *ég eyk það ekki, að þeir vóru að minsta kosti alnar-langir*, ýki það ekki, ofhermi ekki; *aukin vætt, aukið hundrað*, ríf vætt, rúmt hundrað; *mun þat svá aukandi fara um yðra svívirðing*, fara vaxandi. **2.** m. þgf. *auka e-u við* (eða *á) e-ð*, bœta e-u við (e. á) e-ð; *þetta er orðum aukið*, ýkt; *var miklu við aukið söguna*, bœtt við; *a. synd* (þgf.) *á synd* (þlf.) *ofan*, bœta synd ofan á synd; *það jók miklu á harma hans*, þyngdi mjög harma h.; *það er ekki á það aukandi*, ekki vert að bœta við það (ofan á það). **3.** m. þlf. og sto. (fágætt): *auka ný vandrœði á in fornu*, bœta nýjum vandr. við, ofan á, þau sem fyrir voru. †**4.** vera um fram: *þat er eykr 6 aura*, það sem um fram er 6 aura.
† **auka**² **(-aði)** *ás*, = *auka*¹.
**auka-** sjá: *auki*².
† **aukan** *kv*, = *aukun*.
† **aukandlegr** *l*, ríkulegr: *a. ávöxtr*.
**auki**¹ í orðt.: *að a.*, sjá: *auk I, 1*.
**auki**² *k*, **I.** (sjaldh. nú án fsk., svo sem *áauki, viðauki*), viðbót, aukning: *auki mikill langrar rœðu*, lenging; *þetta er góðr a. við það sem fyrir var*, viðbót; vöxtr: ⊙ *lauki er lítit gæft til auka*, laukr þarf lítillar hirðingar til vaxtar (gróðrs). **2.** þróttr, afl (að eins í flt. í talsh.): *færast í aukana*, herða á afli sínu sem framast má; *ok færist í alla a-ana afls síns*, Bret.; *Glámr færðist í a-ana*, Grett. (altítt enn). †**3.** vextir af fé, N. †**4.** jarðargróði, afurðir, Barl. †**5.** afspringr, afkvæmi, Stj. †**5.** sæði dýrs: *hvals auki (sperma ceti)*. — Sams.: **auka-** má setja framan við hvert n., þar sem það getr átt við, til að tákna e-ð, sem er um fram það sem reglulegt er e. venjulegt, t. d. *-maðr*, maðr um fram venjul. tölu; *-hnífr, -skeið*, hn. (sk.) um fram e. afgangs. * **auka-alþingi** *kl*, alþingi, sem haldið er milli reglulegra, lögskipaðra þinga, Skír. XII, 8 (fág.), = *-þing*. ***-átt** *kv*, milli-átt milli höfuð-átta, OLfr., inng. 33 ***-banki** *k*, útibú höfuðbanka, L. 18/9 '85, 9. gr. ***-bogi** *k*, minni boginn í tvöföldum regnboga, Fisch. 240. ***-borð** *kl*, **I.** smærra borð fyrir utan aðalborðið í stofu e. sal. **2.** efstu borð (fremst) í súð báts, þau er eigi ná allri

bátslengdinni(?). *Sn.:* kempur, LFR, II, 187. ***-breytingar-uppástunga** *kv*, vara-breytingar-tillaga e. breytingar-tillaga við breytingar-tillögu. ***-dagr** *k*, **1.** hlaupársdagr (24. Febr.). **2.** dagr um fram e. afgangs. ***-eista** *kl*, eista um fram tvö, Klp. IX, 141. ***-erfiði** *kl*, = *-vinna*, Hbfh. 115. ***-fall** *kl*, í mállýsingu eru kölluð a-föll *(casus obliqui)* öll föllin nema nefnifall *(nom.)* og ávarpsfall *(voc.)*. ***-fang** *kl*, svo er það nefnt, er ólétt kona (e. annað kvendýr) verðr aftr barnshafandi áðr en fyrra fóstrið er fætt, BH. ***-félagi** *k*, óreglulegr félagi; maðr, sem er í félagi, en fullnægir ekki öllum félaga-skilyrðum og hefir ekki fullan félaga-rétt. ***-forseti** *k*, (sjaldg.) = *vara-forseti*, Klp. VIII, 84. ***-fulltrúi** *k*, = *vara-fulltrúi*, NfnT, II, 17. **†-gerð** *kv*, óþarft verk, Hms. ***-geta** *kv*, **1.** = *-matr*. **2.** ofanálag, e-ð gott, sem maðr fær aukreitis: *hann galt honum kaup sitt fult og gaf honum fullorðinn sauð um vorið, það var dálagleg a.* ***-gjald** *kl*, gjald um fram það sem tilskilið er. ***-hlutr** *k*, ?: *var tilsett á alþingi 1650 að a. skyldi gerast með góðum og skilsömum greiðslaf*, Alþ.ályktun. ***-hús** *kl*, hús út úr aðalhúsinu, HH. Ks. ***-jörð** *kv*, jarðstjarna af 2. flokki, tungl. ***-jarðstjarna** *kv*, sama. ***-kennari** *k*, kennari við skóla, er skipaðr er um fram reglulegan kennarafjölda. ***-kjörskrá** *kv*. viðbót við kjörskrá (s.þ.o.). ***-konungr** *k*, vara-konungr, Skír. V, 59. ***-laun** *kl. flt*, *aukatekjur*. ***-lögþing** *kl*, sbr. *auka alþing*. ***-mánuðr** *k*, mánuðr, sem inn varð að skjóta sum ár eftir eldra tímatali, LLH, 54. ***-matr** *k*, **1.** undirstöðuminni réttr fyrir utan aðal-rétt máltíðar. **2.** matr gefinn milli (e. utan) reglulegra máltíða. **-nafn** *kl*, auknefni, viðrnefni. ***-námsgrein** *kv*, námsgrein, sem nemendr í skóla eiga kost á að nema, ef þeir óska. *And.:* skyldunámsgrein. ***-nætr** *kv. flt*, í mánuði, sjá: *prítugnættr*, Lesr. 8. ***-póstr** *k*, **1.** maðr, sem fer póstferð milli reglulegra póstferða. **2.** póstr, sem fer frá póststöð á aðalpóstleið afleiðis til stöðva, sem ekki eru á aðalpóstleiðinni. ***-póstleið** *kv*, leið aukapósts. Á Ísl. ganga aðalpóstar milli Reykjavíkr og Akreyrar, Akreyrar og Austrlands, Reykjavíkr og Austrlands, Rvíkr og Ísafjarðar. Út frá þessum aðal-póstleiðum liggja auka-póstleiðir hér og hvar út um allar sveitir og sýslur. ***-réttr** *k*, **1.** = *auka-matr 1.* **2.** dómþing, sem haldið er af undirdómara (héraðsdómara) milli manntalsþinga, til þess að taka fyrir einstakt mál. ***-réttar-dómr** *k*, ***-réttar-mál** *kl*, dómr upp kveðinn, mál tekið fyrir, í auka-rétti. ***-setning** *kv*, (málfr.) setning í máli, er bundin er e. háð annari setningu. ***-sjóliðsforingi** ⊥ *k*, vara-aðmíráll, næst-tignasti e. næst-æðsti foringi í sjóliði, Skír. XIX, 88. ***-skóli** (⊥?) *k*, framhalds-skóli, Andv. VII, 109. ***-skrá** *kv*, viðbótarskrá við aðalskrána, (einkum) = *-kjörskrá*. *And.:* aðal(kjör)skrá. ***-smíði** *kl*, óþarfr hlutr. ***-sól** *kv*, mynd af sólunni, er sýnist sem önnur sól, kemr fram við ljósbrot, er ísing er í lofti *(parhelium)*, LFR, III, 188. ***-stund** *kv*, **1.** aukreitis klukkustund, t. d. kenslustund um fram reglul. e. ákveðnar stundir. **2.** stund e. tími, er afgangs verðr e. aflögu frá verkum, frístund. ***-sýsla** *kv*, sýsla e. starf, sem maðr hefir á hendi í hjáverkum, auk aðalstarfs síns. ***-tað** *kl*, hrossa-

taðsköggull: *valt um koll ef fyrir fótum varð a.*, OE. ***-tekinn** *lm*, að eins kl., í orðt.: *aukatekið orð*, óþægilegt orð, stygðaryrði. ***-tekja** *kv*, (nær ávalt haft í flt.) tekja, sem maðr fær auk reglulegra tekna sinna; eink. haft um borgun fyrir aukaverk embættismanns. ***-tekjubók** *kv*, ***-tekjudagbók** *kv*, bók, er embættismaðr ritar í aukatekjurnar. ***-tekjureglugerð** *kv*, reglugerð um aukatekjur, Johns. 33 (svo var nefnd Rgl. 10/9 1830). ***-tillag** *kl*, till. um það fram, sem venjul. e. ákveðið er. ***-tún** *kl*, túnblettr fyrir utan aðal-túnið, Atli 95. ***-tungl** *kl*, samskonar mynd af tungli sem -sól er af sól; sjá *-sól*. ***-útsvar** *kl*, gjald til hrepps e. bæjar þarfa, sem jafnað er niðr árl. á gjaldendr, til að fylla það er á vantar að fastar tekjur sveitarfélagsins (tíundir osfr.) hrökkvi fyrir gjöldum. ***-vegr** *k*, (hlið)vegr, er liggr út frá þjóðbraut e. aðal-vegi. ***-vika** *kv*, **1.** innskots-vika í tímatali. **2.** vika um fram e-t ákveðið vikutal. ***-vinna** *kv*, **1.** vinna um fram reglul. vinnutíma. **2.** vinna, sem maðr vinnr í hjáverkum auk aðal-starfs síns. ***-þing** *kl*, = *-alþingi;* einnig um önnur þing, MT, I, 284.

* **auk|nafn** *kl*, = *auknefni.*

**auk|nefna** *ás*, nefna (e-n) auknefni.

**auk|nefni** *kl*, viðrnefni; * uppnefni.

**aukning** *kv*, það að auka.

† **aukr** *k*, sjá: *auk I, 1.*

* **aukreitis** *a*, sér í lagi, auk þess sem venjulegt er e. áskilið.

† **aukun** *kv*, = *aukning.*

† **aukvisi** *k*, (nú: *örkvisi)*, **a.** maðr, sem úrkynjast, er ættleri, einkum að líkams-burðum; þó einnig um alla atgervi, Sturl.O. I, 219; *einn er a. ættar hverrar;* **b.** lingerðr maðr og hörkulaus, veimiltíta.

† **»aulandi«** = á úlandi, sjá: *óland.*

* **aulast (-aðist)** *óás*, fara að sem, ráfa (villast) eins og, auli: *hann a-ðist út með sjó*, alpaðist í vitleysu út m. sjó; *ég a-ðist til þess*, ég var sá auli (flón) að gera það.

* **auli** *k*, heimskingi og amlóði. — Sams.: * **aula-bárðr** *k*, heimskr klunni. ***-dómr** *k*, það að vera (eins og) auli. ***-drengr** *k*, auli: *tregr gengr a. grýttan veg*, GÍO, 338. **ᵛ-greiði** *k*, e-ð sem gert er í greiða skyni, en er svo illa hugsað e. klaufalega gert, að það verðr að ógreiða. JÓl. ***-háttr** *k*, hátterni e. aðferð aula. ***-legr** *l*, líkr aula. ***-skapr** *k*, = *-dómr.*

* **aulhríð** *kv*, renningsdrög, fjúkmaldringr m. nokkrum gusti, N., Sch.

**auma** *kv*, eymd; nú að eins í flt. í orðt. *sjá aumur á e-m*, sjá eymdir á e-m, þ. e. vorkenna e-m, VPost. 283., Hms.; † *sjá aumu* (eymd) *á e-m*, sama, Hms.

**aumhjartaðr** *l*, blautgeðja, vorkunnsamr.

* **aumindi** *kl. flt*, eymd, sárindi, LFR, IX, 192, XV, 40.

**aumingi** *k*, aumr maðr (í einhverjum skilningi): *guðs a.*, guðs volaðr maðr; *hann er mesti a.*, fáráðr; heilsuleysingi; maðr sem (fyrir e-a sök) er aumkunarverðr. — Sams.: * **aumingjalegr** *l*, sem er eins og aumingi. ***-skapr** *k*, vesalmenska.

**aumka (-aði)** *ás*, kenna í brjósti um; † *a. sik*, kveina; * *a-ast* (og *a. sig) yfir e-n*, aumka e-n (svo að maðr liðsinni honum).

**aumkun** *kv*, † **1.** kvein(kun), það að kveinka sér. **2.** það að aumka. * **3.**

e-ð sem aumkunarvert er: *það er a. að sjá þetta.* — Sams.: * **aumkunar-legr** *l.* ***-verðr** *l.*

* **aumkva (-aði)** *ás,* = *aumka.*

* **aumkvun** *kv,* = *aumkun 2, 3.*

**aumlegr** *l,* eymdarlegr, vesallegr.

† **aumlegleikr** *k,* **aumleikr** *k,* eymd(arskapr), vesaldómr.

* **aumlyndi** *kl,* viðkvæmni, LFR, VIII, 244.

* **aumlyndr** *l,* = *aumhjartaðr.*

⊤ **aumnögl** *kv,* = *annögl.*

† **aumorlegr** *l,* = *ömurlegr.*

**aumr** *l,* * **1.** sár, viðkvæmr: *mér er auml hnéð,* sárt viðkomu. **2.** vesall, aumkunarverðr: *hann má ekkert auml sjá,* vorkennir öllum aumum. **3.** illr, armr, illrar heillar: † *a. ertú máls,* illu heilli mælir þú; *a. þræll,* armr, illr.

**aumstaddr** *lm,* bágstaddr.

† **aur-**, sjá: *or-* og *ör-*.

⊤ **aur** *k,* f. *eyrir.*

**aurar** *flt.* af *eyrir.*

**aur(r)** *k,* **1.** leir, blautr e. harðr. **2.** möl og sandr saman. **3.** for, blaut mold og sandr: *aurr ok saurr.* ***4.** ócl., óþverri: *ausa auri alsaklausa menn,* skammyrða.

† **aura|burðr (-ar)** *k,* landskuld, N.

† **aura|dagr** *k,* gjalddagi, greiðsludagr, N.

* **aura|elska** *kv,* ást á auðœfum, Kvöldv. II, 294.

○ **aura|frekr** *l,* fégjarn, StÓ, 44.

* **aura|girnd** *kv,* ágirnd, fégirnd, LFR, XII, 57.

**aura|gnótt** *kv,* auðlegð.

† **aura|lag** *kl,* verðlag.

† **aura|lán** *kl,* auðsæld.

† **aura|lógun** *kv,* eyðsla.

† **aura|lykt** *kv,* (af: lúka), greiðsla, borgun, N.

○ **aura-mörk** *kv,* (af: aurr), vatn (kenning), StÓ, 2.

*a* **aura|past** *kl,* (sbr. pastr), gróði, fjársafn: *þótt a. | óguðrœknum falli slétt,* Vísnab. 312.

* **aura|safn** *kl,* auðsafn, VPost. II, 28, 52.

* **aura-sjóðr** *k,* sparisjóðr, er tekr við fárra aura innlagi í senn.

† **aura|skortr** *k,* fjárskortr, N.

† **aura|taka** *kv,* fjárheimta, N.

* **aura|tjón** *kl,* fjártjón, Sch.

* **aur|bleyta** *kv,* sandbleyta (einkum í botni vatnsfalla), LFR, XIV, 150.

**aur|borð** *kl,* (í bát) annað borð frá kilinum.

† **aur|falr** *k,* holkr á neðra enda spjótskafts, sem tók niðr á jörð (aur), er maðr studdi sig við spjótið.

**aur|gata** *kv,* gata, þar sem aur er í botninum; gata á aur(um).

* **aur|hrúga** *kv,* hrúga af auri, Klopst. 1. b.

* **aur|jörð** *kv,* leirjörð, Lach. 5.

† **aurlögr** *k,* nafn rúnar, er táknar 17, Peric. 132.

* **aurmold** *kv,* leirmold, Lach. 56.

**aurriði** *k,* e. k. silungs-tegund, *(salmo trutta).* — Sams.: **aurriða-á** *kv,* á, sem aurriði er í. Einnig bœjarnafn. **†-bekkr** *k,* lœkr, sem aurriði er í. **†-dalr** *k,* dalr, er -á rennr um. **†-fiski** *kv,* -veiði. **-foss** *k,* bœjarnafn. ***-kot** *kl,* bœjarnafn. ***-múkr** *k,* e. k. stuttr og feitr silungr, Sch. **-net** *kl,* net til að veiða aurriða í. **-vatn** *kl,* vatn, sem aurriði veiðist í; líka bœjarnafn. **†-vél** *kv,* vél til að veiða aurriða.

* **aur|rák** *kv,* rák úr leir eða sandi í jökulsprungu, And. VI, 48.

* ⊤ **aurryðjandi** *k,* = *aurriði,* StÓ, 2. [rangyrði myndað af misskildum uppruna].

† **aurskór** *k*, skeifa (undir hestfót).

**aurskriða** *kv*, skriða, er blautr og sendinn jarðvegr hleypr fram.

**aurstokkr** *k*, **1.** neðstu trén í húsgrind, þau er gólfbitarnir hvíla á. **2.** flt. = *reiðstokkar*, Lþb. 1745, Nr. 40.

**ausa**[1] *kv*, eysill, sleif (oft og upphafl. úr tré) til að ausa með.

**ausa**[2] **(eys; jós, jósu; ausið)** *ás*, **1.** taka vatn e. vökva e. smáa hluti upp í léttu íláti (ausu, austrtrogi osfr.) og hella, skvetta eða varpa því burt á annan stað; með þgf. *a. vatni; a. síld; a. auri, sandi; a. e-u yfir e-ð*, taka e-ð upp í íláti og varpa því á e. yfir e-ð: *a. (vatni og aur) yfir askinn* (tréð); *a. á e-n*, skvetta á; *ef maðr eyss eldi á mann; a. síld úr netjum;* taka í háf síld, sem króuð er í netjum, og hella henni (t. d. í bát); óel. *a. sauri (auri) á e-n*, eða m. þlf. og þgf.: *a. e-n auri*, hella svívirðingarorðum yfir e-n; *a. barn vatni*, skíra barn; *a. e-n moldu*, greftra e-n. **2.** með þlf., tœma með því að ausa: *a. skip upp*, a. öllu vatni (sjó) úr skipinu; *a. bát*, sama; óel. *a. bát sinn*, miga. **3.** (um hest) standa á framfótunum einum, setja upp rassinn og reyna að varpa af sér manni eða böggum.

† **ausker** *kl*, austrtrog til að ausa (bát) með.

† **ausli** *k*, = *auvisli, usli.*

**austan** *a.* og *sto*, **I.** *a*, **1.** úr austrátt: *koma a. af landi*, af austrlandi; *koma a. yfir fjall, heiði*, koma vestr yfir; *hann er (á) a.*, vindrinn blæs af austri; *hann brestr á (skellr á) a.*, veðr af austri skellr á. **2.** *fyrir austan (fyrir* stýrir þlf.) *fjall; fyrir fjall a.*, austar en fjall(ið); * *meðan ég var fyrir a.*, austr í sveitum, fyrir a. fjall (úr Reykjavík miðað); e. á austrlandi; *koma að a.*, koma austan yfir fjall, e. koma af austrlandi, frá austfjörðum; *austan við (við* stýrir þlf.) *húsið*, austar en húsið, en skamt frá því e. rétt hjá því; *að a.*, frá austri: *þeir komu að a.*, frá austri; *a. frá veggnum*, úr austrátt frá veggnum; *þeir sigldu a. um eyna*, fram hjá eystri hlið eyjarinnar (um þá er sigla norðr e. suðr). **3.** á austrhlið, gegn austri: *a. liggr Rangárvallasýsla að Árnessýslu; þrjú hlið voru a. á borginni*, á þeirri hlið borgarinnar, er austr vissi. **II.** *sto.* m. *ef.*, fyrir austan, fram með austrhlið: *a. fjarðarins*, fyrir austan fjörðinn; fram með firði að austanverðu; *a. ár*, fyrir austan á; *sigldu a. lands norðr fyrir Langanes*, fyrir austan land;[en *austanlands* í einu orði, sjá hér á eftir]. — Sams.: * **austan-andvari** *k*, = *-blær*. ***-átt** *kv*, vindstaða af austri. ***-blær** *k*, hœgr vindblær úr austri. **-ferð** *kv*, ferð að austan. ***-fjalls** *a*, fyrir austan fjall (í Rvík og grend séríl. um Árness og Rangárvalla sýslur). **-fjarðar** *a*, sjá: *austan II.* ***-fram** *a,: a. með hæðinni*, fram með hæðinni austanverðri. ***-fjúk** *kl*, fjúk af austri. ***-ganga** *kv*, fiskiganga, sem kemr austan að. *And.:* vestan-ganga. ○**-geisli** *k*, g. úr austri, Milt. 157. ***-gola** *kv*, g. af austri. ***-hríð** *kv*, hríðarveðr á austan. †**-koma** *kv*, koma að au. ***-kona** *kv*, kona að austan. ***-lands** *a*, á austrlandi: *það er alltítt a.* ***-maðr** *k*, maðr að austan (í Rvík um menn úr næstu sýslum austanfjalls). ***-mál** *kl*, austfirzka, málfœri á Austfjörðum, Sch. ***-megin** *a.* og *sto.* m. *ef.: a. fjarðar, a. við fjörðinn*, á eystri hlið fjarðarins, fyrir au. fj. ***-næðingr** *k*, kaldr vindr

af austri, JHj. Dýral. 93. ***-piltar** *k. flt*, (skóla)piltar af Austrlandi. ***-rigning** *kv*, r. af austri. ***-rosi** *k*. ***-sjór** *k*, ósjór œstr af austanvindi. ***-snjóbleyta** *kv*. ***-snjókoma** *kv*, = ***-snjór** *k*. ***-stormr** *k*. ***-sunds** *a*, fyrir au. [Eyrar]sund, NF, II, 5. ***-til** *a*, að austanverðu, á eystri hluta: *a. á eyjunni*. **-veðr** *kl*, vindr e. stormr af austri. **-verðr** *l*, er snýr mót au. eða í au.: *a-ð eyjan*, eystri hluti eyjarinnar, sá hlutinn sem til austrs veit; *a-t við eyna*, skamt austr frá eyjunni. ***-véri** *k*, (í óvirðul. samb.) = *-maðr*. ***-við** *slo*, við e-ð austanvert. **-vindr** *k*.

**austar(r), austast** *a, ms.* og *y*, lengra austr, lengst austr (bæði um dvöl á stað og hreyfing til staðar).

**austarlega** *a*, langt austr frá e. lengst austr.

**austast** *y*, sjá: *austar*.

**austastr** *lo*, sjá: *eystri*.

**austfirðingr** *k*, íbúi í austfirðingafjórðungi (austrlandi) e. þaðan ættaðr. — Sams.: ***austfirðinga-át** *kl*, samsæti, sem austfirðingar, búsettir í Reykjavík, hafa haldið einu sinni á vetri síðan 1905. **-búð** *kv*, búð á alþingisstað inum forna, sú er austfirðingar tjölduðu. **-dómr** *k*, fjórðungsdómr austfirðinga á alþingi forna. **-fjórðungr** *k*, austrfjórðungr Íslands. Landinu var á 10. öld skift í 4 fjórðunga: austfirðingafj., norðlendingafj., vestfirðingafj. og sunnlendingafj. Sú skifting hefir haldist síðan, nema hvað takmörk austf.fj. hafa breyzt, svo að hann tekr nú yfir N.-Þingeyjar, N.-Múla, S.-Múla og A.-Skaftafells sýslur. ***-kvöld** *kl*, kvöld það er -át er haldið í Reykjavík. ***-sögur** *kv. flt*, fornsögur, þær er gerðust í austfirðinga-fjórðungi (Hrafnkelssaga, Vápnfirðingasaga, Fljótsdœla osfr.).

**austfirðir** *k. flt*, **1.** firðirnir á austrlandi. **2.** allr austfirðingafjórðungr.

***austfirzka** *kv*, **1.** málfœri e. mállýzka austfirðinga; orð e. orðtœki, sem að eins e. einkum tíðkast á austfjörðum. **2.** siðr, er (að eins) tíðkast á austfj.

**austfirzkr** *l*, sem er í austfirðingafjórðungi eða þaðan runninn.

***Austgotar** *en, k. flt*, eystri hluti inna gotnesku þjóðflokka, bjuggu á 4. öld í Suðr-Rúslandi milli Dniestr og Don; í lok 5. aldar stofnuðu þeir A-a-ríki á Ítalíu, og leið það undir lok á miðri 6. öld. Einn af konungum þeirra var Jörmunrekr († 375).

† **austker** *kl*, = *austker*, austrtrog.

***austlægð** *kv*, ⊥ half lengd sólnándar (s. þ. o.), Klp. IX, 94.

***austlægr** *l*, er í austri liggr, frá austri er miðaðr: *inn austlægi fjallgarðr*, austr-fjallgarðr; *ið a-a keisaradœmi*, keisaradœmið eystra; *a-g lengd*, austrlengd (e-s staðar frá tilteknum hádegisbaug, t. d. þeim er kendir eru við Ferro eða Greenwich e. Paris); *hann* (ɔ: vindr) *er a.*, það er austan-átt.

**austmaðr** *k*, **1.** Norðmaðr, sem ekki er heima í Noregi, nefnt svo af Íslendingum og Orkneyingum á söguöldinni. En aldrei nefna þeir austmenn þá Norðmenn, sem heima eru í Noregi. † **2.** Svíi, sem er í Noregi, nefndr svo af Norðmönnum. *⊥ **3.** Norðmenn í Noregi. (Þessa vitlausu merking orðsins notar einn ísl. maðr að eins: Bjarni frá Vogi, sjá blaðagreinir hans *passim)*.

† **aust|mál** *kl*, = *austrmál*.

⊙ **aust|marr** *k*, Eystrasalt.

⊙ **aust|mörk** *kv*, austrlönd.

***austnorðan** *a,* norðaustan; norðan og austan á Íslandi: *amtmaðurinn a. | er orðinn fyrir tjóni,* amtm. í norðrumdœminu og austrumdœminu, JÓ. Lj.[2] 158. — Sams.: ***austnorðan-átt** *kv.* ***-missiris-vindr** *k,* sá missiris-vindr *(Monsun),* sem blæs í Indlandshafi af norðaustri frá Okt. til Marz árlega. ***-staðvindr** *k,* staðvindrinn *(Passat)* fyrir norðan lognbeltið. ***-vindr** *k.*

***austnorðaustr** *kl.* og *a,* áttin mitt á milli norðaustrs og austrs, LFR,III,135.

***austnorðr** *k.* og *a,* norðaustr, mitt á milli norðrs og austrs, Atli 209. — Sams.: ***austnorðr-bygð** *kv,* bygð í eystri og nyrðri hluta: *a-ir norðralfu.* ***-endi** *k.* ***-helmingr** *k.* ***-hluti** *k.* ***-jaðar** *k.* ***-land** *kl.* ***-partr** *k.* ***-strönd** *kv.*

**austr[1] (-rs)** *kl,* sú átt sem maðr hefir út frá vinstri hönd, er maðr á norðrhveli jarðar snýr sér móti hádegissól.

**austr[2]** *a,* í austrátt, **a.** um hreyfing: *fara a., koma a., a. yfir (um) fjall;* **b.** um veru: *meðan ég var a. þar,* þar eystra, fyrir austan.

**austr[3]** (ef. **-rs** og †**-rar)** *k,* **I.** það að ausa, athöfnin: *standa í austri,* vera að ausa; *til austrar,* Grett., = til austrs, til þess að ausa. (Í fornritum er fyrst talað um *byttu-a., stampa-a.,* s. þ. o., síðan um *dœlu-a.,* s. þ. o. **2.** sjór sá er safnast í skip (við ágjöf e. leka), svo að ausa (dæla) þarf: *það er mikill a. í skipinu,* mikið vatn (sjór), sem ausa þarf; *verja skip austri,* verja því að sjór safnist í skipið.

**austr[4]** *fsk,* (af *austr, kl)* má setja framan við hvert orð, sem það að efni getr átt við, er um átt er að rœða. Hér verða að eins fá þeirra talin. **-alfa** *kv,* Asía. ***-alfu-mál** *kl.* ***-alfu-þjóð** *kv.* ***-áll** *k.* **-átt** *kv.* †**-búðir** *kv. flt.* ***-deild** *kv.* ***-endi** *k.* ***-ey** *kv.* ***-fall** *kl* (sjávar). **-ferð** *kv.* ***-fjall** *kl.* ***-för** *kv,* (†**-farar-knör** *k;* **-skip** *kl.).* **-garðr** *k.* ***-grein** *kv.* **-halfa** *kv,* = *-alfa.* **-heimr** *k,* land e. lönd í austri: *til a-s vil ég halda.* ***-himinn** *k.* ***-hlið** *kl; kv.* ***-hlíð** *kv.* **-hús** *kl,* **a.** eystra hús; ***b.** austrendi húss. ***-hvel** *kl,* eystri hnatthelmingr (jarðar). ***-höfði** *k.* ***-Indland** *kl,* Indland ið eystra. ***-jaðar** *k.* †**-kendr** *l,* austlægr. ***-land** *kl,* **I.** í et. Austfirðinga-fjórðungr á Íslandi. **2.** í flt. *-lönd,* austrheimr, Asíulönd. ***-lands-skip** *kl,* kaupfar til austrlands, EspÁ, X, 84. ***-landsuðr** *k.* og *a,* átt mitt á milli austrs og suðaustrs. †**-legr** *l,* austrœnn, austlægr. ***-lengd** *kv,* lengd austr frá tilt. hádegisbaugi (Ferró, Greenwich, París osfr.), JÓl. *And.:* vestr-lengd (JÓ. Al. 1.). ***-lenzkr** *l,* sem er frá (eða í) austrlöndum. ***-oddi** *k.* **-ríki** *kl,* † **I.** ríki sem liggr í austri; í fornritum haft um ýmis ríki: Indland, austrlönd, Asía, lönd í Rússlandi, austrómverska keisaradœmið osfr. ***2.** Austrríki, **a.** keisaradœmið A.; **b.** erkihertogadœmið A. **-skagi** *k.* ***-stafn** *k.* ***-sveit** *kv,* **a.** austrhluti sveitar; **b.** eystri sveit; oftar í flt. ***-menn** *k. flt,* menn í a-sveitum (austanfjalls), Þr.R, 3. ***-takmark** *kl.* ***-tangi** *k.* ***-tún** *kl.* ***-umdœmi** *kl,* austfirðingafjórðungr að því leyti sem hann var »amt«. **-vegr** *k,* **I.** lönd fyrir austan Eystrasalt. **2.** austrlönd. **-vegs-konungr** *k,* **I.** Garðaríkis-konungr. **2.** í flt. vitringar þeir er Matth. *2,* 1-12 segir frá. †**-vegsmaðr** *k,* maðr frá austrlöndum. †**-vegsríki** *kl,* ríki í a.-löndum. ***-vegs-vitringar** *k, flt,* = *-konungar 2.* †**-Vindr** *k. flt,* Vindr í austrhluta Vindlands. †**-ætt** *kv,* = *-átt.*

**austr[5]** *fsk.* (af *austr, k),* †**-biti** *k,* bit-

inn við austrrúm í skipi. ***-gögn** *kl. flt,* áhöld til að ausa með, LFR, II, 176. †**-ker** *kl,* austrtrog. †**-mál** *kl,* (vöku-) tími þá er ausa skyldi skip, Fbr. **-rúm** *kl,* það rúm í skipi þar sem ausið er. ***-trog** *kl,* trog til að ausa skip með. ***-vél** *kv,* vél til að ausa vatni, Fisch.

† **austroka (-aði)** *ás,* m. þgf. eyða, sóa, sólunda: *a. fé sínu.*

* **austrœna** *kv,* austangola.

**austrœnn** *l,* **a.** (um vind, veðr) af austri: *a-n gola,* (= austrœna), *a. vindr.* **b.** frá Noregi: *a. viðr,* timbr frá Noregi; *a-ir menn,* austmenn (Norðmenn á Íslandi e. í Orkneyjum staddir).

† **austskota** *kv,* = *austrker, austrtrog.*

† **auvi** e. **auví** *ko,* = *aví,* æ vei!

† **auvirð** *kl,* = *auvirði 2.*

**auvirða** [δ auvirða, auðvirða] þát. †**-virði,** ***-virti,** *ás,* (í st. f. † *afvirða)* egl. fella í verði e. gildi, lítilsvirða, smána.

† **auvirði** *kl,* **1.** verðrýrnun, gildisfall, Grág. **2.** fyrirlitlegr maðr, úrþvætti. *Sn.:* auvirðismaðr.

**auvirðilegr** [δ auv., auðv.] *l,* lítilmótlegr, fyrirlitlegr.

* **auvirðíng** [δ auv., auðv.] *kv,* það að auvirða, lítilsvirðing, hneysa.

† **auvirðis-maðr** *k,* fyrirlitlegr maðr, úrþvætti.

† **auvirðskapr** *k,* aðferð eða breytni, sem gerir mann að auvirðismanni.

† **auvirsmaðr** *k,* líkl. ritvilla f. auvirðismaðr.

† **auvisli** *k,* = *ausli, usli.*

* **ávall** *l,* = * **ávalr** *l,* þykkastr í miðju, en afhallandi á tvo e. alla vegu út að jaðri: *lokið á öðrum dósunum var slétt, en á hinum á-t; kistulokið er á-t: and.:* hvelfdr.

* **ávalhnöttóttr** *l,* eins og egg í lögun, LFR, III, 33.

**ávalt** *a* (í st. f. *of alt),* ætíð, ævinlega, jafnan, sífelt, alt af.

**áván** *kv,* = *ávon.*

† **ávani** *k,* siðr e. aðferð, sem maðr hefir vanið sig á; vani.

**ávant** *l. kl,* egl. *á vant,* skortandi upp á, sem á vantar: *það er nokkurs á. enn,* vantar nokkuð enn; *mikils á. fulla tölu,* mikils vant á, skortir mikið á; *honum þótti verkinu í mörgu á-t,* áfátt.

* **ávantan** *kv,* = *ávöntun.*

† **ávarðr** *l,* (að eins haft um samband manna við goðin eða guð): *á. goðunum,* skjólstœðingr goðanna, kær goðunum; *á. guði,* sem guð lætr sér ant um.

**ávarp** *kl,* (sbr. »varpa tölu á«), † **1.** áætlun: *þat var á. manna, at vera mundu 5 hundruð riðara,* ágezkun. * **2.** (sbr. »varpa orðum á e-n«) orð, sem töluð eru til e-s eða einhverra, það að ávarpa: *með þessu á-i heilsaði hann oss,* þessum orðum, kveðju e. þvíuml. * **3.** skjal, sem e-r e. e-ir senda öðrum til að ávarpa hann e. þá: *senda konungi á.,* skriflegt erindi. — Sams.: * **ávarps-form** *kl,* snið sem á ávarpi: *hvort réttara sé að snúa sér til konungs frumvarps-leiðina eða í á-f-i.* ***-góðr** *l,* góðr viðtals. ***-höfundr** *k,* sá sem hefir samið ávarp (3). ***-maðr** *k,* sem er ritaðr undir ávarp (3) eða fylgir fram ávarpi eða ávarps-formi: *frumvarps-menn og á-menn.*

* **ávarpa (-aði)** *ás,* varpa orði (orðum) á (e-n); tala til e-s: *hann á-aði dómarann kurteislega.*

**ávaxta (-aði)** *ás,* láta aukast, fjölga e. vaxa: *á. fé,* fara svo með fjárhlut, að

hann vaxi; setja e. halda fé á vöxtu; *pitt starf skal ek á. í guðs augliti.* Þls.
**ávaxtast,** **1.** œxlast, fjölga. **2.** bera ávöxt.

**ávaxta-** og **ávaxtar-,** sjá: *ávöxtr.*

**ávaxtan** *kv, = ávöxtun.*

† **ávaxtlaus** *l, = ávaxtarlaus.*

† **ávaxtsamlegr** *l, = ávaxtarsamlegr.*

† **ávaxtsamr** *l, = ávaxtarsamr.*

* **áveðra** *a,* ber fyrir stormum.

* **áveðrasamr** *l,* sem liggr mjög ber fyrir stormum; stormasamr: *það er á-t á Höfða,* stormasamt.

* **áveðrs** *a,* gegnt vindi, þeim megin sem stormr stendr á.

**áveiði,** † **áveiðr** *kv,* árveiði, veiði í á.

† **ávera** *kv,* ábúð.

† **áverk** *kl,* **1.** *pat er drep annat, er á. heitir, ef maðr lýstr mann svá at blátt eðr rautt verðr eftir eðr þrútnar hörund eðr stökkr undan hold eðr hrýtr blóð úr munni eðr úr nösum eðr undan nöglum,* Grág. **2.** hvers konar líkamleg meiðsl e. sár. **3.** mannvirki á jörðu: *gera brúar ok vinna þau á.; vinna á. í annars manns landi,* vinna mannvirki, gera jarðrask. **3.** jarðarafurðir.

**áverki** *k,* **1.** líkamleg meiðing, annaðhvort af vopni eða öðru verkfœri e. hönd e. fœti: *lýsi ek mér á hönd allan þann á-a, . . . sár, ef at sári gerist; víg, ef at vígi gerist; — hann sló hann á gagnaugað, svo að sprakk fyrir, og var það mikill á.* † **2.** = *áverk 3,* N. — Sams.: **áverka-bót** *kv,* bót eða bœtr fyrir ólögl. áverka (3) á annars manns landi, Gulþl.: *á. fyrir skógarþjófnað,* Klp. IV, 10; Tiro 116, 192. †**-drep** *kl,* högg, sem veldr áverka. †**-fall** *kl, = ábúðarfall,* N. **-maðr** *k,* maðr, sem valdið hefir áverka. **-mál** *kl,* mál, sem rís út af áverka. ***-þræta** *kv,* þræta út af áverka, Klp. VIII, 104.

* **áverkun** *kv,* áhrif: *á. e-s hlutar á annan,* Milt. 110.

* **ávið** (fyrir *á við),* **1.** *sto.* m. þlf. á borð við; ámóta: *það er ekki mikið á. minn afla,* í samanburði við, á borð við; *hann er svona á. mig á hæð,* ámóta og ég, líkr og ég á hæð. **2.** (tvö orð) *a,* í áttina: *suðr á.,* í áttina suðr; *við skulum stefna heldr meira austr á.,* í austr-átt.

† **áviðris** *a,* áveðrs.

† **ávíga** *ób. l,* sem bíðr meira mannfall: *þeir er á. urðu,* þeir sem urðu fyrir meira mannfalli.

† **áviljaðr** *l,: á. e-ð,* viljugr (á e-ð).

**á|vinna**[1] *ás,* **1.** grœða. * **2.** *á. sér,* afla sér: *á. sér góðra manna hylli; á. sér gott álit,* afla sér góðs álits. **3.** vinna bilbug á: *þeir gerðu þrjár árásir, en gátu ekkert áunnið (á unnið);* engu komið til leiðar.

*a* **ávinna**[2] *kv, = ávinningr,* LFR, IV, 169.

* **ávinna**[3] *kv,* túnvinna, vinna að áburði á túni: *á. á túni,* Sch.

**ávinningr** *k,* vinningr, ábati, hagsmunir. — Sams.: * **ávinnings-gjarn** *l,* fíkinn e. solginn í ávinning. ***-laus** *l,* sem engan áv. fær; sem engan áv. hefir í för með sér. ***-lítill** *l,* sem lítinn áv. gefr. ***-mikill** *l,* sem mikinn áv. gefr. ***-samr** *l,* sem áv. er að.

* **ávinsla** *kv, = ávinna 2,* LFR, VI, 49.

* **ávinslu-tími** *k,* sá tími er unnið er á túnum, Klp. I, 9.

**ávint** *kl. l,* † **1.** sem vinst, hallast, á, sem hart er á sótt: *þá mun á. um söxin* (á Orminum langa), þá er hætt við að þeir hrökkvi ekki við um söxin (kinnungana); *þá gerðist*

*þeim á., er næstir lágu* (um sjóorrustu), tóku þeir að láta undan síga, Sturl. † 2. erfitt: *at yðr . . . mun á. þykja eftir at standa,* örðugt að halda velli. * 3. ⊥, = *ágengt.*

**ávirðing** *kv,* það að manni verðr á, yfirsjón, (boðorða)brot.

*ν* **ávirkr** *l,* egl. sem verkar á (e-n e. e-ð): *ávirk sögn,* sögn sem tekr með sér andlag *(verbum transitivum). And.* óávirk sögn.

**ávísa (-aði)** *ás,* I. benda (vísa) á: *á. manni góðan náttstað,* vísa til. 2. gefa e-m heimild til að taka hjá öðrum: *hann á-aði Pétri 30 krónur hjá Jóni; á. e-m peninga* (× peningum) *í bankanum,* vísa e-m til (með skjali) að fá greidda peninga í bankanum.

* **ávísun, ávísan** *kv,* I. tilvísun; tilsögn. Einkum það að ávísa (2): *Á. er áskorun frá útgefanda [hennar] til þess manns, sem henni er beint til, um að borga þeim sem hann tilnefnir, tiltekna fjárupphæð,* JÓ,Vsk. 68. — Sams.: * **ávísunar-blað** *kl,* skrifleg ávísun, = *-**bréf** *kl,* = *-**seðill** *k,* Frankl. 139—140. — * **ávísana-bók** *kv,* lítið kver í grallara-broti með prentuðum eyðublöðum undir ávísanir á banka eða bankara (e. tiltekinn viðskiftamann). *-**viðskifti** *kl. flt.*

† **ávit** *kl flt,* = *ávítun.* — Sams.: † **ávítsamlegr** *l,* ávítunarverðr. † **-samr** *l,* gjarn að ávíta: *á. við e-n.* — † **ávítalaus** *l,* óátalinn. †**-orð** *kl,* = *ávítunarorð.*

**ávita** *ób. l,* áskynja.

**ávíta (-aði)** *ás,* átelja.

* **ávíta** *kv,* (nær eingöngu í flt.) átölur, ofanígjöf.

† **ávitull** *k,* vísbending: *fá á-l um e-t,* vísbending; *rannsaka alt . . . ok finna þar engan ávitul,* engin líkindi, engan vott um . . .

**ávítun** *kv,* átölur. — Sams.: **ávítunarorð** *kl,* átölu-orð. *-**samr** *l,* = *ávítsamr.* *-**verðr** *l,* verðr ávítunar.

† **ávon** *kv,* = *ávæningr.*

† **avusa** *kv,* = *aufúsa.*

**ávæni** *kl,* = * **ávæningr** *k,* I. ádráttr, halfgildings-loforð, von, sem manni er gefin um e-ð: *Írar fengu á-g um sjalfsforræði,* ádrátt; *hann gaf mér góðan á-g um það,* góða von. 2. pati, kvittr, helzt um e-ð í vændum: *e-n á-g hefi ég heyrt um það.*

* **ávöntun** *kv,* I. það að (e. það sem) upp á vantar. 2. ávirðing, brestr: *segja e-m til ávantana sinna,* bresta, ávirðinga, Páll sk. Ljm. (hdr. í Lbs.).

**ávöxtr (-vaxtar; -vextir)** *k,* † I. það að e-ð vex á e-u, gróðr: *verma jörðina til á-ar.* 2. það sem vex á (í) e-u: *á. trés,* það sem á tré vex; *jarðar á.; með bænum ok öðrum andar á-um; á. kviðar,* afkvæmi. 3. vextir: *verja fé til á-ar,* koma fé á vöxtu; sjá og EspÁ, I, 18. — Sams.: * **ávaxtar-góðr** *l,* sem ber góðan áv. *-**laus** *l,* sem engan áv. ber: *sú trú er dauð og á.,* Ldb. 89 *(V, 4 d.);* sem ekki ber vöxtu: *á-t fé,* EspÁ, III, 89. *-**leysi** *kl,* skortr afurða, gagnsemdar: *að á. gripanna komi af illri meðferð,* að gr. geri ekkert gagn af því að illa hafi verið m. þá farið. *-**peningr** *k. so,* alidýr, sem gefa arð af sér. **-samlegr** *l,* frjósamr. **-samr** *l,* sama. *-**semi** *kv,* arðsemi: *á. fénaðar (á sumrum),* málnyt. **-tími** *k,* uppskeru-tími, Hms. †**-tíund** *kv,* tíund af afurðum (e. k. tekjuskattr). *And.:* höfuðtíund, þ. e. tíund af eign (e. k. eignarskattr), N. *-**tré** *kl,* tré sem ber ávöxt, OLfr., Inng. 159. — * **ávaxta-gjald** *kl,* gagn-

gjald (s. þ. o.), LFR, III, 230. **-laus** *l.* †**-legr** *l,* arðbær. ***-tré** *kl,* tré sem ber ávöxtu, Vgl. 269.

**ávöxtun** *kv,* það að ávaxta.

**ax** *kl,* sá hluti kornstangar, er ávöxtinn ber.

**axar-**, sjá: *öx, öxi.*

† **axhelma** *kv,* stráið með korninu (axinu) á.

† **axkorn** *kl,* = *ax.*

**axla (-aði)** *ás,* lyfta upp á öxl sér; breiða yfir axlir sér: *a. sitt skinn,* kasta yfir sig feldi, skinnkápu.

**axla-, axlar-**, sjá: öxl.

* **axlast- (-aðist)** *pms,* (f. œxlast?), að eins í talsh.: *það a. svo (til),* atvik valda því e. tilviljun, að svo ber til; *það a-aðist svo, að við urðum sessunautar.*

† **axlbyrðr** e. **-byrði** *kv,* byrði borin á öxl(um).

**axlhár** *l,* axlar-hár, jafnhár öxl, sem tekr manni í öxl.

* **ax-punthali** *k,* e. k. gras *(trisetum subspicatum);* réttara nafn: lógresi.

* **axskeri** *k,* = *blágol,* Sch.

† **ay** *ko,* = *œ!*

* **áýting** *kv,* það að ýta fari á flot: *sjór er fær til á-ar,* LFR, IX, 9.

**áþekkr** *l,* svipaðr, ámóta.

* **Aþena** *kv. en,* **1.** grísk gyðja með því nafni. **2.** *Aþenuborg.*

* **Aþeningr** *k,* = *Aþenumaðr.*

* **Aþenuborg** *kv. en,* nafn höfuðborgar Grikklands.

* **Aþenumaðr** *k,* íbúi Aþenuborgar; maðr frá þeirri borg upprunninn.

† **áþéttar-orð** *kl,* meiðyrði.

* **áþéttilega** *a,* röggsamlega: *þagga á-ar niðr í þjóðmálaskúmunum,* Fróði, VI, 343.

† **áþéttis-orð** *kl,* = *áþéttar-orð.*

**áþjá (-ði)** *ás,* þrælka, gera að þræli e. ambátt, fara með sem þr. e. a.

**áþján** *kv,* **1.** þrælkun: *frelsa land úr á.,* úr ánauð. † **2.** þjáning, plága, sem heldr (e. kemr) manni í ánauð.

**áþjánar-ok** *kl,* ánauðar-ok.

* **áþreifanlegr** *l,* sem þreifa má á; (einnig óel.) sem hver maðr getr séð: *þetta er á-g lygi,* bersýnileg.

* **áþreifun** *kv,* það að þreifa á.

* **áþrif** *kl,* átak, það að þrífa til e-s. — Sams.: * **áþrifa-mikill** *l,* sem þrífr sterklega til, sterkhendr.

**áþrætni** *kv,* þrætni um e-ð (»að þrætast á« um e-ð).

**áþyngd** *kv,* það að þungt er á e-m.

**áþyngja** *ás,* íþyngja: *á. e-m.*

* **áætla** *ás,* gezka á eftir líkindum, ætla á, að svo e. svo sé: *hann áætlaði gróða sinn af því meiri en raun varð á; áætlaðar tölur,* t., sem gezkað er á eftir líkindum.

* **áætlun** *kv,* **1.** líkinda-reikningr: *á. um tekjur og gjöld.* **2.** niðrröðun e. regla, sem búist er við að fylgja: *á. um póstferðir,* ferða-skrá, sem ætlast er til að fylgt verði.

# MERKI.

† fornt orð e. merking (ekki nú tíðkað)
* nýtt orð e. merking (ekki í fornmálinu)
*α* ekki fornt, nú úrelt
⊙ skáldmáls-orð
○ —— ekki fornt
*ν* nýgervingr (kominn í tízku)
△ —— (lítt tíðkaðr)
*ϱ* rangt kyn
⊥ röng merking
⊤ röng mynd
× rangt mál
*ϑ* fátítt orð
*λ* latmæli
*φ* útlenzku-sletta
§ útl. orð, samlagað málinu
*x* framburðar-stafsetning

# SKAMMSTAFANIR.

*a* eða *ao*, atviks-orð *(adverbium)*
*áb-*, ábendingar- *(demonstrativ.)*
*ae*, afleiðslu-ending *(suffixum)*
AF, austfirzka
*áhr*, = *ám*
*alm*, alment
*ám*, áhrifsmynd *(activum)*
*and.*, andnefni *(antonym)*
*ás*, ávirk *(transitiv)* sögn
A-SK, Austur-Skaftafellssýsla
*bh*, boðháttr *(imperativus)*
D, danska
*e.*, eða
E, enska
*e-a*, einhverja, einhverra
*e-ar*, einhverjar, einhverrar
*e-ð*, eitthvað
*ef*, eignarfall *(genitivus)*
*egl*, eiginlega
*e-i*, einhverri
*e-ir*, einhverjir
*e. k.*, eins konar
*el.*, eiginlega
*e-m*, einhverjum
*en*, eiginnafn *(nom. propr.)*
*e-n*, einhvern
*e-r*, einhver(r)
*e-s*, einhvers
*et*, eintala *(singularis)*
*e-t*, eitthvert, eitthvat
*etv.*, ef til vill
*e-u*, einhverju
*f*, fyrir
*fh*, = *frh.*
*fn*, fornafn *(pronomen)*
*frh*, framsöguháttr *(indicativus)*
*frs*, frumstig *(positivus)*
*fsk*, forskeyti *(praefixum)*
*gkv*, gagnkvæmr *(reciproc.)*
*[g. o.]* = gott orð, vert þess, að upp væri tekið
*gr*, greinir(inn)
*k*, karlkyns *(masculinum)*
*ko*, köllunarorð *(interjectio)*
*kl*, kynlaus *(neutrum)*
*kv*, kvenkyns *(femininum)*
*l*, lýsiorð *(adjectivum)*
*lh*, lýsiháttr *(participium)*
*lm*, lýsimynd *(adj. partic.)*
*lo*, = *l*
*m*, með
ML, miðalda-latína
*mo*, miðunarorð *(particula)*
MS, Múlasýslur
*ms*, miðstig *(comparativus)*
*n*, nafnorð *(nomen)*
N, norska
*nf*, nefnifall *(nominativus)*
*nh*, nafnháttr *(infinitivus)*
NL, norðlenzka
*nlt*, núliðin tíð *(perfectum)*
*nt*, nútið *(præsens)*
*óás*, óávirk *(intransitiv)* sögn
*ób*, óbeygjanlegr *(indeclinabilis)*
*óel.*, óeigin|legr, -lega
*ókt*, ókomin tíð *(futurum)*
*ópers*, ópersónulegt *(impersonale)*
*orðt.*, orðtœki
*osfr.*, og svo framvegis
*rtl* e. *rtlo*, raðtölu-lýsiorð *(num. cardin.)*
*s*, sagnorð *(verbum)*
SKF, Skaftafellssýslur, skaftfellska
SL, sunnlenzka
SM, Suðr-Múlasýsla, sunnmýlska
*sm*, sigmynd *(medium)*
*smo*, smækkunarorð *(diminutivum)*
*sn*, samnefni *(synonym)*
*so*, safnorð *(collectivum)*
*sp-*, spurnar- *(interrogativum)*
*s. s.*, sama sem
*sto*, stýriorð *(praepositio)*
*s. v.*, *(sub voce)* undir uppsláttar-orðinu
*s. þ. o.*, sjá það orð
*talsh.*, talsháttr
*th*, tengiháttr *(conjunctivus)*
*tlo*, tölu-lýsiorð *(adj. numer.)*
*tno*, tölu-nafnorð *(subst. num.)*
*to*, tengiorð *(conjunctio)*
*v*, við
*tv-*, tilvísunar- *(relativ.)*
VF, vestfirzka
V-Í, Vestrheims-íslenzka
VL, vestrlands-mál
VMEY, Vestmanneyja-mál
*vsk*, viðskeyti *(suffixum)*
*y*, yfirstig *(superlativus)*
Þ, þýzka
*þgf*, þágufall *(dativus)*
*þlf*, þolfall *(accusativus)*
*þlt*, þáliðin tíð *(plusqu. perf.)*
*þms*, þolmyndarsögn *(deponens)*
*þm*, e, *þlm*, þolmynd *(passivum, medium)*
*þt*, þátíð *(imperfectum)*

# Orðabók

þessi er ætlast til að verði um 16 hefti alls, eða 4 bindi (4 hefti í hverju).

Verð hvers heftis í lausasölu er 5 kr. En **áskrifendr** að bókinni fá **hvert hefti á 3 kr. 50 au.**

Hvert hefti er stinnheft, svo að heftin geta varðveizt, þótt notuð sé, þar til hvert bindi er fult.

Þeir sem vilja gerast **áskrifendr**, geta skrifað sig hjá næsta bóksala, eða sent pöntun sína **beint** til gjaldkera **Orðabókarfélagsins**, kaupm. **Ben. S. Þórarinssonar** í Reykjavík.

Þeir sem vilja **safna** áskrifendum, sendi til sama eftir **boðsbréfi.**

**Bóksalar** geta fengið 1. eintak til sýnis, sem endrsendist, þegar krafist verðr.

**Öllum pöntunum verðr að fylgja borgun.**

Hvert hefti sent burðargjaldsfrítt til viðtakanda á þá póststöð, sem hann tilnefnir.

Reykjavík, Nóvember 1912.

**Orðabókarfélagið.**

Eiríkr Briem, K. D.
formaðr.

Jón Ólafsson,
skrifari.

Ben. S. Þórarinsson,
gjaldkeri.